# LÁVARÐARNIR Í NORÐRINU

EFTIR

A. C. LAUT



Prentsmiðja Columbia Press, Limited
WINNIPEG, 1912

# Lávarðarnir í Norðrinu.

*Inngangur.*

Eg, Rúfus Gillespie, skinnakaupmaður og ritari Norðvestræna félagsins, skýri hér í stuttu máli frá fáeinum hinna mikilfenglegu atburða, er gerðust á styrjaldartímunum á öndverðri þessari öld, þegar Norðvestræna félagið réði fyrir víðlendara ríki heldur en öll Evrópa er, og fór í bandalagi með Indíánum og hergjörnum skóg-brennumönnum með ófriði gegn keppinaut sínum, hinu heiðarlega Hudsonsflóafélagi, mitt inn í þær víðáttumiklu lendur, sem það félag gerði tilkall til. Ef einhver skyldi vefengja frásögn mína, þá vona eg að trúboði nokkur, meðal Indíánakynflokkanna nyrðra, verði fús til að sanna sögu mína, en hann er víðfrægur prestur, og sonur konunnar, er fyrir því óláni varð, að lenda í höndum flökku-kynþáttar Indíána, er Iroquóar heita. Ennfremur sannar frásögn Selkirks lávarðar, um hina ógurlegu styrjöld við Norðvestræna félagið, það sem eg hefi sagt, og sömuleiðis munnlegur vitnisburður landnema, sem enn eru á lífi í Rauðárdalnum. Samt

sem áður verður þar að gera fyrir ákafri hlutdrægnistillhneiging vitnanna, sem eg ætla ekki að halda fram, að eg sé laus við, með því að eg var í Norðvestræna félaginu.

Engum orðum ætla eg að eyða um grimdarverk þau, sem borin hafa verið á víxl á hvíta menn og eirrauða. Mér er í fersku minni, að hvítir hermenn austan úr borgunum flógu skinn af foringja nokkrum innfæddum, og í annan stað er mér ógleymanleg fjandsamleg háreysti Mandananna yfir fanga, sem þeir voru að kvelja, svo eg held að hvorugur mannflokkanna geti lýtalaus borið hinn brigzlum.

Breytingar þær á aukaatriðum viðburðanna, sem eg segi frá og hefi séð með eigin augum, eru eingöngu gerðar til að hlífa við óþægilegri hnýsni núlifandi niðjum þeirra manna, sem eg lýsi hér. En það er mála sannast, að margir atburðir gerðust á þessum styrjaldartímum skinnaverzlunar félaganna, sem ekki hæfir að skrásetja. Eg hefði feginn viljað milda frásögn sumra viðburðanna, svo að þóknanlegt yrði deyfðar- og kveifarskapar-öld nútíðarinnar, en þess yrði ekki auðið nema með því að sniðganga sannleikann.

Ekkert af frakknesku blóði rennur í æðum mínum, og þess vegna ber eg enga æsingakenda trygð til hins ofbeldisríka forna drottinvalds, en það mátti aftur á móti segja um marga hinna óþýðu félaga minna í Norðvestræna félaginu; en deyfingi í meira lagi hlyti samt sem áður sá maður að vera, sem gæti litið aftur öldungis hrifningarlaust til afreksverka

æfintýramannanna í Ónumdalandinu — í stuttu máli til hinna stórfengilegu framkvæmda skinnaverzlunarfélaganna miklu. Þeirra menn voru skinnakaupmennirnir og hraðboðarnir, skóg-hlauparar og skógbrennumenn, sem lögðu leið sína um víðáttumiklar óbygðir hins veglausa Vesturlands. Þeirra menn voru kátu skipshafnarmennirnir, sem syngjandi glaðværa söngva eftir jöfnum hljóðfallssmellum árablaðanna, þræddu ókunna strauma þangað til þeir höfðu kannað alla vatnaleiðina frá Lawrence-fljóti til MacKenzie-ár; þeirra menn voru þeir hugglöðu sveinar norðursins, sem hjuggu sér veg gegnum eyðiskógana og settu á stofn stauragirta skinnaverzlunarstaði frá Atlanzhafi alt til Kyrrahafs, sem frumherjarnir tóku sér til fyrirmyndar. Hvítþvegnu stauragirðingarnar margra hinna minni háttar landnema við ár og vötn fjarst í norðrinu, eru óverulegar menjar hinnar fornu frægðar skinnaverzlunar félaganna. Landflæmið víðáttumikla, sem teygir sig frá Hudsonsflóa til Kyrrahafs og hrifið var úr villidómi handa siðuðum þjóðum, er virðulegasti minnisvarðinn handa hinum skjaldmerkjalausu frumherjum alríkisins.

Rúfus Gillespie.

Winnipeg — einu sinni Garryvirki —
Áður Rauðárbygð.
19. Júní 18—

———o———

## FYRSTI KAPÍTULI.

*Endurminningar.*

"Hefir nokkur séð Eirík Hamilton?" spurði eg.

Eg hafði beðið vinar míns meir en fulla klukkustund í herbergjum klúbbs okkar í Quebec-borg. Hann hafði lofað að finna mig þar og borða með mér það kveldið. Eg fleygði frá mér fréttablaði, sem eg var búinn að vandlesa alt og auglýsingarnar líka, rétti úr mér og gekk til gamalla skinnakaupmanna, sem voru í sama hópi. Þeir höfðu áður fyrri átt hluti í Norðvestræna félaginu, en áttu nú harða orðasennu við nokkra liðsforingja frá Kastalanum.

"Hefir nokkur séð Eirík Hamilton?" spurði eg aftur, án þess að virða deilumál þeirra nokkurs.

"Þetta er nú í tíunda sinnið sem þú spyrð að þessu," svaraði frændi minn , Jack MacKenzie, og hvesti á mig augun, "í tíunda sinni, hvorki oftar eða sjaldnar." Hann hnyklaði brýrnar ytir ónæðinu, eins og hann var vanur að gera, þegar eg var dálítill drenghnokki, sat á kné hans er hann sagði veiði-

mannasögur og greip fram í fyrir honum með spurningum, sem ekkert komu málinu við.

"Þvættingur! Þér getið ekki búist við Eiríki Hamilton hingað nú," sagði Adderly ofursti og dró seiminn. Hann var lotinn í herðum, rjóður í kinnum, sælkeralegur og bústuleitur. "Barnið hans er líklega að taka tennur," bætti hann við hæðilega og féll það í góða jörð, því að klúbbmeðlimirnir höfðu oft verið að stríða vini mínum á því, hvað honum þætti vænt um son sinn frumgetinn.

Eg þóttist sjá, að Adderly var meira um það að hugsa, að komast hjá að halda áfram samtalinu við skinnakaupmennina, heldur en að tala við mig, svo að eg svaraði óskammfeilnum móðgunarorðum hans með því að draga stól minn fast til þeirra McTavish, Fribishers, McGillivrays og MacKenzies og hinna annara fornu hetja í norðrinu og settist hjá þeim.

"Fyrirgefið herrar mínir," mælti eg, "en mig langar til að spyrja ykkur, hvað þið voruð að tala um við Adderly ofursta?"

"Við vorum að tala um fornar skærur," svaraði frændi minn; "því verður ekki mótmælt, að okkar menn hafa breytt óbygðunum í konungsríki. Þeir hafa brotið sér braut frá Labrador austur við strendur Atlanshafsins, alt vestur að Klettafjöllum, þar sem min n frægi frændi, Sir Alexander MacKenzie lét eftir skýrslu landkannana sinna. Sannið þið til orða minna, það kemur á daginn, að nöfn Davíðs Thomsons, Símons Fraser og og Sir Alexanders MacKenzie verða höfð í meiri hávegum í

brezkum annálum, heldur en Braddocks og —"

"Og svei!" greip hermaðurinn fram í, og hló hátt að ákefð frænda míns, sem verið hafði einn af forkólfum Norðvestræna félagsins. "Og svei! Ykkur, æfintýra-herrunum, þykir það smáræði, að skjóta Braddock aftur fyrir ykkur. Var ekki Sir Alexander systrungur yðar?" spurði hann með hæðnisglotti.

Frændi minn roðnaði. Honum varð illa við einkunnar-orðin "æfintýra-herrar," því að hæfileg áherzla var lögð á fyrra hluta orðsins.

"Mig langar til að benda yður á," svaraði hann stuttur í spuna. "að meðlimir hins forna og heiðvirða Hudsonsflóa félags hafa öðlast heiðurs einkunnina "æfintýra-herrar" í lögildingarákvæðum félags síns. Og það vita bæði guð og menn, að enginn maður hefir unnið betur til þess að heita æfintýra-herra, en hlutabréfasölu þorparinn hann Selkirk! Og hann var hvorki meðlimur Norðvestræna félagsins né Canadamaður, heldur var hann Englendingur eins og foringinn hérna í Kastalanum." Frændi minn beindi þessum síðustu orðum ögrandi að enska herforingjanum, sem nú var orðinn sótrauður í framan, en þó stilti hann sig og svaraði hógværlega:

"Þetta er þvættingur, MacKenzie, vinur minn," sagði hann hlæjandi og drýgindalega; "ef hinn háborni jarl af Selkirk hefir verið slíkur æfintýraherra, því í dauðanum tók þá Bifur-klúbburinn honum með opnum munni og opnum örmum, og—"

"Opnum hjörtum, megið þér bæta við," greip

MacKenzie frændi fram í. "Og svo væri mér þökk því, að þér sleptuð þessu vinaskrafi um mig," bætti hann við kuldalega.

Um Bifur-klúbbinn er það að segja, að hann var nafntogaður fyrir gestrisni meðlimanna. Hann var stofnaður 1785; upphaflega voru í honum nítján menn og síðar að eins þeir, sem átt höfðu aðsetur í Pays d' En Haut, og fékk klúbburinn brátt orð á sig fyrir hina mestu gestrisni. Mér var það óskiljanlegt, hvernig því vék við, að nýlendubúarnir skyldu stundum heykjast fyrir tign Evrópuhöfðingja, er þeir komust í kynni við þá. En strax þegar Adderly ofursti mintist á Selkirk lávarð og Bifur-klúbbinn, flaug mér í hug veizla í Montreal, þegar eg var á sjöunda ári. Eg hafði verið klæddur í háskotabúning, sem jarlinum geðjaðist mjög vel að — húfu, stuttpils, með laghníf við belti o. s. frv. — og fór þannig klæddur með frænda mínum í Bifur-klúbbinn. Við komum þar í sal allan uppljómaðan; stóð þar borð með rjúkandi réttum, er mér leizt mjög vel á; alt umhverfis sátu gestir, sem boðið hafði verið "upp á bjarnar-bifur og veiðidýrasteik", eins og komist var að orði á klúbbmálinu. Til hægri handar frænda mínum sat Sir Alexander MacKenzie — ný-herraður af konunginum og nýlega orðinn frægur fyrir að kanna fljótið, sem ber nafn hans, og að brjóstast gegn um Klettafjöllin til Kyrrahafsstrandar. Þar voru og Símon Fraser og Davíð Thompson og fleiri frægir landkönnunarmenn, og þótti mér mikils vert um alla. Mér fanst miklu meira til um þessa menn

og það, sem eg hafði heyrt um svaðilfarir þeirra, en þenna unga, gáfulega mann, með fellinga-hálsknýti, sem tók upp undir eyru og konunglegt sæmdarmerki á brjóstinu, er gaf mér til kynna, að það var Selkirk lávarður.

Mér er það minnisstætt, að þegar búið var að bera burtu diskana og fötin af borðinu, þá var eg settur upp á það til að stíga *sverð-dansinn*. Mér hefir líklega tekist dável, því að áhorfendurnir klöppuðu ákaflega, en sjálfur man eg ekki eftir neinu nema fingraspretttum, húfuveifi og ljósglampanum allavega frá mér, og að mig snarsvimaði. Þvínæst setti frændi minn mig á kné sér, og hét mér því, að eg skyldi fá að vera hjá sér þangað til veizlan væri á enda, ef eg væri góður, og því næst var meira vín fram reitt.

"Þú ert búinn að fá nóg vín, strákhvolpur," sagði frændi minn og hafði skyndilega endaskifti á vínglasinu, sem frammi fyrir mér stóð.

"Ertu jafnvarkár með víndrykkju sjálfs þín, frændi " spurði eg ólundarlega.

"Ágætt!" hrópaði jarlinn. "Þetta var yður mátulegt Mr. MacKenzie."

Allir fóru að hlæja, en frændi minn kallaði til skenkjarans og sagði: "Eitt toddíglas, Johnson; og annað með óblönduðu heitu vatni."

Þegar Johnson kom með glösin, tók MacKenzie frændi minn til sín toddí-glasið. "En hérna er Adams-öl (vatn) handa þér drengur minn," sagði hann og lét í glasið einn mola af piparmyntar-brjóstsykri.

"Ljótt!" sagði Sir Alexander hlæjandi. "Ljótt að blekkja litla drenginn."

"Hann fær bezta vínið, sem til er í kjallaranum," sagði lávarðurinn, og eg drakk piparmyntarvatnið mitt með eins mikilli ánægju, og fögnuði eins og hver hinna gestanna.

Þá komu minni, löng runa, sem engra var að þola nema þrautreyndra karlmanna. Þar voru drukkin minni mannsins, sem fann Mackenziefljótið, og fylgdi dynjandi lófaklapp, svo að undir tók í húsinu; þá minni "heiðursgestsins", sem þakkaði það svo innilega að af tók allan grun; þá minni "vetrarsetumanna norður í óbygðum", fátækra ræfla, sem studdu Norðvestræna félagið með því að leggja á sig lífstíðar útivist nyrst norður í óbygðum; þá minni "kátra pilta í Norðrinu", sem voru í fylkingunni án þess að eiga nokkurn hlut eða virðingarvon í félaginu; svo mörg voru minnin, að ofætlun var hverjum að muna, sem við var staddur. Frændi minn sá um, að eg drakk öll minnin í piparmyntarvatni ,svo að eg man eins glögt alt, sem gerðist í veizlunni, eins og það hefði gerst í gær. Og mikið vildi eg gefa til þess að vera aftur kominn í Bifur-klúbbinn, og lifa aftur upp allar ánægjustundirnar þar; hlusta á Sir Alexander MacKenzie, hvasseygan, snareygan og ákaflyndan skýra frá hinni furðulegu sigling sinni með þverúðarfullri skipshöfn inn í óvinalönd; eða heyra hann lýsa hinum óendanlega löngu vetrarnóttum norður í óbygðum þegar landkannarinn mikli lenti í mestar mannraunir í þjónustu félags síns, og gat við því bú-

ist á hverri stundu, annað hvort að ganga af vitinu eða svelta í hel; eða heyra hann gagntaka alla áheyrendur sína með lýsingunni á því, er hann sá fyrsta sinni stirna á sólgljáan flöt Kyrrahafsins. Má vel vera, að einmitt það, sem eg heyrði þá um kveldið, hafi ráðið því hvað æfi mín varð stormasöm og erfið. En eg var þá of ungur til að meta þessa menn að maklegleikum. Og landið mitt var þá, eins og það er enn of ungt; þótt mannkostir þessara manna hafi verið viðurkendir, þá er það nú gleymt og heiðri þeirra lítt á lofti haldið.

Líklegast þykir mér, að eg hafi sofnað í knjám frænda míns, því að þegar eg rumskaðist og litaðist um, mjög syfjaður, sá eg, að margir gestanna höfðu hnigið aftur á bak í stóla sína og steinsváfu. Aðrir höfðu lent niður á gólf og hrutu fast. Mér brá við að sjá þetta, svo að eg glaðvaknaði. Frændi minn sat teinréttur, og hann hélt fast utan um mig, eins og hann var oft vanur á undan hörðum ávítum. Eg leit upp og sá, að hann varð alt í einu alvarlegur og hörkulegur á svip, og fór eg að verða hræddur um, að honum hefði gramist það, að eg skyldi sofna. Hann starði fast og hvast á Selkirk lávarð. Lávarðurinn svaf ekki, það var öðru nær. Afburða sjálegur þótti mér, barninu, hann vera! Hann hallaði sér áfram og var að spyrja Norð-Vestmenn spjörunum úr, mennina, sem höfðu tekið honum með opnum örmum og opnum hjörtum. Og vínið var farið að stíga þeim til höfuðsins, og þeir tóku líka móti þessum einkennilega höfðingja með opnum munnum, og

sögðu honum vandlega frá öllum verzlunarhagnaði sínum, hinum víðáttumiklu veiðilöndum, og hversu þeim hefði í öllum greinum gengið betur en Hudsonsflóa félagsmanna, og að hlutabréf keppinauta þeirra hefðu fallið í verði frá 250 til 50 prct.

Því meir, sem þeir spjölluðu, því flieri spurninga spurði lávarðurinn.

"Eg ætla að segja það," hvíslaði frændi minn, við Sir Alexander MacKenzie, "að ef einhver Hudsonsflóafélagsmaður spyrði svona nærgöngulla spurninga um starfsmálahagi Norðvestræna félagsins, þá mundi eg leyfa mér að reka hann út héðan."

Þá vissi eg, að hann var reiður Selkirk lávarði en ekki mér, þó að eg hefði sofnað.

"Þvættingur," svaraði Sir Alexander. Hann hafði haft mikið saman við Norð-Vestmenn að sælda áður fyrri. "Það er engin ástæða til að gruna neitt slíkt." En honum virtist þó ekki falla viðræðurnar neitt vel.

"Eruð þér að hugsa um einhverjar nýlendumálaráðstafanir, herra lávarður, úr því að þér berið upp svona djarflegar spurningar?" mælti frændi minn til jarlsins. Hann leit skyndilega til frænda míns og svaraði einhverju um Háskota og Prince Edward Island, sem eg skildi ekki. Meira man eg ekki af því, sem gerðist þetta kveld, því að frændi minn bar mig heim sofandi.

Þetta gerðist alt tíu eða tólf árum áður en þref það varð, sem fyr var getið, milli frænda míns og enska ofurstans frá Kastalanum.

"Við gjöldum þess, hvað við vorum gestrisnir," mælti frændi minn við ofurstann. "Hvernig átti okkur að geta hugkvæmst, að þessi Selkirk mundi kaupa meginhluta hlutabréfa Hudsonsflóa félagsins? Hvernig átti okkur að detta í hug, að hann mundi komast yfir landveitingarleyfi í miðju ríki okkar?"

"Eg er ekki að hafa á móti landveitingarleyfum hans, né heimanmundinum, pónunum*) og byssunum og byssufleinunum. sem hann seldi í hendur hverjum einasta þeirra," greip annar uppgjafa skinnakaupmaður fram í, "en eg tel það vítavert, að hann skyldi heræfa þessa nýlendumenn, flytja stórskotaliðs flokk inn í landið og McDonnells múrbrjótinn til að æsa landnemana upp. Það var nógu ilt að ræna virki okkar, en tilkynningin um a ðflæma alla Norð-Vestmenn burt þaðan, sem sagt var að Hudsonsflóa félagið ætti land, og—"

"Hlustið nú á," sagði frændi minn og dró upp eintak af þessari hvumleiðu tilkynningu og las upphátt skipun um það, að reka alla keppinauta Hudsonsflóa félagsinse brott úr norðlægu veiðilendunum.

"Hvar skyldi Eiríkur Hamilton vera?" spurði eg. því að eg hafði ekkert gaman af að hlusta á tal skinnakaupmannanna þegar út í smáatriði var komið.

"Heima hjá konukindinni." svaraði ofurstinn þrákelknislega, svo að mér þótti, þó að eg vissi að hann mundi segja satt. "Eiríkur var fyrirtaksmað-

---

*) litlir hestar.—Þýð.

ur, en síðan hann kvongaðist, hefir hann farið versnandi."

"Farið hvað?" spurði eg, því að mig langaði til að koma honum í bobba, þessum kuldalega hermanni, sem alt af hafði munninn uppi. "Eiríkur hefði farið hvað, sögðuð þér?"

"Heim til konunnar," svaraði hann hlæjandi; síðan sneri hann sér að hinum og sagði eins og hann hefði alt af hlýtt á þá, "og hvað ætla blessaðir Norð-Vestmennirnir að gera við harðstjórann hann MacDonnell, ef hann skyldi fyrir tilstilli Selkirk lávarðar geta komið þessum mönnum út úr Ónumda-landinu eitthvað niður í bygð?"

"Fara með hann eins og Karl I.", svaraði einn æringinn í klúbnum.

"Hvar er Cromwell ykkar?" spurði ofurstinn hlæjandi.

"Cromwell okkar er Háskotaforingi, bráðlyndur eins og skrattinn og blótsamur í meira lagi," svaraði hinn.

"Sussu, já," svaraði frændi minn, "við skulum sjá fyrir honum, þessum typtunarmeistara, sem lávarðurinn hefir sent vestur á slétturnar. Við látum taka hann fastan! Drögum hann út úr hýðinu!"

"Til þess nægir stefna samkvæmt 43. lagagrein Georgs konungs III.", sagði annar Norð-Vestmaður, sem hafði kynt sér þetta.

"43. grein í lögum Georgs konungs III. veitir ekki vald til dómsmálareksturs í Austur-Canada, ef

lagabrotið er framið annarstaðar," sagði lögmaður nokkur, sem þóttist vita jafnlangt nefi sínu.

"Deilum ekki við dómarann,' 'svaraði ofurstinn brosandi og bandaði til hendinni, er hann sá að frændi minn var að reiðast.

"O, svei," sagði Jack MacKenzie og stappaði niður fætinum fyrirlitlega. "Lögmennirnir ykkar hugsa gott til glóðarinnar, ef deilur verða milli skinnaverzlunarfélaganna. Við rekum hann út beint og krókalaust. Hvorugt félagið hirðir um að láta auglýsa ágóða sinn eða—"

"Eða aðferð til að öðlast hann—hm!" greip ofurstinn fram í.

"Eða einkamál," bætti frændi minn við og leit reiðulega til Adderly; "því að það er óhjákvæmilegt, ef málsókn verður."

Síðan stóðu þeir á fætur og fóru fram í borðsalinn, og þegar eg fór út til að gæta, hvort eg sæi ekki til Eiríks, heyrði eg að Adderly ofursti sagði síðast: "Þið eruð þorparar, æfintýra-herrarnir, og þorið ekki að heyra málsóknir nefndar."

Það var dimt í lofti þetta kvöld; einstöku stjarna sást óskýrt á himinhvelfingunni og nýr og hornhvass máninn gægðist fram undan skýjaröndinni yzt út við sjóndeildarhring. Nístingskaldur Marzvindurinn næddi og boðaði snjó frá Labrador og krapaslyddu utan af flóa.

Þegar Eiríkur Hamilton gekk úr þjónustu Hudsonsflóa félagsins við York Factory við Hudsonsflóa og settist að í Quebec, var eg við nám í Laval skólan-

um. Heima hjá frænda mínum MacKenzie hitti eg hann fyrst, þenna hávaxna, dökkhærða, þreklega, þögula mann, er átti eftir að hafa svo einkennilega mikil áhrif á æfiferil minn; þegar eg heyrði þá sín á milli tala um svaðilfarir þeirra lengst norður í óbygðum, átti eg jafnbágt með að leyna aðdáun minni, eins og ung stúlka, sem fyrsta sinni sér yndisleik sinn í spegli. Eg ímynda mér, að hann hafi orðið var við hvað mér bjó í brjósti, því að einu sinni lét hann svo lítið og fara að spyrja um flauelshúfuna, skrautlindann og síðu, dökku kápuna, er var einkennisbúningur nemenda við Laval skólann, og leið þá ekki á löngu, að svo liðkaðist á mér málbeinið, að eg ræddi við hann eins liðugt og hann væri skólapiltur, en eg hinn mikli skinnaverzlunar kaupmaður Hudsonsflóa félagsins.

"Mér finst nærri því, eins og eg sé orðinn drengí annað eins," sagði hann og vék sér aftur að frænda mínum. "Eg get varla gert mér grein fyrir því, hvernig það hefir getað orðið, en eg fór af stað út í óbygðirnar, fimtán ára drengur, en er nú orðinn roskinn maður eins og á mér sér."

"Vertu ekki að þessu, Eiríkur," sagði frændi minn, "þú kvongast núna bráðlega og þá verðurðu ungur í annað sinn."

Þegar Hudsonsflóa félagsmaðurinn var farinn spurði eg frænda minn hvað hann væri gamall.

"Hann er fimtán árum eldri en þú, drengur, og eg vildi feginn að þú yrðir orðinn hálfur maður á móti honum þegar þú verður orðinn þrítugur," svar-

aði frændi minn og mældi mig með augunum. Eg varð eins og gagntekinn af hrifningu af að heyra þessi orð. Eftir þetta bar eg jafnmikla virðingu fyrir Eiríki Hamilton og kórdrengur fyrir biskupi. Kunningsskapur tókst með okkur, og áður en árið var liðið vorum við orðnir perluvinir. En Eiríkur hnekti þá kunningsskap okkar heilmikið. því að hann fór að orðum frænda míns og kvæntist fallegri, ljóshærðri veikbygðri stúlku, nógu nærri tvítugsaldri til að geta litið á mig eins og krakka. og nógu mikilli hefðarkonu til að hafa ekkert gaman af umgengni við óstýrilátan ungling. Fór því svo, að nú var alveg lokið útreiðum okkar Eiríks og göngum og siglingum á Lawrencefljótinu og samtali á síðkveldum; en eg hefndi mín með því að setja á mig fullorðinslegan svip, sem Eiríkur hæddi mig fyrir, en Miriam, kona hans, hló að. Þess á milli brá fyrir hjá mér drengjalátum, eins og ekki var að undra. Leið svo og beið unz þeim fæddist sonur og varð þa ðtil þess að draga vin minn enn meira frá mér.

Og nú beið eg Eiríks þarna í Quebec klúbbnum um kvöldið, skygndist út um anddyrið eftir honum og fór að reikna það út, hvað lengi væri verið að ríða frá Bigot-herragarðinum ofan við Charlesbourg, þar sem hann átti heima. Þegar eg kom út brá mér í brún við að sjá hest standa við ljóskersstaur hjá bogamyndaða hliðinu, og enn meira furðaði mig þetta, er eg gætti betur að. Þegar eg kom nær kumraði hesturinn ofurlítið, og þekti eg að það var hestur Eiríks, löðrandi í svita, ábreiðulaus og hríðskjálfandi.

Mér kom til hugar, að slys hefði orðið, en í því heyrði eg fótatak við hliðardyrnar á klúbbsbyggingunni.

"Ert það þú, Eiríkur?" spurði eg.

Ekkert svar; eg teymdi hestinn þangað til eg fann hestasvein og bað hann að koma honum í hús fór síðan inn að vita um Eirík. Enginn var í gestaherberginu, en eg sá að vinur minn var kominn inn í dyrnar á borðsalnum. Og hann var einkennilegur ásýndum, svo að klúbbmennirnir hlutu að undrast hann. Í annari hendi hélt hann á svipu sinni, en glófum sínum í hinni. Hann var í hjartarskinnstreyju eins og skinnakaupmenn vanalega og við belti sér bar hann tvær skammbyssur. Önnur ermin var rifin frá úlnlið upp að olnboga og stígvél hans öll sundurtætt, eins og rifin með járnhrífu. Barðastóra hattinn sinn hafði hann á höfðinu, togaðan langt niður, svo að slútti fram yfir augun eins og á njósnara.

"Nei, ósköp er að sjá þig, Eiríkur," hrópaði frændi minn þegar hann kom inn, "hefirðu verið í kapphlaupi eða bardaga?" Frændi minn horfði á hann grunsemdaraugum og hélt víst að hann væri drukkinn.

"Er hann kaldur úti?" spurði ofurstinn og leit hornauga til hattsins, sem Eiríkur hafði enn á höfðinu.

Eiríkur svaraði engu.

"Er yður kalt á höfðinu, maður?" hélt Adderly áfram og glápti á hatt hans eins og hann ætlaði að horfa hann af honum.

"Komdu sæll, kunningi! Hvað hefir tafið þig?" spurði eg og gekk hratt í móti honum, en hrökk við, er Eiríkur sneri sér að mér, og eg sá hve honum var brugðið; hann bar nú ekki hátt höfuðið, né litaðist um djarfmannlega, heldur var hann niðurlútur, augun eins og eldsglæður og varirnar þurrar, en munnurinn opinn og þögull.

Ef ofurstinn hefði ekki verið drukkinn, eins og hann var oft, þá hefði hann hlotið að sjá, að eitthvað óvanalegt bjó undir þessum þögulleik Eiríks.

"Hefir konukindin kannske gefið þér útivistarleyfi í kveld?" hreytti Adderly út úr sér.

Varla hafði hann slept orðinu þegar Eiríkur hvesti á hann augun með heiftarsvip. Því næst snaraðist hann að ofurstanum, reiddi upp svipuna af öllu afli, og sló hann með snöggu höggi þvert yfir holdugt, rauðblátt andlitið.

---

## II. KAPITULI.

*Drekmaður lætur bugast.*

Þetta bar svo óvænt að, að öllum hnykti við. Þvínæst spratt ofurstinn upp eins og tryldur, beljandi boli steypti um borðinu og ætlaði að ráðast á Eirík en klúbbmennirnir gengu í milli.

"Ertu genginn af vitinu, Eiríkur Hamilton?" spurði eg. "Hversvegna gerðirðu þetta?"

En Eiríkur þagði rétt eins og hann sæi okkur ekki. Hann var ofurlítið móðari heldur en þegar hann kom fyrst inn, en að öðru leyti jafnviðutan sig.

"Hægan! Hægan!" sagði eg, því að Adderly brauzt um og vildi losa sig úr höndum þeirra, sem héldu honum. "Hægan! Hér hljóta einhver misgrip að hafa orðið. Eitthvað er sjálfsagt að."

"Skriðkvikindi!' 'öskraði ofurstinn. "Huglausa skriðkvikindið þitt! Þetta skaltu fá borgað."

"Hér hafa orðið misgrip!" hrópaði eg upp yfir allan hávaðann.

"Mér þykir vænt um, að misgripin lentu þar sem þau lentu," hvíslaði frændi minn að mér, "en reyndu að ná honum út úr þessu. Drukkinn—eða hneyksli!" kallaði frændi minn , því að honum voru tamar upphrópanir. "Hliðarherbergið — hingað — leiðið hann inn — drukkinn — drottinn minn — drukkinn!"

"Hann drekkur aldrei!" svaraði eg með áherzlu. Eg þekti Eirík og konu hans of vel til að viðurkenna slíkt. En samt leiddum við hann eins og í leiðslu inn í hliðarherbergið og frændi minn tvílæsti hurðinni að innan og setti bakið upp að henni.

"Jæja, ef hvorki er um drykkjuskap eða hneyksli að ræða, þá —" mælti hann alvarlegur, en þagnaði svo, því að nú kom Eiríkur eins og í leiðslu yfir gólfið til okkar, ýtti hattinum niður fyrir augun, lagði handleggina á arinhylluna og grúfði sig ofan að þeim.

Við frændi minn litum hvor til annars. Frændi minn hóf augabrýrnar og hvíslaði: "Brjálaður?"

En þó að hann talaði lágt, heyrði Eiríkur það og leit til okkar blóðrauðum tindrandi augunum. Hann lét sem hann ætlaði að taka til máls, en hné niður á hægindastólinn við arinhylluna og greip báðum höndum um ennið.

"Brjálaður!' 'endurtók hann með lágri veiklulegri rödd og mátti heyra að honum var erfitt um mál. "Þið ættuð að þekkja mig betur en svo, að ykkur detti annað eins í hug. En eg vildi selja sál mína til þess í kveld, að eg gæti orðið brjálaður, reglulega bandvitlaus, — til þess að vita ekki, að það hefir gerst, sem gerst hefir og—" Hann þagnaði alt í einu, því að honum varð andfall.

"Segðu það!, segðu hvað það er, maður, í guðs bænum!" hrópaði frændi minn, því að hann þóttist víst sjá, að Eiríkur var ekki drukkinn — og fanst þá sjálfsagt að hneyksli hlyti að hafa orðið.

"Segðu það, maður! Eg skal veita þér að málum! Hefir ofursta-blóðmörskeppurinn kannske tælt—"

"Þú mátt geyma þessi illyrði þín, maður," svaraði Eiríkur með þeirri ró, sem lærist í lífstíðarháska, og eyddi þannig hinni annari grunsemd frænda míns með þögulli fyrirlitning.

"Nú, hvað er það þá?" spurði frændi minn. "Hvers vegna barðirðu þá manninn?"

"Barði eg einhvern " spurði Eiríkur eins og utan við sig.

Aftur leit frændi minn til mín, en nú þóttist hann vita hverskyns væri.

"Barði eg einhvern? Eg vildi að þið vilduð bera sáttarorð á milli—"

"Bera sáttarorð á milli!" hrópaði frændi. "Nei, eg held nú síður. Hann átti fyrir því. Það var þokkalegt eða hitt þó heldur að tala um heiðvirða konu eins og hann gerði. En hann hafði naumast slept orðinu "kona", þegar Eiríkur baðaði út höndunum óþolinmóðlega og mælti:

"Minnist þið ekki á það!" hrópaði hann eins og sjúklingur, sem veinar undan uppskurðarhnífi. Minnist ekki á það! Nú rifjast alt upp fyrir mér aftur! Alt eins og það er! Alt eins og það er! Eg get ekki umflúið það! Þetta er ekki martröð! Hvernig á eg að fara að skýra ykkur frá því? Eg get ekki komið orðum að því! Það er ómögulegt — fráleitt — líkast skrípalegum skopleik — alveg óhugsandi, að það hafi getað átt sér stað, skal eg segja ykkur — það gat ekki hent — ómögulega — sízt hana — allra kvenna! En hún er horfin — hún er horfin—"

"Heyrðu, maður," hrópaði frændi minn, "ertu að tala um konuna þína eða einhverja aðra?"

"Hlustaðu á mig, Eiríkur," sagði eg og hugsaði ekkert út í það, hve spurningar okkar hlutu að særa hann, "er það konan þín, hún Miram, sem er horfin?"

Hann virtist ekki taka eftir spurningum okkar.

"Þau voru þarna — þau veifuðu mér úr garðinum við skógarröndina þegar eg fór inn í skóginn. Og þetta var í morgun, að þau veifuðu mér bæði

þegar eg reið burtu — og þegar eg kom aftur frá borginni um hádegisbilið voru þau bæði horfin! Eg horfði upp í gluggann þegar eg kom. Gluggablæjurnar bærðust og hélt eg, að drengurinn hefði falið sig á bak við þær, en það var bara vindurinn. Við leituðum í hverjum krók og kima neðan frá kjallara og upp á hæsta loft. Leikföngin hans lágu út um alt, og mér heyrðist eg heyra til hans einhversstaðar, en það var ekki! Nei — nei — og við erum búnir að leita í húsunum og garðinum svo klukkustundum skiftir—"

"En í skóginum?' 'spurði frændi minn, því að getspeki gamla veiðimannsins var vöknuð hjá honum.

"Snjórinn í skóginum er mittisdjúpur! En svo leituðum við um runnana alstaðar þar sem okkur datt í hug, og hvergi var slóð að sjá, eða svo mikið sem brotinn kvist af tré." Fötin hans, sem öll voru rifin, báru þess ljós merki, að hann hafði verið í skógarleitinni.

"Þvættingur!" hrópaði frændi minn og þótti nóg um. "Þau hafa ekið til borgarinnar fyrirvaralaust!"

"Í morgun var enginn sleði til á Bibot-herragarðinum,' 'svaraði Eiríkur.

"En gátu þau ekki farið brautina, Eiríkur?" spurði eg og mintist þess, hve gamli herragarðurinn stóð langt inn í víðu rjóðri í skóginum. "Gátu þau ekki hafa farið ofan brautina til tjaldstaða Indíánanna?"

"Brautin er ófær á sleða, auk heldur að ganga.

og allar vetraryfirhafnir þeirra eru kyrrar heima! Komið þið með eitthvert ráð í guðs bænum, menn! Gerið mig ekki frávita með þessum óþarfa spurningum!"

En frændi minn hélt áfram að spyrja Eirík þeim óþörfustu og endalausustu spurningum, sem eg hefi heyrt, og eg stóð og hlustaði á þetta þangað til þessi raunalegi atburður, sem gerðist að vorlagi 1815, hafði mótast svo fast inn í meðvitund mína, að eg gat aldrei gleymt honum síðan.

Öldungis tilefnislaust og óvænt bar vini mínum Eiríki Hamilton að höndum sú raun, sem hverju böli er þyngri, því hvernig svo sem skapi eiginmannsins er háttað, þá getur í þær raunir rekið, að hann óttast, að kona hans rati í það, sem er dauða verra, og það var slíkur sorgaratburður, sem nú hafði gerst, og gekk svo nærri Eiríki, að honum lá við örvinglan, og þetta breytti allri lífsstefnu minni. Konan hans og ungur sonur hurfu þarna um hábjartan daginn, rétt eins og þau hefðu verið numin brott af ósýnilegri hendi.

Að morgni þessa sama dags hafði Eiríkur, glaður í bragði, kvatt konu sína og drenginn með kossi, og þau höfðu þá veifað til hans í kveðju skyni í síðasta sinni. Hann reið ofan eftir sniðskorna veginum gegnum skóginn niður til Quebec, en þau stóðu þar, sem girðing Herragarðsins liggur að skógi Charlesbourg-hæðanna. Þegar hann kom heim aftur um hádegisbilið, var kona hans og barn horfið. Það var engu líkara en þau hefði verið numin brott á yfir-

náttúrlegan hátt. Stóra byggingin, sem hafði áður bergmálað hróp og köll sveinsins unga, var nú grafþögul; hvorki heyrðist nú andsvar móður eða sonar, þó að hrópað væri. Barnfóstran var spurð. Hún þóttist vera viss um, að Miriam hefði verið með drenginn frammi í anddyri; meira vissi hún ekki, en þaut herbergi út herbergi að leita og fann ekki; öll herbergin voru tóm.

Vinnufólkið á Herragarðinum frétti fljótt hvað í efni væri. Allir voru spurðir, en enginn vissi neitt, og viðkvæðið var:

Konan er farin!

Konan er ókomin aftur!

Drottinn minn! Hvað hefir komið fyrir? Og hjátrú og hindurvitni nágrannafólksins ól á kvíðanum í brjóstum manna. Það eitt var öllum kunnugt. að Miriam hafði farið með drenginn sinn út í garðinn og gengið þar fram og aftur um slóðirnar, eftir að maður hennar var lagður af stað til borgarinnar, en svo hafði hún ekki komið heim eftir það. Og nú var spurt hvort Eiríkur hefði vandlega leitað í rjóðrinu milli hússins og skógarins. En hann hlyti að sjá það sjálfur, að snjórinn inni í skóginum væri svo djúpur, að óhugsandi væri að hún hefði þangað komist. En svo hlyti líka að vera hægt að rekja slóðina úr garðinum inn í skóginn ef hún hefði farið þangað. Ekki þyrfti hann að óttast villidýr. Þau hefðu leitað upp til hæðanna með vorkomunni. Sjálfsagt væri réttast fyrir manninn að leita betur úti; og það gerði Eiríkur og alt fólkið frá Herragarðinum fór með honum, en

á allri flötinni frá Herragarðinum út að rönd hinna sígrænu trjáa sást ekkert til konunnar eða drengsins.

Þá fór Eiríkur að hlæja að sínum eigin kvíða. Miriam hlaut að vera inni í húsinu. Svo byrjaði leitin í gamla anddyrinu, sem áður fyrri hafði tekið undir í af drykkjuhrópum gamalla franskra aðalsmanna. Nú var leitað afar vandlega í hverju skoti neðan úr hvelfda marghólfaða kjallaranum upp á efsta loft. Gat það hugsast, að einhver hefði komið og ekið með hana til borgarinnar? Nei, það gat ekki átt sér stað. Vegirnir voru ófærir vegna snjóþyngsla og hvorugu megin við slóðina sem riðið var, sást nokkur sleðadrags-vottur. Gat það ekki verið, að hún hefði farið fáein skref niður eftir aðalveginum til tjaldstaðar Indíánanna, því að Indíánakonur eru vanar að hafa mikið gaman af að sjá börn hvítra manna Ekki varð heldur nein fróun að þeirri tilhugsun,því að Indíánarnir höfðu tekið sig upp þaðan snemma um morguninn, og nú voru eins og óhrein hreiður eftir í snjónum þar sem þeir höfðu hafst við.

Kvíðinn tók nú að aukast og varð að skelfingu. Eiríkur varð eins og hálfrutlaður og gat varla trúað öðru, en hann hefði martröð. Honum fanst eins og hann mundi vakna bráðlega og finna þessu fargi, þungu eins og dauðanum, létt af sér, því að reyndar gat það ekki annað verið en að litli drengurinn hans hefði lagst ofan á brjóstið á honum í svefni. Honum duldist ekki að vísu, að það var býsna einkennilegt, ef hann gæti sofið í öllum hávaðanum, sem var, þar sem karlmennirnir hrópuðu, hundarnir

góluðu og brothljóð kvað við í skóginum þar, sem leitarskarinn braust áfram. Vanalega hrökkva menn upp af martraðar-svefni þó ekki sé meir en að barn umli; en farargnýr óttasleginna leitarmanna gegnum skógana, bergmálið, sem valt aftur með ógurlegum hreimi frá fannhvítum hæðunum, hlaut að sannfæra hann um, að hann var ekki að reika um neitt draumaland; og loks vakti snögt brothljóð og þyrnir, sem slóst framan í hann, hann til fullrar meðvitundar um það, hvar hann var staddur.

"Mér er þetta öldungis óskiljanlegt, Eiríkur," sagði eg og bar ótt á og stóð á öndinni, því að eg þorði varla að stynja þessu upp. "Þetta er ómögulegt, alveg ómögulegt."

"Guð gæfi að svo væri," svaraði hann og varpaði mæðilega öndinni.

"Og þetta var um hábjartan dag," sagði frændi minn.

Eiríkur kinkaði kolli.

"Og varla er hægt að ímynda sér, að hún hafi getað vilzt í Charlesburg-skógunum?' 'sagði eg svo sem eins og áframhald af spurning frænda míns.

"Þar sást engin slóð — ekkert spor."

"Og ertu alveg viss um að hún geti hvergi verið í húsinu?" spurði frændi minn.

"Já, eg er viss um það!" svaraði hann.

"En höfðu ekki Indíánar tjaldstað rétt þarna fast við veginn?" spurði frændi minn enn.

"En hvað kemur það málinu við?" svaraði Eiríkur og spratt á fætur. "Þeir höfðu lagt af stað

löngu áður en eg kom aftur. Og það er heldur ekki venjulegt að Indíánar nemi brott konur hvítra manna. Hefi eg ekki búið meðal þeirra alla æfi mína? Eg ætti að þekkja þá."

"En eg get nú sagt það sama, góðurinn minn," svaraði gamli skinnakaupmaðurinn. "En ef konan er ekki á Herragarðinum ekki í skógunum og ekki í garðinum, getur þér þá ekki skilist, að eina lausnin á hvarfi hennar er brottnám af hálfu Indíánanna?"

Eiríkur varð enn þungbrýnni en áður. Það var sem eldur brynni úr augum hans, og eg hefi aldrei séð morðsvip á nokkrum manni ef hann var ekki á honum þá.

"Hvaða kynflokkur var þetta?" spurði eg, og reyndi að tala sem rólegast, því að eg vissi, að hver spurning verkaði eins og hnífstunga á vin minn.

"Blendings úrþvætti. Iroquóa-ræðarar, franskir kynblendingar, sem gengið hafa að eiga Sioux-konur. Þetta er alt í bandalagi við Norðvestræna félagið. Norð-Vestmennirnir fara héðan til Fort William þegar ísa leysir. Þessi óþjóðalýður fylgir þeim þá eftir."

"Þekkirðu nokkurn þeirra " spurði frændi minn með sömu áleitninni.

"Nei, eg held ekki — bíðum við! Jú, reyndar, Gillespie!" hrópaði hann. "Stóri djöfullinn var meðal þeirra."

"Hvaða djöfull?" spurði eg til að halda honum við þessa hugsun, því að sorgin hafði gert hann hugreika.

"Stóri djöfullinn! Hann er sá eini óvinur, sem eg á meðal Indíána," svaraði hann með dimmri og raunalegri rödd. "Eg gekk næst lífi hans við Isleá lá Crosse. Af því að hann var Norð-Vestmaður hélt hann það vera sjálfsagt, að stela frá Hudsonsflóa félagsmönnum; hann komst þannig yfir silfurbúna fuglabyssu, sem afi minn bar við Culloden. Og því er ver. Gillespie! Þeir Norð-Vestmenn hafa þunga blóðskuld á baki fyrir það, að æsa þessa Indíána upp á móti skinnakaupmönnum; og ef þetta er þeim að kenna, þá—"

"Náðirðu henni aftur?" spurði eg og átti við fuglabyssuna, því að hvorki mér né frænda mínum datt í hug að fara að halda svörum uppi fyrir Norð-Vestmenn. Eg vissi að tvær hliðar voru á þessu klögumáli Hudsonsflóa félagsmanna.

"Nei. Þess vegna var eg rétt að segja búinn að gera út af við hann, en því meir sem eg barði hann, því meir þvaðraði hann óskammfeilnislega: 'Það gerir ekkert til'. En eg sá nú samt um, 'að það gerði honum til'."

"Eru þetta einu skiftin, sem þið hafið átt saman, Eiríkur?" spurði eg.

Hann strauk aftur hárið, svart og sítt, eins og utan við sig, stóð á fætur, gekk til mín og lagði skjálfandi höndina á öxl mér.

"Gillespie!" hvíslaði hann og beit á jaxlinn. "Eg á enn ósagt nokkuð. Eg sinti því engu þá, en morguninn eftir að eg barði rauða djöfulinn, þá fann eg daggarð, sem stóð á oddinn í dyrastafnum

við útidyrnar á heimili mínu. Oddurinn hafði verið rekinn í gegnum grænan stöngul, en visnaður greinarbroddurinn og blöðin héngu yfir hnífseggina."

'Ertu orðin óður, maður?" hrópaði Jack MacKenzie. "Hann hlýtur að vera djöfullinn sjálfur. Þú varst ókvæntur þá. Hann gat ekki ætlað sér—"

"Eg ímyndaði mér að þetta væri ógnunar aðferð Indíána," svaraði Eiríkur, "sem ætti að tákna það, að af því að eg hefði refsað honum að haustlagi þegar bjarkirnar hefðu látið laufin, þá ætlaði hann að hefna sín á mér þegar laufin væru orðin græn að vorlagi; en eins og þér er kunnugt, þá fór eg burt um haustið."

"Þér hefir skjátlast, Eiríkur," svaraði eg, því að mér rann alt í einu í hug hin ógurlega þýðing þessa tákns. "Þetta táknar alt annað."

Eg þagnaði skyndilega, því að mér brá við að sjá hve Eiríki félst til um þetta, og enginn spurði frekara um það, hvað tákna mundi græni stöngullinn, sem hnífurinn stóð í gegn um og visnaða greinin, sem hékk yfir blaðið.

Frændi minn varð fyrstur til að átta sig á hvað gera ætti.

"Heyrið þið!" hrópaði hann. "Það dugir ekki að sitja svona. Til tjaldstaða Indíánanna þegar stað!"

Síðan rukum við út úr herberginu í einu hendings kasti og fram hjá klúbbmeðlimunum, sem urðu alveg forviða á atferli okkar, því að þeir höfðu búist við að við gerðum eitthvað frekara í að útkljá deiluna

milli þeirra Eiríks og Adderlys. Þegar við komum að ytri dyrunum, lagði Eiríkur hönd sína á öxl frænda mínum og mælti:

"Farðu hvergi. Það er versta illviðri úti, vegurinn torfær og fannfergi mikið. Eg ætla heldur að biðja þig að koma mér í sátt við manninn, sem eg sló áðan."

Síðan þutum við Eiríkur af stað út í kolsvart náttmyrkrið og hríðina. Rétt á eftir voru hestar okkar komnir á harða sprett eftir ísingar-svelluðu grjótinu, en hófaskellirnir voru líkastir byssuhvellum.

"Hann ætlar að ganga í kafaldshríð, Eiríkur", endurtók eg. "Vindurinn hefir snúið sér til norðurs. Við verðum að reyna að ná til tjaldstaðarins áður en mikið hefir fent. Hvað er langt til Beauport-vegarins?"

"Fimm mílur," svaraði hann, og eg vissi af því hvaða viðbragð hestur hans tók, að hann hafði rekið sporana inn í berar síðurnar á honum. Við stefndum niður bröttu, bugðóttu götuna, sem liggur frá Efri borginni niður í St. Charles dalinn. Allur vegurinn var ein ísingarhella, og háll eins og rennibraut. Við héldum fast við hestana, til að reyna að koma í veg fyrir að þeir hnytu og komumst niður brekkuna, með því að sniðskera okkur án þess að okkur vildi nokkurt slys til. Þegar við komum á jafnsléttu hleyptum við aftur á sprett og þeystum yfir brúna, en brúarvörðurinn heimtaði toll og hótaði okkur öllu illu. Eg fleygði skildingi til hans aftur fyrir mig og áfram þeystum við gegnum álmviðar trjágöngin, sem lágu

hyr Charlesbourg-skógarins, þar sem franskir drykkju svallarar höfðu setið að sumbli áður en Bretar unnu landið; þeystum fram hjá stráþöktum kotum íbúanna, snerum því næst til hægri og á mjög sjaldfarinn veg, sem mikinn snjó hafði nýlega lagt á. Þegar þangað kom urðum við að hægja ferðina, því að hestarnir sukku í hné og brutust í gegn um ófærðina með fnæsi og frísi eins og nýtízku snjóplógar.

Skýgarðurinn í norðrinu var alt af þykna. Í miðju himinhvolfinu sást nú milli éljanna einstöku stjarna tindra og stormurinn næddi með svo ömurlegum þotum, að eg man varla annað eins. Það var því líkast, þegar vindhviðurnar lægði, sem með þeim bærust sár andvörp deyjanda barns sem hrópaði á hjálp, en hvössu byljirnir bergmáluðu heiftaróp hundrað djöfla.

"Gillespie!" hrópaði Eiríkur, skjálfandi af kvíða, "hlustaðu til — Rúfus — hlustaðu! Heyrirðu ekkert? Heyrist þér ekki einhver vera að hrópa? Er það ekki barn, sem er að kalla?"

"Nei, Eiríkur," svaraði eg skjálfandi í hnakknum. "Eg heyri — heyri ekkert. Þetta er ekkert nema vindurinn."

En hikið sem á mér var sýndi, að eg var enganveginn viss um það sem eg sagði, því að við heyrðum báðir hróp berast með vindinum, sem þeir einir geta greint, sem mist hafa ástvini sína út í ofviðri.

Í þessu skall nýr stormbylur á og var því líkast sem hann sliti orðin úr munni mér og þeytti þeim út í geiminn með hæðilegum sköllum. Þá kyrði aft-

ur í bili og þá heyrði eg þungar stunur og ekka til mannsins, sem á bak við mig var, mannsins, sem alt til þessa hafði haft óbifanlega stjórn á sjálfum sér. Hann lét nú loks bugast fyrir sorginni í myrkri næturinnar.

Loks sáum við ljósi bregða fyrir í glugga á einu lága kotinu. Það var okkur merki um að víkja til vinstri handar, og fara eftir mjórri reiðgötu, sem lá inn á milli sedrustrjánna. Þá kom máninn fram undan stormýfðum skýflóka og var sem hann af tómum brjóstgæðum léti birtu sína falla í svip á snæfi drifnar sígrænar bjarkirnar, sem stóðu þarna tígulegar, þöglar og vofulegar eins og syrgjendur við gröf látins ástvinar.

Aftur beygðist vegurinn um hvast horn til hægri handar og alt í einu kom hinn reisulegi Herragarður í ljós í miðju rjóðri upp við hæðirnar; sáust fögur súlnahliðin greinilega er ljós var í hverjum glugga, Um garðinn sjálfan féll á, sem nú var frosin og þar á auðu svellinu höfðu Indíánarnir tjáldað. Við kölluðum til vinnumanns nokkurs og létum hann færa okkur ljósker og skoðuðum vandlega tjaldstaðarbælin, svartan snjóinn og ofurlitla ruslhauga, sem eftir höfðu orðið. Þar voru könnur, tinnubrot til að slá eld með, segldruslur, snærisspottar, fataræflar og fleira þess kyns rusl hrúgað saman. Nú var komin skæðadrífa sem lagði nýja hvíta ábreiðu á alla jörðina. Enn höfðum við ekkert fundið, sem gæfi neina vitneskju um að konan og barnið hefði lent í hendur Indíánanna. En nú varð eg þess var, að glitti í eitt-

hvað líkast bláum þræði hjá einni tindósinni í ruslinu. Eg spyrnti dósinni frá með fætinum og kipti í þenna bláa þráð, og sá þá að neðan við hann var lítill og snotur drengja mockasin-skór, prýddur perlum; en eg segi það satt, að þó að eg hefði fundið oddinn á daggarði Stóra djöfulsins lagðan að hjarta mínu, hefði eg heldur kosið það, en að segja Eiríki Hamilton frá því sem eg hafði fundið.

Hríðin óx og varð svo sótsvört að hvergi glæfði. Við breiddum ábreiður á tjaldstaðinn til að reyna að geyma allra ummrekja, sem væru á honum, en illviðrið magnaðist svo að við héldumst ekki við úti og urðum að leita okkur húsaskjóls. Alla nóttina sátum við Eiríkur við snarkandi eldinn í veiðimanna herberginu. Hann sat álútur og horfði í gaupnir sér og var lengst um þögull. Eg stakk-upp á ýmsu, flestu mjög fráleitu, og hreytti úr mér heimskulegum hótunum þess á milli, en báðir vorum við öldungis ráðalausir hvað gera ætti. Við þektum Indíána nógu vel til að vita hvað ekki bar að gera, sem sé að gera hávaða úr þessu, því að það hefði orðið til þess að herða á Stóra djöflinum að framkvæma grimdarverk sín.

---

## III. KAPITULI.

*Viðvaningur og bragðarefur.*

Þó að mörg ár séu liðin síðan eg var úti í hríðarveðrinu vorið 1815, og við Eiríkur Hamilton vökt-

um alla nóttina á eftir og biðum þess að eitthvað rættist úr fyrir okkur, mun mér aldrei úr minni líða hávaðinn og gnýrinn í ofviðrinu, þegar það skall á hússhorninu og oft var ekki annað sýnna, en það mundi svifta þakinu af húsinu. Stormhviðurnar þutu um garðinn eins og afarreiðar nornir, geystust með renningsmökk inn á milli sedrustrjánna og slitu grjót og mold úr hæðunum, unz allar raddir skógarins heyrðust bergmála þaðan með ömurlegu ósamræmi. Enn er sem eg sjái Eirík í anda stara í eldinn er lék um viðarbútana eins og sá tryldi eltingaleikur væri bergmál þess þunga brennandi harms, er honum bjó í brjósti. En meðvitundin um það, að við gátum ekkert hafst að meðan storminum slotaði ekki, fylti hann nýjum óróleik, sem hann gat trautt af borið. Hann spratt þá á fætur og tók að ganga fram og aftur um herbergið þangað til hann kom auga á eitthvert leikfang drengsins síns. Hann tók það þá upp og gekk frá því á vísum stað, eins og menn ganga frá eignum þess sem er andaður. Loks tók ljóskerið okkar að reykja, og gefa frá sér sterkan og ónotalegan þef, og gengum við þá báðir yfir að glugganum til að forvitnast um hvort ekki væri farið að birta. Daufa birtu lagði í móti okkur, en hríðin hafði breyzt í krapaveður, er síðan hafði fryst á og rúðurnar voru lagðar frosinni krapaslettu, hornanna í milli.

Mér er nærri því óskiljanlegt hvernig við gátum haldist þarna við í tvo dagana næstu meðan illveðrið stóð. Hvað eftir annað rauk aumingja Eiríkur út í hríðarbylinn, en varð að hverfa inn aftur jafnharð-

an, því að þegar út í skafrenningsmökkinn kom, sást ekki handaskil. Þriðju nóttina slotaði storminum loksins. Morguninn eftir var snjórinn barinn saman í mikla skafla og skel lagt á hann, og stirndi ónotalega á hana í sólskininu. Langir og gildir klakastönglar héngu niður úr grannvöxnum öspunum og á sedrustrjánum hafði snjólagið tekið á sig margskonar myndir.

Við höfðum ráð'ð ráðum okkar meðan við biðum. Strax eftir að við höfðum lyft ábreiðunum ofan af tjaldstaðnum og leitað þar árangurslaust frekari merkja um þarvist Míríam og drengsins hennar, voru flokkar manna sendir í ýmsar áttir að leita. Eiríkur var fyrir þeim flokkinum sem fór að leita fljótsmegin við Herragarðinn, en eg var fyrir nokkrum velþektum veiðmönnum, sem bjuggu í kotunum við hæðirnar, er þektu allar Indíánaslóðir í skóginum vikuferðarlangt frá borginni. Eftir að eg hafði sent menn mína í ýmsar áttir og boðið þeim að senda Indíána hraðboða á hverju kveldi til okkar með fréttir, skildi eg við þá og fór á fund gamals leiðsögumanns, sem Páll Larocque hét. Hann hafði verið mér þarfur í veiðiferðum. Páll var þannig skapi farinn, að hann var allra manna fátalaðastur og veiðimenn höfðu gefið honum viðurnefnið Þögli; en það sem hann skorti á talgáfuna bætti hann aftur upp með því að hann var frábærlega sjóngóður og heyrði hverjum manni betur, svo að helzt mátti jafna til viltra dýra um þann skynjunar næmleik, og það var trú manna að Páll væri gæddur þeim einkennilega

hæfileik að geta fundið á sér návist óvinar síns, áður en hann heyrði til hans eða sæi hann. Og eg treysti þefvísi Páls betur en nokkurs sporhundar.

"Heyrðu Páll!" sagði eg við hann þennan kunningja minn, sem sat heima hjá sér og var að sjúga mjög stutta leirpípu, og blés reyknum frá sér hægt og hægt, "það er Indíáni, slæmur Indíáni, Iroquói, Páll." Eg gætti þess að segja að það væri Iroquói, af því að Páll var kvæntur Indíána konu frá Lorette af Huronsflokknum. "Þetta er Iroquói, sem hefir stolið hvítri konu og litlum dreng frá Herragarðinum fyrir fáum dögum."

Hér þagnaði eg, til að lofa honu mað melta þetta. Þögli mátti sem sé ekki fá of stóra skamta í einu. Hár og skegg hans var hæruskotið, vöxturinn lágur og luralegur og maðurinn yfir höfuð hinn óásjálegasti. Í staðinn fyrir rauða barðalitla hattinn, sem venja var til að slíkir menn bæru á þeim tímum, þá hafði hann á höfðinu dökka klæðishúfu með eyrnaspeldi, sem bundin voru undir hökuna. Treyjan hans fór honum illa; hún var uppgjafafat af einhverjum heldra manni, og buxurnar lágu í ótal hrukkum ofan yfir perlusettu mochasin-skónum. Þegar eg þagnaði festi Páll augun á einhverjum mér ósýnilegum bletti úti á fannbreiðunni og var auðsjáanlega að hugsa sig um. Síðan kipti hann buxunum svo vel upp um sig að þær drógust úr öllum fellingum, leit af snjónum úti og yfir á mig til þess að eg héldi áfram.

"Þessi Iroquói, sem er áhangandi Norð-Vestmönnum—"

"I Pays d' en Haut?" spurði Páll og tók nú til máls í fyrsta sinni.

"Já," svaraði eg, "og þeir hafa allir haft sig á burt og tekið með sér konuna og drenginn. Þetta varð rétt áður en hríðin skall á."

Augu Þögla hvörfluðu aftur út á fannbreiðuna.

"Jæja," mælti eg, "eg ætla að gera þig að ríkum manni, ef þú getur fylgt mér þangað, sem þeir eru nú niður komnir."

Páll leit á mig spurnaraugum.

"Þú fær fimm pund á dag." Það var meira en við borguðum manni á hreindýraveiðum.

Aftur tók hann að hugsa sig um, og því næst þaut hann út í skóginn eins og héri; en eg þekti hið einkennilega atferli hans og kipti mér ekki upp við það, en beið rólegur komu hans. Það er mér óskiljanlegt hvernig hann fór að útvega tvennar þrúgur og tvær stengur á fimm mínútum ,nema eitthvað af krakkahóp hans hafi hjálpað honum til þess. En hann kom aftur að vörmu spori búinn í langferð og jafnskjótt sem eg hafði sett á mig þrúgurnar, lögðum við af stað og svifum yfir fannirnar eins og bátar á bylgjum. Einskis manns annars en Páls mundi það hafa verið að rata um kjör og eyðiskóga þá, er við fórum um. Þar sem trjábolir höfðu fallið og lagst yfir veginn, stakk Páll niður stöng sinni og vatt sér yfir þá. Því næst tók hann mikla ferð á ný, sem hvorki var hlaup né hæg ganga, heldur skokk, sem hraðboðar fara venjulega. Svellaðar greinarnar hrukku eins og gler þar sem við fórum um og svo

hlaðnar voru bjarkirnar af snjó og klaka að engu var líkara en að við værum komnir í dropsteinshelli. Páll mæ'ti ekki orð frá munni, en áfram þutum við yfir kjarr og fannir. Árangurslaust reyndi eg að skima eftir einhverjum stíg gegnum skógarþyknið, en gat hvergi séð hann, en eg þóttist sjá að leiðsögumaður minn færi eftir einhverjum merkjum á trjánum sjálfum. Á einum stað komum við að hengi; var það í mikilli brekku en dalur fyrir neðan. Páll tylti sér þegar niður á þrúgusporðinn og rendi sér á flugferð niður í dalinn. Eg fór á eftir með löngum hoppum, eigi óáþekt norskum skíðamönnum; síðan héldum við upp dalinn og hafði leiðsögumaður minn alt af augun á trjánum, og einu sinni nam hann staðar hjá illa höggnum tréstofni og skríkti ofurlítið, en hjá stofninum stóð safatrog sem var til hálfs komið í kaf í snjóinn; en ekki gat eg um það sagt, hvort kæti Páls var af því að hann sá þarna sykurkvoðu forða í vændum, eða sakir grunnhygni þess er höggvið hafði tréð of snemma til safans. Oft hafði eg vitað leiðsögumann minn uppgefa íþróttamenn úr borginni, er urðu honum samferða, en eg var orðinn vanur við að vera á ferð með honum frá því að eg var ungur, svo að eg uppgafst ekki.

"Hvert ertu nú að fara, Páll?" spurði eg grunsemdarlega, því eg hélt að við værum á leiðinni til Huron-þorpsins við Lorette. "Ertu að fara til Lorette, Páll?"

En Páll gerði ekki annað en veifa, og snaraðist skyndilega fyrir höfða og hélt upp eftir þröngu gili,

er virtist liggja inn í hæðirnar og gat skýlt óteljandi flóttamönnum. Við námum staðar í gilinu og snæddum lítið eitt af hertri síld, kexi og engifersbrauði sem leiðsögumaðurinn var hróðugur yfir. Af sólargangi gat eg ráðið, að liðið var langt fram yfir hádegi, og við höfðum stefnt í norðvestur. Eg gat mér þess lauslega til, að Páll hefði í hyggju að handsama Norð-Vestur-veiðimenn, ef þeir hefðu í hyggju að komast undan frá St. Lawrence gegnum kjarrið til Vestur-Ottawa, þar sem þeir gætu náð bátum á norðurleið. En hinn þögli förunautur minn hafði ekki sagt eitt einasta orð í þá átt. Þegar við höfðum klifrast upp gilbarminn, brattan og snæþakinn, vorum við komnir hátt upp í hæð, þar sem trén stóðu hrörleg í smá þyrpingum, og snjórinn breiddist hreinn og rénnsléttur upp í efstu eggjar. Páll stundi, tottaði pípulegginn ibygginn og benti uppá hæðirnar.

Dökkur tjaldsúlutoppur sást koma þar upp úr snjónum. Hann benti aftur á skógarröndina fyrir neðan okkur. Þar sá eg ein tólf Indíánatjöld milli trjánna og gaus reykur upp hjá þeim hér og hvar.

"Áfram, monsjör!" sagði leiðsögumaður minn. Það voru þá orðin fjögur orð alls, sem hann hafði sagt við mig um daginn.

Þögli dróst því nær aftur fyrir mig og gekk eg á undan til tjaldstaðarins. Það var auðséð að þeir, sem þarna höfðust við, voru engu síður þjófar en veiðimenn; þeir höfðu hengt hjá sér í trén frosin svínslæri hjá veiðidýrakjöti. Það var og sennilegt, að þeir ættu safatrogið, sem Páll hafði hlegið mest

að, af því að öll tæki til að ná sykursafa úr trjám mátti sjá hjá tjaldstöðum þeirra.

"Þetta eru ekki Indíánarnir, sem við erum að leita að," sagði eg, en Páll benti mér aftur fyrir okkur með stönginni og kom þá nærri gáfulegur svipur á bólugrafið andlitið á honum. Og er eg leit í þá áttina, brá mér í brún er eg sá mann koma upp hæðina slóðina okkar. Það var Indíáni. Erindi hans fengum við að vita síðar.

Grimmur hundur kom geltandi í móti okkur eins og vanalegt var til að gefa gestkomuna til kynna. En leiðsögumaður minn var svo ræflalega líkur Indíána, að hundarnir þektu hann skjótt og hættu gjamminu. En svo komu skrækróma krakkar hlaupandi frá tjöldunum og tóku að glápa á okkur bæði forvitin og undrandi. Bæði karlar og konur höfðu dregið sig að eldinum; yfir honum héngu pottar, og lagði af þef af kjöti, sem verið var að sjóða. Eg held varla að nokkur sem þar var viðstaddur af fullorðnu fólki, hafi litið við þegar við komum. Þó að það sæi okkur greinilega sat það rólegt og hreyfði sig hvergi, svo sem siður er Indíána, að bíða þess að gestirnir komi sér sjálfum á framfæri. Sumar Indíána og kynblendinga konur voru að bæta berki á eldinn. Indíánarnir sátu teinréttir í hvirfingu umhverfis eldinn. Hvítir menn, veiðimanna-flakkarar úr ýmsum áttum komnir, lágu í allskonar letilegum stellingum á vísunda og hreindýrafeldum.

Mér var kunnugt um það eins og öllum þeim,

sem þekkja sögu Quebec frá fornu fari, að synir gömlu höfðingjanna höfðu tekið í arf eftir forfeður sína nokkuð af þeirri æfintýra þrá, sem hafði knúið hina síðarnefndu til að hverfa frá glauminum við frönsku hirðina fyrir þrem öldum og setjast að í æfintýralandinu í Norður-Ameríku. Mér var og um það kunnugt, að þessi sama þrá breytti oft höfðingjum í skógarbúa og konunglegum afkomendum í hraðboða. En það er sitthvað, eða að sjá það með eigin augum, og nú fékk eg sýnilega sönnun þekkingar minnar; eg sá þarna gamlan skólabróður minn frá Laval, Louis Laplante, með nokkurra mánaða sítt skegg, klæddan í hjartarskinnsföt og liggjandi endilangan mitt á meðal þeirra þorpara, sem þarna voru saman komnir. Eg ímynda mér að undrun hafi sézt á mér, því að Louis þekti mig strax og rak upp skellihlátur.

"Halló! Gillespie!" hrópaði hann með smeðjulegum kæruleysis rómi, sem bæði hafði aflað honum vinsælda og bakað honum ónot á skólanum. "Öllum bjóst eg við, en ekki þér," sagði hann og settist upp og rýmdi til fyrir mér á vísundarfeldinum.

"Eg get sagt það sama, Louis," sagði eg og tók vingjarnlega í hönd hans og settist niður á feldinn hjá honum.

"Jæja, kunningi," mælti hann og sló á öxlina á mér, um leið og eg virti fyrir mér feitu Indíána-kerlingarnar og harðlegu karlmennina þarna, "hvernig í fjandanum stendur á því, að þú skulir vera kominn hingað?"

"Eg get spurt þig sömu spurningar, Louis," svaraði eg. Hann fór að hlæja gáskalegan og kesknislegan hlátur, sem áður fyrri hafði verið fyrirboði truflanar og uppþots í bekknum hans.

"Þú ættir varla að þurfa að spyrja, þar sem þú sér jafnglæsilegan hóp móleitra ungmeyja samankominn," og um leið leit Louis næsta óskammfeilnislega þvert yfir eldinn og framan í herfilega ófríða, reiðulega Indíána konu, sem þar sat og starði á mig. Það var ómögulegt annað, en að taka eftir þeirri manneskju. Hún var því líkust ásýndum, sem hún væri líkneski úr kopar, mynd af einhverri gamalli gyðju, ímynd reiði og grimmleiks. Hún festi á mér augun og eins og neyddi mig til að horfa á sig, hvort sem eg vildi eða ekki, en alt andlitið á henni fékk á sig dökkan blæ.

"Þessari frú er augsýnilega illa við gestkomuna Louis,' 'sagði eg, því að hann hafði hugað að því hversu við gáfum hvort öðru ilt auga þó að við þegðum.

"Þennan mann langar til að vita, hvort þú hefir nokkuð á móti komu hans," kallaði Louis til Indíána konunnar.

Hún hvesti augun á Louis, en skildi vitanlega ekki hvað hann sagði; sjálfsagt hefir hún haldið, að við værum að hlæja að sér. Hefndarlöngun brá snöggvast fyrir í svip hennar, en svo kom alt í einu yfir hana það þögla kæringarleysi, sem einkennir Indíána og ekki er hægt af að ráða, hvort þeim líkar betur eða ver. Eg sá að ör mikil voru á kinnum

hennar og enni, og efri vörin á henni var klofin frá nefi niður að tönnum.

"Þessi Indíánakona er dóttir mikils höfðingja og bardagamanns eins og á henni má sjá," hvíslaði Louis að mér.

Eg hafði getið mér þess til að hún mundi vera af heldra fólki vegna þess, hve hún bar marga skrautgripi á sér. Hringir héngu niður úr eyrunum eins og kólfar í klukkum. Hún bar tvíraðað hálsmen úr fægðum bjarnarklóm og um sig miðja hafði hún belti úr *agötum*, og réði eg af því, að hún væri af vestrænum kynflokki. Við beltið hékk hnífur með fílabeinsskafti, sem sjálfsagt hafði eftir sig látið ekki færri ör, en sjá mátti á konunni, sem bar hann.

"Af hvaða flokki er hún, Louis?"

"Fari eg alda-grár", mælti hann, "ef mér þykir ekki nóg um, hvernig þú glápir á hana og—" En í þessum svifum bar að Indíánann, sem hafði veitt okkur eftirför, og hann stöðvaði orðastrauminn í Louis með því að fleygja til hans bréfmiða, með svörtum fingraförum á.

"Hver skollinn!" hrópaði Louis, bjó til totu á munninn og hvesti hæðilega á mig augun um leið og hann fletti sundur miðanum og las hann.

Ef hann hefði ekki ávarpað mig, þá hefði eg líklega aldrei litið við til hans, en af því að hann gerði það varð eg var við tvent; fyrst og fremst það, að hann hrökk frá mér og í öðru lagi að aftan á bréfinu var frímerki stjórnardeildarinnar í Kastalanum í Quebec.

Stóra Indíánakonan tók bæði eftir því hve Louis brá við að fá bréfið og eins því hve nákvæmar gætur eg gaf honum. Nú gekk hún hvatlega yfir fyrir eldinn og til okkar.

"Fáðu mér þetta," sagði hún við franska unglinginn í skipunarrómi og rétti fram höndina .

"Nei, fari eg þá b...." svaraði hann og böglaði bréfinu saman í lófa sínum. Hún rak honum þá löðrung eins og bæði í gamni og alvöru.Hann tók því mjög vel, rétt eins og refsingum, sem hann hafði fengið í skóla. Allir tjaldbúarnir fóru að hlæja. Indíánakonan gekk síðan aftur yfir fyrir eldinn. Louis hallaði sér þá áfram og fleygði bréfinu á eldinn, en hann gætti ekki að sér og hafði kastað heldur langt, og er honum varð litið við stóð stóra Indíánakonan á fætur, greip upp óhreina bréfmiðann og stakk honum í pilsvasa sinn.

"Nú skulum við hætta öllu spaugi, Louis," tók eg til máls.

"Já, mér er ekkert slíkt í huga," svaraði hann, og var nú orðinn miklu kuldalegri en hann hafði verið.

Eg sagði honum frá erindi mínu og að eg vildi fá að rannsaka hvert Indíánatjald til að vita hvort að konan og barnið fyndist ekki. Hann hlýddi á mig, en hafði aftur augun.

"Það er alls ekki svo að skilja, Louis, að við grunum neinn hér," sagði eg með lágri röddu; "en það kynni að vera, að ræningjarnir hefðu haft skifti á fötunum við þetta fólk, sem hér er, og—" ..

"Haltu áfram!" mælti hann óþolinmóðlega. "Þú þarft ekki að fara í neina launkofa með það, sem þú þarft að segja. Hvers ætlarðu að biðja mig?"

„Að fara með mér um tjöldin og hjálpa mér í leitinni. Eg hélt sannast að segja, Louis, að þú þú værir sá drengur, að þú mundir bjóðast til þess óbeðinn", svaraði eg í nokkrum hita.

Hann spratt svo hvatlega á fætur, að Páll gamli Larocque stökk til mín og stóra Indíána konan kom til Louis.

,Farðu til fj......" hrópaði hann ruddalega og bandaði hendi við Indíánakonunni. Fyrst í stað vissi eg naumast við hvort okkar hann átti. "Gerðu hreint fyrir þínum dyrum og farðu aftur til Indíána þíns! Svona. Gillespie, eg er tilbúinn til að rannsaka með þér tjöldin. Burt með þig," tautaði hann til Indíánakonunnar og þeysti út úr sér miklum orðastraum, og því næst lagði hann af stað á undan yfir að því tjaldinu, sem næst var.

En Indíánakonan lét ekki vísa sér á brott með svona hægu móti, því að þegar eg fór á eftir franska manninum, sá eg að hún kom á eftir mér, og leit heiftaraugum, ekki til hans, heldur til mín. Þögli bjóst við öllu illu og kom á hælunum á henni með stöng sína í hendi, og var þetta því býsna einkennilegur hópur. Eg ætla ekki að greina ítarlega frá þessari leit innan um feldi, dýrskinn, tuskur og kassa í þefillum óþverrahreysum þessum. En leitin varð árangurslaus. Eg man að eins glögt eftir álútu and-

litinu á stóru Indíánakonunni er hún horfði yfir öxl mér við hvert viðvik, með hnikluðum brúnum og klofnu vörina hæðilega teygða af ögrandi brosi. Mér fanst sem hún héldi hendinni óþægilega nærri fílabeins hnífskaftinu, sem hún bar við belti sér, en gamli Páll Larocque hafði aldrei af henni athugul augun og krepti höndina að stóru stönginni sinni.

Við héldum áfram að kanna öll tjöldin og gengum á snið við fólkið, sem við eldinn sat, en fundum ekkert, sem gaf okkur neina vitenskju um Míriam og barnið. Við Louis stóðum öðrum megin við feld nokkurn en Indíánakonan og Páll hinum megin.

"En hvernig stendur á því, að þetta tjald þarna er langt í burtu frá hinum? Hver er í því?" spurði eg Louis og benti á afskektu tjaldsúluna, sem kom kom upp fast við hæðarbrúnina.

Snarkið í eldinum heyrðist svo glögt, að eg þóttist vita, að mikil þögn var yfir öllum tjaldbúum. Þeir hlustuðu og veittu okkur nána eftirtekt. Eg hafði alt til þessa ímyndað mér, að þeir hefðu engan gaum gefið að okkur. Louis svaraði engu, en þegar eg leit á hann sá eg að Indíánakonan hvesti á hann augun, og eins og seiddi hann til að horfa á sig rétt eins og mig skömmu áður.

"Heyrirðu ekki ,maður?' 'hrópaði eg og greip fast til hans, því að mikil grunsemd hafði vaknað í huga mínum. "Því svararðu ekki?"

Hann kiptist við og leit til mín kæruleysislega, rétt eins og hann var vanur að líta til ákærenda sinna á skólaárunum löngu áður, og tók til máls,

nærri því vingjarnlega, niðurlútur og eins og friðmælandi:

"Nú, jæja, Rúfus," svaraði hann og viðhafði nafn það, er hann nefndi mig í skóla. "Við hefðum átt að segja þér þetta fyrri. En þú hlýtur að muna, að við hvöttum þig ekki til að fara hingað. Við áttum engan þátt í að fá þig inn í tjöldin.

"Nú, nú!"

"Nú, nú," svaraði hann með lágri rödd, svo að enginn skyldi heyra annar en stóra Indíánakonan, "þarna í tjaldinu er megn bóluveiki, og við höfum einangrað sjúklinginn þar þangað til honum skánar. Og einmitt þess vegna erum við allir staddir hér. Þú verður að fara burt héðan. Það er ekki hættulaust fyrir þig að vera hér lengur.'

"Þakka þér fyrir, Louis," svaraði eg. "vertu sæll," en hann rétti mér ekki höndina þegar eg kvaddi hann.

"Heyrðu," sagði hann, "eg er að hugsa um að fara með þér upp að gilinu," og hann gerði það og staðnæmdist á gilsþremlinum og veifaði til okkar hendinni um leið og við vorum að hverfa ofan í skugga dalsins, sem var fyrir neðan.

Nú á tímum, eftir að runnin er upp öld heilbrigðismála eftirlitsmannanna og bólusetninganna, geta menn naumast gert sér í hugarlund hversu lítið var á þá sýki fyrir tæpri einni öld. Leiðsögumaður minn hræddist bóluveikina ekki meira en mislinga, og leit á hvorttveggja eins og úthlutun af forsjónarinnar hendi og hugði það heillaráð að láta börn sín

fá veikina svo snemma sem auðið væri; en eg var annarar skoðunar í þessu efni, og hraðaði mér niður í dalinn eins fljótt og mér var mögulegt að komast á þrúgunum. En innan skamms mintist eg þess, að Indíánunum hafði fækkað afarmikið í drepsótt þessari 1780 og að frændi minn hafði sagt mér frá þeim mikla hjátrúarkenda ótta, er þeir hefðu á þessum sjúkdómi. Þegar eg fór að hugsa um þetta tók eg að hægja ferðina. Ef Indíánar óttuðust sýki þessa eins mikið eins og mér hafði verið sagt, hvernig stóð þá á því, að þeir settu tjöld sín í tæpri mílu fjarlægð frá sóttnæmistjaldinu? Það var ekki svo ríkt í Indíánum eðli hins miskunsama Samverja, að ekki væri miklu líkara til að þeir skildu sjúklinginn eftir og létu hann deyja drotni sínum þar sem hann var niður kominn. Þessi sjúki maður gat að vísu verið franskur veiðimaður, en eg ætlaði ekki að láta blekkja mig að ástæðulausu, svo að eg bað Pál að snúa aftur að þessu afskekta tjaldi.

Þögli virtist skilja það, að eg vildi helzt ekki láta Indíánana við tjaldstaðinn sjá til okkar. Hann fór því á snið umhverfis hæðina þangað til við vorum komnir yfir fyrir hana öfugu megin við tjaldstaðinn. Þá bað hann mig að bíða sín í gili meðan hann fór upp á klett til að litast um. Eg þóttist vita, að hann hefði ekki farið erindisleysu, því að þegar hann var kominn með höfuðið upp á móts við klettsbrúnina, þá skreið hann á bak við snjóhæð og blístraði lágt til mín svo að eg kæmi á eftir sér. Eg var ekki svipstund að komast upp til hans. Við vorum

þá ekki meira en svo sem tuttugu stangarlengdir frá tjaldinu. Þar virtist alt í dauða og dái. Tjaldskarirnar höfðu verið bundnar upp og varðhundur einn var bundinn við staur í miðjum dyrunum. Sólin var að ganga til viðar og sveipaði barlaus trén í dýrðarfagurri eldmóðu en yfir fannirnar í dalnum lagði bleikan og ljósrauðan bjarma. Á einum stað lagði dökkrauðu ljósölduna gegnum skógarþyknið og lenti hún á tjaldinu við hæðarbrúnina, svo að líkast var sem það væri litað breiðum blóðrákum. Ofurlítil gola, líkust fjalla-kalda, sem er einkenni hárra snæviþaktra staða, barst þangað upp frá skógunum og flutti með sér bergmál af röddum veiðimannanna. Sennilegt er að varðhundurinn hafi heyrt þann hávaða, eða þá að hann hefir fengið veður af nærveru okkar Páls, því að hann settist upp á afturfæturna, teygði upp trýnið og rak upp ámátlegt spangól.

"Æ! æ! monsjör," hrópaði leiðsögumaður minn skjálfandi á beinunum af hjátrúarótta og skelfingu, "veikur' maður veinar — veinar — veinar sárt. Hann deyr, monsjör, hann deyr, hann deyr þegar hundar góla svona," og yfirkominn af hræðslu þaut hann niður gilið og bandaði þegjandi til mín hendinni að koma á eftir sér.

Stundarkorn — ekki lengi að vísu — lá eg þarna einn og hlýddist um. Það gat verið að Páll hefði heyrt vein til sjúklings, en mér var ómögulegt að heyra neitt. Og eg ætlaði mér ekki að hverfa aftur til Herragarðsins fyr en eg væri búinn að fá full-

vissu mína um það, hvað væri í tjaldinu. Eg tók af mér snjóskóna og læddist að tjaldinu og ætlaði að þagga niðri í hundinum til fulls með stönginni minni, en alt í einu heyrði eg einkennilega þungar kvalastunur og nam staðar. Í sama bili varð hundurinn mín var og tók svo snögt viðbragð að við lá að hann hengdi sig í bandinu, og tók nú að gelta í mesta ákafa. Nú sá eg dökt höfuð, Indíána eða veiðimanns koma fram undan tjaldskörinni og kalla á óaðfinnalegri ensku — "Burt! Burt! Drepsótt! Drepsótt!"

"Hver hefir bóluveikina?" stundi eg upp úr mér.

"Veiðimaður, Norð-Vestmaður;" svaraði hann. "Ef þú hefir meðferðis bréf eða sendingu til hans, þá skaltu fleygja því þarna á snjóinn og eg skal svo sækja það."

Af því að eg var búinn að lofast til þess að aðstoða Eirík Hamilton í að leita konu hans þangað til hún fyndist, var eg ekki mjög ákafur í að hafa náin skifti við mann úr bóluveikistjaldi, svo að eg hraðaði mér aftur niður gilið og heimleiðsis með Þögla. En þegar hér var komið, varð mér það töluvert áhyggjuefni hve skjótt viðmót skólabróður míns fyrverandi hafði breyzt eftir að hann fékk bréfið og eins hitt hvað stóra Indíánakonan hafði haft nánar gætur á öllu atferli mínu. Annaðhvort var það, að eðlisávísun lík þeirri, sem leiðsögumaður minn var gæddur, og er jafnnæm á að greina hættu eins og fálmstungur skorkvikinda, lá í dái hið innra með mér og hafði vaknað af dvalanum sakir þess sem

gerst hafði í leitinni í tjöldum Indíánanna, eða að hugur minn hafði þroskast og orðið víðsýnni við að glíma við það viðfangsefni, sem eg var að reyna að leysa. Nú kom mér sem sé í hug sá hlekkurinn, sem vantaði í atburðakeðjuna, til þess að eg skildi hvernig stóð á bréfinu frá Kastalanum og áleitni Indíánakonunnar við mig, og hlekkurinn var — Adderly. Eg þóttist finna það á mér fremur en eg vissi það beinlínis, að Louis Laplante hafði leikið á mig. Hafði hann skrökvað í mig? Það eru jafnaðarlega viðvaningar, sem grípa til þess að skrökva í menn beinlínis. Þeir menn, sem eru reglulegir bragðarefir koma venjulega fram klækjum sínum á enn óheiðarlegri hátt en með beinum ósannindum. Og Louis var bragðarefur. Þó að eg hefði engar sannanir fyrir því, þá þorði eg að fullyrða, að Adderly Indíánakonan og Louis höfðu gengið í bandalag móti mér í einhverjum mjög óheiðarlegum tilgangi. Eg var nú að læra frumatriði veiðimannalífsins, en þau eru: að opna aldrei munninn um einkamál annara manna, og trúa aldrei öðrum manni, ef hann fer að segja manni frá einkamálum sínum.

---

## IV. KAPITULI.

*Af stað út í óbygðir.*

"Þú hefðir átt að steinrota þenna sóttvarnarhalds dela," sagði frændi minn afarreiður. "Eg

hafði verið að segja honum frá viðureign minni við Indíánana og bóluveikis sóttvörðinn. Gamli maðurinn var barn sinnar tíðar og hafði mestu skömm á öllum sóttvörnum.

"Já, steinrota hann," hélt hann áfram með miklum ofsa. "Já, þú ættir að gera þér það að fastri reglu, að steinrota hvern þann, sem sýnir þér mótþróa og—"

"En þú býst þó líklega ekki við," greip eg fram í og var rétt að því kominn að segja honum frá grunsemdum mínum.

"Býst við! " öskraði hann. "Eg hefi gert mér það að fastri reglu, að búast aldrei við nokkrum sköpuðum hlut. Eg byggi á sannreynd. Þú vildir fara inn í tjaldið og hvers vegna fórstu það þá ekki? Og því í fj.... steinrotaðirðu ekki þann, sem vildi hindra þig í því "

Frænda mínum hafði hepnast flest alt, sem hann hafði lagt fyrir sig, og þess vegna hugnaði honum illa mistök hjá öðrum. Eftir grandgæfilega mánaðarleit hafði enn ekkert fregnast um Miríam og drenginn hennar, og það gramdist frænda mínum mjög mikið. Við þóttumst fullvissir þess að óaldarflokkur Stóra djöfulsins mundi halda kyrru fyrir þangað til liðsveitir Norðvestræna félagsins legðu af stað í leiðangur sinn norður á bóginn, en við héldum áfram að leita í grend við Quebec og fundum ekkert. Flakkarar þessir mundu naumast dirfast að halda í eigu sinni þeim munum og fötum er Miriam og drengurinn höfðu haft meðferðis. Þeir mundu að

öllum líkindum skifta á þeim við aðra kynflokka; frændi minn, Eiríkur og eg höfðum því nánar gætur á öllum veiðimönnum sem voru á ferð nærlendis og biðu þess að ísa leysti; við og menn, sem í okkar þjónustu voru, höfðum vakandi auga á öllum vatnaferðamönnum, sem sátu dögum saman á veitingahúsum í Strandbænum, og hugðum vandlega að sérhverjum Indíána, er varð á vegi okkar og bjugg-umst ávalt við að reka okkur á Stóra djöfulinn og félaga hans. Við hugðum kostgæfilega að öllum mannaferðum um Charlesbourg-skógana og rannsökuðum hvert Indíána hæli í vikuleiðar fjarlægð frá borginni. Það var ekki líklegt, að stóri djöfullinn væri meðal hinna fornu fjandmanna flokks síns við Lorette, en það var ekki ósennilegt, að kynblendingar þeir, sem með honum höfðu verið mundu hafa átt kaup við Huron-Indíána. Verðir voru settir meðfram Lawrencefljótinu, svo að enginn skyldi geta komist yfir það á báti áður ísa leysti til fulls, án þess að við vissum um það. En Stóri djöfullinn og flokkur hans hafði horfið jafngersamlega eins og Miriam. Það var jafntorvelt að komast að því hvort Iróquóarnir höfðu farið, eins og veita vindinum eftirför. Það var jafntorvelt að gizka á hvað af þeim hefði orðið eins og konunni, og það styrkti grun okkar enn meira. Ef hann hefði selt eða tekið af lífi fanga sína, þá mundi hann ekki hafa legið lengur í felum, og ákefð okkar um eftirleitina óx því meir sem okkur gekk erfiðara.

Það festist í huga mér eins og vondur draum-

ur, að Louis Laplante hefði á einhvern hátt leikið á mig; hvað eftir annað skýrði eg frænda mínum frá öllu því, sem gerst hafði í leitinni í Indíána tjöldunum; en hann vildi ekki heyra það nefnt, að nokkrir mannræningjar hefðu dirfst að hafast við svo nærri Quebecborg og leyft mér hiklaust að kanna tjöld sín. Honum fór loks að gremjast þrákelkni mín þessu viðvíkjandi. Einu sinni trúði hann mér fyrir því, að eg væri eins ímyndunargjarn eins og karlæg kerling, og óskaði þess af miklum hita að guð gæfi að einhver lög væru í þessu landi, sem heimiluðu að skera á hásinarnar á öðrum eins bjálfum eins og Páli Lerocque, sem hefði leitt mig út í þessa dómadagsvitleysu.

Þrátt fyrir þetta og ýmsar fleiri ákúrur, lagði eg aftur of stað með Pál til fylgdar mér, og hitti aftur Indíánana hjá gilinu. Aftur fagnaði Louis mér þar og kannaði með mér öll tjöldin. Bóluveikistjaldið var þá horfið af hæðinni, og þegar eg fór að spyrja um sjúklinginn, benti Louis mér alvarlega en þegjandi á háan snjóhrauk þar sem maðurinn væri grafinn. En eg sá ekki stóru Indíánakonuna, né heldur manninn, sem komið hafði fram undan tjaldskörinni og sagt mér að bóluveikin væri þar inni; og þegar eg spurði eftir þeim, þá varð Louis þungur á brúnina. Hann sagði mér það umsvifalaust, að eg væri farinn að spyrja of margs og tók að þeysa út úr sér miklum blótsyrða gusum bæði á ensku og frönsku, og kvað mig beinlínis gera tilraun til að móðga sig. En eg vissi að Louis var mjög skap-

styggur. Eg vissi það frá fornu fari. Innan skamms skánaði þó mikið skaplyndi hans og hann sagði mér, að Indíánakonan og maður hennar hefðu haldið norður á bóginn og ætlað til fundar við Iroquóa er þar höfðust við. Af ummælum annarra komst eg að því, að eftir að þeir höfðu selt skinnavöru sína umboðsmönnunum í Kastalanum voru þessir Indíánar og flakkarar er Louis fylgdi að hugsa um að fara sömu leið norður innan fárra daga. Mig langaði svo sem að sjálfsögðu til að fá nánari fregnir af þeirri ferðaáætlun, en ekkert varð þó af því að það hepnaðist og sneri eg aftur til borgarinnar hér um bil jafnfróður eins og eg fór þaðan.

Eiríkur Hamilton unni sér engrar hvíldar allan þann tíma. Á morgnana sagði hann í fám orðum frá fyrirætlunum sínum þann og þann daginn. Á kveldin kom hann aftur ríðandi heim til Herragarðsins, og þá var augnaráð hans svo átakanlega spyrjandi, að eg þóttist vita, að leit hans hefði orðið árangurslaus. Hann snæddi síðan þegjandi og lagði því næst aftur af stað í nýja leit út í skógana. Mér er með öllu ókunnugt um það, hvar og hvernig hann eyddi nóttunum, því að lítils sem einskis svefn mun hann hafa unnað sér. Nú var liðinn mánuður og engar nýjar fréttir höfðum við fengið. Í gremju minni fór eg enn á ný að ræða þetta mál við frænda minn og kom honum í meira lagi í ilt skap með því að gefa í skyn, að Adderly hefði verið sá, sem skrifað hefði Louis Laplante bréfið frá kastalanum, og að það hefði

verið í því skyni gert, að tefja fyrir okkur í eftirleitinni.

"Þvættingur!" hrópaði frændi minn og stappaði niður fótunum í reiði. "Þér hefði verið nær að rota sóttvarnarmanninn."

"Það ert nú oft búinn að segja, frændi minn," svaraði eg með nokkrum þjósti, því að eg hafði það af ættinni að vera ekki alveg geðlaus heldur, "en þú vissir þó, að Adderly var fokreiður."

"Adderly hefir verið í Montreal síðan þeir áttust við, Eiríkur og hann. Eg ætla að vona, drengur, að þú hættir því að fjasa um þessa heimsku."

"En var bréfið ekki úr kastalanum?" spurði eg þrákelknislega.

"Jú, en hefirðu aldrei heyrt um það getið, Rúfus Gillespie,?" spurði hann, "að stjórnarumboðsmennirnir í kastalanum kaupa matvæli sín af veiðimönnunum."

"En það er ekki fullnægjandi skýring á grunsemd stóru Indíanakonunnar og framferði Louis."

"Já, hann Louis sá!" svaraði frændi minn. "Pú! Sá ræfill, afkomandi hrokafulls aðalsmanns! Reglulegt lítilmenni! Hann hefir ekki heila til að fylla út í eikarhnotuskel!"

"En hann gæti haft nógu mikið af illmensku til að bera til að gera öðrum manni óbærilega æfina," og þetta varð fyrsta andmæli mitt sem vann nokkurn bug á efagirni frænda míns. Hann einblíndi á mig stundarkorn eins og honum fyndist það ekki alveg vonlaust, að eg kynni einhvern tíma að geta

hugsað heilbrigða hugsun, og því næst fór hann að ganga um gólf.

"Hm! Ef þér er þetta svo ríkt í huga, þá held e að þú ættir að fara og grafa upp líkið af þessum bóluveikissjúklingi," sagði hann. "Og ef hann skyldi enginn finnast, þá—" og hann hnyklaði brýrnar í-skyggilega.

"Þá hvað?" spurði eg með ákefð.

"Þá ættirðu að koma þér í flokk með veiðimönnunum og reyna að hafa upp á þorparanum vestur frá," svaraði hann hiklaust. "Drottinn minn! Betur að eg væri yngri! Að hugsa til þess, að maður skuli vera orðinn svo feitur og þungfær, að ófær sé til að setja á sig þrúgur, þó að mann dauðlangi í svaðilfarir á ný!" Og frændi minn stundi þungan.

Enginn nema sá, sem sjálfur hefir lifað viltu og óháðu lífi veiðimannanna í Norður-Ameríku, getur skilið þær undarlegu töfrakendu endurminningar, sem í bili heilluðu nú hug gamla heiðvirða veiðimannsins, svo að hann gleymdi öldungis konunni ógæfusömu, er æfi mín varð svo nátengd. En eg, sem notið hefi hins dýrðlega frelsis í ríkum mæli meðan eg var ungur, eg get skilið hversu skotið hefir ört upp í huga hans endurminningunum um hættur og svaðilfarir, sigra og ósigra, um þær mannraunir, er hlæjandi er gengið mót dauðanum, og um rósamar stundir, sem benda manni á hið ómælanlega djúp eilífðarinnar. Og mála sannast er það, að þegar eg tók til máls, þá fanst mér eins og lífsstefna mín væri nú fastákveðin og sál mín fyltist þrótti til að heilsa

örlögunum. Eg hefi þá skoðun, að í hverjum manni búi einhverskonar leynd þrá til einhvers ætlunarverks, er mænt er eftir fram að hádegi æfinnar, og litið er aftur til með söknuði þegar fram yfir það hádegi er komið. Um spámannlega eðlisávísun, fyrirboða, hugboð og fleira því um líkt, ætla eg ekkert að tala. En það get eg sagt með sanni, hverju sem það verður tileinkað, að alla leiðina upp að gilinu, sem Páll fylgdi mér nú til í þriðja sinn, þóttist eg öldungis fullviss um, að enginn mannslíkami mundi finnast í snjóþöktu gröfinni á hæðinni, þar sem tjald bóluveikissjúklingsins hafði staðið. Hafði eg ekki fengið eins og vitrun um það, að eg ætti að lifa viltu og óháðu lífi norður í óbygðum Canada? Mér kom því ekki á óvart, er Páll rak rekuna hart í trékassa. Indíánar eru lagðir til hinnar hinstu hvíldar reifaðir í dýrahúðir. Ekki kom mér það heldur á óvænt, þegar fylgdarmaður minn sprengdi upp kassalokið, að hann var fullur vistum í stað þess að þar lægi mannslík. Þarna hafði eg fengið augljósa sönnun þess, sem eg vissi áður, að Louis hafði bæði í orði og athöfn — einkum þó í athöfn, svo sem siður er bragðarefanna — blekt mig á svívirðilegasta hátt.

Þegar ísa tók að leysa í Apríllok lögðu veiðimenn af stað til sumardvalarstaða sinna og vatnaferðamenn lögðu upp í hina árlegu för sína til Pays d' En Haut. Þetta ár hafði Húðsonsflóafélagið boðið út flota miklum undir leiðsögn Colin Robertsons, sem var ungur Norð-Vestmaður. Átti að halda flota

þeim til Rauðár-nýlendunnar um Ottawa og Sault í stað þess að fara inn í veiðilendurnar vanaleið um Hudsonsflóa og York Factory. Eftir hinni fyrri sameign Stóra djöfulsins og Norð-Vestmanna, var allra sennilegast, að hann yrði í flota Robertsons. Enginn fanst sá meðal allra vatnaferðamanna beggja félaganna, er betur kunni að stýra báti, en þessi brögðótti og þjófgefni Iroquói. Hann var öllum mönnum færari að sneiða hjá boðum og blindskerjum. Þrátt fyrir það, þó að það orð færi af honum, að hann hefði skaplöstu bæði hvítra manna og eirrauðra — en einmitt þess vegna mun honum hafa verið gefið það ljóta nafn, sem hann bar — var það ótrúlegt, að Hudsonsflóafélagið mundi vilja án hans vera, er það var að sækja sig í veðrið og beita sér fyrir alvöru gegn hinum volduga keppinaut sínum, og í þann veginn að senda öflugan flota frá Montreal til Athabasca, skipaleið Norð-Vestmanna. En svo gátu Norð-Vestmenn líka tekið þann kost að múta Iróquóum til að vera kyrrum hjá sér.

Þetta hvorttveggja höfðum við Hamilton gert okkur ljóst og réðum því af að veita flóttamönnunum eftirför norður á bóginn. Við gátum auðveldlega leigt hjálparmenn til að líta eftir Indíánaflokkum þeim, er höfðust við umhverfis Quebec. Eiríkur gat auðveldlega komist aftur í þjónustu Hudsonsflóafélagsins og eg komist í flokk þann, er Colin Robertson var foringi fyrir og átti að fara frá Lachine innan fárra vikna. Frændi minn hafði verið einn af helztu forkólfum Norðvestræna félagsins á yngri

árum, og honum hlaut að verða það auðgert að koma mér í þjónustu þess. Á þann hátt gátum við haft gætur á flotum beggja félaganna.

Það stóð ekki lengi á því, að Eiríkur kæmist í þjónustu Hudsonsflóa félagsins, og frændi minn kom mér fljótt á framfæri við félag sitt, og um leið og hann tilkynti mér það, klappaði hann á öxlina á mér og sagði: "Mér þykir vænt um þig strákur, eg vissi það, að þig mundi muna í veiðimanna ferðalögin!" Því næst nældi hann í vestisboðunginn minn stóran gyltan skjöld, sem stórmenni félagsins höfðu borið og letruð voru á orðin: "Hugprýði í hörmungum!" og þurfti eg oft síðar að halda á hvatningunni, sem fólst í þessum orðum.

Lénsherrar á miðöldunum munu aldrei hafa háð grimmilegri baráttu sín á milli heldur en þessi skinnaverzlunarfélög tvö norður í óbygðum háðu sín á milli á öndverðri nítjándu öld. Pierre de Raddison og Grosselier, báðir æfintýra herrar frá Nýja Frakklandi, fóru fyrst upp eftir Outawa- (Ottawa) fljóti til norðurs og héldu frá Superior-vatni til hins mikla ókannaða landflæmis milli Hudsonsflóa og Kyrrahafs, en forstöðumenn skinnaverzlunar-einokunarinnar franska dómstólsins í Quebec, sáu ofsjónum yfir þessu, og lögðu hindranir í veg þessara landkannenda. De Raddison neyddist til að leggja þetta þrætumál undir enskan dómstól, og enski dómstóllinn úrskurðaði, með því frjálslyndi, sem títt var á þeim tímum, að alt þetta landflæmi, með gögnum sínum og gæðum, sem þá voru alveg ókunn, skyldi koma í

hendur skinnaverzlunarfélagi nokkru, sem þá var nýstofnað, og hét "Félag æfintýramanna frá Englandi, er verzlun rekur við Hudsonsflóa." Með því nafni var félagið löggilt 1670, og var forseti þess fyrstur Rúpert prinz. Þó að einokunar-forstöðumennirnir í Nýja Frakklandi hefðu fyrir öfundarsakir látið Quebec missa þetta mikla ókannaða landflæmi, þá reyndi Frontenac sem fyrst að vinna það upp aftur. Jesúítamunkur nokkur, sem Albanel hét, gerðist forkólfur trúboða allmargra, er héldu vestur til Pays d'En Haut. De Raddison hafði tvisvar sinnum húsbónda-skifti, og þegar Quebec féll í hendur Bretum nærri heilli öld síðar, voru franskir skinna kaupmenn engu athafnaminni í skinnaverzlunarlöndunum, lengst norður í óbygðum, heldur en keppinautar þeirra, meðlimir hins forna og hávirðulega Hudsinsflóafélags; Englendingarnir héldu hópinn sem næst Hudsonsflóanum, en Frakkarnir, með *skóg-hlaupurum* sínum, leituðu lengra vestur, vatnaleiðina frá Superior-vatni og Winnipegvatni til Saskatchewan og Athabasca. Þá kom sigurvinningin. og af henni leiddi það, að verzlun Frakka eyddist norður í óbygðunum. En eftir urðu þar skóg-hlauparárnir, eða veiðimenn sem höfðust við í skógum, *metisarnir,* franskir kynblendingar, og *skóg-brennumenn,* sem hlutu nafn sitt af því, að þeir brendu sér vegi gegnum skógana. Á rústum frönsku verzlunarinnar kom upp og dafnaði ensk verzlun, og fyrir henni gengust einkum framtakssamir borgarar í Quebec og Montreal, og í lið með sér fengu þeir alt uppgjafalið gömlu

frönsku félaganna. Á þessari undirstöðu urðu til X. Y. félagið og Norðvestræna félagið, í byrjun 19. aldar. Norðvestræna félagið var þeirra styrkara og ötulla, og þess vegna hafði hið forna og hávirðulega Hudsonsflóafélag enn þá meiri ímugust á því.

Megn og mikil óvild hófst síðan milli lávarðanna í norðrinu, forstöðumanna þessara skinnaverzlunarfélaga, strax eftir að Norð-Vestmenn höfðu verið svo greiðugir að tilkynna Selkirk lávarði verzlunarleyndardóma félags síns; því að litlu síðar varð hann einráður í Hudsonsflóa félaginu, og tók kappsamlega að vinna að því að vekja það til starfa, með því að innræta starfsmönnum þess samskonar áhuga og verzlunaraðferð, eins og Norð-Vestmenn höfðu. Óvildin milli félaga þessara varð að lyktum áþekkust grimmleik barúna-ræningjanna á miðöldunum. Og þessi óvild var hvað ríkust þegar eg gekk í þjónustu Norðvestræna félagsins. Norð-Vestmenn höfðu haft hag af því að fara út fyrir gamla skinnaverzlunarsvæðið og halda djarflega norður í veiðilöndin, sem liggja norður með MacKenzie-fljóti. Þetta ár hafði Hudsonsflóafélagið fastráðið, að leggja norður í sömu veiðilöndin, og hafði ráðið gamlan Norð-Vestmann, Colin Robertson, til að vera fyrir stórum flota vatnabáta, sem fóru frá Montreal, og áttu að fara leið Norð-Vestmanna upp eftir Ottawa, vestur til Satkachewan og Athabasca. Hudsonsflóafélagsmenn áttu þess mikla hagræðis kost, að geta sent dýrskinn sín og grávöru beina leið til Englands austur um flóa, en Norð-Vestmenn urðu aftur á móti

að stríða við að koma skinnavarningi sínum öllum austur til Montreal, en það varð bæði tafsamt og harðsótt margsinnis. Eg hefi t. a. m. heyrt frænda minn segja frá því, að hann hefði eitt sinn sent pöntun til Englands í Októbermánuði. Sú pöntun var send frá Lundúnum í Marz og kom ekki til Montreal fyr en um mitt sumar. Þar var pöntunum skift í smáböggla, sem sendir voru með Norð-Vestmönnum í Maímánuði næst, svo að ef sendingarnar áttu að fara mjög langt út í óbygðir Norðvesturlandsins, mátti búast við því, að tvö ár færu í að senda pöntun til Englands og fá hana aftur senda. Þrátt fyrir þetta höfðu Norð-Vestmenn auðgast vel, en Hudsonsflóafélagsmönnum hnignað, þó að þeir ættu tíðra skipaferða kost.

Þegar Selkirk lávarður tók við stjórn Hudsonsflóafélagsins varð mikil breyting á. Þegar óvildin byrjar þá er oft mjög erfitt að segja hverjum hún er mest að kenna. Þetta játa eg. Hver getur skorið úr því, hvort Selkirk notaði sér ekki Bandaríkjastyrjöldina frá 1812 til 1814 til að hvetja félag sitt fram til sóknar, er vegir voru sem hættulegastir umferðar? Hver getur skorið úr því, hvort hann flutti nýlendumenn inn í mitt svæðið, sem um var deilt og tamdi þá til hermensku, til þess að vernda nýlendubúana, sem fyrir voru, eða hvort hann gerði það til þess, að eiga þar varnarlið handa Hudsonsflóafélaginu? Hver getur skorið úr því, hvort hann fékk félag sitt til að ánafna sér heilmikið landflæmi við ármót Rauðár og Assiniboine — en því andmæltu

allmargir hluthafarnir — af umhyggjusemi sakir þessara nýlendumanna, eða til þess að eiga þarna hagkvæmt vígi, er Norð-Vestmenn yrðu að fara fram hjá með flutninga sína? Þessi atriði hafa verið rædd mjög ítarlega og af miklum hita, bæði utan réttar og í, án þess að nokkuð ákveðið yrði sannað þessu viðvíkjandi, svo að eg leiði það hjá mér, að kveða upp nokkurn dóm um þau. Eg get að eins skýrt frá atburðunum eins og þeir komu mér fyrir sjónir, og læt svo öðrum eftir að dæma um þá, svo sem hverjum sýnist.

Árið 1815 áttu vatnabátar Norð-Vestmanna að leggja frá Ste Anne de Beaupré, tuttugu mílum austur af Quebec, í staðinn fyrir St. Anne við Ottawa, sem venja var að farið væri af stað frá. Við höfðum þar ekki allan mannafla okkar. Sumir Indíánarnir og kynblendingarnir höfðu farið landveg norðvestur um skóga til ákveðins staðar við Ottawa-fljót norðan við Chaudriere-fossa. Þar ætluðu þeir að bíða okkar, og vegna tillagna frænda míns fékk Eiríkur far með okkur upp að Lachine.

Eg hefi aldrei verið kænn kaupmaður, en áður en eg lagði af stað, bjó eg mig út með allskonar fánýtt glys og glingur, er eg gat ímyndað mér, að helzt mundi ganga í augu hinna innfæddu og líklegt að hægt mundi, að skifta á og leyndarmálum Indíána. En ef þetta glingur skyldi eigi duga, tók eg ennfremur með mér eina sex tinnu-lása, sem voru þeir dýrgripir að margur Indíáni mundi hafa viljað selja sál sína fyrir að eignast þá. Enn tók eg með mér

kassa með biturlegum veiðihnífum í, án þess þó, að eg hefði í hyggju að ná í höfuðskinn nokkurra Indíána. Alla þessa muni lét eg í stóran kassa, sem eg sat á, þegar við vorum á vatnabátunum en hafði hann undir höfðinu á nóttunni, og misti aldrei sjónar á honum nema þegar Indíánar urðu að bera af bátunum langar leiðir milli vatna.

Þó að ódjarfari og óæfintýragjarnari maður hefði verið heldur en eg var, mundi hann varla hafa lagt svo af stað í þessa vatnaferð, norður í óbygðir, með miklum fjölda ræðara, án þess að finna til metnaðar og feginleiks, líkt og ungur sveinn, er í fyrsta sinn losnar undan skóla-aganum. Þarna vorum við tuttugu samtals á hverjum vatnabát, skrifarar, skinnakaupmenn, einn stýrimaður og átta pílviðarlitir, kopargljáandi ræðarar. Enginn Austurlanda prinz hefir getað borið íburðarmeiri búning en þessir glaðværu ræðarar. Hárauðum vasaklútum höfðu þeir bundið um ennið og héldu þeir saman í skúf síðu, svörtu hárinu. Þeir voru í hjartarskinnstökkum, alsettum skinnkögrum um ermar og bryddum ljósleitum, litsterkum perlum. Stakkana höfðu þeir sveipaða fast að sér um mittið og bundna saman með skrautlindum, hárauðum, grænum eða bláum. Buxnasaumarnir voru og settir leðurkögrum til prýðis og sumir í liði okkar höfðu smábjöllur settar utanfótar frá hné og niður á ökla. Einkennileg sjón var að sjá þessa óbilgjörnu útilegumenn skóganna og sléttanna nema staðar hljóða utan við kapellu La Bonne Sainte Anne, gera krossmark fyrir sér, biðja um

vernd hennar á ferðinni, og leggja einhvern ofurlítinn skerf í féhirzluna áður en þeir fóru brott og settust undir árar í bátunum sínum. Einn Indíáninn afhenti prestinum í fordyri kapellunnar smá-mynd af bát, skorna í tré. Það var áheit handa dýrðlingnum og er til sýnis í kapellunni enn í dag.

Þegar við vorum að stíga út í bátana tók eg eftir því, að Eiríkur hafði ekki komið til móts við okkur og bátarnir lögðu frá landi og biðu ferðbúnir brottfararmerkis leiðsögumannsins. Eg hafði síðast séð Eirík á kirkjutröppunum, og hljóp því þangað til að forvitnast um hann. Eiríkur er ekki kaþólskur; hann er ekki heldur mótmælenda trúar; samt vildi eg ekki að menn kendu trúarskorti um ólán hans en norður í óbygðunum firnast trúflokka einkennin, og betri mann en hann hefi eg aldrei þekt. Mig furðaði því meir en lítið á því að mæta honum í kapelludyrunum, þegar eg kom þar, með tárin í augunum og með rykbletti á hnjánum af gólfinu. Kvenfólk veit hvað gera á og segja skal þegar svo ber undir. En karlmaður verður að þegja, ef hann ætlar ekki að hlaupa á sig; svo að eg lét mér það nægja að smeygja hendinni undir handlegginn á honum og leiða hann þegjandi niður til bátanna.

Leiðsögumaðurinn brá einu sinni upp hendinni og samstundis skullu árablöðin í vatnið með fögru samræmi. Þá kyrjaði einn ræðaranna upp þjóðsögukvæði og hinir ræðararnir tóku undir og streittust við að róa eftir hljóðfallinu. Allur dalurinn virtist fyllast af röddum þessara rómsterku söngvara og

ómur klukkunnar í Ste Anne kapellunni bar okkur síðustu, unaðslegu brottfararkveðjuna.

"Hertu upp huginn, vinur minn!" sagði eg við Eirík, þar sem hann sat og horfði í gaupnir sér. "Vertu hughraustur! Heyrirðu ekki klukknahljóminn? Það er þér fyrirboði hamingjusamrar ferðar!"

---

## V. KAUITULI.

*Menningargljáinn máist af.*

Frændi minn fylgdi okkur til Lachine, og var í sömu bátadeildinni eins og eg. Mörg voru þau aðvörunarorð og ráðleggingar, sem hann sendi mér eins og þrumufleyga þegar bátar okkar voru samhliða.

"Ef þú skyldir ná í þann *skunk,*" sagði hann og átti þar við Louis Laplante, "þá láttu sjá, að þú sért enginn afglapi. Fláðu hann, drengur, já, blessaður fláðu hann, fláðu hann miskunarlaust! Farðu eftir því sem þér sýnist sjálfur, og láttu hann fá sín makleg málagjöld! Launaðu honum svikin! Hann ætti það skilið þó að þú skildir við hann í snörunni. Náðu markinu, sem þú ætlar þér! Þegar það hefir hepnast, þá er hægt að gleyma og fyrirgefa, ef svo slæst, en í öllum bænum gleymdu því ekki, að engin hirting getur breytt skunk í meinlausan kött!"

Og þannig hélt frændi minn áfram að leiðbeina mér alla leiðina á milli Quebec og Montreal með

margskonar mismunandi orðatiltækjum. En mér hafði fyrir löngu lærst það, að forðast öll mótmæli þegar hann þeysti út úr sér slíkum mælsku-rokum— jafnvel þó að öllum frumreglum þeirrar bókvísi væri misboðið, sem kend hafði verið í Lavalskóla. "Hættu öllu þvaðri!' 'orgaði hann einu sinni þegar eg á skólaárum mínum og upp með mér af þekkingu minni hafði dirfst að andmæla honum. Hættu ollu þvaðri! Þér er ekki til neins að ætla að sannfæra mig með skjalaskrumi og orðagjálfri! Á maður að hafa málið í þjónustu sinni, eða á maður að ganga í þjónustu þess?" og síðan tók hann að hafa upp fyrir mér langa þulu úr einmæli Hamlets, sem hafði þau áhrif á mig, að eg afréð að geyma mína vizku eftirleiðis. En eins og eg gat um fyr hélt frændi minn áfram að þylja yfir mér ráðleggingar sínar, áður en eg lagði af stað út í þessa æfintýraferð. "Þessi strákur er asni,' 'hélt hann áfram og átti við Louis "og þú ættir að láta hann fá réttmæt laun heimsku sinnar!"

"Flestir menn eru bjálfar í byrjun en verða síðan þorparar, af því að þeir hafa verið bjálfar," svaraði eg frænda mínum, "en eg ímynda mér að Louis Laplante sé kominn af bjálfastiginu og sé orðinn fullgildur þorpari."

"Má vel vera," svaraði hann, "en gleymdu því ekki, að jafnan er svo mikið eftir af bjálfaskapnum í þorparanum, að hann gefur færi á sér, ef maður er nógu slingur að sæta því. Snúðu í styrjöldina, drengur! Beittu sverði þínu þar djarflega."

Að ógleymdum þessum hvatningarorðum frænda míns, man eg lítið eftir ferðinni upp eftir Lawrence-fljótinu frá Ste Anne til Lachine, er Eiríkur sat þögull og þungbúinn andspænis mér. Við fórum svo sem að sjálfsögðu eftir fljótstrengnum milli Orleans-eyjar og norðurbakkans; og þegar bátar okkar færðust nær fljótsbakkanum lagði svalkaldar gust strokur móti okkur úr saggafullum giljunum, af snjófönnum, sem lágu þar enn í skugganum. En þegar flotinn færðist nær eyjunni, lagði móti okkur angandi gróðrarilminn úr snjólausri rakri moldinni og eins og óljósan fyrirboða fjólna, maíblóma og burkna, er skjóta kollum upp úr svartri gróðrar-moldinni. Að norðanverðu liggja purpuralitar lægðir hæðanna eins og enn í dag, með ójöfnum, sem blána í fjarlægðarmóðunni, og alstaðar á hæðunum blöstu við hin hvítu kot íbúanna og smáþorp, þar sem kapelluturnarnir gnæfðu upp yfir trjátoppana. Þegar við komum að vesturenda eyjarinnar og bátunum var stýrt miðstreymis heyrðum við ráman þungan fossanið og upp með norðurbakkanum reis hár úðamökkur. Í einu árartogi vorum við komnir á móts við gjá í snarbröttum klettum, og fram af svimháu hengifluginu byltist Montmorency fossinn, hvítur og úfinn, þyrlaðist upp við fallið, valt og geystist fram í ána eins og óarga dýr eftir bráð.

Nú vorum við komnir fram hjá Orleans-ey, en fram undan sáum við nú rísa hinar bröttu hæðir Point Louis; innan skamms beygðum við til hægri handar og hægar skolavatnslitar St. Charles-bylgj-

urnar vögguðu bátum okkar og nú var að sjá inn á Quebec-höfnina, eins og í þéttan skóg siglutrjáa, ráa og blaktandi segla. Vígisveggir Quebec þeirrar, sem nú er, voru þá ekki til, en í þá daga virtist okkur full-tilkomumikillar óásjálegu víggirðingarnar, sem hallaði niður frá háreista kastalanum á Demantshöfða og umgirtu alla borgina hæðarmegin.

Það var orðið álið'ð dags, þegar við fórum fram hjá Sólarbjarmann lagði yfir þvera Saint Charles, svo að stirndi á dökkgráa steinveggina í kirkjum og klaustrum, en allir gluggarnir mót vestri urðu fagurrauðir eins og í eldglóð sæi og allir turnar, smáir og stórir, glitruðu eins og skíra gull; svo að ekki var að undra þó að þessi ruddalegi ræðaraflokkur legði upp árar og hefði bæn fyrir munni sér um farsællega ferð, mænandi augum á turn Notre Dame kirkjunnar. Og eg vissi naumast af sjálfur fyr en eg hafði tekið ofan, og sama gerðu þeir frændi minn og Eiríkur. Síðan féllu ræðararnir aftur á árar. Bátarnir dreifðu úr sér. Við rerum fyrir Demantshöfða, og langur skugginn af háum höfðanum féll á fljótð fram undan okkur. Hið breiða Lawrencefljót virtist liggja í óteljandi bugðum milli purpuralitra höfðanna; í sólskini var það eins og fagur spegill milli skuggasælla skógivaxinna bakkanna, en á nóttum í tunglsljósi var það eins og sæi í bráðið silfur. Dagurinn varð að kveldi, og nóttin að morgni, og á hverri stund sólarhringsins breyttist útsýnið, er í ljós komu nýir skógar, nýjar hæðir og nýir vatnastrengir. Sumstaðar breikkaði fljótið og

varð að stöðuvatni, sumstaðar féll það mjótt í stríðum strengjum; loks komum við til Lachina — La Chine, er hugrakkur landkönnunarmaður nokkur, La Salle, hafði nefnt svo í spaugi, því að hann hugði, að hann mundi komast til Kína eftir þessari víðtæku vatnaleið.

Í Lachine skildi frændi minn, Jack MacKenzie, við okkur. Var þó auðséð á honum, að hann tók það nærri sér að hverfa aftur, því að hugurinn var fús til að leggja í mannraunir óbygðanna, þó að hann væri ófær til þess fyrir elli sakir. Þarna kvaddi Eiríkur mig og með handabandi, hljóður og þungbúinn, til að ráðast í flokk Hudsonsflóa félagsins, undir forustu Colin Robertsons.

Mér hefir aldrei getað skilist það, hversvegna keppinautar okkar sendu þenna flota til Athabasca leiðina um Lachine í staðinn fyrir Hudsonsflóa leiðina sem þó var um tvö þúsund mílum styttri. Við Norð-Vestmenn urðum að láta Montreal vera aðalstöð okkar, því að þaðan gátum við að eins komið vörum okkar til sjávar. En Hudsonsflóa félagsmenn höfðu aðal bækistöð sína við Hudsonsflóa. Þó að þeir með þrælslegri lítilmensku hefðu tekið upp þær aðferðir, er höfðu orðið okkur svo stórum hagvænlegar, þá gat eg ekki skilið í því, hvers vegna þeir fóru að sæta óþægindum okkar líka. Auðveldast var að vísu, að afla sér birkibáta og góðra ræðara sem næst Quebec, en með góðri fyrirhyggju var auðið að útvega hvorttveggja tvö þúsund mílum nær York Factory við Hudsonsflóa. Það sem eg hefi

komist næst er það, að þeim hafi gengið það helzt til að læra verzlunaraðferð Norð-Vestmanna með því að ráða til sín menn, sem verið höfðu í þjónustu þeirra. Colin Robertson foringi þessa leiðangurs hafði meðal annars verið Norð-Vestmaður; og allir þeir menn, er hann hafði yfir að segja, að undanteknum Eiríki Hamilton, voru liðhlauparar, "tveggja handa járn," að því er okkur sýndist. En eg ætla að vera svo sanngjarn að játa, að hvorugt félagið gat lagt sig meir fram en það gerði, um að ginna burt frá hinu gamla veiðimenn, og reyna þannig að komast yfir launungarmál hins. Eftir ráðleggingum frænda míns leitaðist eg við að afla mér allra þeirra upplýsinga, sem eg gat. Ef Hudsonsflóa félagið hefði vitað um það alt, býst eg við, að eg hefði verið kallaður njósnarmaður. Sjálfur taldi eg alla þá njósnara, sem leituðust við að komast yfir leyndarmál okkar. Hluthafar í Norðvestræna félaginu áttu að koma saman á allsherjar fund við Fort William, við Superiorvatn. Og eg komst að því, að Robertson var umhugað um að koma flota sínum fram hjá höfuð bólstað okkar við Fort William, áður en sá fundur yrði. og ætlaði að leggja af stað þenna sama dag. Sömuleiðis heyrði eg. að þeir hefðu sent hraðboða á undan okkur til foringja Hudsonsflóa félagsins í Fort Douglas, til að láta hann vita um komu flota þeirra.

Eg hafði naumast veitt því nokkra eftirtekt fyr en við vorum komnir á stað upp eftir Ottawa fljótinu fram hjá öðrum, þriðja og fjórða staðnum, sem

kendur er við St. Anne, því að hún er verndarengill vatnaferðamanna og eru margir staðir við hana kendir í Canada, og nafni hennar stráð um landabréfið eins og blekblettum á skrifbók skólapilts. Fram hjá öllum þeim stöðum, sem kendir eru við þenna dýrðling, hafa vatnamenn einhvern tíma farið fram og aftur. Sumstaðar rann áin fram hjá okkur eins og olíuflóð eða glermóða og sýndist straumþunginn svo mikill, að hann gáraðist hvergi við bakkana En á öðrum stöðum mynduðust hringiður í ólgandi vatnsstrengjum og beygðu ræðarar okkar sig þá ávalt mjög áfram og stundu þungan undir róðrinum. Af því fór eg að geta ráðið þegar við vorum að fara móti þungum straumi neðan við fossa eða hvítfyssandi vatnastrengi. Þá leið sjaldan á löngu að lent yrði, og borið af bátunum kippkorn gegnum þétt skógarkjörr eða sleipa raka kletta. Bátana varð einnig að bera upp fyrir fossana eða strengina, og þegar ýtt var aftur á flot tóku bátarnir nýjan og mikinn skrið. Slík ferðalög, langvinn og örðug höfðu gert Norð-Vestmenn fræga vatnaferðamenn. Þetta var starfið, sem forstöðumenn félags þeirra kröfðust af þeim. Þar sem áð var, fengu ræðararnir vel í staupinu og fæði betra — kjöt og brauð — en venja var til hjá öðrum skinnaverzlunar-félögum. Hver einasti maður í okkar hópi gerði sitt ítrasta til að komast sem lengst á undan hinum djörfu keppinautum, sem eftir okkur komu. Hluthafar félags okkar áttu að koma saman í Fort William snemma í Júní. Við höfðum fastráðið að gera félagi okkar kunnugt

um komu flota keppinauta okkar, og að öllu samtöldu áttum við ekki nema mánaðartíma, til að komast þvert yfir alt meginlandið.

Um dagsetur fjórða dagsins eftir að við lögðum af stað, eftir níu mílna þreytandi ferðalag fram hjá Chaudiére fossum í Ottawafljóti, sáum við blika við elda á fljótsbakkanum öðrum, fram undan okkur, og voru þar félagar okkar, sem biðu eftir okkur. Þeim var þegar skift niður á bátana og ráðstafað svo, að þeir héldu áfram róðrinum á nóttunni. Svarta myrkur var því nær komið þegar fundum okkar bar saman, en þegar leiðsögumaðurinn kallaði á mennina hvern á fætur öðrum með nafni, þá aðgætti eg hvern um sig þessara gulmórauðu manna, er þeir skipuðu sér, hver á sinn stað í bátunum; og svo liðlega gerðu þeir það, eins og Indíána er siður, að bátarnir högguðust varla nokkra vitund. Á bátinn til mín kom lágur og gildur maður, sem hét Litli-Karl. Hann var góðmannlegur, síbrosandi og virtist vera mesta karlmenni, þó að hann væri ekki hár í lofti. Félagi hans er með honum kom hét Svarti-Kufl. Hann var hár vexti, herðamikill, alvarlegur og fátalaður. Fimm eða sex fleiri menn bættust við þar að auki á minn bát, en eg gat ekki heyrt nöfn þeirra, í hávaðanum, sem var. Einn þessara manna var hár vexti, fallega limaður og mjúkur í öllum hreyfingum; augun voru hvöss og kænskuleg, og tindrandi eins og höggormsaugu. Þessi ræðari settist að baki mér og varð þegar hljóður, rétt eins og hann svæfi.

Nú var brottfararmerki gefið og bátarnir lögðu

í einum flota út á miðja ána. Eg vafði mig innan í ábreiðu, hálfskorðaður milli farangurs-stranga, sogaði að mér hreina loftið, þrungið skógarilminum og féll í mók. Hægur vatnsniðurinn og beljandi straumþunginn, sem eg hafði heyrt um daginn, kvað enn við í eyrum mínum og þytur náttvindarins um skóginn var líkastur þungu öldufalli að fjarlægri strönd. Eg var milli svefns og vöku og fanst eins og sedrusviðirnir, aspirnar og klettarnir væru að þreyta æðislegt kapphlaup á árbökkunum. Það er ekki þægilegt hvílurúm þar sem maður verður að liggja hálfskorðaður; og einmitt vegna þess, hve illa fór um mig hefir mig sjálfsagt dreymt illa. Hvað eftir annað fanst mér, að Indíáninn á bak við mig væri orðinn að höggormi og vefðist í mörgum bugðum um brjóstið á mér. Eg hrökk upp og ætlaði að fara að hrista hann af mér. Þegar eg opnaði augun sá eg að ábreiðan var komin ofan af mér og skammbyssu-beltið spent af mér. Eg hallaði mér út af aftur, og var rétt að síga í brjóstið á mér þegar eg fann glögt að mannshendi var með hægð stungið inn undir ábreiðuna hjá mér og að handfanginu á daggarðinum, sem eg bar við belti mitt, var spent af mér. Eg sló fast til þessarar handar, hitti ekki en hruflaði mig aðeins á daggarðsskaftinu. Nú var eg glaðvaknaður og sneri mér reiðulega að Indíánanum. Hann var nákvæmlega í sömu stellingum eins og þegar eg fór að sofa. Maðurinn svaf ekki, en hallaði sér aftur á bak kæruleysislega, rétt eins og hann hefði gleymt því, að eg væri til. Höfuðið var

keyrt aftur á hnakka og hann mændi stálhvössum, djarflegum augunum upp til stjarnanna.

"Verið getur, að það hafi ekki verið þú, illilegi þrjóturinn þinn," sagði eg við sjálfan mig, "en höggormar hafa vígtennur; þess vegna ætla eg að hafa gát á þér eftirleiðis, kunningi."

Eg svaf ekki meira þá nóttina. Daginn eftir spurði eg þenna náunga að heiti og svaraði hann mér með langri þulu indíanskra orða, svo að eg var engu fróðari eftir en áður. Eg sagði honum reiðulega, að hann yrði héðan af að heita Tom Jones meðan hann væri á mínum bát; hann svaraði engu, en gaut til mín augunum illilega.

Við héldum áfram viðdvalarlaust. Og róðurinn var sóttur knálega eins og títt var hjá Norðvestræna félaginu. Þegar kom að afrensli Nipissangue-(Nippising) vatns, leit út fyrir að töf yrði sakir illviðris. Forstöðumenn fararinnar vildu halda áfram, en þrumuskýin þéttust og vindurinn óx; leiðsögumaðurinn reiddist og stýrði alt í einu bát sínum umyrðalítið upp á sandeyri við árbakkann.

"Fari það b...." hrópaði hann, og benti fyrst á skýjabakkann, og síðan á krossa þar á árbakkanum, sem báru vitni um örlög nokkurra vatnaferðamanna. "Þó að þið viljið halda áfram, þá vil eg það ekki. Sjáið þið ekki, að það er mesti lífsháski?"

Í þessu skall á feikna mikill bylur, sem kubbaði sundur stórar eikur rétt eins og viðarhöggsmaður kvistar sundur uppkveikjuvið. Bátunum var þá strax lagt að landi, og tjargaður segldúkur breiddur

ofan á farangur okkar. Reynt var að reisa tjöld, en áður en tókst að reka niður tjaldhælana, dundi á helli skúr, og gerði okkur alla holdvota. Um sólsetursleytið hafði stormurinn snúið sér til suðausturs og við hugguðum okkur við það, að þetta veður mundi verða Hudsonsflóa félagsmönnum engu síður til tafar en okkur. Það var auðséð, að við urðum að hafa þarna náttstað. Það er of hættulegt að fara fram hjá Point á la Choix á bátum, til þess að nokkur reyni það í svarta myrkri. Við tókum því að kveikja eld. Það gekk lengi vel tregt, en loks hepnaðist það og blossinn af báli okkar stóð langt upp á loftið og við röðuðum okkur utan um eldinn.

Bjarminn af eldinum vakti athygli Indíánanna, sem bjuggu við vatnið. Frá tjaldstöðum sínum við Nipissangue vatn þyrptust nú til okkar Indíanar, kynblendingar og stríðhærðir hvítir menn — úrkynjaðir veiðimenn, sem allur siðmenningarbragur var horfinn af, höfðu gengið að eiga Indíanakonur og gengið í bandalag við Indíána. Innan skamms færðu hinir innfæddu sig brott frá eldinum, svo að þeir yrðu hvítu mönnunum ekki til ömunar. Þeir höfðu annaðhvort betlað sér eða stolið víni frá skinnakaupmönnunum. Ferðin frá Ste Anne hafði verið erfið og þreytandi og þá var nú farið að langa í hressingu — óstýrilátan drykkjuveizluglaum að þeirra sið, sem sjálfsagt var að bæði dans og áflog fylgdu.

Eg lá flatur utan við tjald okkar og virti fyrir mér þessar afkáralegu myndir, hlaupandi og dansandi milli bálsins og dimmra skóganna. Sýndust

mér þær því líkastar, sem þær væru af djöflum skógarins. Og er eg hlustaði þá á þyt skógarins og vatnið, sem gjálpaði við malargrjót fljótsbakkanna, andaði að mér loftinu angandi af ilmi votra aspanna, sem örfaði blóðrásina eins og áfengi, fór eg að hugsa um hvað mörg ár maður mundi þurfa að búa við þetta óbrotna skógarlíf, til þess að allur menningargljái máðist af, og maður gerði sér að góðu dvölina í eyðilegum skógunum. Litlu síðar varð eg þess var, að skuggalegi ræðarinn minn var í þessum hópi hinum megin eldsins. Hann hafði ekki tekið þátt í svallinu með hinum ræðurunum, heldur sat á hækjum, að austurlenzkum sið, og starði í eldinn eins og í leiðslu.

"Hvað skyldi ganga að þessum náunga?" sagði eg við gamlan skinnakaupmann, sem var að draga síðustu reykjardrögin úr pípu sinni.

"Það er heimþrá í honum," svaraði hann stuttlega.

"Finst þér ekki, að hann vera fullnærri heimkynni sínu í skógunum, til þess að vera ánægður?" spurði eg. "Hvar er kynflokkur hans?"

"Það er ekki kynflokkur hans, sem hann þráir," svaraði skinnakaupmaðurinn.

"Og hvað er það þá?" spurði eg.

"Það er konan hans, sem hann er hugsjúkur yfir að vera skilinn frá.' 'svaraði skinnakaupmaðurinn og tók út úr sér pípuna.

"Þvættingur!' sagði eg og hló. "Það er ekki ólíklegt, eða hitt þó heldur, að Indíáni sé hugsjúkur

eða taki sér nærri, að vera ekki samvistum við kerlingu sína, einhverja spikfeita leiðindanorn! Því er mér ómögulegt að trúa."

"Mér er sama hvort þú gerir það eða ekki," svaraði skinnakaupmaðurinn, "það er satt samt. Kona hans er dóttir Sioux-höfðingja. Hún lagði af stað langt norður í land með kynblendingum nokkrum og veiðimönnum í fyrra mánuði, og síðan hefir maður þessi verið eins og utan við sig."

"Hvað heitir hann?" spurði eg um leið og sá er við mig hafði talað var í þann veginn að hverfa bak við tjaldið.

Sömu óskiljanlegu Indíána-samstöfurnar komu á ný, sem eg hafði heyrt Indíánann hafa yfir skömmu áður. Eg tók þá aftur að horfa á skrípaleikana út við skóginn. Einn maðurinn virtist nokkuð frábrugðinn hinum. Hann var að láta Indíánana fylkja sér í halarófu til að byrja að stíga dans. Það var einhvers konar villimannsleg foringja-tign í öllum tilburðum hans, öldungis ólík höggormslegum hreyfingum Indíánanna. Alt í einu sneri hann vanganum við eldsbirtunni og sá eg þá, að hann hafði málað skegg á sig. Hann var ekki Indíáni. Í sömu svipan fékk eg þá eitt þeirra óhugsuðu hugboða, er ganga á undan eða stafa af hægfara hugarhræringum. Var þetta kannske hraðboðinn, sem Hudsonsflóa félagsmenn höfðu sent á undan sér og hafði tafist eins og við vegna illveðursins? Þessi grunsemd var naumast vöknuð hjá mér þegar Indíánarnir tóku til að syngja, lágan, þreytulegan söng, sem lét illa í eyrum,

og var líkastur röddum skógarins. En indverska bumban var barin, fyrst hægt og síðan smátt og smátt hraðara og um leið tóku Indíánarnir að stíga mjög ruglingslegan hringdans, sem eg átti bágt með að fylgja með augunum, en við að sjá hann vöknuðu í huga mínum endurminningar um snáka, sem vöfðu sig í mörgum hlykkjum utan um nakinn líkama á egypskum höggorma- tamningamanni. Bumban er barin enn harðara. Raddirnar, sem voru fyrst lágar, hækka, verða skrækróma, æstar og æðislegar, og hin hæga ganga verður að hlaupi; svo verður hraða hlaupið að flóknum stig-dans, sem ekki verður skýrður á vora tungu, en mér fanst svipaðastur ormaskriði um laufahrúgu. Hávaði, hringsnúningur og brettur dansendanna varð óstjórnlegra, og í miðjum hringnum, sem dansendurnir mynduðu, stóð hvíti maðurinn, með málaða skeggið, hlæjandi, hrópandi og veifandi til handleggjunum fram og aftur eins og vitfirringur. Og eigi leið á löngu áður dansendurnir hættu dansinum og gáfu sig taumlauslega á vald hinum viltu fýsnum síns vilta eðlis í hinni viltu náttúru. Og þar varð svo taumlaus og dýrsleg glaðværð. að annað eins hefi eg aldrei séð. Æstu skrípalætin í þessum börnum skógarins, áköf, óstjórnleg og nærri því grimmileg, líkt og leikur ólmra úlfa, gerðu mig nærri því höggdofa. Leiddur af megnri forvitni, sem margan skinnakaupmann hefir teigt á glapstigu, reis eg á fætur og gekk inn í þröng þessara háværu skuggalegu náttúrubarna. Í því kom maður nokkur þjótandi út úr skóginum og hljóp beint í

fangið á mér. Það var sá með málaða skeggið, sem mig hafði grunað að væri njósnari Hudsonsflóafélagsmanna. Eg var skjótur til úrræða og brá fæti fyrir hann, svo að hann féll endilangur til jarðar. Birtan féll framan í hann, af því að hann lá upp í loft. Það var Louis Laplante, svikarinn og bragðarefurinn. Hann hreytti úr sér einhverjum ónotum og settist upp. Þá þekti hann mig.

"Hver skollinn!" tautaði hann í hálfum hljóðum og var auðséð að hann var fokreiður. "Ert þú hér, Gillespie?' 'spurði hann síðan og varð kæruleysislegur eins og hann átti að sér. "Eg verð að biðja þig afsökunar, eg viltist á þér og einu trénu hérna."

"Ekki fer þér aftur með ósvífnina,' 'svaraði eg. "En reyndu nú að komast á fætur," bætti eg við eins kurteislega eins og mér var mögulegt, og rétti honum höndina til að létta undir með honum; eg fann þá að lófinn á honum var brennheitur og handleggurinn á honum titraði. Þá sá eg að Louis var drukkinn og gaf nú einmitt færið á sér svo sem frændi minn hafði bent mér á að nota.

"Tra-la!' sagði hann með móðgandi tilgerðarsvip. "Tra-la, gamli þorskhaus! Vertu sæll, greybjálfinn! *Au-revoir* ræfill! *Adieu,* þöngulhaus!" Að svo mæltu hneigði hann sig afar afkáralega og hvarf inn í hóp dansendanna.

"Vaknaðu, félagi!" hrópaði eg um leið og eg hljóp inn í tjaldið okkar og vakti gamla veiðimanninn, sem eg hafði átt tal við um ræðarann minn. "Vaknaðu maður!" sagði eg og hristi hann til.

"Hér er njósnari Hudsonsflóa félagsmanna!"

"Njósnari!" hafði hann eftir mér og svifti ofan af sér elgsdýrsfeldinum. "Njósnari! Hver er það?"

"Það er Louis Laplante frá Quebec."

"Louis Laplante?" endurtók skinnakaupmaðurinn. "Franskur maður í þjónustu Hudsonsflóafélagsins! Laplante, veiðimaður með þeim! Sá þorpari!" Og hann bannsöng Louis niður fyrir allar hellur.

"Hægan, hægan!" kallaði eg og greip til hans. Hann ætlaði að hlaupa að Louis með barefli. "Hann er kominn í bandalag við Indíána, sem búa hér við vötnin."

"Eg skal jafna um hann." sagði skinnakaupmaðurinn. "En hvernig geturðu vitað að hann sé njósnari?"

"Eg veit það reyndar ekki fyrir víst," svaraði eg hikandi, því að eg hafði engar sannanir fyrir þessum grun mínum, "en mér datt í hug, að það væri vissara að prófa þenna náunga. Ef mér hefir skjátlast, þá má sleppa honum aftur."

"Eigum við að handtaka hann?" spurði skinnakaupmaðurinn.

"Já, það hafði eg hugsað mér.' 'svaraði eg.

"En það verður ekki auðgert."

"Hann er þó dauðadrukkinn."

"Drukkinn! Er hann drukkinn?" spurði félagi minn og hló "Hann skal verða enn drukknari," svaraði hann og fór að þukla fyrir sér eftir flöskum í farangri okkar. Síðan fór hann að raula ósköp

lágt, líkast malandi ketti, nýbúnum að slátra mús.

"Veita skal Rauðskinnum vínið sem má,
Vín skulu beiningamennirnir fá,
Allir við lært höfum listina þá
Að leika á bófann og silfrinu ná."

"Hvað hefirðu hugsað þér að gera?" spurði eg hikandi, því að eg þóttist vita, að skinnakaupmaðurinn væri albúinn þess að taka ómjúkt á Louis.

"Ertu hræddur eða hvað? Það fer fljótt af þér, eg ætla að leika á hann, þenna veiðimann og njósnara Hudsonsflóa félagsins á Norð-Vestmanna vísu. Komdu niður að sandeyrinni milli fljótsins og skógarins eftir svo sem eina klukkustund, og þá skal eg geta sagt þér einhverjar fréttir"; að svo mæltu rauk hann fram hjá mér með eitthvað í fanginu, en eg gat ekki séð hvað það var vegna þess hvað dimt var..

Nú var það í fyrsta sinni, að eg fékk samvizkubit af atferli mínu, eftir að eg gerðist skinnakaupmaður, og var mér það næg refsing fyrir aðgerðir mínar þetta kveld. Eg þekti félaga minn nógu vel til að vita, að hann hafði með hinum alkunna hvatleik skinnakaupmanna ráðist í að gera eitthvað, sem ekki var réttlátt. Eg varð eftir í tjaldinu og tók að jafna saman í huganum sviksemi Louis og þeirri refsingu, sem við mundum láta hann sæta, og jafnframt hagsmunum okkar af því og óhagræðinu, sem Hudsonsflóa félagið mundi bíða. Það er að vísu ekkert ánægjuefni að rifja upp það, sem gerðist á sandeyrinni milli sedrustrjánna og fljótsins. Mér kemur ekki til hugar að reyna að réttlæta aðgerðir

okkar. Er læknirinn vanur að reyna að verja tilraunir, sem hann gerir á glæpamanni í þarfir vísindanna, eða fórnarpresturinn að verja það að syndahafrinum er slept á eyðimörkina? Nægilegt er að geta þess, að þegar eg kom niður á sandeyrina, sat Louis Laplante þar og utan um hann heilmikið af tómum vínflöskum; hjá honum sat félagi minn, skinnakaupmaðurinn, og var að reyna að fá Louis til að drekka meira. En í hvert skifti, sem Louis helti í sig úr fullu vínglasi, steypti skinnakaupmaðurinn úr sínu glasi yfir öxlina á sér, og var ódrukkinn eftir sem áður, en hinn gerðist æ druknari og skrafhreifnari. Norð-Vestmaðurinn gaf mér vísbendingu um að færa mig nær franska manninum, sem sneri að mér bakinu, og eg heyrði og að hann var í drykkjuruglinu að tauta nafn mitt.

"Rúfus — er — montari — mátulegt handa honum — Eiríkur er — montari líka — og — konan hans engu — betri. Mátulegt — handa — þeim!"

"Spurðu hann hvar hún sé" hvíslaði eg að skinnakaupmanninum.

"Hvar er kona Eiríks?" spurði félagi minn og bauð Louis nú á ný í staupinu.

"Sioux-kona —kona Djöfulsins — Stóra Djöfulsins, sem kallaður er. Er það ekki skrítið?—Þessi vax-brúða er orðin — ambátt Indíána konunnar. Rúfus — asni! Eg —, laug hann fullan! Kom honum til að trúa því, að bóluveiki væri kona Eiríks.. Að kona Eiríks væri bóluveikisjúklingur meina eg. Hann — hræddur — eins og héri — hljóp heim —

kom aftur — og þá sagði eg bóluveiki komin í gröfina. Skrítið — er ekki svo?" og síðan þagnaði hann og saup á glasinu sínu.

"Skrítnasta, sem eg hefi heyrt utan fanga veggja," svaraði Norð-Vestmaðurinn þurlega, en Louis skildi ekkert við hvað hann átti.

"Spurðu hann hvar hún sé," hvíslaði eg, "fljótt! Hann er að sofna.' Louis þurkaði sér um munninn á erminni og hallaði sér út af.

"Hæ! hó! vaknaðu!' 'kallaði skinnakaupmaðurinn og hristi hann og skók til harkalega. "Hvar er konan?"

"Sioux-konan er í Pays d'En Haut," drafaði í franska manninum. "Farið úr stígvélunum. Pays d'En Haut — moccasin — mýkri", og síðan valt hann út af í fasta svefn svo að ómögulegt var að vekja hann.

"Er þetta satt?" spurði Norð-Vestmaðurinn, upp yfir drukna manninum og sneri sér að mér. "Er það satt, að þessari hvítu kon. hafi verið rænt?"

"Já, því miður. Það er dagsanna," hvíslaði eg.

"Eg vildi helzt sparka honum inn í annan heim," sagði Norð-Vestmaðurinn og leit þannig til Louis, að ef hann hefði verið vakandi mundi hann hafa búist til varnar. "Eg hefi að minsta kosti komist höndum yfir skjöl, sem fara áttu til Hudsonsflóa félagsmanna," sagði hann hróðugur.

"Hvað eigum við að gera við hann?" spurði eg eins og út í bláinn. "Ef hann hefir átt einhvern þátt í ráni konu Eiríks—"

"Hann hefir ekki átt það," greip skinnakaupmaðurinn fram í. "Það var Stóri Djöfullinn sem gerði það. Lopis sagði það sjálfur."

"Hvað eigum við þá að gera við hann?"

"Gera við hann?" endurtók Norð-Vestmaðurinn með titrandi röddu. "Gera-við-hann?' Eg fann aftur að hrollur fór um mig við tilhugsunina um það, hvað hann ætlaði að gera, þessi þöguli, ótilhliðrunarsami maður.

Varðeldarnir voru slokknaðir. Enginn hávaði heyrðist til mannanna í skóginum; grá móða hafði lagst yfir vötnin og í limi trjánna voru fuglarnir að taka á sig værð. Eg ætlast ekki til að við verðum dæmdir eftir mælikvarða menningar þjóðanna. Það hafði verið venja frá elztu tímum skinnaverzlunarfélaganna að halda illmennum í skefjum með hnífum og skammbyssum. Þegar við litum niður til að taka upp tómu flöskurnar, þá lá hann steinsofandi með bert brjóstið og ósliðraðan hníf við hliðina á sér, ungi franski þorparinn, sem hafði látið það viðgangast, að hvít kona hafði lent í þrældóm hjá Indíánum. Hann var ekki nema svo sem eitt skref frá okkur. Var það svo, að Norð-Vestmaðurinn og eg hikuðum okkur um hríð og litum á víxl á sofandi manninn og hnífinn, eða var þetta að eins vondur draumur? Miriam leið þungar þjáningar í höndum þessa manns alsaklaus; átti hann ekki, sem var sekur, að mæta hörðu af okkar hendi? Ekki hafði drottinn augsýnilegar gefið Sísera í hendur óvina hans, heldur en þenna mann; og Barak og Jael sigr-

uðu Sísera. Það er skýrt svo frá í hinni helgu bók, að kona Hebers hafi rekið nagla gegnum gagnaugu sofandi mannsins og ráðið honum bana á þann hátt. Eg man eftir því, að mér fanst hér fyrrum eins og helzt til margra blóðsúthellinga, framdra út í óbygðum, væri getið í ritningunni, handa okkur, sem lifðum á þessari menningaröld. En síðan hefi eg átt aðsetur út í óbygðum, og þar komst eg að raun um, að sönn mikilmenni viðhafa ekkert hæverskuhjal þegar þeir eru að snúa viltum heiðingjum frá villu síns vegar.

Eg vissi, að skinnakaupmaðurinn og eg vorum að hugsa sömu hugsunina, og vissum hvað hvorum um sig bjó í brjósti; við stóðum þarna uppi yfir drukna manninum, hræringarlausir og steinþegjandi.

"Jæja," hvíslaði eg í hálfum hljóðum.

"Jæja," endurtók hann og beygði sig til að taka upp hnífinn. "Hann ætti það skilið." Hann talaði i sama malandi róminum eins og hann hafði viðhaft inni í tjaldinu. "Hann ætti það skilið," mælti hann og beygði sig hikandi ofan að Louis með hnífinn.

Eg horfði á hreyfingar hans hægar og varkárlegar og fyltist skelfingu. Mér fanst fyrst eins og hræðslan svifti mig mæli. Mér fanst mér renna kalt vatn milli skinns og hörunds, sakir glæps, sem yfirvofði. Ofurlítill þytur fór um limið og við spruttum báðir upp, eins og við værum manndráparar, og tókum að stara óttaslegnir út í myrkrið sem hvíldi yfir skóginum. Það var því líkast, sem allur skógurinn væri fullur af hræðilegu hvísli og reiðilegum rann-

sóknaraugum.

"Hægan!' 'hvíslaði eg. "Þetta er heimskulegt tiltæki, morðingjatiltæki. Hvað ætlaðirðu að gera?" Eg ætlaði rétt að fara að ná af honum hnífnum þegar fram úr grænum lundinum kom maður, sem hvesti á okkur augun eins og grimt tígrisdýr.

"Huglausi bjálfinn þinn!" hrópaði Norð-Vestmaðurinn og hóf handlegginn.

"Hægan!" kallaði eg í bænarrómi. "Líttu á!" og eg benti á mannsandlitið í lundinum, sem nú hvarf út í myrkrið.

Við hlupum báðir inn í skóginn, með skammbyssur í höndunum og ætluðum að láta þenna njósnara fá makleg málagjöld. Við fundum samt engan, en heyrðum að eins hávaða eins og maður væri að flýja.

"Skjóttu ekki," sagði eg, "það vekur alla í tjöldunum."

Þó að það væri mikil lífsháski könnuðum við allan skóginn þarna í kring með löngum stöngum, en urðum einskis varir.

"Við skulum hætta þessu og draga hann yfir á sandeyrina, svo að Hudsonsflóa félagsmenn geti séð hann þar þegar þeir koma þessa leiðina," sagði Norð-Vestmaðurinn og átti við Louis.

"Já, við skulum gera það, eða setja hann í járn og hafa hann í haldi," sagði eg, því að eg hélt að hægt yrði kannske að hafa eitthvað meira upp úr Louis.

En þegar við komum aftur út úr skóginum var

franski maðurinn horfinn.

"Hann var of drukkinn til að geta komist burtu sjálfur," sagði eg felmtraður, því að nú þóttist eg vita fyrir víst, að okkur hafði verið veitt eftirtekt.

"Eg þvæ hendur mínar og tel þetta að engu leyti mér að kenna," sagði skinnakaupmaðurinn þóttalega og stikaði á undan mér inn í tjald sitt. Eg kom á eftir og var margt í hug. Sjálfsvirðing mín var særð og eg hafði mikið samvizkubit. Við höfðum verið komnir á fremsta hlunn með að fremja morð — en þá, sem þann glæp drýgja, hljóta allir menn að forðast. Siðmenningargljáinn var sem óðast að mást af okkur. Þessi hugsun varð ríkust í huga mínum, en þó að eins í bili. Eg hafði heyrt, að bæði þeir, sem verstir og beztir voru útilegumanna, réttlættu gerðir sínar með stundinni sem þær voru unnar á; en seinna meir — ja, þá gat verið öðru máli að gegna, en unnin verk urðu ekki aftur tekin.

Eg heyrði skinnakaupmanninn hreyta úr sér einhverjum ónotum um leið og hann lagðist fyrir í tjaldi sínu, en eg staðnæmdist við varðeldinn, sem ekki voru eftir af nema litlar glæður, og stóð þar hugsandi. Aftur þóttist eg finna sömu tígrisdýrsaugun stara á mig, út úr dökku liminu, og skelfingarhrollur fór um mig allan. Þegar eg leit upp sá eg, að hinum megin við eldinn stóð skuggalegi ræðarinn minn; hann hallaði sér upp að tré og var það rétt af tilviljun að eg sá hann. Hann hélt víst að eg sæi sig ekki, og svipurinn á honum var svo ósvífnislegur, glettnislegur og illilegur, að eg þóttist strax vita, hver

mundi hafa hjálpað Louis undan. Eg stökk því upp yfir eldinn og sló manninn hnefahögg eins fast og eg gat beint á andlitið, áður en eg hafði gert mér það ljóst, að Indíánar gjalda æfilangan fjandskap við slíkri mótgerð. Ekki reyndi hann til að leggja mig hnífi, eins og Indíánar jafnaðarlegast eru vanir að gera, þegar þannig stendur á, heldur hopaði hann undan inn í skóginn með hvæsandi storkunarhlátri. Sá, sem heyrt hefir slíkan hlátur, gleymir honum aldrei aftur, og aldrei hafa mér úr minni liðið þær ömurlegu skríkjur.

"Njósnari! Naðra!" öskraði eg og þaut á eftir honum, en hann tók svo hart viðbragð undan mér inn í skóginn, að eg misti af honum. Þegar hann stökk undan mér til hliðar, misti hann byssuna sína og skotið hljóp úr henni.

"Halló! hvað gengur á " hrópaði skinnakaupmaðurinn út í tjalddyrnar.

"Ekkert — skot hljóp úr byssu í ógáti,' 'svaraði eg. En nú brá mér heldur en ekki í brún við það, sem mér bar fyrir augu. Þegar eg fór að skoða byssu Indíánans við birtuna af eldsglæðunum, þá sá eg, að hún var fagurlega búin silfri — og upphleypt á henni skjaldmerki — Eiríks Hamiltons. Skuggalegi ræðarinn minn var enginn annar en Stóri-Djöfullinn.

— — —

Fáum klukkustundum síðar var eg önnum kaf-

inn við að bera á bátana. Stóri-Djöfullinn fór í annan bát, og í minn bát kom annar ræðari í hans stað. Það þótti mér vænt um. Eg gat sofið betur og verið öruggari. Forstöðumenn fararinnar fundu að því, að of mikið vín hefði verið veitt um kveldið.

"Þú verður að hafa betra taumhald á mönnum þínum, drengur minn," sagði einn forstöðumannanna við mig, "annars bera þeir þig ofurliði."

---

## VI. KAPITULI.

### *Beltið úr ágötunum.*

Mér hefir ávalt virst það töluvert auðveldara að greiða flækju á bandhnykli, sem ketlingar hafa verið að leika sér að, heldur en að greiða þá flóknu hönk, sem hin margþættu áhrif vefja um fætur vora á lífsleiðinni. Eg vil taka sjálfan mig til dæmis. Rúmum mánuði áður en hér var komið hafði eg haft megna óbeit á allskyns flærð og undirferli, og óbifanlegt traust á hreinskilni og ráðvendni. Nú var eg orðinn prettvís skinnakaupmaður og brögðóttur mangari, sem einskis sveifst í kaupum og sölum. Við höfðum vélað Louis til að svíkja bandamenn sína, en hvað mikið var að byggja á frásögu hans? Hafði hann skelt skuldinni á Stóra-Djöfulinn til þess, að komast sjálfur úr klípunni? Hvar faldi Louis sig? Var Sioux-konan með fanga sína norður í landi, eða var

hún á næstu grösum? Og var það þess vegna, að skuggalegi Iroquóa-ræðarinn minn vakti alla nóttina? Við höfðum leikið á Louis, en hafði hann ekki leikið á okkur líka? Hafði eg heimild til þess að taka Stóra-Djöfulinn höndum og mundi félag mitt samþykkja slíkar aðgerðir Ef maður hefði að eins við það að fást, sem er augsýnilega annaðhvort rétt eða rangt, í staðinn fyrir réttlæti og ranglæti margtvinnað saman, þá væri auðvelt að vera réttlátur. Ef vegurinn, sem liggur að því takmarki, sem að er kept, væri eins beinn eins og hann er mjór, en ekki óglöggur, torfær og vandrataður, þá væri auðvelt að komast þangað, sem maður ætlaði sér! Nú var eg kominn út á þá æfibraut, sem mig hafði lengst langað til, en þá brá svo kynlega við, að skuggalegar vofur, líkt og hafnornir sjófarenda—ofdrykkja, prettvísi og glæpir, flögruðu um siglutoppa snekkju minnar, en á því hafði eg enga von átt. Engin leiðarstjarna var eftir að fara, engin áhrif til að benda manni á rétta braut, ekkert nema taumlaust frjálsræði til að verða að atkvæðamanni. Þá lærðist mér það, er eg ætla að öllum lærist einhvern tíma, að til eru þeir hlutir, sem svift geta hinn eftiræskta árangur sætleik sínum.

Um þetta var eg að hugsa, þegar bátar okkar klufu öldur Húron-vatns með miklum skriði og stefnt var til Sault. Norð-Vestmenn höfðu sérstakt lag á því, að tryggja verkamenn sína og gera þá sér sem hlyntasta. Hættan jók enn meira á þessa hollustu. Þrátt fyrir hina miklu samkepni og mótstöðu, sem við var að eiga, var því líkast sem félagið kæmi

því til vegar, sem ókleift sýndist. Norðvestræna félagið var hálfu mannfærra en Hudsónsflóa félagið, en samt sem áður brauzt það inn í veiðilönd keppinautar síns, sat þar eitt að öllu, og kom á fót kaupstöðum á öllu svæðinu frá hjarta meginlandsins alt til undirhlíða Klettafjallanna, og frá landamærunum að sunnan til heimskautabaugsins. Eg hafði ímyndað mér, að ómögulegt væri að komast fljótar áfram, vatnaleið, en við höfðum farið frá Lachine til Point á la Croix, en eftir viðstöðuna meðan á óveðrinu stóð gekk ferðin enn þá greiðara. Fleiri ræðarar voru ráðnir af Indíána-kynflokkum þeim, sem bjuggu við Nipissangue. Undir eins og einn ræðaraflokkurinn tók að þreytast var annar nýr settur í hans stað. Árarnar skullu í vatnið með örskotshraða og kjölfarið var hvítfyssandi rák, eins og eftir hraðskreitt skip. Örstuttar viðdvalir voru að eins hafðar meðan við vorum að fara yfir allan norðurhluta þessara miklu stöðuvatna, sem nefnd eru Stórvötnin. Þar sem vatnsrýmið var nógu mikið gat bátaflotinn dreift úr sér, en enginn báturinn mátti verða svo langt aftur úr, að hann gæti ekki sameinast aðalflotanum áður en við kæmum til Sault. Þegar þangað kom var hinn strangasti agi hafður á öllu. Við reistum tjöld spölkorn frá kofum Indíánanna, sem bjuggu þarna. Ekkert vín var veitt. Stranglega var bannað að menn flyktust saman til skemtunar, en hver bátshöfn var látin vera út af fyrir sig. Við vorum að eins eina nótt í tjöldunum, og þó að eg leitaði Stóra-Djöfulsins í hverju tjaldi þá gat eg hvergi fundið

hann. Þetta olli mér nokkurrar áhyggju. Alla nóttina lá eg vakandi, og var að hugsa upp ráð til að handsama þorparann.

Þegar eg vaknaði rétt i birtinguna brá mér í brún við að sjá Litla-Karl og Svatra-Kufl, tvo ræðara minna lögðu af stað inn í skóginn. Þeir sögðust hafa lagt þar snörur og væru að vita um þær. Eg var farinn að fá ótrú á öllum Indíánum í seinni tíð. Mig grunaði að þessir tveir náungar væru að hugsa um að stelast burtu, svo að eg veitti þeim eftirför. Við fórum gegnum þykkan kjarrskóg og burkna, sem voru nærri kollhæðar háir. Sólarbirtan var orðin mjög dauf þegar hún var komin i gegnum alt þetta laufskrúð. Eg hefði auðveldlega getað vilst þar eða verið gintur í gildru, þó að mér kæmi það ekki í hug fyr en eg var svo sem mílu vegar frá ströndinni. Litli-Karl skálmaði á undan, en Svarti-Kufl kom á eftir í hægðum sínum; báðir fóru þeir svo hljóðlega um burknana og skóginn, að hvergi brutu þeir sprek eða gerðu nokkurn hávaða, en eg tróð niður kjarrið og braut sprek og greinar, svo að Indíánarnir hefðu sjálfsagt getað rakið slóð mína þarna mörgum vikum síðar. Tvisvar sinnum sá eg Litla-Karl snarast hvatlega til hliðar og skygnast inn í skóginn til annarar handar. Einu sinni lagðist hann á kné og skygndist inn í burknaskóginn. Síðan gaf hann Svarta-Kufl merki með hendinni, benti inn í kjarrið og hélt svo áfram án frekari skýringar. Fyrst í stað sá eg engin mismíði á og fór að sjá eftir því að eg hefði verið að fara þetta. Eg var í þann veginn að skipa Indí-

ánunum að snúa aftur til tjaldsins þegar Litli-Karl nam staðar í fjórða sinni starandi fram undan sér með annan fótinn á lofti, eins og hann þyrði ekki að stíga einu feti framar, en hann var kominn. Nú heyrði eg líka dálítinn þyt og sá ofurlitla hræring eins og bugðast um burknaskóginn. Rétt i bili, um leið og við námum staðar, hvarf hún, en hélt síðan áfram á undan okkur eins og höggormur teygði sig þar gegnum kjarrið. Litli-Karl brá vísifingrinum á munn sér, og við stóðum hræringarlausir þangað til þessi skepna lagði af stað á ný um leið og vindgola bærði til burknana.

"Hvað sérðu, Litli-Karl? Er villiköttur þarna?" spurði eg; Indíáninn hristi höfuðið og sneri sé í áttin til rjóðursins þar sem snörurnar höfðu verið lagðar.

Hann laut ofan að einni snörunni og mælti eitthvað á Indíánamáli, sem eg skildi ekki. Síðan hefi eg heyrt skinnakaupmenn viðhafa það orðtak, svo að eg ímynda mér, að það hafi verið eitthvert algengt orðtak, sem annara þjóða menn læra fyr en önnur orð í þeirri tungu, en ekki er þó að finna í orðabókum. Veiðin hafði verið tekin úr snörunum og þær gereyðilagðar.

"Villiköttur!" tautaði Indíáninn og sveiflaði daggarðinum sínum eins og til að hefna sín á ósýnilegum óvini. "Enginn villiköttur hér! Vondir Indíánar!"

Varla hafði hann slept orðinu þegar Svarti-Kufl hljóp i loft upp eins og særður héri. Ör kom fljúg-

andi rétt við eyrað á mér og skaust svo sem hársbreidd frá enninu á Indíánanum. Báðum mönnunum varð orðfall af undrun. Slíkar morðtilraunir mundu hafa verið nærri eins dæmi jafnvel meðal hinna viltu Indíána í Athabasca. Sault var deilistöð Canada og villimanna landsins, deilistöð austursins og vestursins, og engan fjandskap þurftu menn að öllum jafnaði lítið að óttast frá Indíánum, fyr en komið var um þúsund mílur norður eða vestur fyrir Sault. Litli-Karl ætlaði að draga mig af stað heim til tjaldstaðarins, en eg þurfti engra upphvatninga. Svarti-Kufl þaut á undan eins og fætur toguðu. Litli-Karl gætti þess, að hafa mig á undan sér, svo að hann væri milli mín og væntanlegs óvinar okkar. Eg þótist vita. að þessi fjandmaður okkar væri að skríða gegnum kjörrin, því að við sáum þau bærast til meðan við vorum að forða okkur.

"Líttu á, Litli-Karl," mælti eg. "Við skulum reka þetta kvikindi úr fylgsninu,' 'sagði eg. Um leið vék eg mér svo hvatlega við, að litli gildi maðurinn hraut um koll, og datt rétt fyrir fæturna á mér, og eg kastaðist lengd mína lengra áfram.

Það fall bjargaði lífi mínu. Fjaðurspjót kom þjótandi fyrir ofan höfuðið á mér og rakst langt inn í álmtré skamt frá, og stóð þar fast. Þegar eg komst á fætur skaut eg þrjú eða fjögur skot inn í burknaskóginn. Við leituðum vandlega í öllu kjarrinu, en fundum ekkert, nema brotna burknastöngla eftir skot mín. Eg kipti spjótinu út úr trénu. Spjótið var skreytt margskonar myndum og útskurði, en ekki gat

eg áttaði mig á neinum þeim merkjum. Loks tók eg eftir því, að smelt hafði verið inn í spjótskaftið að framan tinnu-flísum, en þar í milli var sett smáum skínandi steinum, og voru þessir skínandi steinar þannig settir, að þeir mynduðu einhverja fugla.

"Hvaða fuglar eru þetta, Litli-Karl? spurði eg.

Hann fór vandlega höndum um myndirnar og sagði loks í lágum hljóðum "Örn! Örn!"

"Eru það ernir?' 'spurði eg aftur, hálfhissa á því, hvað hann var æstur. "Og hvaða steinar eru þetta "

'Agatar, monsjör!"

Agatar! Agatar! Hvaða mynd rifjuðu agatarnir upp í huga mínum? Þeir rifjuðu upp mynd af vöxtulegri Indíánakonu, með hvöss, illileg augu, klofna efrivör og agata-belti um sig miðja, og það var sama Indíánakonan, sem veitti okkur Louis Laplante nánastar gætur þegar við vorum að gera leitina í tjöldum Indíánanna við gilið.

"Heyrðu, Litli-Karl," sagði eg, "hver er kona Stóra-Djöfulsins?"

"Það er dóttir Arnarins, foringja Sioux-Indíánanna,' svaraði hann lágt, en eg þóttist sjá það á svip hans, að hann hafði fengið grun um leyndarmál mitt.

Þá vissi eg hverjum þessar sendingar höfðu verið ætlaðar, og hvaðan þær komu. Það var auðséð, að hér var við kænan þorpara að eiga. Ef morðinginn hefði komið fram ætlun sinni, þá hefði refsingin lent á Indíánum mínum.

---

## VII. KAPITULI.

*Lávarðarnir í norðrinu á ráðstefnu.*

Þegar komið var vestur fyrir Sault blöstu við augum dásemdir óbygðanna eins og ginnandi hafgúu-töfrar. Víðáttumikil vötn og fljót, sem mátt hefði stökkva í mörgum konungsríkjum Evrópu án þess að þess hefði sézt nokkur staður, seiddu að sér ferðamennina og virtust mundu flytja þá til yztu endimarka jarðarinnar. Á aðra hönd lá ströndin, hjúpuð purpuralitri móðu, hins vegar Superiorvatnið, víðáttumikið eins og úthaf; hvorttveggja benti mér á yndisleik flekklausrar og heillandi frelsisdýrðar óbygðanna, sem nú var að opnast fyrir mér. Því var ekki að undra, þó að mér hitnaði um hjartarætur og eg yrði gagntekinn af þeim unggæðislega feginleik, sem í gamla heiminum er nefndur eldmóður Ameríkumanna, grænblátt, grunt og öldulaust Húronvatnið með þögulum aflíðandi bökkunum, virtist mér sönn ímynd þess rólega, áhættulausa lífs, sem eg hafði lifað eystra. En hvað mér fanst litlu, gletnu og áleitnu öldurnar á því svara vel til gletninnar,

þrasgefninnar og mangaraháttarins eystra. En gagrger breyting varð þegar komið var vestur á Superiorvatn. Þar var öldugangur eins og á úthafi; þar hófust risavaxnir klettar upp úr vatninu, köldu, dökku og hyldjúpu. Þetta benti alt á nýtt líf í hörðum, óþýðum og víðlendum nýjum heimi. Við fórum grunt með fram norðurlandinu, en á vinstri hönd okkur stóðu fjölmargar, klettóttar eyjarnar eins og demantsveggur, sem hlífði okkur við beljand' brimgarðinum, sem brotnaði á þeim að sunnanverðu. Við nálguðumst óðfluga aðalstöð félags okkar. Þegar bátafloti, sem var á suðurleið, tók að mæta okkur, með fanga í járnum, þóttist eg vita, að við vorum komnir nærri mannabygðum.

"Vondir menn?" spurði eg Litla-Karl og benti á fangana um leið og okkar menn heilsuðu Norð-Vestmönnunum, sem voru á leið til Montreal.

"Nei, monsjör! Ekki vondir menn!" og Indíáninn ypti öxlum kankvíslega. "Þetta eru enskir skinnakaupmenn."

Frösku vatanferðamennirnir voru vanir að líta svo á, að Englendingar og Hudsonsflóa félagsmenn væru eitt og hið sama. En mig furðaði þó á svarinu, er bar það með sér, að bæði félögin flyttu að ástæðulausu burt skinnakaupmenn hvors um sig. Nú rifjuðust upp fyrir mér ummælin, sem eg heyrði höfð í Quebec-klúbbnum um McDonell, yfirmann Hudsonsflóafélagsins, er væri að reyna að bola Norð-Vestmenn burtu, og sýndist mér nú samt ekki betur, en að okkar menn reyndu að gjalda honum í sömu

mynt, þessum Rauðárıdrotni.

Um sólarlagsskeið komum við til Fort William, og blakti þar fáni á stöng yfir virkisveggjunum.

"Er fáninn dreginn á hún til að heiðra komu okkar?' 'spurði eg skrifara einn í flokknum.

"Nei, eg held síður,' 'svaraði hann og hló. "Það er ekki verið að heiðra okkur undirtyllurnar! Það er Indíánunum vísbending um, að þeir fái ekki að verzla neitt í dag."

"Er sunnudagur í dag?"

Eg mundi þá fyrst eftir því, að allan síðastliðinn mánuð höfðum við engan hvíldardag átt.

"Ertu strax búinn að gleyma dagatalinu?" spurði skrifarinn hissa. "Hvernig heldurðu að komið verði fyrir þér eftir tíu ára dvöl hér vestra "

Fort William stóð á vatnsbakkanum og var mjög vel í sveit komið til að vera aðalstöð skinnakaupmanna. Þar á næstu grösum hafði áður verið franskur kaupstaður. Tuttugu feta há stauragirðing lá umhverfis alt virkið, og garðurinn innan við hana var að minsta kosti 200ferhyrnings-*yards*. Þar voru rammbyggileg varðhús og stóðu byssu-kjaftar út úr skotaugunum á þeim. Setti það styrjaldarblæ á kaupstaðinn. Varðhúsin höfðu augsýnilega verið gerð til þess að veita mótstöðu áhlaupi af landi ofan, en af virkinu að framanverðu mátti ráða mannaferðum um ána. Fast við virkisveggina stóðu búðir, vöruhús og íbúðarhús skrifara og skinnakaupmanna, en í miðjum garðinum stóð aðalbyggingin svo að mikið bar á. Voru þar herbergi stór og rúmgóð.

Þegar við komum inn í virkisgarðinn sat einn heldri skinnakaupmaðurinn á fallbyssu í virkishliðinu. Sá höfðingi lét ekki svo lítið að brosa fyr en hann sá eigendurna sjálfa koma. Þá spratt hann upp, fagnaði þeim mjög auðmjúklega og fylgdi þeim inn með mikilli háreysti. Indíánar og kynblendingar, sem með okkur höfðu verið, flyktust til kofanna þarna í kring, en skrifarar og skinnakaupmennirnir þustu inn í rúmgóðan borðsal, sem var í aðalbyggingunni. Eg var svo þreyttur eftir ferðalagið, að eg gaf engan gaum að fréttum þeim, sem verið var að segja í forstofunni og á leiðinni inn. En eg man það að eftir að snæddur hafði verið kveldverður, varð mér gengið út í virkisgarðinn, til að skoða mig um. Rakst eg þá á hlut nokkurn utan við dyr hermannaskýlis, er heimamenn virkisins bjuggu í. Þann hlut hafði eg ekki séð fyrri frá því að eg fór frá Quebec. Það var þvottafat úr tini og sápa hjá. Sjálfsagt hafa einhverjar ofurlitlar siðmenningar menjar verið eftir í mér, því að eftir að eg hafði verið að skola af mér þarna í hálfa klukkustund, gekk eg burtu á fund félaga minna hróðugur í huga.

Athabaska,- Klettafjalla- og Saskatchewan-flotarnir koma hingað á morgun," sagði unglingslegur Norð-Vestmaður, en þó mikið skeggjaður. Eg bar um leið og eg sá hann höndina ósjálfrátt upp að hökunni og fann þá, að hún var orðin býsna loðin. Í þessu landi eltust ungir menn skjótt, og margur skinnakaupmaðurinn hefir séð enn önnur merki á

andliti sínu heldur en ellimörkin, eftir langdvalir í Pays d'En Haut.

"Hér er nú kominn einn landneminn úr Rauðárdalnum, einn landnemi Selkirks," mælti annar ungur skrifari. "Hann hefir flutt þær fréttir, að ef við viljum leggja til bátana þá séu allmargir landnemar fúsir til að nota þá. Þetta verður rætt á allsherjarfundinum, sem haldinn verður á morgun."

"Fari allsherjar-fundurinn grenjandi, ef hann samþykkir að senda þann mann burtu! Hann á stórfallega dóttur, sem er hér með honum!" sagði unglingurinn með mikla skeggið.

"Þú ættir ekki að vera margorður um það." svaraði annar piltur, sem þóttist vera rosknari og ráðnari. "Þú varst að ganga úti fyrir glugganum hennar í fulla klukkustund í dag og henni varð aldrei að líta á þig."

Nú fóru allir að hlæja.

"Þvættingur!" sagði sá, sem fyrst talaði. "Maður flíkar ekki þannig ástamál—"

"Ónei, ekki að jafnaði, en þú ert undantekning, þó að þér kæmi það fyrir lítið."

Skeggjaði unglingurinn roðnaði við hlátur hinna. "Eg neita því ekki," svaraði hann og togaði efrivararskeggið á sér, "að hún er dálítið líkneskjuleg. En eg veit ekki til þess, að nokkur lög banni það að menn horfi á líkneskjur, þegar þær koma út í glugga í annari eins eyðimörk eins og hér er."

Þessu voru allir samþykkir, sem þarna voru viðstaddir, og eg gekk burtu til að láta líða úr mér á

bekk skamt frá, en hafði þó áður fastráðið við mig að ná í spegil úr farangri mínum og raka af mér skegghýunginn. Hinir mennirnir tóku að tvístrast, hver til síns náttstaðar. Seinskyggjandi rökkrið, sem er einkenni þeirra landa, sem liggja norðarlega á hnettinum, tók að færast yfir virkisgarðinn. Júníkveldgolan andaði mjúk og hlý um vanga mína og vakti ı brjósti mínu ljúfar endurminningar saklausra bernskudaganna í Laval. En hvað mér fanst þeir dagar nú fjarska fjarri! Og þó voru þeir ekki fyrir löngu liðnir. Efalaust er það þekkingin fremur en áratalan, sem gerir menn gamla. Það er þekkingin, sem sviftir menn hinni saklausu fávizku, og veitir í hennar stað það tortryggilega sakleysi, sem vísdómurinn hefir í för með sér. Eg fór að hugsa um freistingarnar, sem eg hefði orðið fyrir þær fáu vikur, sem eg hafði verið á ferðalagi mínu, og hvað bágt eg hafði átt með að standast þær. Eg spurði sjálfan mig, hvort ekki mundi vera til nein leiðarstjarna í siðferðilegum áttavita þeirra manna, er á landi ferðast, og þeir gætu farið eftir á líkan hátt og sjófarendur færu eftir venjulegum áttavita. Eg tók að skygnast upp yfir rislág húsaþökin, til að vita, hvort eg gæti ekki komið auga á tungl eða stjörnur. Himininn var þéttskýjaður og dimmur, en er eg lét augun hvarfla frá himinhvelinu aftur niður til jarðar þá sá eg það, sem eg var að hyggja eftir. Það var fölleitt kvenandlit, sem kom út í glugga, er var upp yfir vatnsfötu beint á móti bekknum, sem eg lá á. Það

var því líkast, sem þetta andlit væri í gullumgjörð, því að mikið hrokkið og fagurt hár liðaðist niður með mjallahvítu enninu og vöngunum. Það var ekkert efamál, að þetta var líkneskjan, sem skeggjaði unglingurinn hafði verið að tala um. En þessi líkneskja dró lífsanda. Meyjarlegur roði færðist í kinnarnar. Brúnirnar voru dökkar og bogadregnar. Hún var ofurlítið álút og beygði hálsinn fagurlega. Munnurinn var líka ofurlítið bogadreginn; þar sást votta fyrir boga ástaguðsins, en efrivörin féll heldur þétt að, til þess að guðinn ætti gott með að leggja þar ör á streng

En hvers vegna gerði eg það, sem eg gerði? Eg veit það ekki. Ungi Norð-Vestmaðurinn gæti kannske svarað því, þessi sem var að ganga úti fyrir glugganum þenna sama dag, eða allur sá hópur ungra manna, sem enn þann dag í dag verður það sama á. Eg settist upp á bekkinn og hóstaði töluvert hærra en eg þurfti. Hún leit ekki við. Eg stóð á fætur mjög kæruleysislega og tók að ganga nokkrum sinnum fram og aftur úti fyrir glugganum; en þrátt fyrir alla viðleitni mína til að láta taka eftir mér, og ýmsar smábendingar, sem eg gerði, þá virtist hárprúða stúlkan enga eftirtekt veita mér. Eg settist því niður aftur. Það var satt, að hún var líkneskjuleg og falleg var sú líkneskja. En það var og satt, sem pilturinn hafði sagt, að engin lög voru til, sem bönnuðu manni að horfa á fallega líkneskju hér úti í óbygðum; og af því að líkneskjan vissi ekki að eg horfði á hana, þá hallaði eg mér aftur á bak á bekkn-

um og virti hana nákvæmlega fyrir mér. En mér hefndist fyrir það, því að óafvitandi vakti þessi fagra líkneskja ríka og sterka þrá í brjósti mínu. En það var ekki þrá eftir þessu andliti, heldur því sem það vitnaði um, — hrein og saklaus heimþrá, svo að mér vöknaði um augu, og eg hallaði mér áfram og leit til jarðar.

"Hæ! hæ!" heyrði eg kallað með djúpri rödd rétt við eyrað á mér. "Ertu strax farinn að draga þig eftir litlu líkneskjunni?"

Þegar eg leit upp, var maðurinn kominn fram hjá, en stúlkan var enn kyrr í glugganum og leit nú í kringum sig skínandi fögrum gráum augunum. Mér fanst mér liggja við svima og eins og skína út úr augunum þetta: "Okkur langar þá bæði heim!"

"Þetta verður leiðarstjarna siðferðilega áttavitans míns," sagði eg í hálfum hljóðum.

Í því bili veik líkneskjan sér hvatlega frá glugganum inn í myrkt herbergið. Gluggahlerunum var skelt aftur og sýnin var horfin. Eg stóð upp af bekknum, bjó um mig óvandlega á einu búðarborðinu, steinsofnaði og vaknaði ekki aftur fyr en snemma morguninn eftir við hávaða bátaflota, sem var að koma að norðan. Koma skinnakaupmannanna frá Athabasca var hið mesta fagnaðarefni. Varla mundi heilli herdeild, sem kom heim sigri hrósandi úr ófriði, hafa verið betur tekið. Bæði eigendur verzlunarinnar og skrifarar hlupu upp hálfklæddir sumir til að fagna komumönnum, er komu frá kaupstöðunum sem lengst lágu út í óbygðunum. Þeir voru

ruddalegir og tötralega búnir, þessir skinnakaupmenn frá fjallavirkjum heimskautalandanna. Sumir þeirra voru hattlausir og hvítir fyrir hærum, með sítt skegg eins og yfirbiskupar í Austurlöndum. Allur búningur þeirra var úr veiðidýraskinnum, bæði stakkar og hinir skrautlegu moccasins-skór. Samt sem áður var fyrirmannabragur á þessum ógreiddu einvöldum norðursins, þvílíkast sem þeir væru göfugustu konungssynir.

"Nei, ert þú þetta sjálfur? Og orðinn svona gamall? Nú er eg alveg hissa!" kallaði einn þeirra, sem fyrir var, er hinir komu.

"Og ert þetta þú, Teitur!" hrópaði annar. "Jú, ekki ber á öðru. Það ert þú Teitur eins og eg er lifandi. Þú varst þrítugur þegar þú fórst, og síðan eru ekki nema tíu ár, og nú mætti margur halda, að þú værir tíræður."

"Og þarna er Wilson," sagði annar. "Finst ykkur hann ekki magur. Hann er eini maðurinn sem af komst þegar hungursneyðin var við Great Slave Lake; síðan hefir hann víst aldrei getað fitnað."

Þessu líkt var talið, sem kvað við um allar áhorfendaraðirnar. Hrygðarorð féllu og við hverjar harmafréttir sem bárust en þess á milli óvæntar gleðikveðjur og hlý handtök. Höfðu nú ekki allir þessir menn haldið vestur og norður ungir og vongóðir eins og eg? Fregnirnar um deilurnar við Hudsonsflóa félagið höfðu ráðið ferðum þeirra og gert það að verkum, að þeir eldust fyrir tímann, og að þeir höfðu orðið líkari innfæddu mönnunum, sem þeir

áttu verzlunarskifti við, heldur en hvítu mönnunum, sem þeir höfðu horfið frá. Þarna mátti og sjá þróttmikla menn falla hverja í fang öðrum, en þeir duldu fögnuð sinn með innilegum kveðjum, í stað þess að láta hann koma í ljós í blíðuatlotum.

Allan daginn voru menn önnum kafnir við að afferma bátana. Endalaust virtist þramm Indíánanna ætla að verða er þeir báru böggla úr bátunum í land. Stórum grávöruströngum var hrúgað saman á gólfin, skjótara en skrifararnir höfðu við að flokka vöruna. Um hádegi var búið að fylla vörugeymsluhúsin upp undir bita. Þar mátti sjá gnægð hreysikattaskinna, sem aflað hafði verið um miðjan vetur, þegar dýrin voru einlit og enginn hvítur blettur á þeim nema lítil týra í skottinu. Þar voru oturskinn svo fimlega flegin, að varla hafði nokkurt hár losnað þegar belgirnir voru teknir; þar voru enn belgir af silfurtófum, sem einhverjir veiðimenn höfðu verið svo hepnir að ná í. Þessi skinn og margar fleiri tegundir, sem vænta mátti að yrði konungshallaprýði, gengu nú gegnum hendur burðarsveina og flokkunarmanna. Alstaðar mátti sjá stóra feldi af dýrum, sem veidd höfðu verið með mikilli mannhættu, en minna þótti um vert vegna þess, hve mikið var til af þeim veiðidýrum í þann tíma. Bifurskinnin voru gjaldeyris-einingin og afarlágt metin, en Indíánar gerðu sér það að góðu, og héngu við söluborðin þangað til þeir voru búnir að koma ársveiði sinni í lóg Mig undraði á því, hvað miklu skrifarar félagsins gátu komið út í Indíánana af því smekklausa

glingri, sem þeir höfðu á boðstólum við okurverði.

Meðan á þessu stóð sátu eigendur eða hluthafar hins mikla Norðvestræna félags allsherjarfund félags síns fyrir lokuðum dyrum. Skrifararnir lækkuðu róminn þegar þeir gengu fram hjá þeim dyrum, og var sízt að undra, þó að þeir gerðu það, því að drotnarnir, sem inni fyrir voru stýrðu með harðstjórnarvaldi ríki jafnvíðlendu eins og Evrópa er. Og um hvað voru þeir nú að ræða? Hver getur skorið úr því? Skjalasafna hinna miklu skinnaverzlunarfélaga er gætt með svo ströngu eftirliti, eins og ríkisstjórnarskjöl væru, en þó eru þau enn merkilegri sakir þess sem óbókað er þar heldur en hins, sem er bókað. Skyldi sú stefna hafa verið ráðin á þessum fundi, sem fylgt var ári síðar? Það er siður voldugra félaga, að þegja um fyrirætlanir sínar og ráða þær með mestu leynd, svo að almenningur ímyndi sér, að stórfengilegar byltingar eigi sér enga fyrirsjáanlega orsök. Hvað sem um það er að segja, þá veit eg það eitt, að Duncan Cameron, djarflegur Hálendingur og einhver skarpvitrasti maður í þjónustu Norðvestræna félagsins, opnaði alt í einu skyndilega hurðina á fundarsalnum, og alt rjóða andlitið á honum var eitt bros um leið og hann kallaði:

"Er Rúfus Gillespie þarna?"

"Já, hér er eg."

"Jæja, hertýgjaðu þig þá skyndilega, drengur minn, því að þú átt að standa í bardaganum þar sem hann verður harðastur. Þér hefir verið skipað í

mína deild við Rauðána. Að svo mæltu snaraðist hann burtu.

"En sú hepni! Eg säröfunda þig! Það verður atburðarík viðureign þeirra Camerons og McDonnells, þegar virkin bæði upp með Rauðánni fara að sendast á kveðjum," sagði maður einn frá Fort William við mig.

"Ert þú Gillespie?" var spurt í lágum, viðfeldnum og hreimþýðum rómi rétt hjá mér. Eg leit við, og sá háan, dökkhærðan, kraftalegan mann, yfirbragðsdökkan og svarteygan, svo að auðséð var að hann var ekki öldungis af ókynblendnri ætt hvítra manna kominn. Eg hafði tekið eftir því á vatnaferðinni, hvað sumir ræðaranna höfðu mjúkt tungutak, en það var auðsær vottur um indíanskan uppruna; og mér er nær að halda, að ef eg rækist á mann af Indíána ættum í Kína, eða í Suður-Evrópu, þá mundi eg geta þekt hann á mæli hans.

"Já, eg heiti Gillespie," svaraði eg þessum svarteyga manni. "En hver ert þú?"

"Cuthbert Grant, vörður sléttunnar og foringi skógbrennumannanna," svaraði hann lipurlega. "Þú átt að fara í deild okkar við Gibraltar-virki, og mig langar til að biðja þig að lofa séra Holland að vera á báti hjá ykkur norður. Hann er á leið til Missouri."

Í þessu kom Duncan Cameron til Grants og sagði eitthvað í lágum hljóðum. Rétt á eftir fóru báðir mennirnir aftur inn í fundarsalinn. Eg heyrði því fleygt af mörgum úti í virkisgarðinum, að Hudsonsflóafélagið mundi nú hætta allri áleitni, eftir að Cam-

eron og Cuthbert Grant væru orðnir leiðtogar Norð-Vestmanna, en eg spurði einskis. Skinnakaupmenn læra það næst því að ráða sjálfir fram úr málum sínum án þess að bera þau undir aðra, að spyrja einskis en láta sér nægja þær nýjungar, sem þeir heyra og sjá þessutan. Allan daginn hélzt þessi gauragangur í virkinu. Þegar skyggja tók voru Indíánarnir látnir fara út fyrir stauragirðinguna og allri vinnu var hætt.

Margt manna settist að snæðingi í stóra borðsalnum þá um kveldið. Þar voru saman komnir eigendur, skrifarar og skinnakaupmenn Norðvestræna félagsins úr öllum áttum, samtals voru þar fjögur hundruð glaðlyndra, hugdjarfra og trúlyndra manna, er ekki höfðu sézt í einum stað síðan fyrir tuttugu árum. Þó að þeir væru ekki fagurbúnir, þá kunnu þeir frá mörgu að segja þessir menn, sem höfðu í heilan mannsaldur verið að kanna óbygðir norðursins. Þess vegna var veizlugleðinni haldið áfram þangað til kertin voru brunnin niður að stjökum og greniviðarblysin nærri útbrunnin. Og loks varð að kveikja á nýjum kertum áður en upp var sagt, og á nýjum blysum í stað hinna. Niður úr svörtum sperrunum héngu ljósker, sem dingluðu fram og aftur. Tólgarkerti stóðu í hressilegum röðum eftir miðjum borðunum endanna milli, og var það augljóst merki þess, að þar höfðu karlar en ekki konur búið veizlu. Í járnkröppum við veggina hafði verið gengið frá greniviðarblysunum, er dýft hafði verið í einhvern trjákvoðu-vökva og brunnu þau nú glatt og gáfu frá sér reykelsiskendan ilm. Borð voru sett með-

fram öllum veggjum og í kross um miðjan salinn. Baklausir bekkir voru beggja vegna við hvert borð. Fyrir borðsendum stóðu stólar. Þau heiðurssæti voru eigendunum ætluð. Gluggarnir voru skreyttir brezkum flöggum og mislitir flaggdúkar héngu í milli sperranna.

"Mikið dæmalaust er þetta fallegt! Slíku félagi er vert að þjóna er þannig fagnar vinum sínum!" hrópaði Duncan Cameron um leið og hann lét fallast niður á stól við einn borðsendann. Skotanum hitnaði um hjartarætur er hann leit yfir trogin full af veiði dýra kjöti og viltum fuglum. Hann varð nærri vingjarnlegur og kallaði: "Hingað Gillespie, seztu mér til hægri handar," og benti mér að koma. "Sest þú hér Grant, andspænis Gillespie. Nei, og þér líka séra Holland " sagði hann við holdugan, glaðlegan prest, skæreygan og hlæjandi út undir eyru. Hann hafði komið á eftir Grant. "Hér eru heiðurssæti handa mönnum eins og yður. Setjist þér hérna!" og hann benti á stól við hliðina á sér.

Eigendurnir settust niður og menn tóku að raða sér á bekkina, og síðan settist alt félagið að snæðingi og var villidýrakjötinu gerð beztu skil.

"Heyrðu Cameron," sagði einn norðurfarinn skamt fyrir neðan mig við borðið, "eg hefi verið fulla þrjá mánuði að komast norðan frá MacKenziefljóti til Fort William og hefi þó alt af haldið vel áfram. Eg segi ykkur það satt, að það var svo kalt þegar við fórum frá Great Slave Lake, að við lá að orðin frysu um leið og þau komu fram af vörum manns. Eg

þori að veðja um það, að ef þið væruð komnir þangað núna þá munduð þið heyra köll mín til sleðahundanna: "áfram! áfram!" þiðnuð aftur og eins gólið í rökkunum mínum. Við ferðuðumst á hundasleða allán Marzmánuð. Eg vafði mig í vísundafeldum um nætur og lét sleðahundana liggja þar ofan á. Annars hefði eg helfrosið. Mér hitnaði svo niðri í þessari beðju að eg rennsvitnaði og um morgna frusu á mér skinnklæðin, svo að þau urðu glerhörð. Eg þoldi þetta ekki, svo að eg fór að reyna að sofa með höfuðið upp úr feldahrúgunni, og kól þá á nefnið sex sinnum í sjö nætur."

Og það var auðséð á nefinu á honum að hann hafði kalið illa á það einhvern tíma.

"Ísinn á Saskatchewan fljótinu var ótraustur, svo að eg varð að fá mér áburðarhesta og fara landveg. Eg átti von á að ná í matvæli í Souris. Getið þið því gizkað á hvað við hugsuðum Hudsonsflóa félagsmönnum þegar við vissum að þeir höfðu rænt virki okkar. Við vorum alveg matarlausir í tvo daga í vetur höfðum við þó tekið að okkur sex Hudsonsflóa félagsmenn , sem voru rétt að segja orðnir hungurmorða og björguðum lífi þeirra; en þarna vorum við rétt dauðir úr hungri og verðum þess vísari, að þeir höfðu rænt vistunum okkar. Eg fylgi ykkur að málum eindregið gegn þjófum þessum! Friður er beztur, en ófriður er stundum óhjákvæmilegur, og eg held að hann sé óhjákvæmilegur nú!"

"Fari Hudsonsflóafélagið sem það hefir fyrir sér gert! Niður með það!" hrópaði ungur skeggjað-

ur Norð-Vestmaður, stökk upp á bekkinn og veifaði vínkollu sinni yfir höfði sér. Sumir skrifaranna urðu hrifnir af þessari ákefð, gerðu þys og klöppuðu lofi í lófa; en eigendunum gramdist þessi framhleypni."

"Láttu hann halda sér í skefjum, Grant," 'tautaði Cameron óánægður.

"Seztu niður, ungi æðikollur," sagði presturinn og fór að toga í treyjuna hans.

"Hafðu þetta, glanninn þinn," sagði Grant lágt um leið og hann hallaði sér yfir prestinn og sló piltinn svo snögt högg yfir þvera kálfana, að hann steyptist æpandi niður af bekknum.

"Hann þyrfti að vinna meira úti við, þessi piltur. Vínið svífur býsna fljótt á hann," sagði Cameron. "Hvað ætlaðirðu að segja okkur meira af harðrétt-inu, sem þú hafðir við að búa í vetur?" spurði hann og sneri sér að norðanfaranum, sem hafði verið að tala.

"Kallið þið það harðrétti?" spurði fjallferðamaðurinn hlæjandi, rétt eins og honum fyndist það hlægilegt. "Við lifðum einn mánuð í fyrra vetur á tveimur málsverðum á dag; það var súpa af þrúgu þvengjum, og í öðru lagi steikt skinn, en á undan hverri máltíð ein teskeið af fiskflögum!"

Sögumaður var í perlubúnum hjartarskinnsfötum, og mjúkar áherzlur hans á orðunum báru það með sér, að hann hafði týnt ensku tungutaki jafnhliða því, sem hann hafði týnt enskum siðum. Frásögn hans vakti enga undrun .

"Eg hefi sjálfur átt við vistaskort að búa,"

sagði einn norðanfarinn. "Mér er illa við það! Það er ekki örugt! Það stórskemmir taugakerfi manna að sjá Indíána stara á sig hungruðum augum átján klukkustundir í hverjum sólarhring."

"Hvernig stóð á því?' 'spurði fjallferðamaðurinn. "Höfðu Hudsonsflóa félagsmenn náð til að spilla Indíánum ykkar? Ef þú værir kvæntur tryggri Indíánakonu eins og eg þá gætirðu boðið þeim þorpurum byrgin, sem—"

"Það er nú svo," svaraði hinn. "Eg hefi að vísu heyrt sögur af manni í Athabasca, sem varð að ganga að eiga Indíánakonu til þess að fá einar þrúgur keyptar, en ekki stóð þannig á fyrir mér. Hitt var það, að lítið var um veiðidýr."

"Lítið um veiðidýr við MacKenzie River," endurtóku margir í einu undrandi. Það var reyndar venja veiðimanna að láta svo sem lítið væri um veiðidýr bæði við MacKenzie River og annarstaðar. Það var kænskubragð þeirra, en vitanlega var öllu slíku pukri slept í veizlum eins og þessi var.

"Já. þar er afarlítið um veiðidýr. Sumir Indíána kynflokkarnir dóu þar úr hungri. Hudsonsflóafélagsmenn, sem þar voru í grendinni áttu við harðan kost að búa. Við skutum skjólshúsi yfir sex þeirra, en höfðum vitanlega ekki heyrt um Souris-ránið þá."

"Þeir eru bjálfar, að fara inn í Athabascalöndin," sagði einn fjallferðamannanna.

"En þó er það enn þá meiri heimska að senda þangað annan bátaflota þetta ár. þegar þeir geta

ekki vænst neinnar hjálpar af okkar hendi," mælti þriðji veiðimaðurinn.

"Er það satt, að þeir ætli enn á ný að senda veiðimenn til Athabasca?" spurði norðanfarinn.

"Já, og Robertson ofursti á að vera fyrir liðinu", svaraði hinn.

"Robertson ofursti — gamall Norð-Vestmaður,"

"Robertson, sem einu sinni var Norð-Vestmaður! Það eigum við Selkirk að þakka, eftir að hann varð einráður í Hudsonsflóafélaginu."

"Robertson ætti að vera of hygginn til að taka slíkt að sér," sagði norðanfarinn. "Hann hefði átt að vera búinn að öðlast næga reynslu til þess meðan hann var okkar maður. Eg þori að veðja um, að hann tekst ekki á hendur slíkan starfa. Þetta hlýtur að vera vitleysa."

"Þú tapar veðfénu," sagði óstýriláti unglingurinn frá Fort William. "Klukkan sex kom hraðboði, sem sagði að floti Hudsonsflóa félagsins frá Lachine mundi fara hér fram hjá um miðnætti. Þeir eru engir silakeppir Hudsonsflóafélagsmenn," sagði skrifarinn og áréttaði þessa yfirlýsingu með unggæðislega hrottalegu orðbragði.

Eiríkur Hamilton átti þá að fara fram hjá svo sem steinsnar frá virkinu. Eg hallaði mér áfram til að heyra betur alt sem þessi piltur frá Fort William sagði.

"Og flotinn fer til Athabasca fram hjá þessu virki!" Gamla norðanfaranum ofbauð augsýnilega sú ofdirfska.

"Það er þeim gott, að þeir fara hér fram hjá að næturlagi," sagði skrifarinn. "Kynblendingarnir eru enn allreiðir eftir illvirkin í Souris. En það eiga eftir að verða skærur hugsa eg!" Og ungi maðurinn varð þeim mun alvörugefnari sem undrunarsvipurinn óx á eldri áheyrendunum.

"Já, eg á að minsta kosti von á skærum, þegar þeir Cameron og Grant koma til Rauðár — heldurðu það ekki, Cuthbert?' 'spurði fjallferðamaðurinn og sneri sér að dökkhærða, skarpleita manninum, sem hafði nefnt sig vörð sléttunnar. Cuthbert Grant brosti vingjarnlega.

"Sjálfra þeirra vegna vona eg að það verði ekki!" sagði hann og hélt svo áfram að segja sögu sína af vísundaveiðum.

Eg misti úr sögunni því að eg var um alt annað að hugsa. Eg varð að ná fundi Eiríks og láta hann vita hvað eg hefði heyrt. En hvernig átti eg að eiga tal við mann úr flota Hudsonsflóafélagsins án þess að vekja grun á mér um tvöfeldni Eg var að velta þessu fyrir mér með aulalegum bollaleggingum svo sem þeim er títt, sem eru óvanir undanbrögðum, þegar eg heyrði einhvern lýsa yfir því með mikilli háreysti að hann hefði séð þá undarlegustu sjón, sem veiðimönnum gæti borið fyrir augu — hann hefði séð hvítan vísund. Þetta undur hafði orðið í Qu'Appelle dalnum.

"Eg get boðið betur en þetta," sagði holdugi presturinn írski, sem átti að vera á bátnum mínum. "Eg sá hvíta konu fyrir hálfum mánuði!" Hann

þagnaði til að gefa mönnum tóm til að láta undrun sína í ljós og eg tók viðbragð og spratt á fætur.

"Hvað er að sjá til þín, ungi maður?" spurði norðanfarinn. "Við ræflarnir, sem búum í einverunni lengst norður í óbygðum sjáum stundum sýnir. Okkur verður stundum felmt við að heyra okkar eigin rödd — en hér í öllum glaumnum ættu menn ekki að sjá ofsjónir og æða upp í ofboði," bætti hann við og veifaði til hendinni og eins og þessi gestasalur væri ein af stærstu höfuðborgum heimsins.

Eg settist niður sneyptur.

"Já, eg sá hvíta konu," endurtók presturinn glaðlega, "Eins og þið vitið er ekki margt hefðarkvenna á þessum slóðum, svo að lítil líkindi eru til að mér hafi missýnst.'"

"Það er nokkur munur á Indíánakerlingum og hvítum hefðarkonum," svaraði presturinn glaðlega. Honum kom víst þá ekki í hug, að margir skinnakaupmennirnir voru því nær búnir að missa sjónar á þeim greinarmun í útilegulífinu.

"Eg hefi séð Indíánabörn, er voru hvít einn eða tvo daga eftir að þeir fæddust."

" Það er árangur kristninnar", greip ungi maðurinn fram í, sem hvatskeytlegast hafði talað og var nú orðinn ör af víni.

"Takið þið þetta fífl og komið honum í rúmið," sagði Cameron.

"Já, í einn eða tvo daga eftir fæðinguna," endurtók presturinn "en eg hefi aldrei áður séð svo hörundsbjarta Indíána konu fullorðna!"

"Hvar sáuð þér hana?" spurði eg og rödd mín var alt öðruvísi en vanalega.

"Við Winnipegvatn. Þegar við komum niður eftir vatninu fyrir hálfum mánuði, settum við tjöld skamt frá hópi Sioux Indíána, og eg endurtek það aftur, að þegar við fórum fram hjá einum tjaldsdyrunum þá sá eg framan í konu, sem var mjallhvít yfirlitum. Hún svaf, en ábreiðan hafði farið ofan af andlitinu á henni. Barn hvíldi í faðmi hennar, og handleggirnir á henni voru drifhvítir.

"En yður hefir sýnst þetta í tunglsljósinu," sagði einhver.

"En var þá ekki skrítið, að mér skyldi ekki sýnast neinn Indíánanna, sem þarna voru hvítur líka?" spurði presturinn.

Nú gat eg ekki að því gert, að svimi kom yfir höfuðið á mér, þó að eg hefði ekki smakkað vín. Þessar fréttir voru auðskildar. Eg var kominn í nánd við Míríam, og Eiríkur var ekki langt undan; en varlega varð þó að fara; hvað lítil mistök sem verða kynnu hjá mér gátu orðið mjög svo tjónsamleg.

---

## VIII KAPÍTULI

### *Líkneskjan lifnar við.*

Nú var tekið að ræða af kappi um hörundsbjartleik Indíánakvenna. Þeir sem kvæntir voru Indí-

ána konum héldu því fast fram, að mismunur hörundslitarins væri eingöngu undir loftslaginu kominn, og líktu hinum eirrauðu eiginkonum sínum við spænskar fríðleikskonur. Presturinn var nú að ræða við Duncan Cameron og hvetja til verzlunarviðskifta við Mandana í Missouri, en þangað ætlaði hann sér að fara í trúboðs leiðangur. Áhætta mikil var að fara út úr virkinu til tjaldstaða Indíánanna, sem áttu nú miklar átveizlur með ýmsum útilegumönnum; þar gat og fjandmaður minn neytt sín óhindraður. Mér duldist það ekki, að það var stórt í ráðist að fara til fundar við þenna óþjóðalýð með þær mikilvægu fréttir, sem eg hafði nú fengið.

Dauðann óttaðist eg ekki—allur dauða-geigur var látinn eftir austan við Sault í þá daga. Miríam gat vart orðið bjargað, ef mér hlektist á. Auk þess hafði eg komist að þeirri niðurstöðu að ef annar hvor okkar Stóra-Djöfulsins ætti að deyja, þá yrði það að vera hann. Mundu fleiri hafa litið svo á í mínum sporum.

"Í forstofunum var leikið af mikilli ákefð á fiðlur, hljóðpípur og belgpípur. Léttúðugir kviðlingar voru sungnir með einbeittum, hvínandi röddum; söngvar þeir báru vott um unaðsemdir eldri landa, sem heimfúsir hvítir menn höfðu sér nú til skemtunar í híbýlum sínum út í eyðiskógunum. Þarna var "takturinn" sleginn með fótunum eftir surginu á fiðlu-strengina. Þarna var dansað í æðisgenginni þvögu, eða fimlega stígin einhver stígdans Indíána, og var klappað með mikilli háreysti í

hverjum dansi. Undirtók í allri forstofunni af ópinu og óhljóðum, svo að eg átti erfitt með að hugsa nokkra skipulega hugsan. Það gat vel verið, að Eiríkur væri einmitt að fara fram hjá þessa stundina. Mér var ómögulegt að gera mér skynsamlega grein fyrir nokkru í þessum óskapa hávaða, og þegar eg ætlaði að standa á fætur upp frá borðinu fanst mér eg ekki sjá ljósin nema eins og í þoku.

"Eg bið forláts," sagði eg um leið og eg tók um handlegg prestsins. "Mig langaði til að spyrja hvort þér væruð ekki séra Holland, og ætlið að vera á bát mínum norður. Viljið þér gera svo vel og tala við mig fáein orð?"

Hann hélt víst auðsjáanlega, að eg væri drukkinn, og leit til mín glottandi.

"Jú, sjálfsagt; og sem betur fer vona eg, að langt verði þangað til að þarf að syngja yfir þér jafnhraustlegur eins og þú—"

".Eyðið ekki orðum að óþörfu! Komið fljótt!" og eg greip um handlegg hans.

"Hamingjan góða! Það eru þó líklega engin ástamál á ferðum!" sagði hann og fór á eftir mér fram í fordyrið.

Þegar kom út í hreina loftið, fór allur svimi af mér. Eg settist niður á bekkinn þar sem eg hafði legið kveldið fyrir og sagði honum alt um ferðir mínar. Fyrst í stað þori eg að segja, að hann hélt víst að eg væri drukkinn, en þó sannfærðist hann síðar um að frásögn mín væri á rökum bygð. Honum lá það í augum uppi hve auðvelt honum var að

fara burt úr virkinu þó að framorðið væri án þess að vekja nokkurn grun, og loks bauðst hann til að fylgja mér til árinnar og bjóst við, að við mundum geta náð þar tali af Hamilton.

"En við verðum að ná í bát, einhverja kænu, til þess að við getum róið móti bátaflotanum þegar hann kemur," sagði prestur er hann hafði hugsað málið um hríð.

"Allir bátarnir eru lokaðir inni. Getið þér ekki lánað bát hjá Indíánunum? Þekkið þér engan þeirra " spurði eg vandræðalega.

"Og láta svo allan skarann fara að elta okkur! Nei nei, það dugar ekki. Eg er hissa að þér skuli koma önnur eins heimska í hug, drengur? En, þey, hvað var þetta?

Báðir heyrðum við alt í einu gluggahlera opnaðan uppi yfir okkur, en í myrkrinu gátum við engan séð.

"Hm!" sagði prestur. "Við höfum látið heyra til okkar! Við erum dáindisefnilegir samsærismenn. Hver skyldi hafa staðið á hleri?"

"Þey!" sagði eg og hélt í hann, því að hann ætlaði að ryðjast af stað.

"Hver er þarna?" heyrðist nú spurt með skærri og hljómþýðri röddu.

Eg mundi nú hvaða gluggi var á móti bekknum. sem við sátum á. Líkneskjan hafði alt í einu lifnað við, og var ekki jafnköld. eða tilfinningarlaus eins og eg hafði ímyndað mér. Mér datt í hug, að hún hefði vilst á okkur og elskhuga, sem hún hefði von-

ast eftir, svo að eg fór einnig að flýta mér burtu, en þá var aftur kallað með sömu hugljúfu, silfurskæru röddinni.

"Farið þér ekki — prestur! — prestur! séra— Eg þarf að tala við yður! Eg hefi heyrt hvert orð!"

Okkur séra Holland varð báðum hverft við og litum upp í gluggann. Við gátum að eins séð votta fyrir fölleitu andliti þar.

"Ef þér vilduð gera svo vel og setja hér tvo bekki hvorn upp á annan og vatnsfötuna þar ofan á, þá hugsa eg að eg geti komist niður til ykkar," sagði hún í lágum biðjandi rómi.

" En eg sé ekki að þér eigið nokkurt minsta erindi niður," svaraði presturinn undrandi.

"Svona verið þið fljótir! Ætlið þið ekki að koma með bekkina?" var spurt aftur.

"Nei, það dettur okkur ekki i hug," svaraði prestur, alvarlega.

"Jæja, þá verð eg að stökkva niður," sagði hún þóttalega.

"Og hálsbrjóta yður," sagði prestur.

Nú heyrðum við að stigið var út í gluggann, og sáum að ungleg stúlka var komin upp á gluggakistuna við því búin að stökkva niður.

"Bíðið þér við!" kallaði eg skelkaður, því að eg sá í anda líkneskjuna fallna til jarðar. "Bíðið þér við, nú komum við með bekkinn. Eg setti hvorn upp á annan og þar ofan á fötuna. "Bíðið þér!" kallaði eg og steig upp á neðri bekkinn. Réttið mér hönd yðar," og um leið og eg náði í höndina á henni

hoppaði hún út úr gluggakistunni, ofan á fötuna og þaðan niður á jafnsléttu, og gerði það svo laglega, að mig fór að gruna, að þetta væri líklega ekki í fyrsta sinn, að hún hefði farið svona út um glugga.

"Hvað á þetta að þýða ungfrú góð?" spurði prestur þóttalega. "Nú samþykki eg ekki neina nýja vitleysu sem yður kann að detta í hug. Vitið þér það, að þér eruð að tefja fyrir þessum unga manni framkvæmdir, sem geta riðið á mannslífi. Segið mér umsvifalaust hvað þér viljið."

"Mig langar til að bjarga Miríam! Komið nú fljótt!" og hún greip í handlegg hvors okkar um sig. "Það er bátur í sefinu hér niðri á árbakkanum; eg skal vísa ykkur á hann. Við getum komist á honum yfir ána! O! verið þið nú fljótir! Fljótir! Sumir bátar Hudsonsflóa flotans eru þegar komnir fram hjá."

"Hvernig farið þér að vita það?" spurðum við báðir í einu.

"Eg heiti Franziska Sutherland. Faðir minn er einn af landnemum Selkirks, og okkur voru gerð orð um að þeir færu hér um í nótt. Svona, komið þið nú! Komið fljótt!"

Og þessi unga stúlka var þá dóttir manns, sem lést vera vinur beggja félaganna. Og hjálpin, sem hún veitti okkur neyddi mig til að verða honum ekki að meini! Það fór að verða býsna erfitt að þræða braut skyldunnar. En stúlkan var þotin af stað á undan okkur og við sáum að eins óljóst til hvíta kjólsins hennar í myrkrinu, og hún fylgdi okkur út

úr virkinu um dyr, sem lágu frá varðhúsinu að baka til. Síðan nam hún staðar í runnum nokkrum.

"Nú skulið þér fara og útvega okkur blys hjá Indíánunum til að lýsa okkur hér um bakkann," hvíslaði hún að séra Holland. "Þeir munu ekki furða sig á því að þér æskið slíks. Þér eruð altaf mitt á meðal þeirra!"

"Ungfrú Sutherland," tók eg til máls þegar prestur var farinn, "mér er mjög illa við, að þér skulið vera að stofna yður í þessa hættu og—"

"Verið þér ekkert að fást um það," svaraði hún nokkuð hvatskeytilega, svo að það minti mig á það þegar eg sá líkneskjuna fyrsta sinni.

"Eg hefi líka alveg gleymt að afsaka við yður ókurteisina, sem við sýndum yður þegar þér leiddust að koma út um gluggann til okkar," sagði eg alt í einu.

"Þér getið slept öllum slíkum afsökunum," svaraði hún jafnkuldalega eins og áður. "Eiginlega eruð þér verri en eg hugsaði þegar þið voruð að vandræðast út af bátleysinu. En um ókurteisi yðar hirði eg ekkert. Hún var aðeins hlægileg."

"Ó-já!" svaraði eg vandræðalega. Stundum getur staðið svo á að snjallast sé að þegja.

"Um ókurteisi yðar hirði eg ekkert," endurtók hún, "og—og—þér verðið að gjalda líku líkt um mína ókurteisi. Þér vitið að fólk, sem hefir heimfrá, getur naumast borið ábyrgð á gerðum sínum. Gott, þarna koma blysin! Ljáið mér eitt, séra Holland. En haldið þessu vel niðri þangað til við komum ofan

að ánni, annars verður okkur veitt eftirför."

Hún þaut síðan af stað og fór á undan okkur gegnum sefið. Það var auðheyrt á henni, að hún hafði bæði orðið vör við ókurteisina, sem eg hafði sýnt úti fyrir glugga hennar kveldið fyrir, og að hún mundi eftir henni. Fullvissan um það fanst mér ekki óskemtileg.

Vindurinn þaut ömurlega í sefinu. Eg gerði mér ekki ljósa grein fyrir því, að eg var öðruhvoru að líta um öxl, því að óþægilegar endurminningar um örvar og spjót voru ríkar í huga mínum; eg varð þess fyrst fyllilega áskynja þegar séra Holland kallaði til mín og sagði:

'Hvað er þetta drengur? Þú ert auðsjáanlega hræddur. Og hvað hræðistu?"

"Djöfulinn!" svaraði eg og það var satt.

'Guð komi til! Það eru að vísu fleiri en þú sem hræðast hann. En minnstu að veita djöflinum mótstöðu, og þá mun hann flýja þig!"

"Ekki sá djöfull sm ásækir mig," svaraði eg og skýrði honum frá örvunum og spjótinu og allur glensbragur fór af honum.

"Eg þekki hann, eg þekki hann vel. Enginn verri þorpari er til milli Quebec og Athabasca."

"Við hvaða djöful eigið þér?"

"Þinn, drengur. Það er óþarfi að ræða um hann með gáska. Varaðu þig á honum! Eg veit að hann hefir framið fleiri morð en eitt. En hann er kænn, afar-kænn! Við höfum engar sannanir

gegn honum, sjálfur er hann háll eins og áll, annars kynnum við að geta—"

"Í þessu flaug lómur upp úr sefinu, og lá við að hann stryki vængjunum framan í prest.

"Heilaga María, hjálpaðu okkur!" kallaði prestur og var lafmóður af að fylgja ungfrú Sutherland eftir. Herra trúr! Eg hélt að þetta væri sjálfur djöfullinn.

"Er það satt? Haldið þér að það væri hægt að réttlæta það ef Stóri-Djöfullinn væri tekinn fastur?" spurði eg. Franziska Sutherland hafði nú hægt gönguna og við vorum öll orðin samsíða. Þur reyrleggur brotnaði undan mér og eg sökk niður um leið, rétt eins og eg hefði verið að forðast nýja örvadrífu.

"Réttlæta það, að taka hann fastann!" hrópaði hann. "Ef þú vissir um alt það illa, sem hann hefir gert, þá mundirðu ekki vera í efa um það," og mælti annaðhvort orð á írsku, eins og hann var vanur þegar honum var mikið í hug.

"En eg hafði hann einu sinni á valdi mínu, séra Holland. Eg sló hann, en drap hann ekki, og sé eftir því!"

"Og hver er að tala um að drepa, morðvargur? Náðu honum á þitt vald, og þegar þér hefir hepnast það, þá skal eg segja þér hvað þú átt að—"

"En eg gleymdi að segja yður, séra Holland, að hann var einn ræðara minna. Eg hafði hann á valdi mínu."

Han nsneri sér alt í einu við og lét birtuna af blysinu falla framan í sig.

"Hafðirðu hann á valdi þínu—vissir hvað hann hafði fyrir sér gert—og lést hann sleppa?"

"Já, eg slepti honum. Eg verð að játa það?"

"Seg heill sögu!" hrópaði hann. "Drottinn tekur að sér hefndina fyrir þína hönd! Hann mun selja illgerðamanninn í hendur refsandanum! Seg heill sögu!" endurtók hann. "Og eg vona að þú fáir að hafa eins góða samvizku alla þá stund sem þú dvelur hér, eins og þú hafðir þegar þú komst hingað."

"Amen!" sagði eg.

"Hérna er báturinn," sagði Franziska Sutherland, í því að við komum úr sefinu niður að ánni þar sem báturinn var bundinn. "Verið þið nú fljótir! Eg ætla að bíða hérna. Það er betra að eg fari ekki. Hudsonsflóa bátarnir fara með fram hinum bakkanum!"

"Við getum ekki skilið yður hér eftir," sagði séra Holland.

,'Eg verð hér kyr," svaraði hún. Það hefir verið farið fram mínum ráðum hingað til í kveld."

"En við viljum ekki týna einni konu til að finna aðra," sagði eg andmælandi.

"Farið þið!" sagði hún og stappaði niður fætinum reiðulega. "Þið eyðið tíma í heimsku-mas! Haldið þið að eg bíði hér til einskis? Það getur vel verið, að ykkur hafi verið veitt eftirför, og eg ætla fá vissu mína um það meðan eg bíð! Eg fel mig

í sefinu! Farið þið nú!" og aftur stappaði hún niður fætinum.

Og stapp þessa litla fótar, sem var lítið stærri en barnshendi, nægði til að koma okkur báðum af stað, þó við værum stórir og sterkir og við tókum að róa, auðmjúkir, yfir ána.

"Hefurðu nokkurntíma séð valdalegri kvenvarg jafnungan; svona drotningarlegan kvenvarg?" spurði prestur forviða af undrun.

"Hún er hugrökk eins og drotning," svaraði eg.

"Og er hjartadrotning líka, hugsa eg. Já, nú væri gaman að vera ungur!"

Hún hefir hlotið að slökkva á blysinu sínu, því að nú var ekkert ljós að sjá í sefinu, þegar eg leit við. Við rerum hægt yfir ána, og hlustuðum milli áratoganna hvort við heyrðum nokkuð til flotans. Enginn hávaði heyrðist annar en gutlið í vatninu við malargrjótið í bakkanum. Við lögðum upp árar í ofurlítilli vík, og vorum viðbúnir að leggja út þaðan þegar flotinn nálgaðist.

Við þurftum ekki að bíða lengi. Stefni á Indíánabáti gægðist hljóðlega fyrir tangann og færðist skjótt nær okkur. Eg tók eitt eða tvö árartog, og bátur okkar rann beint á hinn. Um leið brá séra Holland upp blysinu og hrópaði:

"Halló! Leggið upp árar! Hægan!"

"Víkið úr vegi!" var hrópað reiðulega aftur til okkar úr myrkrinu. Víkið úr vegi—eða við skjótum!"

"Skjótið þið ef þið þorið, asnarnir ykkar!" kall-

aði eg í móti, því að eg vissi að þeir mundu aldrei þora það að vekja virkisbúa með skotum; um leið lögðum við að bátnum.

"Hvar er Eiríkur Hamilton?" spurði eg.

"Farðu til fj.... Þig skiftir það engu! Víkið úr vegi! Hverjir eruð þið?" öskraði maðurinn á hinum bátnum.

"Svarið—strax!" kallaði séra Holland, og hélt að þeir mundu fremur virða orð kennimannsins, og tókst mér í þessu að koma mínum bát fast upp að hinum.

"Sláðu hann með árahlumminum maður!" öskraði stýrimaðurinn til hásetans, sem næstur mér var.

"Skjóttu hann!" grenjaði annar.

"Mikil svívirðing er að heyra til ykkar, djöflarnir ykkar!" hrópaði prestur, hristi blysið og réttist upp, svo að búningur hans sást greinilega. Skammist þið ykkar ekki fyrir að hafa hótað að skjóta trúboða. Ykkur væri sæmra að sýna kirkjunni maklega lotningu. Hvar er Eiríkur Hamilton?" hrópaði hann af mikilli reiði og greip um borðstokkinn á báti þeirra hægri hendinni.

"Sleppið!" hrópaði stýrimaðurinn og reiddi upp stöng járnvarða í annan enda.

"Sleppi eg—dirfist þið að skipa mér?" öskraði kennimaðurinn hamstola og otaði blysinu að bátshöfninni. "Haldið ykkur saman illfyglin ykkar," sagði hann og hristi til bátinn. "Reynið að vera eins og menn svo sem andartak, annars sökkvi eg ykkur til grunna öllum í einu þorpararnir ykkar! En eg

efast um að fiskarnir vilji ykkur! Það eru þokkaleg svör sem þið veitið við kurteislegum spurningum! Hvað gátið þið vitað nema við værum að vara ykkur við virkisbúum? Skammist þið ykkar! Hvar er Eiríkur Hamilton, spyr eg aftur?"

Sumir ræðaranna þektu prestinn og nú var farið að hvíslast á í aðkomubátnum.

"Hamilton er langt á undan—kominn upp fyrir fossa," svaraði stýrimaðurinn.

"Þá skulið þið færa honum orðsending þessa unga manns, ef ykkur langar til að komast úr hreinsunareldinum," sagði séra Hollnd ofurlítið rólegri.

"Segið Hamilton," hrópaði eg, "að hún sem hann er að leita sé fangi hjá Sioux Indíánum við Winnipegvatn, og að hann skuli hafa hraðan á. Segið honum þetta og hann mun launa ykkur vel."

"Ef þið haggið nokkru orði." bætti presturinn við, "þá skal bölvun mín senda ykkar aumu sálir í kvalastaðinn."

Séra Holland slepti þá borðstokknum, árarnar féllu niður í vatnið og báturinn hvarf út í myrkrið.

Aftur datt mér í hug, að okkur væri veitt eftirför, og einu sinni fanst mér að Indánabátur væri rétt á eftir okkur, þegar við vorum að róa yfir að hinum bakkanum aftur. Séra Holland lyfti upp blysinu sínu og skygndist yfir ána, en gat ekkert séð nema skuggana af okkur, sem féllu á gljáan vatnsflötinn. Hann sagði, að eg hefði hlotið að sjá ofsjónir; og það var satt, að í seinni tíð hafði Stóri-

Djöfullinn staðið mér fyrir hugskotssjónum í svo glöggum og margvíslegum myndum, að eg átti bágt með að reiða mig á skilningarvit mín. Alt í einu sáum við blysFranzisku Sutherland skína upp úr sefinu. Eg lagði eyrað við og heyrði hana kalla áður en við lentum.

"Indíánabátur fór fram hjá rétt áðan; sáuð þið hann ekki?"

"Nei." svaraði séra Holland.

"Jú, eg held að við höfum séð hann," svaraði eg.

— — —

"Ekki veit eg hvernig eg á að þakka yður fyrir alla þessa hjálp," sagði eg við Franzisku Sutherland um leið og við vorum að fara inn um virkisdyrnar sömu leið, sem við höfðum farið út.

"Langar yður mikið til að vita það?"

"Já, vissulega!" svaraði eg alvarlega.

"Þá vildi eg helzt að þér hættuð alveg um það að hugsa, og allra helzt vildi eg, að þér gleymduð því algerlega, að við höfum nokkurn tíma sézt—og"

"Þetta eru harðir skilmálar."

"Og—"

"Og hvað?" spurði eg með ákefð.

"Og að þér hjálpið mér aftur upp sömu leiðina sem eg kom. Því að ef pabbi — ó — ef pabbi vissi — þá mundi hann ganga næst lífi mínu."

"Og eg mundi ekki lá honum það," sagði séra

Holland. "Það er mikið í húfi að stofna yður í svona háska."

Við settum upp bekkina á ný. Af bekknum steig hún upp á fötuna og af fötunni upp á öxlina á mér upp á gluggasúluna, þá laumaðist eg til að kyssa á pilsfald hennar rakan af náttdögginni.

"Hm! hm! hm!' 'heyrði eg til prestsins. "Það skyldi þó ekki liggja gifting í loftinu."

"Enga von á eg á því," svaraði eg. "En eg hefði gaman, að þér bentuð mér á einhvern mann hér inni í virkinu, sem gæti annað en orðið hugfanginn af ungri stúlku, sem lagt hefir líf sitt í sölurnar, og jafnvel það, sem er lífinu dýrmætara, til þess að bjarga annari konu."

"Og drottinn minn góður! Það væri þorpari, sem ekki yrði það," svarað prestur.

---

## IX. KAPITULI.

*Líkneskjunni færðar blómfórnir.*

Eg átti býsna oft leið fram hjá glugganum hennar daginn eftir. Einu sinni varð eg var við, að hún leit til mín, og tillitið var dæmalaust fyrirlitlegt; eg fór þá að hugsa um, hvort kvisast hefði nokkuð um hina óvirðulegu viðureign við Louis Laplante, og hraðaði mér yfir í hinn enda virkisgarðsins og hafð-

ist þar við. Eftir það fóru aðrir að ganga fram hjá glugganum, en þeir þreyttust skjótt á því, rétt eins og eg.

Eg var ekki enn þá orðinn laus við austrænar velsæmis-tilfinningar. Eg fékk sönnun fyrir því mjög bráðlega. Þegar ruddalegu skipshafnarmennirnir okkar voru að stíga í bátana, fanst mér það átakanlegt að sjá þessa veikbygðu stúlku koma með föður sínum niður að vatninu til að verða þessum lýð samferða. Að frátöldum föður hennar, prestinum, Duncan Cameron, Cuthbert Grant og sjálfum mér, þá voru í för þessari sex tugir óbilgjarnra æfintýramanna, sem hvorki hræddust guð eða menn. Mér fannst það einkennileg föðurumhyggja, sem kom fram í því, að láta dóttur sína verða að þola óskammfeilið augnaráð, ruddalegt tal og jafnvel bein móðgunaryrði slíkra manna. En áður en ferð þessari var lokið, þá fékk eg að kynnast hinni vestrænu kurteisi, sem hvorki er auðvelt að skilgreina eða gleyma. Þegar þau feðginin voru að setjast í bátinn, þá kom óásjáleg, flatfætt kona á *moccasin*-skóm — líklega kynblendingur og kona einhvers skinnakaupmannsins í virkinu — hlaupandi niður á vatnsbakkann með sælgætisböggul í hendinni; hún kysti ungu stúlkuna blíðlega á báðar kinnar að skilnaði, og óskaði henni mjög innilega varðveizlu drottins á leiðinni.

„Æ! æ!“ 'tautaði óstýriláti ungi Norð-Vestmað-

urinn, sem hafði verið borinn burt úr veizlusalnum kveldið fyrir, og var í hálfillu skapi eftir drykkjuna. "Lítið þið á þetta býflugu-fituhlass, sem er að sjúga hunangið úr rósinni! Það mundi margur vilja eiga slíks kost! Við erum komnir hér út í eyðimörk týndra tækifæra!"

Unga stúlkan settist í bátinn, og voru í honum auk föður hennar og Duncan Camerons, engir aðrir en ræðararnir, og eg er viss um, að mörgum hinna yngri skinnakaupmanna hefir gramist stórum þetta nýja tækifæristap.

"Sjáðu, Billespie, sjáðu!" tautaði kunningi minn sa í veizlusalnum. "Litla-líkneskjan situr í barkanum á bátnum. sem fer næstur á undan þínum bát. Eg þori að segja, að þú verður að færa henni fórnir alla leiðina upp eftir Rauðánni."

"Eg býst við, að við gerum það allir,' 'sagði eg.

Og það reyndist satt; og ef eg vildi brúka orðalag Jack McKenzie frænda míns, mundi eg segja, að eg þyrði að veðja höfði mínu um það, að enginn hafi sá verið meðal hinna ungu manna í átta bátshöfnunum alls, sem ekki leit svo á, að marmara-kalda andlitið í stafni bátsins, sem fyrstur fór, væri bezta leiðarstjarnan sín. En þetta hvíta andlit, sem kom niður undan barðabreiðum hattinum. bundnum undir hökuna, að þeirra tíma sið, það virtist vera jafn-óafvitandi um okkur eins og stjörnurnar á hveli himins-

ins. Þó að hún kunni að hafa tekið eftir því, að einhverjar lifandi verur voru í bátunum á eftir henni og að þær verur voru menn, þá lét hún það alls ekki á sér sjá. Ekki var Litla-líkneskjan — við vorum farnir að nefna hana því nafni — harðbrjósta. Þó að hún bæri óttablandna virðingu fyrir föður sínum, sem var alvarlegur maður, þá voru blíðuatlot hennar við föður hennar hinum ungu mönnum mikið afbrýðisefni. Varla höfðum við fyrri lent, þar sem við kusum okkur náttstaði, en þau feðginin leiddust burtu, og tóku að ganga sér til skemtunar, en öllum samferðamönnunum leiddist það í meira lagi. Eg hefi oft verið að velta því fyrir mér, hvort það hefði getað verið, að návist þessarar ungu stúlku mundi hafa valdið þeirri gagngeru breytingu, sem varð nú á framferði vatnaferðamanna. Það var satt, að vísu, að þeir blótuðu enn þá, en þeir gerðu það í lágum hljóðum. Langtum færri sögur voru nú sagðar, og vissri tegund gamanyrða var nú ekki fagnað með jafnmikilli háreysti eins og áður. En mörgum okkar tók smásaman að gremjast það, hvað hún veitti okkur litla athygli, og sumir gerðu sér það að reglu að snúa við henni bakinu þegar hún fór fram hjá. Einum ungum manni og hvatvísum varð það á að segja að Litla-líkneskjan væri stolt, en jafnskjótt fékk hann okkur alla hina á móti sér, og við heimtuðum að hann sannaði orð sín; en hann dirfðist ekki að

reyna það. Eg er viss um, að ef hún hefði haft nokkra ástleitni í frammi, eða sýnt saklaust samúðarþel, og ýmsar smáglettur, sem kænar konur beita til að stela hjörtum ofurhuganna, þá þori eg að segja, að til mikilla vandræða hefði dregið. Eg hefi oft vitað það verða orsök sjálfsmorða, áfloga, illinda og því, sem er enn verra, þegar slíkar fávísar konur hafa komið í hóp jafn ósvifinna manna. Eg nefni þesskyns konur fremur "fávísar" en falskar, því að það er ekki saman takandi fals kvenna og sú fávizka þeirra, sem gerir menn að djöflum.

Þannig héldum við áfram ferðinni með leiðarstjörnu okkar í framstafni bátsins sem á undan var. Leið okkar lá fram hjá óteljandi eyjum, um þröng og skerjótt sund og um endalausa vatnavegu, sem teygðu sig alla leið frá Stórvötnunum vestur á sléttturnar eins og flókin silfurlindi, settur smaragðlitum gimsteinum. Á leiðinni upp eftir Rainy River settum við á einum stað tjöld á viðivöxnu harðvelli hjá járnauðugum klettum. Kveldloftið var þrungið ilmi vorblómanna. Eg gat ekki annað en dáðst að þeim mikla og töfrafagra jurtagróðri, sem líta mátti á þessum norðlægu stöðvum. Tæpur mánuður aðeins var liðinn frá því, að jökulábreiða vetrarins lá sveipuð yfir þetta land, og eg hefi heyrt gamla menn, sem áttu þarna heima, segja frá því, að vetrarfrostið kæmist fjögra feta djúpt ofan í jörðina. Þó mátti

hér sjá jurta gróður rétt eins og í hitabeltinu sem óx með feikna hraða; frostið hafði leyst úr jarðskorpunni efst, og það var að smáþiðna og hleypa raka í gljúpar rætur jurtanna í þessum óræktaða aldingarði. Harðvellisgrasið lá til hálfs í legu í skógarjaðrinum hné-hátt. Skógarnir voru orðnir eintómt laufskrúð. Að neðan vöfðust grænir burknar og fjölgresi upp á miðja trjáboli, og að ofan slúttu laufprúðar greinarnar niður, svo að varla varð neitt bil á milli; alt þetta laufskrúð bifðist og bærðist til í kveldgolunni líkast svífandi dansmeyja skara í austrænum veizlusal. Hvervetna lagði blómilminn fyrir vit manni, á árbakkanum, þar sem tjöld okkar voru reist, í háu grasinu og í skóginum eigi síður. Þar var angan blómanna svo hrein, unaðsleg og heillandi einsog roði á meyjarvanga, eins og töfravald hugljúfra drauma eða samhljómur fjarlægra söngradda. Ruddablærinn, hið ytra leynir sér að vísu ekki á skinnakaupmönnum, en þeir hafa ekki skemt sig á lystisemdum stórborganna. Jafnvel okkur fanst náttúran breiða þarna faðminn móti okkur og bjóða okkur í hann. Þessvegna var það ekkert undarlegt að sjá þau feðginin fara að ganga sér til skemtunar eftir kveldverð eins og vant var. Um leið og þau voru að hverfa inn í skóginn, slepti hún handlegg föður síns og laut niður eftir einhverju.

'Farin að tína blóm," sagði skinnakaupmaðurinn

einn alvarlega. Það var sá sem hafði átt við Louis Laplante með mér á vatnsbakkanum; um leið hallaði hann sér út af upp að trjábol og sogaði í sig kveldloftið í löngum teigum. Allir horfðum við á þegar þau voru að hverfa.

"Finnið þið fjólu-ilm?' 'spurði sólbrendur maður í hjartarskinntreyju.

"Hér vex fjarska mikið af fjólum," sagði unglingurinn með mikla skeggið.

"Já, hér er líka mikið af maíblómum og sóldöggum," sagði tötralega klæddur maður, einhver óbilgjarnasti fjárhættu spilamaður í öllum hópnum. Hann var nú að stokka afaróhrein spil og gerði það eins og í leiðslu.

"Heyr!" hrópuðu í senn einir fimm eða sex þeirra, sem þarna voru. Mér flaug strax í hug, að nú væri hægt að fara og tína blóm án þess að tekið yrði eftir því.

"Maíblóm í Júni!" sagði unglingurinn háðslega.

"Já, er það nokkuð ótrúlegt. Á þessum stöðvum má Maí gjarnan heita Júní," svaraði hinn maðurinn. Hér vex 'Gleym mér ei' líka. Þið getið fundið nóg af þeim inni í runnunum."

"Gleym mér ei. Hvað er gleym mér ei?" spurði unglingurinn.

Veiztu það ekki?" spurði fjárhættuspilamaðurinn. "Það er ofurlítið bláleitt blóm, sem vex oft

nálægt burknum. Svona. Nú er mál að fara að spila. Hverjir vilja koma í slag?"

"Nei, hérna eru brönugrös!" hrópaði sólbrendi veiðimaðurinn. Hvernig haldið þið Litlu líkneskjunni yrði við, ef hún fyndi þau. Hún, sem er dauðhrædd við alla karlmenn? Nei! Haldið þið ekki að hún mundi roðna? Heyrðu, drengur minn! Þú skulir ekki stökkva af stað, tína þau og fylla tjaldið hennar með þeim!" Og stóri veiðimaðurinn rak upp hrossalegan hlátur, sem margir urðu til að taka undir. Síðan söfnuðust menn saman og fóru að spila.

"Sælir piltar!" sagði írski presturinn. Hann hafði nálgast svo hljóðlega, að spilamennirnir höfðu ekki orðið hans varir, og forsprakkinn hafði með naumindum getað stungið á sig spilunum. "Eg held að þið séuð allir orðnir grasafræðingar í seinni tíð Er hjartafriður einhverra ykkar á förum?"

"Það er ekki ósennilegt," svaraði unglingurinn

"Þetta er alt Litlu-líkneskjunni að kenna," sagði hávaxni veiðimaðurinn.

"Hversvegna segirðu alt af líknerskja? Því geturðu ekki sagt líkneskja eins og rétt er?" spurði unglingurinn með unggæðingslegum vandlætingarþótta.

"Það situr sízt á þér, sem varla er sprottin grön, að ætla að fara að segja mér til. Eg segi aldrei annað, en það sem eg meina," svaraði hinn. "En

eg get sagt þér það, að hún vill hvorki heyra þig né sjá. En líknerskja er hún sannarlega, og fögur og göfugleg líknerskja, sem hefir haft þau áhrif, síðan hún kom í okkar hóp, að engum okkar hefir hrotið ókurteislegt orð af vörum."

Og þegar eg lagði af stað út í skóginn með svo kærulauslegu látbragði sem mér var unt, þá heyrði eg að presturinn hrópaði. "Ágætt!" yfir vörn þeirri, sem veiðimaðurinn færði fram í máli sinu. Hvernig stóð á því, að eg var kominn út í skóg og farinn að vaða þar í efjunni, sem tók mér í mjóalegg? Nú óttaðist eg ekki lengur neinn óvin sem lægi á launsátri; Stóri-Djöfullinn, þorparinn sá árna var horfinn,—hafði flúið burtu frá Fort William. Hann hafði ekki sést eftir að floti Hudsonsflóa manna hafði farið fram hjá. Eg hafði bent séra Holland á þetta, og hann var eftir það ekki eins fastur á því, eins og hann hafði verið, að eg hefði séð töfrabát um nóttina. En það var ekki um þetta, sem eg var að hugsa um leið og eg reif barkarfliksu af stóru birkitré og vatt hana saman í nægtahorn. Ekki hafði mér komið það til hugar heldur, að eg mundi mæta þeim feðginum í skóginum. Hvað hégómagjarn maður, sem hefði verið, mundi hann þó ekki hafa búist við að hafa nokkurn hag af slíku móti; enginn maður er svo gerður, að honum sé nokkur þægð í því að horft sé á hann augum, sem

ekki virðast sjá eða líta á hann eins og hann væri dauður hlutur í náttúrunni. Engum er þægð í slíku augnatilliti; hvað falleg sem augun kunna að vera. Samt sem áður var marmara andlitið hugumkært mörgum þessum harðhuguðu mönnum, en á þann hátt, að fæstir vildu um það ræða. Eg hélt því áfram að troða blautum mosa ofan í barkarhornið. Eg raðaði liljum of sóldöggum út við barmana, en í miðju setti eg háan pýramída úr fjólum. Leðjan sem eg var að kafa í leit út fyrir að enda myndi í keldu, en þar var alt hulið elfri-runnum og pílviði. Eg steig upp á niðurfallinn trjábol og reyndi varkárlega að komast niður að liljuskúf, sem óx lengra fram í bleytunni. Auðsjáanlega var einhver hinumegin keldunnar, sem langaði til að ná í þennan sama liljuskúf, því að eg heyrði braka þar í greinum og skvamp þegar stígið var ofan í vatnið.

"Hallo! Gillespie! Hvað ert þú að gera hér?" spurði skeggjaði unglingurinn og rak upp á mig augun alveg forviða.

"Mig langaði til að spyrja þig að því sama," svarað eg.

Það var hálfskoplegt að sjá hann. Hann hafði farið úr moccasin-skónum og sokkunum, bundið þá saman og brugðið um öxl sér. Buxurnar hafði hann brettar upp að hnjám, hattfylli sína af liljum í annari hendi, en burknavönd í hinni, og með þetta var

hann að kafa þarna í bleytunni og leðjunni.

"Eg skal segja þér," tók hann til máls, frámunalega sauðarlegur, "eg var að hugsa um að hún mundi eiga bágt með—að—að ná í þessar liljur sjálf, og því væri vel—vel gert—að tína þetta----fyrir----fyrir----hana og----"

"Sleptu öllum skýringum," svaraði eg hranalega. "Eg er hér í sömu erindagerðum."

"Eg skal segja þér, Gillespie," hélt hann áfram eins og hann væri að segja mér eitthvað í trúnaði, "þegar maður hefir hvorki séð móður sína eða systur í mörg ár—"

"Já drengur, eg veit að þú ert af barnsaldri!" greip eg fram í.

"Og maður finnur að ekkert er við að styðjast, sem leiðbeini manni á rétta braut," bætti hann við, "þá er það huggun, að kynnast annari eins manneskju eins og Litla-líkneskjan er," og um leið sleit hann upp nokkur gul blóm með hinum hvítu. "Hérna er ofurlítið í körfuna þína," sagði hann. "Það er býsna auðvelt að verða að ræfli hérna," mælti hann ennfremur.

"Ekki þó jafn auðgert eins og í bæjunum," svaraði eg.

"En eg hefi lent í hverskonar spillingu sem um er að gera í bæjunum," svaraði hann. "Það var þessvegna sem faðir minn sendi mig út í óbygðir."

"Og þess vegna er það, að óbygðunum hérna er kent um alt illgresið, sem fræið hefir verið fengið til í gömlu löndunum, en sáð síðan í jarðveginn hér. Eg rétti honum höndina og togaði hann upp á trjábolinn, sem eg sat á. Hann settist þar hjá mér tók að dingla til fótunum og skola leirinn af tánum á sér.

"Heyrðu!" sagði hann. "Hvernig ætlarðu að koma þessu til hennar?"

"Eg ætla að fara með það inn í tjaldið hennar!"

"Jæja, Gillespie; þegar þú fer með þín blóm, þá værirðu vís að fara með mín lika. Það ættirðu að gera. Það væri vel gert af þér! Gerðu það!" Hann var farinn að klæða sig í sokkana.

"Nei, það geri eg ekki. Eg gæti öldungis eins beðið þig hins sama,' 'svaraði eg.

"En heyrðu! Heldurðu að séra Holland mundi ekki fást til að fara með þau?" Hann var nú búinn að binda á sig moccasin-skóna og staðinn upp.

"Eg veit ekki; það getur vel verið."

"Hann mundi aldrei þagna á að stríða manni á því. Heldurðu það ekki?" spurði pilturinn. "Jæja, þá skulum við koma! Farðu á undan. Hann gekk upp eftir trjábolnum á eftir mér. Báðir vorum við skömmóttulegir eins og drengir innan við fermingu.

Við læddumst báðir inn í tjaldið, eina tjaldið sem okkur var nokkra vitund annt um það kveld. Þar

lögðum við niður blómabyrðar okkar á bekk, sem var þakinn vísundafeldum.

"Fljótur!" hvíslaði félagi minn alt í einu. "Stíngdu þessum burknum einhverstaðar. Fljótur! Hún er vís að koma bráðum!" Hann skildi mér eftir að hagræða því, sem eftir var, og þaut út að tjaldskörinni. "Hamingjan hjálpi okkur! En sú slysni!" veinaði hann upp yfir sig, og í því heyrði eg að hann rak sig á einhverja í tjalddyrunum.

"Þetta er þá drengurinn, eins og eg er lifandi maður! O-o-o hrekkja lómurinn! Þetta gastu!" heyrði eg sagt var í dimmum rómi og þekti rödd skinnakaupmannsins, sem átt hafði með mér við Louis Laplante. "Hvað eruð þið að gera hér?"

"Og þetta er þá ekki nema þú! Hamingunni sé lof!" hrópaði unglingurinn og hopaði aftur á bak. "Hvaða erindi átt þú hingað sjálfur? Drottinn minn! En hvað þú gerðir mér ilt við! Og þú ert ekki einn. Skárri er það söfnuðurinn! Sjáðu til, Gillespie!" Þegar eg leit fram sá eg sauðarlega, skömmóttulega, flírulega andlitið á skinnakaupmanninum, tannhvassa sólbrenda veiðimanninn og tötralegabúna fjárhættuspilamanninn alla saman safnaða við tjalddyrnar, og allir voru þeir með föngin full af blómum.

"Eg er svo sem hissa!" sagði veiðimaðurinn. "Nú úr því að hún hefir sýnt okkur öllum sömu fyr-

irlitninguna," sagði fjárhættuspilamaðurinn smeðjulega, "þá er líklega réttast fyrir okkur að—"

"Að færa líkneskjunni blómfórnirnar strax," sagði drengurinn hlæjandi.

"Þetta var stórt tjald, einkanlega langt, svipað matsölutjöldum; súlur voru undir báðum endum; milli þeirra strengdum við stög og tókum við að festa þar á blóm, mosa og burkna, og vissum ekki fyrri til en við heyrðum að einhver kom að dyrunum.

"Drottinn minn sæll og góður! Hvað gengur á hér?" Við þutum frá því, sem við vorum að gera eins og við hefðum verið staðnir að þjófnaði. Inn kom faðir Franzísku Sutherland; hann varð sem steini lostinn við að sjá þetta, en við hlið hans mátti sjá framan í kafrjóða stúlku með opinn, brosandi munninn. Hvít blómadrífa féll alt í einu niður og fimm menn þustu fram hjá þeim tveimur, sem í dyrunum stóðu og hurfu út í myrkrið, sem var að detta á. Eg var skamt kominn þegar eg rakst á prestinn.

"Skárri er það nú gangurinn! Hvaða óskapa asi er á þér. Er nokkur að elta þig Nei, engar afsökunar bænir!" sagði hann.

Þegar Litla-líkneskjan steig út í bátinn sinn daginn eftir, þá hafði hún sóldaggarblóm í hárinu, maíblóm á brjóstinu, fjólur við belti sér og eg veit ekki hvað í körfunni, sem hún var með. Hún virtist ekki

sjá okkur frekar en áður, en það var einhver blíðleiki í augnaráðinu, þegar hún horfði niður fyrir sig, sem eg hafði ekki tekið eftir. Einu sinni sá eg hana líta snöggvast á okkur rannsóknaraugum, eins og hún væri að reyna að þekkja úr sökudólgana; hún lét augun hvíla á mér svo sem andartak og eg fékk strax ákafan hjartslátt. En eg sá að hún horfði öldungis eins og jafnlengi á hvern hinna, og að þeim varð við öldungis eins og mér; einkum sá eg að drengnum varð mikið um þetta. Það kom svo mikið fum á hann, að eg hélt að hann mundi hvolfa bátnum sínum.

Ferðin gekk mjög greiðlega upp að Rauðárósi. Þar höfðu Hudsonsflóamenn undir forustu Colin Robertsons tekið sér hvíld. Þar frétti eg það, sem mér þótti furðu gegna, að Eiríkur Hamilton hafði ekki staðnæmst þarna heldur haldið áfram upp Rauðána til Fort Douglas. Mér gat ekki skilist að þetta ferðalag Eiríks gæti á nokkurn hátt staðið í sambandi við flótta Stóra-Djöfulsins frá Fort William.

Eftir stutta viðdvöl við enda Winnipegvatns, héldum við bátaflota okkar í suðurátt og hröðuðum ferðinni upp Rauðána gegnum hávaxnar starir, sem uxu við árbakkana. Þegar lengra dró suður hækkuðu bakkarnir að ánni og reykir sáust gjósa í loft upp frá híbýlum landnema Selkirks lávarðar. Kven-

fólk með net í höndum, sem það veifaði til að fæla burtu mikinn sæg svartþrasta, og karlmenn sem komu þjótandi af ökrunum, köstuðu á okkur kveðju vinsamlega þegar við fórum fram hjá. Þarna lentu þau Sutherland-feðginin. Sumir skinnakaupmennirnir töldu það góðs vita, að landnemar Hudsonsflóa félagsins skyldu heilsa Norð-Vestmönnum svo vinsamlega, en við einn buginn sem skolälit Rauðáin lá í, sást ydda á hyrningu Douglas virkisins, þar sem McDonnell var æðsta ráð, en byssukjaftarnir, sem ginu þar móti manni í skotaugunum, voru alt annað en vingjarnlegir fanst mér.

Við fórum fram hjá Douglas-virki án þess að okkur væri nokkurt mein gert, héldum áfram eftir Rauðánni þangað sem hún og Assiniboine-áin falla saman, og stigum af bátunum við Gibraltar-virki, sem var höfuðból Norð-Vestmanna við Rauðá.

---

## X. KAPITULI.

### *Stúlkan í dularbúningnum.*

"Og hlær hann að stefnunni frá okkur?" hrópaði Duncan Cameron. "Bíðum við! Við skulum kenna honum að virða stefnur gefnar út samkvæmt

43. lagagrein Georgs konungs III." og foringi Gibraltar-virkisins tók að rusla í skjölum á skrifborði sínu og stappaði óþolinmóðlega niður fótunum.

Þar sem Assiniboine-áin fellur í Rauðána myndast nærri því rétt horn, og í þeirri hyrningu eða tungu var virki Norð-Vestmanna, kallað eftir kastalanum alþekta við Gibraltarsund. Nafnið var þannig valið fyrir þá sök, að við litum svo á, að með því að gera virkið þarna gætum við ráðið ferðum manna, sem kæmu og færu vatnaleiðina, sem lá inn í Norðvesturlandið, alveg eins og kastalinn við Gibraltar getur ráðið skipaferðum inn í Miðjarðarhaf og út úr því. McDonnell kafteinn hafði hugsað sér að gera okkur grikk með því að láta reisa virki Hudsonsflóamanna svo sem einni mílu neðar við Rauðána. Það var kænlegt bragð, því að þeir í Douglas-virki gátu bannað flota Norð-Vestmanna , sem kom frá Montreal, leið upp að Gibraltar virki, eða þeim, sem ætluðu frá Gibraltarvirki til Athabascaár. Tveim dögum eftir að við komum hafði Cuthbert Grant farið með flokk skógbrennumanna til Douglas-virkis í þeim erindagerðum, að taka höndum Miles McDonnell kaftein fyrir það, að hann hefði rænt kaupstaði Norð-Vestmanna. Kafteinninn gerði gys að stefnunni og rak flokk þeirra Norð-Vestmanna af höndum sér og lék þá hraklega. Utan á virkisvegginn voru límdar áskoranir þar sem landnemarnir voru hvattir til að

grípa til vopna, verja skinnakaupmenn Hudsonsflóafélagsins og Indíánum bannað, að eiga kaup við Norð-Vestmenn. Þetta varð til að reita skógbrennumennina til reiði á ný og voru þeir þó fullgramir Hudsonsflóamönnum áður.

Einkennilegur kynþáttur voru þeir þessir kynblendings-veiðimenn sléttunnar, sem í bjó allur hinn mikli grimdarofsi óargadýranna og ýmsar hrottalegar eðlishvatir dýrslegra manna. Að faðerni voru þeir komnir af frönskum ættum, en í móðurkyn frá Indíánum. Þeir höfðu erft snarræði og ofdirfsku Frakkanna jafnhliða þrautseigju, þrótti og hugrekki Indíánanna, en um leið alla þá leti og framtaksleysi, sem er einkenni hvorratveggju. Það var ekki óvanalegt, að þeir dræpu óvini sína lauguðu hendur sínar í vörmu mannsblóðinu, eða legðu mörg ár saman til að koma fram hefndum, en það er mikið efamál, hvort það hefir nokkurn tíma viljað til, að skógbrennumaður hafi misþyrmt fjölskyldu óvinar síns. Þegar franskur maður kvæntist Indíánakonu þá afklæddist hann öllum sínum menningarvoður, eins og þær væru flíkur, sem færu honum svo illa, að hann gæti ekki í þeim verið; og hann gerðist Indíáni. Þegar skozkur maður gekk að eiga Indíánakonu, þá reyndi hann að gera hana jafnmentaða sér, og ef það tókst ekki til fullnustu, þá urðu börnin það samt. Annar var sem Ismaelíti eyðimerkurinnar, hinn eins og Ísraelíti sléttunnar, sem hann varði æfi sinni til að yrkja.

Þannig var þeim háttað þessum óstýrilátu mönnum sem Cuthbert Grant var foringi fyrir, og var hann til þess kjörinn vegna sinna ágætu foringja hæfileika.

Það var orðið áliðið dags þegar stefnuvotturinn kom aftur frá Douglas-virki. Eg var önnum kafinn við skrifborð mitt. Séra Holland var enn þá hjá okkur. Hann var að bíða eftir því, að skinnakaupmenn legðu af stað suður. Duncan Cameron stikaði fram og aftur um herbergið órólegur, eins og ljón búri. Frammi í forstofunni heyrðist háreysti og traðk.

"Nú er Grant kominn og líklega enginn með honum," tautaði Cameron og reyndi að dylja reiði sína; rétt í þessu snaraðist stefnuvotturinn sjálfur inn. Hann var þungur á brúnina, og virtist sem eldur brynni úr augum hans. Mér varð eins og ósjálfrátt að líta upp frá því sem eg var að gera, og presturinn leit til mín undrandi spurnaraugum. Grant kom ekki með neinum ofstopa. Hann var ekki vanur því. Nokkrum sinnum gekk hann þegjandi fram og aftur um herbergisgólfið og sagði síðan mjög rólega: "Sumir eru þeir álfar að vilja leika sér að púðri. Eg er ekki í þeirra tölu. Sumir eru líka þau börn, að þeir leika sér að því að glettast við óargadýr! Mér er illa við þesskyns leiki! Það eru til þeir galgopar, sem þykjast af því að brjóta lögin! Þeir ættu að fá smjörþefinn af því."

"Hvað — hvað — hvað þá ' 'hrópaði hálending-

arinn, og stökk til Grants, fyrst að hægri hliðinni og síðan að þeirri vinstri, og jós um leið úr sér óbótaskömmum um McDonnell kaftein og Douglas-virki. "Hvað ertu að segja, maður? Er það satt, að þú komir fangalaus?"

"Hann hlær að skógbrennumönnum. Flónið hlær að skógbrennumönnunum. Eg hefi séð skugga rófur draga augun í pung frammi fyrir úlfi, og sömu skuggarófurnar verða þeim úlfi að bráð litlu síðar! Hann hlær að stefnu þinni, heimskinginn sá arna. Hann hæddist að henni! Og við vorum reknir út úr Douglas-virki eins og rakkar! Stefnuvottur lýsti síðan áhrifum þeim, sem auglýsingarnar, er límdar höfðu verið á virkið, hefðu haft á fylgismenn sína og var nokkuð beiskorður.

"Og það er þá svo, að Miles McDonnell kafteinn, æðsti herforingi, skógarliðsveita drotningarinnar, býður okkur byrgin," hrópaði Cameron af mikilli reiði.

"Já!" svaraði Grant, 'en honum kemur sú tign að litlu haldi. Við fórum um nýlenduna og helmingur íbúanna er á okkar bandi, og—"

"Það er gott! Það er ágætt!" svaraði Cameron með mestu ánægju.

"Þeir eru orðnir dauðþreyttir á verunni hér," hélt Grant áfram, "og mundu fara burt héðan á morgun, ef við gætum lagt þeim til bátana. Í fyrravetur lá við að þeir syltu í hel. Hjá Hudsonsflóafé-

laginu fengu þeir ekki aðrar vistir, en þránaða feiti og ormamjöl."

"Það er ekki svo ólagleg aðferð að stofna ný lendur á þann hátt, að flytja landnema út í óbygðir og vopna þá þar til bardaga," hreytti Cameron út úr sér. "Við skulum taka "spanið" af byssunum hans með því að flytja nokkra fleiri burtu."

"Við höfum tekið "spanið" af byssunum hans á enn hagkvæmari hátt," sagði Grant þurlega. "Sumir þessara vina hans eru svo hræddir um, að hann muni taka af þeim byssur þeirra, og skilja þá eftir varnarlausa, ef þeir ekki snúist gegn okkur, að þeir hafa sent vopn sín hingað til öruggrar geymslu. Og eg vona, að við geymum þau vel fyrir þá." Grant brosti og skein í tennurnar á honum, svo að alls ekki var viðkunnanlegt að sjá; og minti mig á þegar hundur fitjar upp á trínið.

"Gott! Gott! Ágætt, Grant!" Slíkt herkænskubragð hugnaði Cameron. "Sjáðu til Cuthbert minn við höfum lögin okkar megin — og stefnuformið til að framfylgja þeim. Eg held við ættum að láta hann fá að viðurkennast þenna þrjót þinn. Hann hefir rofið friðinn. Móti því verður ekki mælt. Komdu með mér, við skulum tala út um þetta."

Síðan fóru þeir báðir út, en um leið og þeir fóru fram hjá glugganum heyrði eg Grant segja: "Lofum honum að reyna að hlutast til um skinnaverzlun Indíánanna. Honum verður það ekki of gott. En

þessi síðasta skipun hans um að banna að selja—" Meira heyrði eg ekki.

"Honum væri það mátulegt, þó að þeir gerðu það," svaraði Cameron og síðan hurfu þeir báðir.

Við séra Holland vorum eftir einir tveir. Þögnin í virkinu varð ömurleg. Innan stundar heyrðum við hófdyn, sem smáfjarlægðist, en við heyrðum ekki í hvaða átt hesturinn fór.

"Eg er hræddur um, að hvorirtveggju verði helzt til fljótir á sér," sagði presturinn.

Sólskífan sýndi að miðaftan var kominn. Eg lokaði skrifstofunni. Síðan snæddum við kveldverð í borðsalnum einir. Þegar við vorum mettir fórum við yfir að norðaustur hliðinu, og fórum að horfa yfir að Douglas-virki, því að okkur grunaði að eitthvað væri á seiði. Eg ætlast ekki til þess, að þessi vitnisburður minn verði skoðaður sem álas, hvorki gegn Hudsonsflóamönnum eða Norð-Vestmönnum. En það, sem við sáum, var það, að Duncan Cameron ásamt öðrum hvítum mönnum úr virkinu, stóðu á hæð nokkurri kippkorn frá Gibraltar-virki og störðu þeir í áttina til þess. En yfir nýlendunni mátti sjá reyki rísa, sem stigu til himins.

"Eru þeir að brenna heystakka?" spurði eg.

"Já, og hús líka! Þetta er mesta illvirki, að brenna ofan af fólki húsin rétt undir veturinn! Þetta er svívirðilegt tiltæki! Félag þitt hefir aldrei hag af þessu, Rúfus."

Nú heyrðist dauflega í náttmyrkrinu tíðir hvellir, eins og mörgum skotum væri skotið í sífellu.

"Nú eru þeir að ræna hlutleysingjana," sagði prestur. "Eg vona að guð gefi, að ekki verði blóðsúthellingar hér á sléttunni í nótt. Þessir skammsýnu skinnakaupmenn vita ekki hvað það hefir í för með sér að æsa upp ilsku Indíánanna. Þeim lærist það bráðum! Ef eirrauðu djöflarnir komast á blóðbragðið á annað borð, þá verður þess ekki langt að bíða, að enginn hvítur maður verður með hausskinni alt vestur að Klettafjöllum! Eg hefi verið sjónarvottur að því, að hrekkvísir félagar þínir hafa spanað Indíána upp í móti óvinum sínum, og úrslitin hafa ávalt orðið á einn veg. Indíáninn er vopn, sem bítur vel á að sníða af höndina, sem á því heldur."

Mig óraði lítið fyrir því þá, að eg myndi fá að reyna sannleikann, sem fólst í þessum orðum.

"Líttu upp, drengur! Hvað ertu að hugsa? Hvað er þetta?" hrópaði hann alt í einu og benti niður á árbakkann.

Það var því líkast, sem manneskja kæmi þar upp úr jörðinn' Hún kom hlaupandi beint að virkishliðinu.

"Líklega kynblendingsstelpa, sem hefir orðið hrædd," sagði prestur.

Eg sá að þetta var stúlka. Hún hafði sjal yfir sér, öldungis eins og Indíánakonur.

"Bon soir!", sagði eg eins og vant var að segja

við Indíánakonur, en hún hægði ekki á sér og stefndi beint í hliðið.

Allir menn voru farnir burt úr virkinu. Mér flaug strax svikræði í hug, og að fleiri kynblendingar lægi í leyni við árbakkann þaðan sem hún hafði komið.

"Hingað og ekki lengra, flagðið þitt! "hrópaði eg og ruddist fram fyrir hana, greip um úlnliðinn á á henni svo fast, að hún hljóp í hálfhring áður en hún gat numið staðar. Hún streyttist mikið við til að losa sig. "Hægan! hægan, flagðið þitt!"

Hægan—hvað?" var spurt með lágri unaðslegri rödd, sem mér fanst þó ganga í gegnum mig. Sjalið sveipaðist af henni og féll til jarðar, en frammi fyrir okkur stóð stúlka marmarahvít í andliti.

"Litla-líkneskjan!" stamaði eg í ofboði vegna þess sem eg hafði sagt.

"Litla—hvað?" var spurt aftur með sömu rödd og áður, enn þá kuldalegar þó, og hún leit reiðulega niður á hönd sína, sem eg hélt enn um eins og ósjálfrátt.

"Eg væri yður þakklát, herra prestur," sagði hún með nístandi fyrirlitningu, "ef þér vilduð láta hundinn yðar sleppa mér."

"Sleptu henni drengur!" hrópaði presturinn og sló þungt högg á handlegginn á mér. Við það áttaði eg mig og sannfærðist um það, að hún var ekki njósnari.

"Hundinn yðar!" En hvað mér sveið það. Eg slepti hendinni á henni skyndilega, eins og eg hefði gripið á glóandi koli. Kona getur troðið á karlmanni og jafnvel margtroðið á honum en hún verður að gera það með lempni. Að öðrum kosti getur farið svo, að jafnvel ormur þoli það ekki og snúist til varnar. Eg hafði dáðst að þessari stúlku með marmaraandlitið. Eg hafði og fært henni hugheilar fórnir. Eg hafði þráð það vikum saman að heyra eitthvert vingjarnlegt orð af vörum hennar. Og nú loksins, þegar hún ávarpaði mig, kallaði hún mig hund og það afarfyrirlitlega. Þetta var mér ómögulegt að þola.

"Eg bið yður margfaldlega fyrirgefningar, ungfrú Sutherland!" sagði eg með miklum þótta, sem eg ætlaðist til að kæmi henni illa. "En þegar ungar hefðarmeyjar dulbúa sig eins og Indíánastelpur — klifra út um glugga" — það var ljótt af mér að storka henni á því, af því hún gerði það Miríam vegna — "og þegar þær birtast þar sem maður á þeirra enga von, þá þurfa þær ekki að búast við því, að þær verði þektar."

Hún lét ekki svo lítið að svara mér, en sneri sér að séra Holland og mælti:

"Verið þið ekki að eyða tímanum í óþarfa mælgi."

Þá snaraðist eg í burtu frá henni og gekk niður á fljótsbakkann.

Þegar eg var að fara af stað heyrði eg hana segja:

"Æ, séra Holland. Eg verð að fara til Pembina! Eg á fjarska bágt! Franskur maður—"

Hún á bágt, hugsaði eg; hún á bágt, og eg hefi að eins verið að hugsa um mína eigin metorðagirnd. Eg nam staðar á fljótsbakkanum og var að velta því fyrir mér hvort eg ætti að snúa aftur eða ekki. Köll ræningjanna, sem voru á heimleið, heyrðust nú hljóma yfir sléttuna. Eg heyrði hófdyninn færast nær og hugsaði sem svo, að hættan á að verða fyrir skógbrennumönnunum er þeir kæmu aftur, væri nóg afsökun fyrir mig að snúa við.

"Komdu hingað drengur!" hrópaði séra Holland. Það þurfti ekki að segja mér það tvisvar. "Þú verður að tygja þig til í snatri og fylgja ungfrú Sutherland aftur til Douglas-virkis. Hún ætlar að fara til Pembina til að finna föður sinn, og eg fer suður til Missouri. Og heyrðu, drengur minn," bætti séra Holland við og leit hikandi til ungfrú Sutherland "mér er að detta í hug, að þú getir kannske gert henni greiða."

Litla-líkneskjan horfði nú beint framan í mig, og eg sá ekki betur, en að stirndi á tár undir löngum augnabrúnunum. Eg ætla ekki að færast í fang að lýsa því undra valdi eða töfrakendu áhrifum, sem dulist geta í gráum augum ungrar og fríðrar stúlku, en þess vil eg geta, að jafnskjótt sem hún festi á mér

augun, þó það væri ekki nema andartak, og mér varð litið á hvíta ennið, bogadregnar brúnirnar, tindrandi varirnar, blómlega vangana og hárið, sem liðaðist fagurlega um andlitið, þá vakti hún mér þá und, sem ekki er gróin enn í dag! Mikill dæmalaus ruddi hafði eg verið! Eg blygðaðist mín, og þorði ekki að líta framan í hana. Ef dreypifórn andlitsroða getur á annað borð mýkt skap reiðrar gyðju, þá var eg lifandi vottur slíkrar iðrunar. Mér fanst eg fá eins og hitaflog af blygðun. Hún hefir sjálfsagt tekið eftir fátinu, sem kom á mig, því að hún sneri sér undan til að dylja fyrirgefning sína.

"Í virkinu þarna er hrekkvís franskur maður, sem hefir móðgað ungfrúna. Mér kom til hugar, að hann mundi verða háttprúðari, ef þú létir eitthvað af reiði þinni bitna á honum. Vertu fljótur! Eg heyri til kynblendinganna, sem nú eru að koma aftur."

"En eg er með skilaboð," sagði hún í hálfum hljóðum.

"Frá hverjum?" spurði eg eins og út í bláinn.

"Frá Eiríki Hamilton,' 'svaraði hún.

"Eiríkur Hamilton!" endurtókum við prestur báðir í einu.

"Já — er það nokkuð undarlegt? Hann er særður og vill finna einhvern Rúfus Gillespie, Norð-Vestmann. Skógbrennumennirnir skutu á þorpið. Hvar er Rúfus Gillespie?"

"Og blessuð — blessuð mín, hann — er hérna!"

Presturinn sló á bakið á mér við hvert orð, "Hann er hérna óður og uppvægur að komast á fund Eiríks Hamiltons."

"Eruð þér — Rúfus — Gillespie?" Og hún hafði þá jafnvel ekki vitað, hvað eg hét. Það var auðséð, að þó að mér væri hughaldið um hana, þá var hún ekki mikið að hugsa um mig.

"Hann hefir sagt mér svo margt af yður," hélt hún áfram forviða af undrun. "Hvað hugrakkur og góður—"

"Sleppum því!" hreytti eg út úr mér. "Hver eru skilaboðin?"

"Mr. Hamilton vill fá að finna yður, strax!" svaraði hún kuldalega.

"Þá geturðu unnið tvent í senn! Þú getur fylgt henni heim — og fundið Eirík Hamilton!" sagði presturinn.

Kynblendingarnir voru nú komnir mjög nærri.

"Látið aftur á yður sjalið!" og séra Holland vafði því um höfuðið á Franzisku Sutherland eins og Indíánakonur eru vanar að hafa það — í skýlu.

Hún stóð þannig mjög alvarleg að baki honum meðan eg hljóp inn í varningshúsið eftir skozkum dularbúningi handa mér. Þegar eg kom aftur stóð Duncan Cameron í virkishliðinu og var að þakka Cuthbert Grant og skógbrennumönnunum fyrir starf þeirra, eins og það væri nokkur frægð að ræna varnarlausa landnema. Það getur verið, að það sé hug-

næmt að sjá sigurvegara koma aftur úr orustu, en það er síður en svo uppbyggilegt að sjá hóp kynblendinga, blóðuga um hendur eftir nýunnin ofbeldisverk.

"Hvaða drós hafið þér hér heilagi faðir!" spurði einn ósvifinn strákur í hópnum og benti á stúlkuna með sjalið yfir sér.

"Láttu stelpuna vera," svaraði prestur og kynblendingurinn skók hausinn flírulega.

Eg var kominn á fremsta hlunn með að bjóða Franzisku Sutherland að leiða hana gegnum þennan þorparahóp, þegar séra Holland hnubbaði mig stinningsfast í síðuna.

"Asninn þinn! Þú ert fljótfærið flón!" hvíslaði hann, "manstu ekki, að hún er kynblendingsstúlka hér? Það er kominn tími til að austræna heimskan hafist úr þér. Láttu hana koma á eftir þér auðmjúka og niðurlúta. Annars fáið þið allan skarann á hælan á ykkur!"

Eftir þessa áminningu lagði eg djarflega af stað, og hún á eftir, niðurlút og auðmjúk eins og kynblendingsstúlka.

Við hlupum niður götuna, sem til árinnar lá gegnum pílviðinn. Þar stigum við í Indíánabát og komumst skjótt fram hjá ármóti Rauðárinnar og Assiniboineárinnar. Þar stigum við úr bátnum og hlupum götu, sem lá neðan við brattasta árbakkann þangað til við heyrðum ekki lengur hróp kynblendinganna. Þegar þar var komið sneri eg við og bauð

að leiða hana. Hún hefir sjálfsagt marið sig á fótunum. því að hún var í þunnum moccasin-skóm, og eg sá að hún skalf af þreytu.

"Ætlið þér að leyfa mér að leiða yður?' 'spurði eg og rétti henni höndina eins kurteislega eins og hún hefði verið hefðarmey í austrænum danssal.

Þakka yður fyrir, eg verð líklega að þiggja það," svaraði hún hikandi og lagði höndina á handlegg mér.

Mér hugnaði illa þetta hik hennar, og nú þegar við vorum úr allri hættu, varð návist hennar mér til mestu gremju. "Hunds"nafnið hafði sært minn drengjalega metnað svo sárt. Hvað var það. sem eg heyrði? Var það þytur vindsins, eða stunur, eða þögull grátur? Mig langaði til að komast að hinu sanna en eg vildi þó ekki líta um öxl til hennar, því að hún var orðin ofurlítið á eftir mér. Eg hægði á mér. Hún gerði það líka. Særð metnaðargirnd ungs manns er harðari hverju steinhjarta, en nú heyrði eg sagt með svo mjúkri og unaðslegri röddu, að hvert steinhjarta hlaut að mýkjast fyrir henni: "Eg held annars að eg fari að verða hundavinur!"

"Einmitt það?" svaraði eg kuldalega, og sýndi mig ólíklegan til gamanyrða.

"Já. eg vil fylgd þeirra, en ekki fjandskap, vernd þeirra en ekki láta þá bíta mig." Hún lagði mikla áherzlu á orðið þ á.

"Já. svaraði eg og lagði jafnmikla áherzlu á þetta

fleirtöluorð: "*Þeir* eru kvenfólki stundum happasendingar."

Hún þagnaði þegar eg sagði þetta, og eg fann að titringur fór um hana.

"Er yður kalt?" skauzt upp úr mér. "Þér verðið að lofa mér að láta þetta ofan yfir yður," og eg tók af mér skozku ábreiðuna og lagði hana yfir hana. Hún vildi það ekki.

"Mér er ekki vitund kalt," svaraði hún fjörleysislega, — það eru einu ósannindin, sem eg hefi heyrt hana segja. — "og eg vil ekki að þér segið við mig '*þér verðið*'" og um leið kipti hún að sér hendinni undan handleggnum á mér. Hún var svo skjálfröddluð, að eg sá þann kost vænstan að láta hana ráða.

"Fyrirgefið mér, ungfrú Sutherland", sagði eg í bænarrómi. "Eg veit að eg er klaufafenginn ruddi."

"Já, eg felst á það; klaufafenginn hundur, og tannhvass!"

"Hundur!" sama móðgunaryrðið aftur! Eg bauð henni ekki aftur að leiða hana! Við héldum áfram og horfðum sitt í hvora áttina. Eg lét ábreiðuna lafa niður til að sýna henni, að hún gæti fengið hana ef hún vildi. Við höfum sjálfsagt gengið með þessu vinsamlega látbragði um fjórðung úr mílu, og loksins heyrðist mér ekki betur en hún væri farin að halda niðri í sér hlátrinum. Loks tók hún til máls með þessari undarlegu og áhrifamiklu rödd, sem mér

fanst líkast hressandi uppsprettulindar-úða í vörmu sólskini.

"Það er dagsanna," sagði röddin unaðslega við hliðina á mér, "þetta er einhver sú undarlegasta saga, sem eg hefi heyrt."

"Saga " endurtók eg, nam staðar og einblíndi á hana forviða.

"Já, og hún afar-undarleg!" Þar að auki er hún skemtileg og unaðsleg!"

"Skemtileg og unaðsleg!" endurtók eg aftur og undraðist enn meir. Mér var þessi stúlka alger ráðgáta, og það er fátt, sem ungir piltar á mínu reki ekki þykjast geta skilið.

"Það er heldur en ekki ánægjulegt, sem á daga yðar hefir drifið!"

"Á daga mína?"

"Já, hafið þér ekki vitað af því, að þér hafið verið að halda fyrirlestur um það núna góða stund? Nei? Munið þér ekki?" og hún rak upp óstjórnlegan hlátur annaðhvort af gletni eða kulda.

"Jæja,' 'svaraði eg og gat nú ekki annað en tekið gamninu vel, "ef þér gefið mér eins dags fyrirvara, þá skal eg reyna að borga yður þetta."

"Loksins hefir mér þó tekist að hafa úr yður vonzkuna. Það hefir ekki verið áhlaupaverk!"

"En eg er eftir mig!"

"Eg vona að þér hressist skjótt!"

"Þakka yður fyrir!" svaraði eg og hneigði mig

kurteislega fyrir henni.

"Svona nú, svona nú!" sagði hún og hætti nú glensinu jafnskjótt eins og hún hafði byrjað á því. "Þér voruð ósvífinn við gluggann minn! Eg var ósvífin við virkishliðið. Þér sneruð hendina á mér nærri því úr liði."

"Þér getið ekki ásakað mig." svaraði eg. "Þér launuðum mér með því að leika á mig og ræna hjartafriði—"

"Sussu! sussu!" greip hún fram. "Nú skulum við fara að tala um annað."

"Já, velkomið, ef þér viljið lofa mér að láta á yður ábreiðuna, svo að þér hættið að skjálfa!" Eg var ófús á að láta undan skilmálalaust.

"Mér er illa við 'en" og "ef" og alla skilmála," svaraði hún og stappaði niður fætinum, "en — en", bætti hún við hikandi, "ef—ef þér viljið hafa sjálfur annan endann á ábreiðunni, þá skal eg hafa hinn."

"Mér er vel við "en" og "ef". Hafið þér nokkuð fleira slíkt að bjóða?" Því næst sveipaði eg hlæjandi ábreiðunni yfir okkur bæði, og um leið tók eg í hendina á henni og slepti ekki því taki.

" Er annars — svona — svona fjarska kalt? " spurði rödd undir ábreiðunni.

"Ja-a-á!" svaraði eg hreystilega og tók þéttara um höndina á henni. Hún hló lágan, mjúkan hlátur, sem eg fékk af mikinn og tíðan hjartslátt. Mér fanst eins og renna á mig töfrakend styrkleiks-víma, svo að

mér væri auðið að jafna Douglas-virki við jörðu, ef mér sýndist, og leggja undir mig allan heiminn. Eg þori að segja, að flestir ungir menn hafa fundið til samskonar áhrifa, þegar líkt hefir staðið á fyrir þeim eins og mér.

"En Litla-líkneskja! Af hverju voruð þér svona harðbrjósta við okkur?"

"Okkur?" spurði hún

"Nú — mig þá," svaraði eg eins og í fáti.

"Af því—"

"Af því — hvað?"

"Ekkert *hvað*. Bara af því!" Hún virtist alls ekki geta skilið í því, að þessi ástæða nægði mér ekki.

"Af því! Svona eru ástæður kvenna!"

"Af því! Það er bezta, viturlegasta og heilnæmasta ástæða, sem nokkurn tíma hefir verið færð fram. Látið þér á, hvað hún sparar manni mikið að segja, og hvaða vísdómur getur falist á bak við hana!"

"Vísdómur!" endurtók eg.

"Já, en nóg um það. Segið mér nú meira um Miriam,". mælti hún.

Og þegar eg skýrði henni frá þeirri einkennilegu sendiför, sem eg hafði tekist á hendur, sagði hún lágt: "En hvað þetta var vel gert!" Og þessi orð juku mér þrek og þrótt á ný. Mér fanst eg vera orðinn Samson annar, fær um að leggja að velli heilan her Fílistea, þ. e. a. s., ef hún horfði á, sem eg vildi alt fyrir vinna.

"Er yður kalt núna?' 'spurði eg, þó að skjálftinn væri horfinn úr henni.

Nei, henni var ekki kalt. Hún sagði, að sér liði ágætlega, en hún var skjálfrödduð og hikandi og mér var það náttúrlega mesta fagnaðarefni.

"Eruð þér þreytt, Franziska?" spurði eg. Hún neitaði því brosandi, og brosið hvatti mig til nýrrar spurningar. Hvers vegna fanst mér þetta viðtal svo ánægjulegt? Hvernig stendur á því, að smávægilegustu spurningar og svör geta breytt jarðlífinu í paradís og mönnunum i engla?

"Finst yður vegalengdin mikil, Franziska?" Það er undarlegt, hvað manni getur þótt gaman að nefna sum nöfn.

"Vegalengdin mikil?' 'endurtók hún blíðlega, "ó-nei, ekki svo mjög. Eg veit annars ekki!" Svo fór hún að hlæja og við það náði hún sér, en eg tapaði mér að sama skapi mikið; og rétt á eftir smaug hún út undan ábreiðunni.

"Eg vildi að leiðin væri þúsund sinnum lengri," sagði eg og leit vandræðalega á þann enda ábreiðunnar, sem lafði niður eftir að hún hafði slept honum.

Ekki get eg um það sagt, hvaða vitleysu aðra eg kynni að hafa sagt, ef við hefðum ekki verið komin að virkinu. Eg varð því að vefja mig í ábreiðunni til að dyljast. Svo laut eg niður, sleit upp nokkrar

gullmurur, sem uxu við götuna, en fleygði þeim jafnskjótt niður aftur, því að eg hafði ekki hugrekki til að fá henni þær. Hún sagði inngangsorðið þegar við komum að virkinu. Það var haldið, að eg væri Háskoti vegna skozku köflóttu ábreiðunnar, sem eg bar, og var mér því hleypt umyrðalaust inn með ungfrú Sutherland.

Maður nokkur snaraðist fram hjá okkur í virkisgarðinum. Látbragð hans var alt nokkuð ósvífnislegt. Þetta var Louis Laplante, og eg fyltist strax svo megnri gremju gegn honum, að mér kom það nærri því ókunnuglega fyrir.

"Þarna var franski maðurinn," sagði hún lágt um leið og hann hvarf fyrir húshorn. Hún benti mér á ráðhúss-salinn, þar sem líklegt var að eg gæti hitt Eirík Hamilton.

"Og hvert ætlið þér?" spurði eg.

Hún benti mér þangað í virkið, sem landnemarnir höfðu sezt að, þeir sem flúið höfðu af eignum sínum. Eg fylgdi henni að dyrunum.

"Eruð þér alveg vissar um, að yður sé nú óhætt hér?"

"Já, alveg óhætt, meðan landnemarnir eru hér, og þér — þér gerið svo vel og gerið mér aðvart um, þegar presturinn ykkar leggur af stað til Pembina."

Eg fullvissaði hana um það með enn þá ákveðn-

ari orðum heldur en þörf var á, að eg skyldi gera það.

"Eru engir dimmir gangar þarna inni, sem óvarlegt sé að fara inn?"

"Nei, engir," og hún steig upp í neðstu stigatröppuna utan við dyrnar.

"Eruð þér vissar um það, að yður sé nú óhætt?" og eg fór upp í neðstu stigatröppuna á eftir henni.

"Já, þakka yður fyrir," hún færði sig enn lengra upp eftir tröppunum, "en ætlið þér ekki að fara að finna Eirík Hamilton?"

"Jú, — bráðum," svaraði eg stamandi.

Hún var nú komin upp í efstu tröppuna og hafði tekið á klinkunni á stóru útidyrahurðinni.

"Bíðið þér — Franziska — bezta!" kallaði eg.

Hún stóð rótlaus og eg fann það á mér, að þessi síðustu, ógætilegu orð, hefðu betur verið ósögð.

"Hvað þá? Eruð þér að bíða eftir því, að eg borgi yður eitthvað fylgdina hingað?"

"Eg er búinn að fá borgun fyrir hana," svaraði eg; "en eg ætlaði að segja, lengi lifi drotningin! Mundi hennar hátign þóknast að sæma sinn trúa og dygga riddara einhverju velvildar-tákni?"

"Hvaða velvildar-tákns krefst riddarinn " spurði hún.

"Þess, sem haft er til áherzlu, þegar boðnar eru *góðar nætur,*" sagði eg og steig upp á næsta stigahaft.

"Ósk yðar er uppfylt, herra riddari!" mælti hún og rétti mér skyndilega hönd sína, og þó að eg hefði ætlast til annars, kysti eg þakklátlega hönd hennar; en hún spurði: "Eruð þér nú ánægður?"

"Já, þangað til dortningin veitir meira," svaraði eg.

Hún stóð svo sem andartak kyr á þröskuldinum, eins og hún væri að hugsa um að snúa niður til mín; en svo tók hún snögt viðbragð, og hvarf inn fyrir dökka hurðina. Mér fanst því líkast sem um leið legðist svart myrkur að sálu minni. Rétt á eftir heyrði eg glaðværa söngröd, líkasta fagnandi rödd vorfuglsins, hljóma innan úr forstofunni, sem hún hafði farið inn í, og sá söngur vakti hugnæmt bergmál í brjósti mínu.

---

## XI. KAPITULI.

### *Sviksamlegt bandalag.*

Sú var tíðin, að ekki var síður glatt á hjalla í Douglas-virki, er skinnakaupmennirnir söfnuðust þar saman, heldur er í ráðssalnum í Fort William. Oft hefi eg heyrt gamla, þrautreynda þjónustumenn Hudsonsflóa félagsins skýra frá því, að drykkjustjórinn hefði verið vanur því, að fylla stóran leirbrúsa korn-

brennivíni og láta hvern mann drekka jafnmarga teiga eins og sandkornin voru mörg í stundaglasinu.

"Hvað líður sandkornunum?" var veizlustjórinn vanur að segja. Venjulega var hann og forstöðumaður verzlunarfélagsins. Hann öskraði þetta svo hátt, að yfirgnæfði allan drykkjuhávaðann.

"Hátt í því, herra!" gall einhver við í móti.

"Nýtt sandkorn féll, og nýtt minni var drukkið, og þannig hélt veizlan áfram. Þannig var háttað veizlugleði Hudsonsflóa- félagsmanna áður en fjandskapurinn hófst við Norð-Vestmenn. En kveldið, sem eg kom upp stigann á varningshúsi þeirra, þá var alt annar bragur á öllu þar inni í myrkrinu. Særður maður lá á hálmi í öðrum enda langa salsins. Skinnakaupmennirnir sátu á bekkjum meðfram veggjunum, eða stóðu í hópum ráðaleysislegir og ræddust við í hálfum hljóðum. Skozkir bændur, sem skógbrennumennirnir höfðu flæmt af eignum sínum, stóðu í þyrpingu annarsstaðar. Ljóskerin, sem héngu á járnsnögum niður úr miðjum sperrunum, gáfu frá sér daufa birtu, og eg varð að líta vandlega framan í æði marga áður en eg þekti þá til fulls frá Eiríki Hamilton. Eg vissi að vísu, að hann var særður. Kom mér því til hugar að komast svo lítið bæri á yfir til mannsins, sem lá á sjúkrabörunum yfir í hinum enda salsins. Eg var að laumast þangað, þegar hvíslað var að mér með dimmri röddu:

"Hver ert þú, laxi?"

Sá sem talaði, var loðbrýndur, búralegur Háskoti, og hélt hann víst eftir búningi mínum að dæma að eg væri skozkur drengur. Eg hvorki skildi né talaði skozku sem bezt og varaðist því að svara nokkru, en lét mér nægja, að tauta eitthvað ofan í barm minn. Maðurinn virtist gruna mig eitthvað, svo að eg flýtti mér frá honum út í horn, en eg sá að hann hafði alt af á mér augun.

Drengur nokkur fór fram hjá og raulaði vísu fyrir munni sér, sem ekki virtist eiga við á þessum stað. Hann stóð svo sem skreflengd frá mér og sló hælunum við gólfið eins og hvatvísum drengjum oft verður. Látbragð þessa pilts minti mig á einhvern, sem eg hafði kynst, en hann sneri bakinu að mér. Eg var að virða hann fyrir mér og hugsa um hvort eg ætti að gefa mig á tal við hann og spyrja hann, hvort hann gæti vísað mér til Eiríks Hamilton, þegar hann sneri sér við og eg þekti að það var skeggjaði unglingurinn frá Fort William. Hann þekti mig og blístraði hátt.

"Nei, nú er eg alveg hissa! Mér missýnist þó líklega ekki? Eg hafði hugsað mér, að þú værir einn þeirra fáu, sem aldrei gerast liðhlaupar."

"Liðhlaupar!' 'endurtók eg.

"Já, eg hélt að þú værir einn af þeim fáu, sem eru eins og gamlir ölvagnsklárar, sem alt af má

treysta og aldrei slá til vagnstjórans, hvað mikið sem hann lemur þá! Um mig er öðru máli að gegna! Eg er orðinn of gamall í hettunni til þess. Eg þoldi ekki ónot og illindi Duncan Camerons, þegar þeir voru að gefa mér ofanígjöf fyrir að taka mér ofurlítið í staupinu þá fór eg! En eg hélt, að það mundir þú aldrei gera, Gillespie."

"Eg gerði það ekki," svaraði eg og ætlaði liðhlaupanum að halda áfram.

"En hvers vegna fórstu þá, Gillespie? Þú ert ódrukkinn. Var það Cameron að kenna?"

"Hættu þessu þvaðri, drengur," sagði eg. "Þú veizt það eins vel og eg, að Cameron er ekki vondur við menn sína. Hvers vegna fórst þú sjálfur "

"Jæja, laxi, eg skal segja þér það, ef þú vilt segja mér, hvers vegna þú fórst."

"Inn þú þá af hendi þinn hlut samninganna."

"Jæja, hlustaðu þá á. Við höfum ekki farið út í þessa eyðimörk til einskis. Eg hefi leitað til þess, sem bezt býður."

"Hudsonflóafélagið er ekki hæstbjóðandi hér."

"Ekki nema svo vilji til, að maður viti það, sem því kemur vel að vita."

"Ójá, er því þannig varið?" Piltur þessi var þá að selja leyndarmál Norð-Vestmanna.

"Já, þú getur verið viss um, að það var engin lýgi. Heldurðu að eg hafi ekkert grætt á því að vera

skrifari gamla Camerons? Mín regla er þetta: Kauptu sem ódýrast og seldu þeim, sem hæst býður. Þess vegna er eg hingað kominn og þarf ekkert að gera — ekkert nema að segja sögur!" Og pilturinn saug upp í nefið af ánægju. "Og eg á hér alls góðs kosti, Gillespie! Litla-líkneskjan er ein heima. Faðir hennar er kominn til Pembina á vísundaveiðar. Eg hefi hlaupið ykkur alla af mér, hina keppinauta mína. Nú er eg að hugsa um að gera þig kunnugan vini mínum, frönskum heiðursmanni."

"Þér væri sæmra að snúa hann úr hálsliðnum," svaraði eg. Eg þóttist vita fyrir víst hver hann var, þessi franski maður, og unglingur þessi mundi auðvitað verða að leiksoppi í höndum hans.

"Ertu afbrýðissamur, Gillespie? Við erum farnir að kynnast henni."

"Já, þið sitjið líklega oft á tali við hana."

"Tali! Þvættingur! Hvað veizt þú um þetta? Laplante getur náð hylli allra stúlkna með því að líta á þær. Hann hefir franska siði, maður! Hann gefur ekki skáldunum eftir."

"Þorskhaus!" hreytti eg úr mér, því að eg fann bæði til megnrar reiði og afbrýði. "Þú ert grunnhyggið flón; þessi Laplante er þorpari, sem fer illa með þig áður lýkur."

"Hvað þekkir þú Laplante?" spurði hann reiður.

"Eg veit, að hann er slægur refur," svaraði eg rólega, "og ef þú vilt ekki koma þér út úr húsi hjá

Litlu-líkneskjunni, þá skaltu sem mest forðast að eiga nokkuð saman við hann að sælda."

Pilturinn varð alveg forviða.

"Hvar er Eiríkur?" spurði eg.

"Findu hann sjálfur," svaraði hann reiður og rauk frá mér.

Eg komst svo nærri særða manninum, að eg gekk úr skugga um, að hann var ekki Eiríkur Hamilton. Rétt við hálmhrúguna stóð hópur skrifara.

"Þeir eru flón," sagði einn þeirra. "Cameron hefir sent þau orð, að hann ætli sér að ná McDonnell dauðum eða lifandi. Ef hann gengur ekki á þeirra vald, þá verður þetta virki jafnað við jörðu og allir landnemarnir strádrepnir."

"Verið fullráðríkir nú þegar," svaraði annar. "Eg tel mig trúan félagi mínu, en Selkirk lávarður getur ekki komið hér á harðstjórnar heraga. Við hefðum betur séð Norð-Vestmennina í friði."

"Þetta er alt að kenna þessum litla tyktunarmeistara," sagði þriðji maður.

"Hafið þið heyrt það," sagði einn sem bættist í hópinn — "allir höfðingjarnir þarna inni eru að eggja McDonnell á að ganga á vald óvinanna til að bjarga virkinu"

"Ágætt! Ekki munum við gráta það. Hann fær þá ókeypis far til Montreal," sagði einn þeirra áköfustu í hópnum. "Eg segi ykkur það satt, að bæði

félögin hafa gengið heldur langt í þessu rannsóknarbraski. Í Souris var það á allra vitund—"

Hann lækkaði röddina og eg þokaði mér út í skuggann í horninu.

"Hver ert þú, drengur?" hvíslaði Skotinn í eyra mér.

Eg leit við og þekti hann; hann hafði veitt mér eftirför. Eg tautaði eitthvað aftur til svars og boraði mér inn í mannþröngina. Skyldi hann vera að njósna um mig? Eg þóttist vita, að ef "höfðingjarnir" — sem Hudsonsflóa maðurinn hafði nefnt — væru í herberginu þar rétt hjá, þá væri Eiríkur hjá þeim. Eg færði mig nær dyrunum og sá þá, að þessi skozki kunningi minn hafði fengið annan mann í lið með sér, og nú voru báðir á hælunum á mér. Eg greip um hurðarlásinn, ýtti hægt á hurðina; hún opnaðist og eg var kominn inn í herbergið áður en nokkur gat hamlað því. Eg kom þar inn í langt herbergi; þar var lágt undir loft og hallfleytt súð yfir, en djúpar gluggakistur. Það hafði augsýnilega verið þiljað af aðalsalnum, því að veggurinn, loftið og gólfið myndaði réttan þríhyrning. Í öðrum enda herbergisins var borð. Við það sátu nokkrir menn í mjög alvarlegum samræðum. Í gluggakistunni sátu nokkrir aðrir þjónar Hudsonsflóafélagsins eða umhverfis eldstóna á miðju gólfinu. Eg sá strax, að ekki mundi auðgert að ná tali af Eiríki. Hann hvíldi á sjúkrabörum skamt frá borðinu, og hafði aðra höndina í

fetli. Eg lít nú svo á, að það sé erfiðara óvönum mönnum að gegna hlutverki njósnara, þó að alt sé vel í haginn búið, heldur en alvönum manni að fást við það, þó að hverskyns örðugleika sé við að stríða. Annar kann ekki þá list, sem kemur í veg fyrir grunsemdir, hinn þarf ekki að kvíða því, að upp um sig komist. Eg staðnæmdist því innan við hurðina og hélt í hurðarsnerilinn, til þess að ekki skyldi heyrast, er hleypijárnið hlypi aftur. Ætlan mín var þó engan veginn að fara að njósna um leyndardóma Hudsonsflóa félagsins.

"Háborni herra!" tók Eiríkur til máls. Hann var svo þreytulegur að eg þóttist sjá, að leit hans hefði orðið árangurslaus. Hann var að ávarpa mikilúðlegan mann í herramannabúningi, sem eg hugði vera McDonnell af þeirri virðing, sem honum var sýnd. "Stefna Duncans Camerons er fyllilega lögmæt, eftir því sem mér sýnist,' 'hélt Eiríkur áfram. "Ef þér, háborni herra, gangið á vald þeirra, þá munuð þér bjarga Douglas-virki fyrir Hudsonsflóafélagið. En þessi handtaka endar vitanlega eins og skrípaleikur. Lögin í Austur-Canada gera hvergi ráð fyrir réttarhöldum í málum, sem gerast—" Hér þagnaði Eiríkur alt í einu, því að hann hafði komið auga á mig; samt sá eg, að hann vildi ekki gera það uppskátt að hann þekti mig, og lét augun hvarfla aftur að borðinu. Eg skildi það og þagði.

"Fyrir réttarhöldum í málum, sem gerast hvar?" spurði McDonnell hvatskeytslega.

"Sem gerast hér," svaraði Eiríkur og bar ótt á eins og hann ætti bágt með að tala af því að hann hefði fengið verk í handlegginn. "Þess vegna vona eg að þér, háborni herra, hikið ekki við að gefast upp fyrir Norð-Vestmönnum og bjarga virkinu fyrir félag vort."

"Læknirinn hefir sagt mér, að handleggur yðar sé þverbrotinn. Þess vegna er ekki að undra þó að þér fáið kvalir í hann," sagði McDonnell kurteislega við Eirík; því næst fór hann að líta á skjölin, sem hinir voru að skoða á borðinu og bætti því næst við: "Mér er að vísu ekki lagið að vinna sigra með friðarflöggum, en ef þeim, þessum aulum, er það hugnun að eg fái ókeypis ferð til Montreal, þá er mér sama þó að eg fari."

"Vel mælt, háborni herra!" hrópaði einn ruddalegur maður í ráðinu og rak um leið bylmingshögg í borðið. "Þetta kalla eg að leika stjórnviturlega á mótstöðumenn vora! Þér gefið gott eftirdæmi í löghlýðni, háborni herra. Þér hlýðnist stefnunni! Þeir ættu að sýna sömu löghlýðni og láta virkið í friði hér eftir."

"Og eg græði það á því að eg get látið Selkirk lávarð vita frá Montreal hvað mikinn liðsauka eg þarf hingað vestur,' 'hélt McDonnell kafteinn áfram

með kynlega lítilli virðingu fyrir lögunum, sem hann átti að hlýðnast, og fölskvalausri trygð við Selkirk lávarð.

Eiríkur horfði á mig kvíðafullur og átti eg bágt með að gizka á við hverju hann vildi vara mig. En innan skamms varð eg þess var, sem allmargir hafa tekið eftir einhvern tíma á æfinni, að þriðji maður var að líta eftir okkur báðum. Eg sá að Eiríkur horfði út í gluggakistuna beint á móti dyrunum, sem eg stóð við, og þar brá mér heldur en ekki í brún að sjá Louis Laplante stara á mig hvössum, tindrandi og illúðlegum augum. Það var gletnisfögnuður í augnaráðinu, rétt eins og maður gæti hugsað sér í köngulló, sem nýbúin er að veiða flugu í vef sinn. Þegar mér hefir komið eitthvað á óvart, þá hefir oft mátt með sanni heimfæra upp á mig þau ummæli, sem Jack MacKenzie frændi minn heiðraði mig með, að kalla mig "heimskan lóm". Jafnskjótt og eg sá Laplante slepti eg takinu á hurðarsnerlinum og lét hurðina falla þétt í fals með ofurlitlum smelli, sem vakti eftirtekt allra, er inni voru, og Louis Laplante rak upp hlátur.

"Hvað vilt þú hingað, maður-?' 'spurði McDonnell í höstum rómi.

Eg reif ofan húfuna og heilsaði.

"Þetta er maðurinn, sem eg átti von á, háborni herra!" greip Eiríkur fram í með hægð. "Komdu

hingað, Rúfus,' 'bætti hann við með valdasvip, rétt eins og eg væri þjónn hans. Louis Laplante kom hljóðlega á eftir mér, með dýrslegum vonzkusvip á andlitinu, sem minti mig á Indíána-konuna illu.

"Kondu sæll, Eiríkur!" sagði eg með ákefð. "Ertu veikur, og það á þessum tíma?" Án þess eg vissi af, var eg að búa með þessu í hendurnar á Louis Lap'ante, sem stóð við eldstóna rétt aftan við mig.

Eiríkur tautaði eitthvað um heimsku mína og sagði svo.

"Hér hefir átt sér stað sviksamlegt bandalag. Við höfum fengið nýliða frá Gibraltar-virki." Um leið og hann sagði þetta, leit hann hvössum rannsóknaraugum á Louis Laplnte.

Þótt undarlegt megi virðast, hvarf allur fagnaðarsvipur af andliti Louis og grunsemdarkvíði færðist yfir það. Hann gat ekki séð það á svip Eiríks, hvað honum bjó í brjósti. Eg þóttist vita, að eg mundi brátt komast að því, að hverju Eiríkur stefndi, og eg þorði ekki að líta af Louis til að fá vitneskju um það. Alt í einu lét Eiríkur prik nokkurt falla ofan á tána á mér, sjáanlega til að vekja athygli mína. Mér varð svo við, að eg hoppaði í háa loft. Þá fyrst datt mér það í hug, að Eiríkur væri að reyna að koma Louis Laplante til að trúa því, að eg hefði svikist burt frá stallbræðrum mínum Norð-Vestmönnum til að ganga í lið með Hudsonsflóafélagsmönnum. Eg ætla ekki

að fara að verja það tiltæki; það var einn hlekkur í þeirri löngu bragða-keðju, sem nú var verið að smíða. Beittara vopn barst mér skjótt í hendur gegn Louis, því að þegar eg greip upp prikið, sem Eiríkur fleygði ofan á tána á mér, fann eg að það var snarpt átöku vegna þess, að það var alt útskorið.

"Hvaða útskurður er á þessu priki?" spurði eg, og lét sem eg hefði ekki tekið eftir bendingum Eiríks, en hafði aldrei augun af Louis. Þorparinn, sem hafði leikið á mig hjá tjaldstöðum Indíánanna, komist undan mér í skóginum og var nú að kvelja Franzisku Sutherland, hann engdist til eins og ormur við þessa spurningu.

"Eg veit ekkert um þenna útskurð,' 'svaraði Eiríkur önugur yfir því, að eg skyldi ekki fást til að hjálpa honum í því, sem hann vildi nú koma á leið, og leit aldrei til hans. "Þú ættir að líta eftir því sjálfur. Hvar hefirðu augun?"

"Eg gat ekki séð það vel við þessa daufu birtu; en eg á sjálfur hlut, nokkurn einkennilega útskorinn. Það er spjótfjöður. Af því að þetta er spjótsskaft, sem vantar fjöðrina framan á þá er ekki ómögulegt að þetta eigi saman." Eg horfði í sífellu á Louis og sá, að nú var reigingurinn sem óðast að fara af honum.

"Spjótsfjöður!" hrópaði Eiríkur og fór nú að

skilja að eg hafði hitt eitthvert gott ráð líka. "Hvar fanstu hana?"

"Eg fann hana þannig, að henni var skotið á mig, í því skyni að kljúfa á mér höfuðskelina," svaraði eg. Louis brosti nú mjög vingjarnlega framan í mig.

"En það tókst ekki," sagði Eiríkur.

"Sá sem skaut viltist á mér og tré, rétt eins og annar kunningi minn viltist á mér, og hljóp beint á mig, af því að hann hélt ég væri tré," sagði eg og leit brosandi til Laplante. Hann var skuggalegur á brúnina. Honum þótti nóg um, þegar eg fór að víkja þannig að fundum okkar á árbakkanum á leiðinni vestur vötnin. "Hérna er spjótsfjörðrin," sagði eg og dró hana fram undan yfirhöfn minni. Eg hafði haft hana með mér í því skyni, að Eiríkur mundi kannast við óvin þann, sem hafði skotið henni. "Gættu að, hvort skeftið og fjöðrin á ekki saman. Það er ekki óhugsandi, að við getum fundið hinn seka eftir þessum kenniteiknum!" Um leið leit eg til franska mannsins.

"Þessi vinur Eiríks Hamilton's" sagði Louis lágt, "hann talar býsna vel ensku til þess að vera Skoti."

Eg heyrði það glögt á máli Louis, sérstaklega af því að eg þekti hann svo vel, að hann var í mikilli geðshræringu.

"Jú, skaftið og fjöðrin á saman, og sama skorið út á báðum," svaraði Eiríkur.

"Hvað þá?"

"Ernir!' svaraði Eiríkur og virtist eiga bágt með að skilja í eftir hverju eg var að grafast, en Louis var orðinn bólginn af vonsku.

"Arnarmyndir þessar, sem útskornar eru á spjótinu, benda til þess, að það hafi átt Sioux-höfðingi," svaraði eg, "og það er víst dóttir hans, sem gift er — er. — Stóra-Djöflinum," hélt eg áfram í lágum hljóðum, svo að heyrðu aðeins þeir Louis og Eiríkur.

"Hvað þá?" sagði Eiríkur, og reis upp þó að hann væri handleggsbrotinn.

Louis Laplante hrökk aftur á bak rétt eins og hann hefði verið sleginn.

"Laplante! Laplante! Hvar er franski maðurinn? Kallið hann hingað!" hrópaði McDonnell kafteinn reiðulega.

Louis varð illa við, og hann færði sig nú nær öskugrár í andliti.

"Hvað er að segja um stolnu skeytin? Við viljum vita sannleikann. Varstu drukkinn, eða ekki? Hver hefir þau?" Kafteinninn bar svo ótt á, að alla hefði rekið í rogastanz aðra en Louis, þorparann.

"Eiríkur," hvíslaði eg í hléinu, sem varð þegar Louis varð yfirheyrður. "Við fundum Louis á Point a la Croix Hann var drukkinn. Hann játaði að

kona Stóra-Djöfulsins hefði Miriam í haldi. Þegar við höfðum komist að því, urðum við þess varir, að einhver veitti okkur eftirtekt, og eltum hann inn í runnana. Þegar við komu maftur var Louis horfinn. Hann hafði verið borinn burtu. Eg komst að því, að einn ræðaranna minna hafði fuglabyssuna, sem þú hafðir mist, og að það var hann, sem hafði borið burtu drukkna manninn og það var hann, sem sendi mér spjótið í Sault. Það var Djöfullinn Eiríkur! Séra Holland prestur nokkur, sem með okkur var, sagði mér frá því, að hann hefði séð hvíta konu við Winnipeg-vatn. Fanstu þetta þar," bætti eg við og benti á spjótskaftið.

Eiríkur samsinti það, náfölur og titrandi.

"Er það alt, sem þú veizt?"

"Já," svaraði hann og einkennilega harðlegur svipur kom á andlitið á honum. "Var—var—Louis þar?" og greip gríðarfast í handlegginn á mér með heilu hendinni.

"Ekki svo að eg viti. Aðeins Djöfullinn. En Louis er vinur Sioux-Indíánanna, og ef við missum ekki sjónar á honum, þá getur farið svo, að við finnum þá.

"Eg —skal — hafa — auga á honum," hvíslaði Eiríkur lágt.

"Þey — Eiríkur!" hvíslaði eg. "Ef við gerum honum nokkurt mein, getur það orðið til þess, að

hann villi okkur sjónir. Við skulum aðeins hafa gætur á honum í kyrþey."

"Hann er að biðja um leyfi til að fara í veiðiför þangað sem Sioux-Indíánar halda sig. Getur þú farið þangað sem skinnakaupmaður af hálfu félags þíns? Farið í vísundaveiðar fyrst og síðan suður? Eg skal gefa honum gætur, ef hann verður kyr hér; því ef hann verður þar, og hann skal verða að segja okkur allt, sem hann veit — eða — "

"Þey — maður — hlustaðu á," hvíslaði eg.

"Hvar eru þeir, sem stálu skeytunum?" hrópaði McDonnell kafteinn.

Við þessa spurningu færðum við Eiríkur okkur báða að borðinu, og þangað sem við sáum framan í Louis.

"Fæ eg að fara í veiðiför til Sioux-Indíánanna, ef eg svara þessari spurningu?" spurði Louis ósmeykur við hryssingsskap kafteinsins.

"Já, auðvitað, maður. Talaðu!"

"Þeir sem stálu þessum — skeytum," tók Louis til máls með hægð, og leit um leið til kafteinsins, eins og til að reyna að sjá það út úr honum, hvort hann mundi standa við loforð sitt. Honum varð og litið á mig, sem var að skrúfa spjótsfjöðrina á skaftið, sem fyr er frá sagt. Eg strauk fjöðrina, brosti gletnislega og lét sem eg ögraði honum að halda áfram. Hann þagnaði og roðnaði mjög við.

"Engar lygar, þrjóturinn þinn, ef þú vilt sleppa hjá húðstroku," öskraði kafteinninn. "Haltu áfram. Hvar eru þjófarnir?"

"Þeir eru hér á næstu grösum," stamaði Louis, "Yður er bezt að spyrja nýja liðhlaupann um þá."

Eg var þá svikinn! Svikinn og kominn í bobba; en hann skyldi samt ekki sleppa! Það var að mér komið að hrópa upp, en Eiríkur þaggaði niður í mér.

"Heyrðu!" hrópaði kafteinninn undrandi. "Farðu og kallaðu á unga Norð-Vestmanninn; hann var skrifari Camerons, og ef hann samsinnir sögu þína, þá máttu fara á vísunda-veiðarnar."

Þetta kom Louis á óvart. Hann hafði ímyndað sér, að kafteinninn mundi skilja það, að hann hefði átt við mig; en hann varð feginn að losna úr vandræði því, er hann var kominn í, og hraðaði sér út úr herberginu. Við Eiríkur vorum þau flón, að láta hann sleppa, og ímynduðum okkur að hann ætlaði að fara að kalla á unga Norð-Vestmanninn. Þessi nýja breyting varð mér og til hægðarauka. Ef ungi Norð-Vestmaðurin og Louis komu báðir saman, þá var svo sem auðvitað, að upp kæmist hver eg væri.

"Vertu sæll, vinur minn!" sagði eg því og greip um hönd Eiríks. "Ef hann verður hér kyr, þá er þitt að líta eftir honum; ef hann fer, þá geri eg það. Hamingjan styrki okkur báða! Þú kemur

suður, þegar þér fer að batna."

Þegar eg kom fram í forsalinn, ætlaði eg að reyna að laumast svo burtu, að Skotarnir yrðu ekki á leið minni; en það hepnaðist ekki, þeir biðu mín í stiganum. Eg komst fram hjá þeim, niður aðra stigaálmu, en þeir hlupu þá til að varna mér útgöngu við hliðið. Við dyrnar rak eg mig á annan mann. Eg sá við ljóskers-birtuna, að hann hafði málað skegg á sig. Það var Louis Laplante; hann hallaðist þar upp að veggnum og hristist af hlátri.

"Ert þú þarna, þrjóturinn! Hvað liggur þér á?" mælti hann og þreif til mín. "Eg þarf að flýta mín héðan líka. Þetta verður síðasta nóttin, sem eg sef undir þessu þaki, ha, ha! Bíddu við, þangað til brottför mín verður fyrir fult og alt! Okkur fórst þetta báðum vel úr hendi! Ágætlega! hæ! hæ! En eg verð að skilja hér við allra fallegustu stúlku—"

"Sleptu!' og eg hristi hann af mér.

"Hafðu þetta, klifur-apinn þinn, engilsaxneski hundurinn þinn," sagði hann og sparkaði til mín.

Þó að eg hefði nauman tíma, þá sló eg hann aftur. Allur sá styrkleikur, sem færðist í mig á göngunni með ungfrú Sutherland fanst, mér safnast saman í handlegginn á mér, og Louis Laplante dengdist niður við höggið, svo að buldi í ganginum. Eg heyrði hníf koma þjótandi . Hann lenti í stíg-

vélinu mínu og brotnaði þar, en eg þaut áfram yfir Louis flatan á gangveginum.

Eg þóttist viss um að Skotarnir mundu bíða mín við hliðið. Þorði eg því ekki að eiga undir að snúa þá leið, heldur laumaðist aftur fyrir varningshúsið. Þar dró eg hníf minn úr skeiðum, rak hann inn í bjálka á virkisveggnum, steig þar upp á, hepnaðist að ná upp á virkisbrúnina, vega mig upp á hana og stökkva niður ómeiddur. Hnífinn minn misti eg að vísu á þessu ferðalagi, og húfuna mína. Hún hafði fezt á einum virkissnaganum að ofan, þegar eg stökk niður, og skóna hafði eg orðið að taka af mér áður en eg klifraði yfir virkisvegginn. Í birtingu morguninn eftir sá eg djarfa fyrir Gibraltarvirki, og mætti eg séra Holland skamt frá virkinu. Hann var að reika um sléttuna og ætlaði að mæta mér.

“Þú ert snemma á ferli, liðhlaupi!” sagði hann. “eg var farinn að verða hræddur um, að þú hefðir mist hausskinnið — og það liggur við — sýnist mér —þeir hafa náð af þér höfuðfatinu í staðinn. Og stígvélin hefirðu mist líka. Jæja, segðu mér nú af ferðalaginu!”

Eg heyrði á upphrópunum hans við og við meðan á frásögu minni stóð, að honum þótti ferðin hafa tekist vel.

“Og nú get eg sagt þér fréttir,” sagði hann

kankvíslega. "sem eg hugsa að þér þyki ekki alveg einskis verðar. Hvað heldurðu að það sé? Ekki annað en það, að þú ert kosinn til að verzla við vísunda-veiðimennina."

"Eg varð þessum tíðindum svo feginn að við lá, að eg stykki upp um hálsinn á prestinum, sem færði mér þessi fagnaðartíðindi.

"Hægan, hægan!" sagði hann. "Eg get hugsað mér, að þú þurfir á öllu þínu að halda í þessu ferðalagi; þú þarft að leita týndrar konu, og munt týna hjartafriði þínum annarar konu vegna."

Okkur talaðist svo til, að hann skyldi fara á undan mér til Douglas-virkis og sækja ungfrú Sutherland, en eg skyldi leggja af stað síðar og mæta þeim. Þau áttu að fara ríðandi, götuna meðfram ánni suður að ármótum, og eg að vera þar fyrir. Eg valdi mér tvo hesta, þá sem eg fékk bezta og keypti þá sjálfur. Annar var lítill vekringur og þýðgengur, hinn hinn ljónfjörugur og úthaldsgóður *bronchó*. Mér þótti vænt um að séra Holland kaus sér stærri hestinn og lagði af stað á honum til Douglas-virkis, en en vekringrinn rann í togi við hlið hans, berbakaður.

Fréttir þær, sem eg hafði að flytja frá Douglas-virkis, urðu til að hefta frekari áleitni við virkisbúa þar. Og þenna sama morgun áður en eg hafði lokið morgunverði, kom McDonnell kafteinn ríðandi til

Gíbraltar-virkis, og gekk á vald Norð-Vestmanna, með því skilyrði, að þeir gerðu íbúum Douglas-virkis engan óskunda framar.

Um hádegisbil, þegar eg var að leggja af stað á vísundaveiðarnar og suður til Missouri, sá eg Mc-Donnell kaftein stíga í bát með fylgdarmönnum, sem áttu að flytja hann honum að kostnaðarlausu um tvö þúsund og fimm hundruð mílur, til Montreal.

"Góða ferð!" sagði Duncan Cameron foringi Norð-Vestmanna, þegar höfðingi Rauðárdalsins settist niður í bátinn. "Góða ferð!"

"Og hamingjusamlega heimkomu!" svaraði hinn hugdjarfi foringi Hudsonsflóa manna.

"Og hann átti, hamingjusamlega heimkomu Rúfus!" sagði séra Holland við mig ári síðar.

Eg var svo heppinn að ná í góða fylgdarsveina. Mér tókst að mikla svo fyrir Svarta-Kufl og Litla-Karli vísundaveiðarnar að þeir afréðu að slást í för með mér.

---

## XII. KAPITULI.

*Ungi-maðurinn verður konungur.*

Þegar einhver orðlögð söngkona syngur fullum hálsi eða Cremona-fiðla sendir frá sér eins og andvörp

náttvindarins, sem þýtur um skógana, þá klappa íbúar borganna, sem vanir eru tömdu listfengi, lofi í lófa. En unaðslegri söng má þó heyra og dýpri hreim og æðri boðskap frá tré út í skógi, þar er fuglar hafa búið sér hreiður, um 3,000 mílur vegar frá glaumi stórborganna — jafnvel þó að þar sé sungið að eins vegna söngástar einnar. Lífsleiðir stórborgabúarnir geta ekki skilið töfravald óbygða-dýrðarinnar í frjálsu, viltu óyrktu landinu, þar sem guð talar til manns í öllu, sem fyrir augu ber og eyra heyrir. Að eta dýrlegar krásir, að búast sem beztum búningi, að njóta augnagamans og einkanlega að ganga í augu annara — eftir þeim hégóma sækist borgalýðurinn. Þess vegna fleygir hann sér út í taumlausa, ákafa, æðisgengna eftirsókn eftir auði, þessvegna treður hver annan niður í skarnið, ef hann getur. Baráttan til þess er hverju stríði ákafari og fyrir þetta er gálauslega fórnað lífs og sálar-gáfum. Fyrir þessa hluti er öllu frelsi fórnað, nema nafninu tómu. Þó að einum hepnist að ná í auðinn með þessu lagi, þá mishepnast þúsundum annara það. En aðrir, sem hærra hugsa, telja sig aftur á móti sæla með að eiga fáein ferhyrningsfet af hvítum tjalddúk, er fyrirmyndar glögt þá fegurð, sem þeim er kærust, áður en illgresið hefir náð að festa rætur umhverfis og vaxa upp yfir musteri sálar þeirra. Munaðarsólgnu bæjarfólkinu þykir það undrum

sæta, oð. nokkur skuli vilja verða til þess að skifta á gulllnu hlekkjunum og frelsinu, og það segi eg satt, að félagar mínir í Quebec litu svo á að eg væri meir en meðal heimskingi, að hverfa þaðan að austan vestur í frelsisdýrð óbyðganna.

En sitt sýnist hverjum, og eg get ekki annað en viðurkent, að hér er að eins haldið fram skoðunum gamals skinnakaupmanns, sem unni meir verkum náttúrunnar heldur en mannanna. Það má vera, að aðrar raddir tali til annara manna og kenni þeim þá lærdóma, sem vatnaleiðirnar, skógarnir, slétturnor og fjöllin kendu mér. Ef 'fræðir" og "spekir" skólanna veita sálum annara manna nægan fögnuð og frið, þá er öllu gott. En um mig get eg sagt það, að þá fyrst er eg var kominn hálfa heimsálfu á enda frá lærdómsgnauðinu og auðæfa-erginu, fann eg fyrst til fulls, að eg var lifandi vera. Vakningarinnar varð vart strax í ferðalaginu, en þó færðist ekki ı mig nýtt líf fyrir alvöru fyr en dýrðlegur, heiðskír sumardagurinn heltist yfir mig á eyðiléttunni, þegar eg reið krókótta árgötuna suður að ármótinu. Indíána fylgdarsveinar mínir voru komnir langt á undan. Ilmandi grasið jafnhátt söðulboganum, beygðist niður frá hliðum hestsins eins og grænt endalaust úthaf alt til sjóndeildarhrings. Gera verður að vísu fyrir því, þegar maður er ástfanginn. Til eru þeir menn, sem hafa orðið áskynja óumræði-

legrar fegurðar, þegar ástin var þeim ríkust í huga, en mér getur ekki skilist, hvaða mun tvær ríðandi manneskjur gætu gert á dýrðarbláma hins heiðskíra himins eða á ilmi rósanna, sem spretta við veginn sem um er farið. Mér virtist svo, sem söngur lævirkjans — líkur ari í sólgeislanum — hefði hlotið að vera jafnunaðslegur þó að eg hefði ekki verið ástfanginn, eða kvak allra hinna fuglanna í loftinu og á laufprúðum greinunum. En þetta getur mönnum sýnst ýmsa vega, og nú er eg sá bregða fyrir kvenmannsmynd fram undan mér, fanst mér öll náttúran hljóðna á einu vetfangi.

Séra Holland hafði augsýnilega orðið mín var, því að hann veik við hestinum og veifaði til mín. Förunautur hans gaf því engan gaum; eg hvatti hest minn sporum og var innan stundar búinn að ná þeim. Franzíska Sutherland vék vekringnum sínum til hliðar, til þess að eg gæti riðið á milli þeirra.

"Jæja, sæll og blessaður! Loksins ertu þá kominn! En heldur varstu nú seinn á þér," kallaði prestur um leið og eg heilsaði þeim báðum. "Skammastu þín ekki að vera svo seinn, þegar ferðinni er heitið til Gretna Green—! Eg mismælti mig! Til Pembina — ekki Gretna Green — ætlaði eg að segja."

Hefði þetta samtal orðið fimtíu árum seinna, þegar lítill bær, sem Gretna heitir, hafði risið upp á

þessum slóðum, þá hefðum við Franziska Sutherland ekkert þurft að roðna yfir því, þó að prestur viki orðum að þessari Mekka ungra elskenda í gamla heiminum. En engin Gretna var til í þá daga á leiðinni til Pembina, og skyndilegur roði færðist í kinnar Litlu-líkneskjunnar en mér varð orðfall.

"Geturðu engu svarað?" hélt prestur áfram og var ekki á því að hlífa mér nokkra vitund. "Hann sem bauð óargadýrinu byrgin í bæli sínu, er nú meinlausari en lamb saklausari en dúfa, og þungbúinn eins og lamaður rauðbrystingur, sem hefir mist maka sinn og—"

"Það ættu að vera til einhver lög, sem settu ertni og óbilgirni prestanna einhver takmörk," sagði eg gremjulega. "Svona glens er ekki neitt fyndið, og á ekki sem bezt við þegar maður má ekki stríða aftur á móti."

"Það ættu að vera til lög um elskendur," vinur minn,' svaraði hann hlæjandi. "Þeir eru altof hlægilegir og þola svo dæmalaust illa stríð."

"Lög um alla menn," sagði Franziska Sutherland með kvenlegri lægni. "Það ættu að vera til lög, sem bönnuðu mönnum að erta hvern annan."

"Nema standi alveg sérstaklega á," svaraði prestur og brosti kankvíslega. Hann var ekki í þann veginn að slaka til. Stríðnir menn eiga alt af bágt með sig.

"Eg sé ekkert merki á þér, Rúfus t. a. m., sem gefi það til kynna, að ábyrgð sé á því, að þú ertir engan,' 'hélt prestur áfram glaðlega. Við roðnuðum bæði og skapið batnaði ekki vitund.

"Og þá kvenfólkið!" bætti hann við og sneri sér að ungfrú Sutherland. "Hvaða tryggingu hefir maður fyrir því, að þær séu óskaðlegar? Ef þaggað fæst niður í prestunum — og það er til mikils mælst — og ábyrgð keypt á karlmennina, hvað verður þá um kvenfólkið?"

"Það er sagt um okkur, að við miðum svo skakt, að skeyti okkar séu alveg hættulaus."

"En einmitt þess vegna eru þau svo bráðhættuleg," sagði prestur. "Þið miðið á höfuðið en hittið hjartað! Síðan kemur straumurinn til Gretna Green — og — Pembina ætlaði eg að segja! Giftist, börnin mín—" og hann þagnaði.

"Giftist! — Hvað!" hrópaði eg. Franziska Sutherland fór að veltast um af hlátri, öldungis að ástæðulausu, fanst mér, og séra Holland veifaði til mín hendinni.

"Hvað gengur að þér?" spurði prestur- alvar lega. "Eg er ekkert ráð að ráða ykkur, en til frekari skýringar á því, sem eg átti við þegar eg sagði 'giftist, börnin mín'!. þá vildi eg geta þess, að eg vildi heldur vera skotspónn karlmanns, þó að hann væri ekki merktur "óskaðvænlegur", heldur en kven-

manns, sem kynni að detta ı hug að beina skeytum sínum að höfðinu á mér. Og eg segi ykkur það satt börnin mín, að það á fyrir ykkur að liggja, að læra að þekkja þenna sannleika."

Þegar Mr. Jack MacKenzie hafði verið að veita mér hörð ávít, hafði eg vanalega getað borgað fyrir mig fyr eða seinna. En nú var öðru nær. Eg var nú í stakasta ráðaleysi, og vafðist algerlega tunga um tönn. Franziska Sutherland var aftur á móti farin að ná sér og gerði nú aðra atrennu, til að víkja samtalinu í aðra átt og þagga niðri í prestinum entnina.

"Eg er yður einstaklega þakklát fyrir að hafa ráðið þetta ferðalag," sagði hún og sneri sér að mér.

"Hm! hm!' 'sagði séra Holland með ósvikinni kátínu, áður en eg komst að til að svara, "hann er sjálfum sér þakklátur fyrir það eigi síður. Hann hefir verið að færa himintunglunum þakkir fyrir að fá orlof í þessa ferð, einkum stjörnunni Venus."

"Hvernig komust þér til Gibraltar-virkis?" spurði hún.

"Húfulaus og skólaus," flýtti eg mér að segja til þess að verða á undan prestinum að svara.

"Og hjartalaus í tilbót." bætti prestur við og sló í bronckóinn minn. og um leið datt úr mér ræðan, sem eg var búinn að taka saman til að þagga niðri í honum með. Franziska Sutherland fór að

horfa á eitthvað lengst út við sjóndeildarhring. Það var ekki hennar eðli að láta undan.

"Við skluum ríða ofurlitið hraðara," sagði hún alt í einu og hleypti af stað eins og örskot, en hestar okkar rákust saman um leið og hún hleypti. Þetta var þjóðráð. Hvað mælskur, sem maður kann að vera, er það einskis manns að halda áfram að tala ríðandi á harða stökki í móti þétthvössum sléttuvindi.

"Hæ! krakkar!" hrópaði prestur þegar hann náði okkur. Við hõfðum stöðvað hesta okkar rétt hjá fylgdarmönnum mínum. "Ef þið haldið þessari reið áfram, þá skiljið þið mig eftir áður en þið komist til Gretna Green — Pembina, ætlaði eg að segja.' o'g hann þeysti úr sér miklum andstrokum, eins og flutningsbátur, sem þeysir úr sér gufumekki til að láta taka eftir sér inn á milli stórra hafskipa.

Hann stóð á öndinni og við þurftum því ekki að óttast hann í bráð. Franziska Sutherland virtist ófús á að rjúfa þögnina og mér datt ekki nokkur skapaður hlutur í hug, sem ætti við að segja. Hvers dags mas lá nú ekki á lausu; að vísu hugkvæmdist mér ýmislegt, en eg þagði um það alt saman.

"Þessi þögn fer að verða þreytandi, Rúfus!" sagði prestur og þótti auðsjáanlega gaman að vandræðum okkar.

Við hleyptum aftur og héldum sprettinum svo sem eina mílu.

"Svona, eg ætla að halda áfram, eg hefi gaman af að ríða léttan," sagði hann þegar hann náði okkur og fór að kasta mæðinni, "jarmurinn verður hægri þegar eg heyri ekki til."

Síðan þeysti hann fram hjá okkur svo sem fimtíu skref, og var þann kipp á undan okkur, það sem eftir var dagsins. Stöku sinnum leit hann um öxl og kallaði til okkar. Einu sinni sagði hann:

"Æ, en hvað hestarnir ykkar eru sporlatir! Það er ekki til neins fyrir ykkur að bera á móti því! Jæja, notið þá vel hveitibrauðsdagana — sumardagana ætlaði eg að segja! Giftist, börnin mín, en hestarnir ykkar eru mestu húðar-letingjar, og draghaltir held eg. Svona, látið þá nú greikka sporið! Eg sé til ykkar út undan mér! Það er varla nauðsynlegt, að þið ríðið svona þétt samsíða. Eg sný við bráðum! Einn — hrökkvið saman! Tveir — varið ykkur! Þrír — eg er að koma. Fjórir — verið viðbúin!"

Og svo hló hann sneri sér frá okkur og sagði: "Hó, ho! klárinn minn! Við megum ekki ónáða þau! Hó! ho!" Síðan hleypti hann kippkorn á undan okkur.

"Guð blessi gamla manninn!" sagði eg við sjálfan mig og gat ekki annað en furðað mig á því, að nokkur maður skyldi geta fengið sig til að verða kaþólskur prestur.

En hann hafði rétt fyrir sér að því leyti, að okkur langaði ekki til að verða trufluð. Það sem við vorum að tala um, var líka okkar málefni, en ekki neinna annara. Ekki get eg auðveldlega skýrt frá hvernig á því stóð, því að það sem við vorum að tala um, var eiginlega mjög hversdagslegt; samt sem áður var eins og orðin ættu greiðan gang að hjörtum okkar; það var því líkast, sem einhverskonar töfravald fengi hversdagslegum orðunum einhverja hulda og heillandi þýðingu. Og milli þess sem við vorum að tala, skemtum við okkur við að horfa á ilmandi, limprúðar aspirnar, sem stóðu eins og eyjar á sléttunni; eða við að horfa á úlfana, sem þutu undan okkur upp á hæðir og spangóluðu þar ámátlega; eða þá gráleitu greifingjana, sem hentust með klunnalegu hoppi í holur sínar, eða skuggaróffurnar, hangandi á skottunum og otandi klónum gegn manni. Sólin var að síga niður við sjóndeildarhringinn og var á að líta í kveldmóðunni eins og stór blóðskjöldur. Æðiveg fram undan okkur voru fylgdarmenn mínir að reisa tjöld, spölkorn frá ánni, til þess að firrast mýbitið, sem sveif yfir vatninu. Það var kominn tími til að setjast að.

Langar Júnínæturnar fjærst norður í óbygðum, hafa einkennilega unaðsdýrð við sig, þegar kyrðin og kveldroðinn legst yfir eftir sólarlagið. Kvöldskuggamóða hjúpar láð og lög milli sólseturs og

sólaruppkomu. Klukkan níu á kveldin er sólin ósezt; klukkan tíu er vel ljóst til að lesa á bók, en fulla klukkustund þar á eftir gleymir maður því að nótt er en ekki dagur ef bjart er uppi yfir. Eftir kveldverð settist séra Holland skamt frá okkur utan við tjaldið og gætti þess, að líta aldrei af okkur. Franziska Sutherland sat upp á tveimur kössum, sem við höfðum sett hvorn ofan á annan, en eg hafði hallað mér út af á hestaábreiðu við fætur hennar.

"En hvað unaðslegt væri að mega sitja hér alla tíð," sagði hún og horfði á gullinn kveldroðann við heiðbláan himininn. "En hvað það væri unaðslegt að hafa alt af skínandi birtuna uppi yfir sér, ekkert í milli manns og hennar, drotnandi frið alt umhverfis, engar áhyggjur, finna aldrei til þreytu, en -lifa í fegurð og ró alla tíma."

"Eins og hér—alla tíð! Eg æski einskis betra!" sagði eg í hrifningu, en hún virtist alls ekki taka neitt tillit til mín. Hún horfði stöðugt á sólskjöldinn, sem var að ganga undir. Mér gramdist þetta kæruleysi hennar, og gerði mig líklegan til að standa á fætur.

"Eg held," sagði hún lágt og hikandi, en svo hljómþýtt og innilega að mér hitnaði um hjartarætur. "Eg held, að himnaríki hljóti að vera mjög mjög nálægt á öðrum eins kvöldum eins og þetta er. Haldið þér það ekki — Rúfus?"

Eg var alls ekki um himnaríki að hugsa — sízt það himnaríki, sem hún átti við—, en ef nokkuð er líklegt til að koma karlmanni til að staðhæfa að hvítt sé svart eða játa eiginlega hverju sem vera skal, þá er það þegar hann heyrir skírnarnafn sitt fyrsta sinni af vörum ungrar stúlku, sem honum lízt vel á. Eg settist upp eins og knúinn af rafaflsstraumi og mér sýndist ekki betur en hún verða niðurlút og nokkuð eftir sig.

"Mjög nærri. Já, vissulega! Eg hefi verið í himnaríki í allan dag, finst mér. Alla leið frá Fort William hefi eg af og til séð Paradís álengdar—"

"Hættið þér nú," — sagði hún með einbeitni sem eg þekti svo vel. "Gerið það fyrir mig, herra Gillespie."

"En gerið það fyrir mig að hætta að kalla mig herra Gillespie,' 'sagði eg og mislíkaði heldur nafna skiftin. "Ef þér hafið í ógáti kallað mig Rúfus, af því að presturinn gerir það, þá finst mér þér ættuð að halda því áfram."

"Rúfus,' 'svaraði hún blíðlega, "gerið það fyrir mig að hætta að tala um það sem þér vikuð að áðan, — heyrið þér Rúfus, eg ætla að biðja yður — og biðja yður vel, að gera það aldrei, því að það getur ekki annað en orðið til þess að valda sársauka. Þér særið mig með því!"

"Ef maður særir einhvern að ósekju, þá er sjálf-

sagt að reyna að bæta úr því, ungfrú Sutherland."

"Það er óþarfi fyrir yður að kalla mig ungfrú Sutherland,' 'svaraði hún brosandi. "Eg segi sama eg vildi reyna að bæta fyrir það, ef eg yrði til þess að valda einhverjum sársauka. Og það væri systurlegt. Systur eru alt af svo notalegar við bræður sína." og svo skelti hún upp úr yfir því, hvað eg var alvarlegur.

"Mér er illa við alt þetta systurlega skraf. Eg ætla mér engan systurvinskap að þýðast, Litla-líkneskja. Eg gæti ekki vitað hvernig eg ætti að hegða mér gagnvart slíkri systur. Nei, burt með alt systurlegt, Franziska!"

"Hafið þér kannske reynt það áður til þrauta?" spurði hún, og leit til mín gletnislega.

"Nei," flýtti eg mér að segja, — "nei, eg er ófróður um þess kyns — "haltu mér sleptu mér"-leik; hins vegar hefir mér verið sagt, að hann endaði alt af eins, — með reglulegri mishepnan. Til systur-vináttu er að eins stofnað til þess að —"

"Æ! hættið þér!' 'sagði hún og þokaði sér frá mér lengra yfir á kassann. "Eg held við ættum að reyna að halda áfram að vera kunningjar það, sem eftir er af ferðinni."

"Nei, þakka yður fyrir, ungfrú Sutherland — Franziska, ætlaði eg að segja,' 'svaraði eg. "Eg er ekki það flón, að ætlast til þess."

"Jæja, ætlist þá til hvers sem yður sýnist" svaraði hún og röddin varð kuldaleg, og eg heyrði glögt á henni, að henni fanst þetta móðgun við sig. "Ætlist til hvers sem yður sýnist, en gerið það fyrir mig, að hætta að segja það, sem særir mig."

"Jæja, setjum nú svo, að pílagrímur hafi farið villur vegar í náttmyrkri, hafi vilst þar sem sálir mannanna eru vanar að hrasa, og hrapa alt niður til kvalastaðarins, en að hann hafi svo alt í einu séð engilbjarta veru, er benti honum á rétta-leið út úr myrkrinu," sagði eg með ákefðar hita.

"Börn! börn!' 'hrópaði presturinn. "Börn. Það er komið sólsetur. Nú er mál komið fyrir ykkur að leggjast til hvíldar."

"Já, já!' 'svaraði eg. "Bíðið þér bara meðan eg lýk við söguna.' '

Hún hrökk við, rétt eins og henni yrði hálfbylt við orð mín. Mikill kvíðasvipur kom á andlit hennar eins og eg hefi séð á þeim, sem í fyrsta sinni eru staddir á svimhárri hamrabrún uppi yfir ginandi hyldýpi. Oft hefi eg farið um snarbrött fjöll, en aldrei fram hjá gljúfragjám svo, að ekki hafi eg fundið til ónotahrolls yfir því, að fjörtjón kynni þar að bíða mín. Sá sem slíku er óvanur, horfir ekki svo ofan í gínandi hamragjá, að hann finni ekki til þessa ósegjanlega ónotakvíða, og um leið finnur hann til ósegjanlegrar löngunar til að komast yfir í

demantskrýndu hæðirnar hinum megin. Eitthvað þvílíkt fanst mér skína úr augum Franzisku um leið og hún leit framan í mig eftir að eg hafði svarað prestinum.

"Eða gerum ráð fyrir, að ferðamaður hafi glatað leiðarsteini sínum, og þó að hann hefði á engan hátt átt það skilið, þá hefði guð sent honum leiðarstjörnu."

"Er þetta falleg saga, Rúfus,?" spurði prestur.

"Já, fjarska falleg," svaraði eg óþolinmóðlega, "og þér ættuð ekki að vera að grípa fram í hana."

"Eða hugsum okkur að einhver veslingur, sem ekkert hefir til síns ágætis nema að hann ann hreinleik, heiðvirði og sannleik, viltist af réttum vegi, og að guð sendi honum engil til að segja honum til vegar."

"Er þetta löng saga, Rúfus?" kallaði prestur.

"Það verður framhald á henni síðar," svaraði eg og færði mig nær henni.

"Og hugsum okkur að pílagrímurinn, ferðamaðurinn og veslingurinn æsktu einskis annars, en að fá að auðsýna henni, sem leiddi þá út úr myrkrinu á réttan stig, ást sína og lotningu og — "

"Rúfus!" öskraði prestur. "Eg sé að eg verð að koma með prik og berja þig. Komdu! Heyrirðu ekki! Hún er orðin dauðþreytt!"

"Góða nótt!" svaraði hún mjög lágt, en kuldalega svo að mér fanst það ganga í gegnum mig, og um leið rétti hún út hönd sína með hefðarmeyja kurteisi.

"Ætlið þér að láta sitja við það, að bjóða mér svona góða nótt?" spurði eg og hélt fast í hönd hennar, rétt eins og eg hefði gripið á rafurmagnsþræði, og brá mér hvergi þó að presturinn kæmi beint til okkar.

"Já," svaraði hún. "En, Rúfus, erum við að leika gamanleik í alvöru, eða alvöru í gamanleik?" um leið veik hún sér hvatlega undan og gekk yfir að tjaldi sínu.

Eg veit ekki hvað lengi eg stóð þar eftir að hugsa um hana. Eg hrökk upp úr þeim hugleiðingum við það að presturinn lagði þykka, breiða hönd sína á öxlina á mér.

"Hvað hefir þú haft fyrir stafni, ruddabjálfinn þinn?' 'spurði hann. "Litla-líkneskjan var að gráta þegar hún fór inn í tjaldið sitt."

"Gráta?"

"Já, kálfurinn þinn. Eg ætla að vera með henni allan morgundaginn."

Og hann sveikst ekki um það. Varla hefði hann getað hitt á harðari refsingu mér til handa. Eg sá að eg yrði að vera varkár framvegis og hét því. En hvað eru þeir ekki margir, sem hafa rofið þess

kyns heit gegn stúlkunni, sem þeir hafa unnað hugástum? En mér gafst ekki færi á að rjúfa það, því að presturinn reið við hliðina á Franzisku Sutherland allan næsta dag, og aldrei datt honum í hug að sýna sporðdreka-fyndni sína. Hún snæddi morgunverð í tjaldi sínu og presturinn færði henni steikt brauð og te; og þegar hún kom út, var hún svo fljót að snarast á hestbak, að eg misti af þeriri ánægju, sem eg hafði þó hugsað mér að njóta, að koma fæti þessarar ríkilátu meyjar í ístaðið. Við lögðum af stað og riðum öll samsíða. Eg hafði ekki í fullu tré að forvitnast um að lesa úr marmara andlitinu, hvaða forlög mér væru búin. Vegurinn varð óslettari; við neyddumst til að ríða hvert á eftir öðru meðfram löngum, bugðóttum fenjum. Þéttir pílviðarrunnar hvíldu augað í stöku stað á sléttunni endalausu. Spegilgljáir lækir liðuðust eins og silfurþræðir um grængresið, en vegurinn lá fram undan okkur, eins og mjótt band í mörgum hlykkjum alt út að sjóndeildarhring.

Þegar við áðum til miðdegisverðar, hafði Franziska hvarflað í burtu að tína sléttúrósir áður en við prestur urðum varir við.

"Þú ræður því, þorparinn þinn, ef þú ferð að veita henni eftirför," sagði prestur og strauk skallann hálf vandræðalegur þegar miðdegisverðurinn var tilbúinn. "Eg vona hún komi aftur til að borða.' '

Eg hafði líka þá ánægju að heyra hana spauga yfir miðdegisverðinum. En svo var hún komin á bak vekringnum sínum og riðin langt á undan með fylgdarsveinum mínum, þegar við séra Holland vorum komnir á hestbak .

"Rúfus!' 'tók prestur til máls gletnislega, "Rúfus, eg held að þú sért flón."

"Mér hefir margsinns dottið það í hug í morgun," svaraði eg .

"Hefirðu nokkuð við hana talað í allan morgun?"

"Nei. Það er ekki við því að búast að maður geti kept við kirkjuna í því að þóknast kvenfólki. Hvaða flón sem er veit það, jafnvel erki-flón eins og eg veit það."

"Hættu öllu þvaðri. Vertu ekki að ergja sjálfan þig lengur! Sláðu í bronchóinn þinn og náðu henni sem fyrst."

"Eftir að hafa móðgað gyðjuna, langar mig ekki til að snúa reiði hennar á mig svo að mér dragi til dauða."

"Sussu, sussu! Engan stórbokkaskap. Beygðu drambsaman svíra þinn, ef þú vilt ekki hafa það á samvizkunni, að gera hana ógæfusama. Ríddu á fram. þverhausinn þinn, segi eg!" um leið sló hann í bronchóinn minn.

"Séra Holland!" sagði eg þóttalega, "eg ætla

að láta yður vita, að mér gezt illa að svona afskiftasemi; hver er sínum hnútum kunnugastur."

"Sussu nei! Þú kemst ekki upp hér með neinn ofsa," sagði hann og rak burtu flugu af eyranu á hestinum sínum. "Veiztu það ekki, álfurinn þinn, að munurinn á því að karlmaður og kvenmaður láti uppi ást sína skiftir mörgum tárum. Karlmaður lætur hana í té og fær hana endurborgaða með rentum og rentu-rentum í gjaldeyri, sem er gullsvirði í samanburði við kopar sem hann lætur að mörkum. Konan lætur ást sína í té, og fær í staðinn—" prestur þagnaði.

"Hvað?" spurði eg og var nú forvitnin orðin þóttanum yfirsterkari."'

"Heldur lítið hjá öðrum eins heimskingja eins og þú ert,' 'svaraði prestur með uppgerðarlausri gletni.

Þetta svar hans varð mér ærið umhugsunarefni það sem eftir var dagsins; og eg ímynda mér, að hver sem hugsað hefði jafnmikið um þessi ummæli hans eins og eg, mundi hafa komist að sömu niðurstöðunni.

"Eigum við ekki að ríða ofur lítið greiðara?" spurði eg eftir langa þögn.

"Jú, eg er fús til þess!' 'svaraði prestur. Síðan hleyptum við á sprett og náðum brátt Franzisku Sutherland, og þá þorði eg í fyrsta sinn þann

daginn að líta framan í hana. Vera má að hægt hafi verið að sjá á henni, að hún hafði grátið, en merki þess voru líkust merkjum eftir gróðurskúr sem sólin hefir rétt að kalla þerrað. — merkjum lífsgleðinnar í gullnu ljósi, eða unaðslegri stormfró eftir að óveður er nýriðið af. Hvernig stóð á því, að hún virtist forðast mig, og sneri sér altaf að prestinum, sem reið hægra megin við hana? Eg hefði getað hugsað um það rólega, mundi eg hafa sannfærst um að þetta olli mér afbrýði, en eg hafði ekki stillingu til að gera mér þá grein fyrir því. Var henni samt ánægja af návist minni? Eg skildi þá ekki eins vel mannlegt eðli eins og eg skil það nú, því að þá hefði eg komist að raun um, að hún varaðist að líta á mig til þess að fögru augun hennar kæmu ekki upp þeim hugsunum sem henni voru ríkastar í huga. Eg hugsaði mér að nú skyldi eg samt grípa fyrsta tækifæri til að leiðrétta öll mistök sem mér höfðu orðið á kvöldið fyrir.

Kvöldverði var lokið, séra Holland hafði farið inn í tjald sitt. Franziska Sutherland var að hagræða blómunum í kjöltu sinni og eg settist við vinstri hlið hennar, og ætlaðist eg til að hún gæti séð á mér hvað mér bjó í brjósti þó eg talaði þvert um huga minn.

"Eruð þér að dázt að stjörnunum, ungfrú Sutherland?" spurði eg með gletni.

"Eg ætla að biðja yður að kalla mig ekki ung-

frú Sutherland, Rúfus," og þetta sagði hún svo vingjarnlega að mér var öllum lokið með að stríða henni.

"Fyrirgefið — mér, — Franziska...." stamaði eg í fáti. Og mér vafðist tunga um tönn.

"Ætluðuð þér að segja eitthvað," spurði hún hikandi.

"Já — þér — vitið Franziska!" Eg ætlaði að að reyna að finna einhverja heillega hugsun til að reyna að segja, en það mistókst. Blóðið steig mér svo ört til höfuðsins.

"Nei, Rúfus Eg veit ekki hvað þér ætluðuð að segja. Mér skildist eins og þér ætluðuð að segja mér eitthvað."

"Eg verð að biðja yður að afsaka það, að nú hefir alt dottið úr mér sem eg ætlaði að segja. — Hundar eru gleymnir."

"Sleppum því!" sagði hún hlæjandi, "kannske þér hafið sjálfur verið að dázt að stjörnunum," bætti hún við, í samræmi við það sem eg hafði vakið máls á fyrst.

"Já, rétt, um stjörnurnar ætlaði eg að tala. Þér vissuð víst um það, að fjöldamargir þeirra sem voru í ferðinni hingað vestur frá Fort William, urðu svo hepnir að eignast leiðarstjörnu, og hún staðnæmdist yfir bátnum sem fyrst fór."

Eg þóttist góður af því, að hafa komist svona að

orði . Eg vildi láta hana skilja að hún væri stjarna allra manna; ekki mín sérstaklega. Þetta var satt, en ekki þó nema hálfur sannleikur, rétt eins og Louis Laplante hefði sagt það.

"Nei! ekki vissi eg um það, og varð ekki vör um neina stjörnu, sem staðnæmdist yfir bátnum sem fyrst fór í flotanum," svaraði hún. "Hitt er satt, að eg sá margar stjörnur á kvöldin og nóttunni og eg skemti mér oft við að horfa á þær."

Þetta svar veik talinu í aðra átt en eg hafði ætlað, svo að nú varð eg aftur í vandræðum.

"Jæja, hvað ætluðuð þér að segja meira um stjörnurnar," spurði hún blíðlega.

Mér varð aftur orðfall. Hún þeytti frá sér blómunum eins og hún ætlaði að standa upp, og í því kom séra Holland út úr tjaldi sínu og tók að svala sér með hatti sínum.

"Og blessuð börnin!" hrópaði hann. "Að hugsa sér að þið skuluð fleygja frá ykkur tækifærunum rétt eins og blómunum núna," og hann leit um leið á blómahrúguna, sem hún hafði fleygt frá sér. "Börn! börn! Carpe Diem! Carpe Diem! Lesið blómin, því að dagarnir líða örhratt," og síðan hvarflaði hann í burtu og tautaði latneska orðskviðinn fyrir munni sér: Carpe Diem! Carpe Diem!

"Hvað þýðir Carpe Diem?" spurði Franxiska Sutherland og horfði undrandi á eftir prestinum.

"Eg hefi aldrei verið góður latínumaður, og hefi ekki orðbók við hendina."

"Látið þér nú ekki svona! Eg veit að þér segjið þetta af kurteisi við mig, sem ekki veit hvað þetta þýðir."

"Það þýðir einmitt það sem hann sagði: Hugsum okkur, að hver dagur væri blóm og langaði til að láta lesa sig. Og ef maður leiddi það hjá sér, þá auðnaðist aldrei að tína það blóm framar."

"Blóm! ójá! Nú skil eg! Hann hefir átt við blómin sem þið lásuð handa mér á leiðinni hingað vestur. Og þér vitið Rúfus að eg gat aldrei þakkað ykkur fyrir það! Voru þetta alt saman Carpe Diem-blóm?"

"Nei, það var ekki beinlínis sú tegund, sem séra Holland átti við að tína skyldi."

"Nú, við hvað átti hann þá?" og um leið leit hún við og rak sig rétt að segja á andlitið á mér.

"Hann átti við svona blóm," svaraði eg og laut fagnandi yfir öxlina á henni og las fyrsta ástarblómið af vörum hennar, og síðan annað og þriðja, eg hélt svo áfram þangað til að skyndilegur glampi kom í gráu augun hennar, sem gerði mig unglinginn að konungi — af því að eg hafði nú eignast drotningu

---

# XIII. KAPÍTULI.

*Vísunda-veiðarnar.*

Eg er óviss um að norsku víkingarnir hafi nokkurn tíma lent í hugnæmari svaðilförum heldur en vísundaveiðar sléttubúanna til forna voru hér í Ameríku. Um sex hundruð manna stigu á bak fjörugum hestum og hleyptu að vísundahjörðunum. Þau áhlaup voru engu síður stórfengileg en skærur víkinganna. Indíána konur, börn og ókrjálegir flakkarar ráku lestina eða komu í humáttina á eftir veiðimönnunum. Sá lýður var stundum hátt upp í tvö þúsund manns. Eins og venja er um herdeildir var í okkar flokki fyrirliði, merkisberi og herprestur. Sem betur fór, voru þeir mér allir orðnir kunnir áður en eg lagði af stað frá Pembina. Vegna friðarsamninganna, sem gerst höfðu í bili milli Hudsonsflóamanna og Norð-Vestmanna, hafði Cuthbert Grant nú óbundnar hendur að fara í veiðiför þessa Honum var það eðlilegra að fara í slíkar veiðiferðir út um sléttur, en að fylkja kynblendingunum í bar-

daga. Hann hafði komið á eftir okkur séra Holland og var þegar kosinn foringi fararinnar. Prestur átti samleið með okkur og var hinn allra kátasti. Með Grant hafði komið Pétur, sem skinnakaupmenn kölluðu skálda; hann hnoðaði saman vísum, sem öllum kynblendingum þótti hin mesta skemtun að. Berhöfðaður var hann með rauðan vasaklút bundinn um sítt og svart hárið og klæddur í kögurprýdd hjartarskinnsföt; var hann því all-villimannslegur ásýndum. En hann var eini hagmælti maðurinn, sem sléttuveiðimennirnir áttu; hann kvað fyrir þá um fuglakliðinn, um fossnið fljótanna, sem veltust með miklum gný gegnum þröng gljúfrin; hann kvað fyrir þá um æðisgang ólmra vísundahjarða og þyt náttvindarins um sléttuna; en stirðkveðin voru kvæðin og full viltum ákafa þessa vilta náttúrubarns. Það voru víkingarnir til forna, sem áttu upptök að hersöngvunum. Þaðan er oss sú íþrótt komin. En kynflokkarnir í Norður-Ameríku hafa ekki fengið orð fyrir að vera mjög smekkvísir hagyrðingar. Einu sinni spurði eg Pétur hvernig hann hefði lært að yrkja. Hann hló að mér og spurði mig hvort eg héldi að hægt væri að kenna að yrkja. En hvað sem um skáldskap hans mátti segja, þá var hesturinn sem hann reið í þessa veiðiför allra mesti gæðingur; hann var þreklegur, bar sig vel og eldfjörugur, svo að Pétur varð skáldlegur þegar hann þeyttist áfram á hon-

um. Í hægri hendi sinni hélt hann á veiðimannafánanum, svo að hann hafði bara aðra hönd lausa til að stýra hesti sínum og halda sér, en þó var hann jafnfastur í söðli eins og hver hinna, sem höfðu báðar hendur lausar.

"Það er réttnefndur skáldafákur, sem þú situr á," sagði séra Holland í því að hestar þeirra rákust á. Það var í þriðja sinni á stuttri stund, sem Pétur hafði hleypt hesti sínum á hesta annara manna í hópnum.

"Nei, hann er svo sem ekki mikið líkur honum Pegasus, klártuskan mín," svaraði Pétur alvarlega. Vindurinn stóð í síða hárið hans og þyrlaði því til, svo að heldur en ekki var svipleg sjón að sjá hann. Eg var orðinn kunnugur kveðskap hans, en séra Holland ekki.

"Eg vildi forðast að koma nálægt Pegasus," sagði séra Holland. "Eg er hræddur við hann. Satt að segja hefi eg aldrei fyrri séð skáld í hjartarskinntreyju." Um leið og prestur sagði þetta, veik hann hesti sínum út úr götunni svo að eg varð á milli hans og Péturs.

Pétur var að mynda sig til að svara þegar eg sagði:

"Varið yður séra Holland. Þér hafið sloppið undan bronchóinum, en ekki undan skáldinu, sem á honum situr."

"Hamingjan góða! Eg kvíði fyrir ádrepunni

sem eg á von á?" sagði prestur.

"Nú er eg til," svaraði Pétur, og kyrjaði upp:

"Það lofa megum allir vér, að ljóðdísin er frjáls,
og lukt fær hana enginn sem helgan dóm í skríni
Og aumingjarnir fegurðina séð ei síðar fá.
En sjálegir kennimenn, sem hjúpast messulíni."

"Hægan," greip séra Holland fram í, "hægan Pétur."

"Sjá! Pegasus þinn!
Nú haltra eg finn!
"Frjáls" og "fá," rímar ekki."

"Eg held að þér séuð orðin skáld líka, séra Holland," sagði eg. "Það er engu líkara en að við séum í pílagrímsferð til Helicon."

"Hvert?" spurði Grant, sem var ver að sér í fornaldar-bókmentum heldur en eg jafnvel.

"Til Helicon!"

Nú rak séra Holland upp svo hvellan hlátur, að Pétri skálda blóð-þótti, rak hælana í síðurnar á hesti sínum og hleypti frá okkur á harða stökki. Hann spenti út fæturnar frá hestinum þegar hann var kominn á sprett, og var líkast því að fugl flýgi þar sem hann fór.

"Hann hefir reiðst," sagði Grant. "Lofum honum að fara! Hann jafnar sig bráðum aftur. Hann fer að taka saman kvæði handa okkur til að skemta okkur við eftir vísunda-veiðarnar."

Á tíundu dagleið vestur frá Pembina fundu

förunautar okkar slóðir eftir vísunda-hjörð í gljúpum jarðveginum. Þá var þegar í stað skipað að reisa tjöld á öldumyndaðri sléttunni. Kerrunum var raðað í hring öðrumegin við tjaldstaðinn og snéru öll sköftin frá honum Hinumegin voru hestarnir tjóðraðir, og tjöldin stóðu á milli kerranna og hestanna. Utan við þau voru margir kynblendings-rakkar, sem héldu gjammandi vörð alla nóttina. Tvisvar sinnum risum við Grant upp til að forvitnast um, hvað títt væri. Við sáum aðeins lúpulegan úlf smjúga gegnum grasið. Grant hélt að hundarnir hefðu espast upp við þetta, en eg trúði því ekki. Eg var altaf á nálum um að Stóri-Djöfullinn væri fólginn undir hverjum elgdýrs- eða úlfafeldi, sem Indíánarnir voru klæddir í. Þótti mér því hyggilegra, að fjölga varðmönnum, og kaus mér tvo hlaupara, Þrumu-Gný og Jarðar-Eld; fékk þeim tvo hesta og skipaði þeim að halda sig inn í skóginum að baki okkar og hafa gát á öllu.

Strax í dögun var alt komið á ferð og flug í tjöldunum. Hestarnir voru ólmir í að komast af stað. Og varla höfðu menn komið fótum í istöðin þegar bronchóarnir tóku sprettinn og þutu af stað Sama var að segja um hundana, að þeir geltu og rifust í ákafa; hlupu æðikipp, ruku þá saman og flugust á með svo mikilli grimd, að nokkrir lágu eftir á orustu vellinum.

Inni í tjaldstaðarsvæðinu voru karlmenn að hrópa síðustu kveðjuorð til kvenna sinna, kerlingar

að berja óþekka strákhnokka, sem voru að trana sér fram, og yfir höfuð svo mikil háreysti í tjaldstöðunum, að nægt hefði til að fæla heila vísundahjörð dagleiðarlangt í burtu. Síðan gaf Grant merki til brottlögu. Pétur hóf upp fánann og nú var lagt af stað. Skógbrennumen héldu sér vel í flokk, en Indíána-skríllinn keyrði hesta þeirra svo ákaft, að við lá að þeir fældust, og ekki yrði hægt að stjórna þeim rétta leið. Tjaldstaðarins var gætt vandlega. Séra Holland varð þar eftir, en þrátt fyrir stöðu þá, sem honum bar að gegna, er eg hárviss um, að hann hefði feginn viljað slást með í veiðiförina.

Fylgdarsveinar riðu á undan flokknum og lögðum við leið okkar fram með hálf-þurru feni, þar sem sjá mátti slóðir eftir vísunda. Þegar komið var svo sem tvær mílur frá tjaldstaðnum. fluttu þeir, sem fyrir flokknum fóru, þau tíðindi, að þeir sæju til vísunda-hjarðar skamt á undan okkur, og að fenið þrengdist þegar lengra kæmi fram og yrði að mjóu dalverpi. Varla var hægt að hugsa sér æskilegri stað til vísundaveiðanna, heldur en þetta, því að aflíðandi halli var þaðan sem við vorum niður í dalinn. Við færðum okkur nær honum með mestu gætni. — Loks komum við fyrir lítinn höfða við dalinn og sáum þá alla vísundabreiðuna fram undan okkur. Fáninn var látinn síga niður, foringi veiðifararinnar rétti sig upp í ístöðunum og rendi augunum yfir hjörðina. Ofurlítil móða fól okkur og háar starirnar, sem títt

er að vaxi í votlendi , huldu vísundana, sem þarna voru á beit í dalnum í bezta næði, og sá rétt ofan á svört bökin á þeim. Kolsvartar nasirnar komu öðru hvoru upp úr grængresinu, og þaut í þeim illilega, en íbogin hornin brutu stöngla og viðarteinunga í mesta ergi.

Alt frá höfðanum, sem við vorum staddir við, fram í dalsmynnið var krökt af iðandi vísundaskrokkum. Þessar stóru skepnur voru eins og þreyjulaus óargadýr í búri og í þann veginn að búa sig undir langa göngu. Mér er nær að halda, að villigæsa sveimurinn er loftið varð svart af, og eg sá svo títt þegar við vorum að leggja af stað í þessa vesturför, hafi ekki verið meiri að mergðinni til heldur en þessi vísundahjörð. Það var engu auðveldara að telja þenna aragrúa vísunda heldur en sandkorn á sjávarströnd.

Þeir gutu augunum illilega út undan sér vísundarnir, hristu stríðhærða svírana, otuðu fram hornunum hvössum eins og hnífsoddum, og voru alt annað en árennilegir. Vísundar sjá bezt til hliðar af jafnri hæð, og meðan við héldum kyrru fyrir sáu þeir okkur ekki. Þegar sá til vísundahjarðarinnar fyltust sumir veiðimannanna ákaflegri veiðigræðgi. Aðrir voru hálf skelkaðir og óttuðust, að þeir mundu verða troðnir undir. Af því að við vorum á hærri stað þurftum við ekki annað en þeysa ofan í móti til að koma ofan að vísundahjörðinni og reka hana á undan

okkur ofan á opið svæði.

Grant gaf merki um, að allir skyldu vera viðbúnir. Veiðimennirnir hlóðu byssur sínar, fyltu gúlana kúlum til þess að eiga hægra með að hlaða aftur á sprettinum, og biðu svo frekari skipana foringjans. Hann sneri hesti sínum hvatlega að hjörðinni. og gaf skyndilega merki um að hleypa af stað. Í sama vetfangi lustu hestar okkar hófum við jörðu og allur flokkurinn geystist eins og örskot niður hlíðina ofan í dalinn. Við hvininn, sem varð af ferð okkar réttu vísundarnir upp höfuðin og tóku að krafsa jörðina óþolinmóðlega með fótunum. Veiðimennirnir steinþögðu þangað til þeir komu fast að hjörðinni. Þá lustu allir Indíánarnir í hópi okkar upp óhemjulegu orgi. Vísundarnir hrukku við, hræddust og þutu beljandi af stað fram dalinn, stefnandi út á sléttuna. Allur dalurinn kvað við af troðningi vísunda-hjarðarinnar um hann og skotum og eftirreið um sex hundruð veiðimanna Nú var skotið á mjög skömmu færi, og dýrsleg viðureign hófst milli blóðþyrstra veiðimannanna, mjúkra eins og tigrisdýra, og vísundanna, hinna þróttugu drotna sléttunnar.

Nú var gagnslaust að eiga fljótan, öruggan reiðhest, því að þeir, sem fljóta hesta áttu, riðu hægt að vísundunum áður en þeir miðuðu á þá. Brátt kváðu skotin við um allan dalinn. Örvahríð mikil þaut hvínandi fyrir ofan höfuð okkar. Það voru Indíánar, sem þeim skutu. Innan skamms mátti sjá menn og

hesta liggjandi flata og særða vísunda, eða dauða hingað og þangað. Hamstola visundaboli gerði harða árás á einn veiðimanninn og rak hornin á kaf í kvið hesti hans; æstur af drápi hestsins, og áður en nokkur veiðimaður gat komið skoti á hann, fékk vísundurinn komið hornum undir veiðimanninn, sem nú var orðinn hestlaus og þeytt honum í háa lofa. Þeir, sem riðu vel tömdum hestum, gátu með snöggum viðvikum forðast skyndilegar árásir vísundanna. Söðulgjörð eins veiðimannsins slitnaði, er hann hallaði sér út í aðra hliðina, til að skjóta banaskoti á vísund sem hann var að elta. Maðurinn steyptist af hestinum, fast að fótunum á vísundinum, en hesturinn skauzt undan með snöggu viðbragði til hliðar. Þó undarlegt megi virðast, sá vísundurinn manninn ekki, en þaut áfram. Vísundarnir voru feldir unnvörpum; þó héldum við áfram eltingaleiknum, en jörðin skalf af traðkinu og troðningnum.

Eg gleymdi öllu, stað, tíma og hættu í þessum æðisgegna eltingaleik. Það var gamall vísundaboli, sem eg var að elta. Hann hafði ráðist á hest minn og meitt hann mikið. Eg elti bolann alt fram á árbakkann og krepti þar að honum. Bronchóinn minn var orðinn sprengmóður af reiðinni, en eg rak sporana í síðurnar á honum og herti á honum. Þegar eg átti svo sem fimm til sex faðma að vísundinum, sneri hann sér við og í móti mér. Hann bar lágt höfuðið, og nasaopin og augun voru eins og í blóð sæi.

Bronchóinn minn stóð upp á afturfótunum og vék sér síðan til hliðar. Eg hallaði mér áfram til að geta miðað rétt, en hesturinn tók þá svo harðan kipp út undan sér, að eg hrökk af baki. Vegar eg komst á fætur aftur lá vísundurinn dauður, en hesturinn þaut fram og aftur mannlaus. Veiðimennirnir veittu enn þá leifum hjarðarinnar eftirför. Mannlausir hestar, ólmir af blóðlykt, og fnæsandi við hvert skot, héldu sprettinn á eftir vísundunum. Litli-Karl, Svarti-Kufl, Jarðar-Eldur og Þrumu-Gnýr höfðu augsýnilega orðið á eftir, því að eg gat engan þeirra séð nokkursstaðar. Skamt frá mér voru tveir kynblendingar að laga söðlana á hestum sínum. Eg var og að herða gjörðina á mínum hesti, en það var ekki auðgert, því að hesturinn var mjög ólmur. Alt í einu heyrði eg hvin yfir höfðum okkar eins og spjóti væri skotið eða steinn kastaðist aftur. Um leið brá annar kynblendingurinn upp höndunum, hljóðaði upp yfir sig og féll til jarðar. Félagi hans laut ofan að honum, þreifaði um kverkarnar á honum og dró þaðan út langa ör.

Eg heyrði manninn hrópa með skelfingu: Sioux-Indíánar, Sioux-Indíánar! Síðan flýði hann brott í mesta ofboði, og hnaut í öðru hvoru spori. Alt þetta gerðist með svo skjótri svipan, að eg hafði naumast áttað mig á því, fyr en eg heyrði hróp mikil úr grasinu á bakkanum fyrir ofan. Við þetta tók hesturinn minn viðbragð, mér urðu lausir taumarnir

og hann þaut frá mér, svo að eg varð einn eftir með-al fjandmannanna. Sjö Indíánar komu nú hlaupandi út úr grasinu og ruddust áfram til að ná í hausskinn óvinar síns. Það var auðséð, að þeir höfðu ekki orð-ið mín varir; en ef eg tæki til fótanna, mátti ganga að því vísu, að þeir sæju mig, og örvar Sioux-Indíána ná hvað fljótum hlaupara sem er. Eg var í mesta ráðaleysi að lítast um eftir einhverjum felustað, þeg-ar eg sá ríðandi mann, málaðan rauðum litum, búinn til bardaga. Það var því líkast, sem hann sprytti upp úr jörðinni eins og illur andi, og átti hann ekki nema svo sem hundrað skref til mín, þegar eg varð hans var. Hann veifaði bardagaöxi sinni og kom á harða spretti móti mér. Eg hnipraði mig saman með byssuna í hendinni þegar eg sá hann koma og viltist þorparinn á því, og hélt að eg gerði þetta af hræðslu. Hann rak upp hæðnishlátur svo að skein í mjalla-hvítar tennurnar. Eg þekti þann hlátur, og rifjaðist strax upp fyrir mér endurminningin um Stóra-Djöfulinn, þegar eg sló hann við nátteldana forðum.

Indíáninn reiddi upp kylfu sína. Eg veik mér undan til að forðast höggið. Hann rak upp org og kipti í taumana, svo að hesturinn snerist í hring. Um leið og hann stóð upp á afturfótunum, skaut eg hann í hjartað. Hesturinn riðaði ofurlítið, og féll síðan á aðra hliðina og ofan á Stóra-Djöfulinn; hann misti bæði kylfuna og bardagaöxina, og þegar hesturinn veltist ofan af honum í dauðateygjunum voru þarna

tveir menn í heljargreipum. Úr illmannlegum augum Indíánans skein óslökkvandi hatur, og hendur fjandmanns hans voru fast kreptar utan um hálsinn á honum. Stóri-Djöfullinn var að þreifa eftir hnífskepti við belti sér þegar Indíánarnir, fylgdarmenn mínir tóku að hrópa álengdar. Koma þeirra virtist fylla hann nýjum þrótti, og þó að eg lægi ofan á honum eins þungt og eg gat, tókst honum að komast á knén og síðan að brölta á fætur. En í því komu fylgdarmenn mínir. Þeir brugðu þegar fótum fyrir hann og felldu hann til jarðar. Svarti-Kufl hafði dregið hníf sinn úr skeiðum og ætlaði að vinna á honum, og hefði sjálfsagt stytt Stóra-Djöflinum stundir, ef Litli-Karl hefði ekki slegið hnífinn úr hendi honum. En þetta tilræði varð Svarta-Kufli dýrkeypt síðarmeir.

Hendur Stóra-Djöfulsins voru bundnar í kross með margföldum héraskinnsþvengjum, sívafnar frá úlnliðum til olnboga. Jarðar-Eldur batt fyrir munn honum moccasin-skóm hans, en Þrumu-Gnýr og Litli-Karl bundu hann með sterkum strengjum við dauða vísundinn. Nú átti þorparinn ekki aftur að komast úr höndum mér fyr en eg væri búinn að hafa upp á Miríam.

"Monsieur! Monsieur!" hrópaði Litli-Karl um leið og hann stóð upp frá að binda fangann. "Við gleymum Sioux-Indíánunum!" og benti um leið upp á hæðina þar sem þeir höfðu verið,

Það var satt, að í þessum aðgangi hafði eg gleymt Sioux-Indíánunum; þeir voru nú horfnir burtu, en Indíánar mínir voru að skima eftir þeim upp eftir bökkunum. Þrjár mjóar reykjarrákir sáust rísa upp frá sléttunni. Eg þekti svo vel siðu Indíána. að eg vissi að þetta voru merki um það að óhapp hefði gerst. Skyldi Miríam vera svo nærri, að reykina mætti sjá þaðan, sem hún var? Nú loks hafði eg fengið óvin minn í mínar hendur. Eg gat nú boðið Sioux-Indíánum að skifta á Miríam og honum. Þangað til ætluðum við að gæta hans vandlega. Það var engin hætta á, að hreyft yrði við honum, fyr en vagnarnir kæmu, sem óku burt skinnunum af dauðu vísundunum.

Eg steig því á bak bronchóinum mínum; Litli-Karl hafði náð honum fyrir mig. Því næst bauð eg Indíánunum að stíga á hestbak og fylgja mér eftir út á auða sléttuna. Syðst við sjóndeildarhring sást gulleitur Indíána bústaður. Öldukend bæring á háu grasinu sýndi, að fylgdarmenn Stóra-Djöfulsins voru að flýta sér burt með fregnina um handtöku hans. Við urðum að flýta okkur til tjaldstaða Sioux-Indíánanna, áður en þessir sendiboðar gætu gert þeim aðvart um að forða sér.

Við slógum undir nárann og hleyptum af stað. Aftur sáust mjóar reykjarrákir stíga upp og Indíánatjaldstaðurinn, sem við höfðum séð, tók að hreyfast og hvarf alveg rétt á eftir. Eg var nærri farinn að

ímynda mér, að tjaldið sem eg sá syðst við sjóndeildarhring hefði verið missýning, eins og oft ber þeim fyrir augu, sem óvanir eru að ferðast um sléttuna. En eg hvarf frá þeirri ætlun þegar eg sá menn alt í einu vera að stíga á hestbak skamt þaðan, sem tjaldið hafði staðið. Við hertum þá reiðina á ný. Sioux-Indíánarnir gerðu hið sama, og nýir reykir sáust rísa upp.

"Hvernig stendur á þessu " spurði eg Litla-Karl, því að nú mátti sjá reykina á eitthvað tólf stöðum.

"Þeir hafa kveikt eld í sléttugrasinu, monsieur! Sioux-Indíánar hafa gert það. Vindurinn glæðir logann óðum — fljótt! fljótt hingað!" og allir Indíánarnir fjórir sneru við hestum sínum og hleyptu af stað.

"Bleyðurnar ykkar!" hrópaði eg. "Verið þið kyrrir. Ætlið þið að láta Sioux-Indíána hræða ykkur svona? Reynum að komast gegnum eldinn, annars vex hann og brennir okkur til agna."

Reykurinn fól flóttamennina sjónum og Indíánar mínir dokuðu við. Þar sem ekki var hægt að vinna Indíána með fortölum, má stundum hafa þá á sitt mál með launa tilboðum, eða hrósi.

"Sá fær tíu hesta, sem getur náð Sioux-Indíána!" hrópaði eg. "Af stað, Indíánar mínir! Hver vill fylgja mér? Eru Indíánarnir hugminni heldur en hvítir menn?" og þetta varð til þess að við hleypt-

um af stað á ný. Indíánarnir börðu hesta sína miskunnarlaust. Þeir börðu þá í höfuðin og hölluðu sér fram á makkana til þess að gera hestunum léttara um hlaupin. Nú var óðum að hvessa og eldurinn magnaðist á hverju augnabliki, og rauðar tungur sleiktu skrjáf-þurra sinuna og gerðu hana að logandi hafi; en hinum megin við eldinn mátti sjá ötula reiðmenn, sem sóttu ákaft fram. Neistaflugið lék um okkur eins og þéttasta hríð, en við námum aldrei staðar, enda voru hestar okkar orðnir hálftryldir. Reykjaröldurnar, sem komu veltandi fram móti okkur voru svo þykkar, að við lá að við yrðum blindir, og brennandi heitt audrúmsloftið fanst okkur leggjast yfir okkur eins og eldstraumur, sem ætlaði að tortíma okkur. Eins og ósjálfrátt færðumst við nær eldhafinu; eg bar höndina fyrir vit mér eins og til að hlifa mér við hitanum og koma í veg fyrir, að eg andaði að mér logheitu loftinu. En enginn maður getur lifað án þess að draga andann, svo að þegar eg sogaði að mér loftið næst, fanst mér eins og alt brjóstið ætlaði að logbrenna innan, líkast því þegar glóandi kol kemur við bera kviku. Því var ekki að undra, þó að hestar okkar kumruðu, eins og þeim skepnum er títt að gera við mikinn sársauka. Við ætluðum nú að missa alla stjórn á þeim, svo að við stigum af baki, vöfðum treyjunum okkar um höfuðin á þeim, en þeir hringsnerust í kringum okkur skjálfandi af hræðslu. Því næst rifum við tuskur af fötum okkar og bund-

um þeim fyrir vitin á okkur. Að því búnu stigum við aftur á bak og hleyptum af stað á ný.

Oft hefi eg dáðst að hugrekki þessara fjögra Indíána. Um mig var það að segja, að eg var fús til að leggja lífið í sölurnar fyrir konuna, sem eg var að reyna að frelsa, en þeir voru að eins að hugsa um að sýna og sanna hugrekki sitt. En hugrekki á hæsta stigi er takmarkað af líkamlegu þoli, og við vorum nú komnir á takmörk lífs og dauða. Eldhafið að baki okkar, fáein skref frá okkur, svalg alt i sig, sem fyrir varð. Glóandi eldibrandar féllu niður regnþétt. Þessi eldur mjakaðist ekki með hægð áfram, eins og sléttueldar þegar vindlaust er, en lofthitinn mikli virtist skapa ofsastorm, og rauð eldbáran geystist áfram og otaði að okkur klofnum vígtönnum eins og högg-ormur. Eg var að hugsa um það í einhverju óráðs-móki, að helvíti Dantés mundi ekki hafa verið verra en þetta. Eg leit upp til himins með þeirri þrá eftir hjálp að ofan, sem mönnum er meðfædd, en þar var ekkert að sjá nema reykjarmökkinn úfinn af logan-um, sem skaut upp öðru hvoru. Þá vissi eg, að við höfðum að eins um þrent að velja: að fara langan krók á flug við eldinn, komast í gegn um hann, eða farast í honum. Eg hrópaði til fylgdarmanna minna að forða sér, en Jarðar-Eldur og Þrumu-Gnýr voru þegar komnir fast að eldhafs-jaðrinum. Litli-Karl og Svarti-Kufl héldu sér sem næst mér. Við námum staðar allir þrír, bíðandi dauðans. Indíána-

hestarnir þrengdu sér fast að hesti mínum, svo að eg fann hitann af sviðnum ístaðsólum Indíánanna. Það rauk úr hjartarskinnbuxunum okkar víðar en á einum stað. Storminum slotaði ofurlítið, og eg sagði við sjálfan mig, að nú væri að koma yfir okkur eins og helfró, áður en sú vindþotan risi, er þeytti eldinum yfir okkur og riði okkur að fullu. En um leið og lygndi sáum við gegn um reykjarmökkinn glitta í grænan blett, sem eldurinn hafði ekki komist að. Við rákum upp óp, og hlupum þangað hálfbognir, og teymdum hestana eftir okkur skjálfandi af hræðslu og náðum standandi á öndinni yfir á þenna ósviðna blett. Eg sogaði i mig hreina loftið í löngum teigum, því að eg var rétt við að kafna. Síðan rifum við treyjurnar okkar af hestunum, stukkum á bak og hleyptum út úr reykjarmekkinum í áttina eftir jóreyk Sioux-Indíánannan, sem voru að flýja undan. Alt í einu fundum við sterka brunalykt eins og af sviðnu hári. Litli-Karl rak upp óp, og þegar eg leit upp sá eg hest hans falla til jarðar, en við Svarti-Kufl riðum áfram. Flóttamennirnir voru að halda upp eftir hæð til suðurs. Þeir börðu hesta sína með ógna ákefð, en við færðumst nær á hverju augnabliki. Eg gat talið tuttugu reiðmenn. Mér sýndist kvenmaður bundinn á einn hestinn. Var það Miríam? Við vorum nú komnir á rakan grasflöt. Eg hvatti Svarta-Kufl til að herða reiðina, þó að eg fyndi hest minn vera að uppgefast. Sioux-Indíánarnir voru nú

komnir upp á hæðarbrúnina. Hestarnir voru alveg að gefa frá sér og það dugði alls ekki að ætla sér að herða á þeim.

Þegar við komum upp á hæðina, voru Sioux-Indíánarnir komnir langt niður í dalinn. Það var svo sem auðséð, að ekki var viðlit að ná þeim. Það getur verið býsna erfitt að ganga gegn dauðanum, standa í stríði og berjast til sigurs, en þó er hitt miklu erfiðara og þungbærara, að gefast upp, að verða að láta undan knýjandi nauðsyninni, og hörfa frá, þegar komið er fast að markinu.

Eg hafði Stóra-Djöfulinn þó á valdi mínu. Við snerum því við og riðum með hægð um óbrunninn jarðveg til vísundaveiðimannanna.

Við náðum Litla-Karli. Hann var á heimleið gangandi. Jarðar-Eldur og Þrumu-Gnýr biðu okkar við dalverpið. Kerrurnar voru þegar komnar á skrið að flytja saman húðirnar, tólg, kjöt og tungur. Við hröðuðum okkar eins og við gátum þangað, sem við höfðum skilið við Stóra-Djöfulinn. Litli-Karl var á undan. Alt í einu sneri hann sér við í móti okkur og æpti upp yfir sig reiðulega. Skildi eg strax á svip hans og atferli, að eitthvert óhapp hafði komið fyrir. Eg flýtti mér fram fyrir hann, og ætlaði eg ekki að trúa augum mínum, er eg sá, að Stóri-Djöfullinn var horfinn frá dauða vísundinum, þar sem við höfðum bundið hann. Vitaskuld var það líka heimskulegt að skilja þannig við hann. Í þriðja sinni hafði hann þá gengið úr greipum mér og horfið svo, að því var líkast, sem jörðin hefði gleypt hann. En er við gættum

betur að, sáum við hvernig í öllu lá. Blautur mochasin-skór lá þar eftir; virtist svo, sem hann mundi hafa verið tugginn. Það var auðséð, að fanganum hafði tekist að naga sundur bindið, sem hann hafði haft upp í sér; því næst hafði hann nagað sundur böndin af höndum sér, og losnað og sloppið..

Eg sneri aftur til tjaldstaðarins beygður af vonbrigðum, og tók þar að ráðgast við séra Holland. Okkur kom saman um, að verða samferða til fundar við Mandana Indíánana í Missouri. Fylgismenn Stóra-Djöfulsins höfðu augsýnilega haldið suður á bóginn til heimkynna Sioux-Indíánanna. Sioux-Indíánar og Mandanar voru vinir um þetta leyti. Ef við hefðum aðsetur með Mandönum, sunnan við bygðir Sioux-Indíána, var sennilegt að við mundum fá fréttir af hinum áðurnefndu æði oft, án þess að þeir gætu náð að koma fram við okkur hefndum.

Eg var mjög hryggur sakir Miríam og hugði að hún hefði við mikil harmkvæli að búa. Þegar eg fór að sofa, fanst mér allt af, að eg sjá hana, og væru Indíánarnir að kvelja hana. Mér var því ómögulegt að taka neinn þátt í fagnaðarópum Indíánanna yfir því, hvað veiðarnar höfðu hepnast vel. — Síðasta kerran kom nú skröltandi inn að tjaldstaðnum hlaðin húðum og kjöti. Kliðurinn í veiðimönnunum þagnaði alt í einu, og eg vissi, að allur skarinn var tekinn að háma í sig kjötið með svo mikilli og dýrslegri græðgi, að enginn gaf sér tíma til að rækja þann sið Saxanna, að halda uppi samræðum meðan á snæðingi stóð. Og það var ekki að

undra, þó að þeir hámuðu í sig, því að þetta var regluleg ársveizla. Nú var fyrir höndum síðar meir harðæri og hungur og nú voru allir að safna sér vistum til þess tíma. Jafnvel hundarnir voru ánægðir, því að þeir ýmist eigruðu fram og aftur um tjaldstaðinn eða lágu á meltunni utan við tjöld húsbænda sinna.

---

## XIV. KAPITULI.

### *Andstreymi.*

Varla er hægt að hugsa sér einmanalegri tilveru heldur en æfi skinnakaupmanns um hávetur langt norður í óbygðum. Hann varð að hafast við einn sér í lélegum bjálkakofa mörg þúsund mílur frá siðuðum mönnum, og ekkert rauf þar eyðikyrð næturinnar nema villimannlegar drykkjuveizlur Indíánanna. Það var fyrsti veturinn minn norður í óbygðum, sem eg dvaldi hjá Mandönunum. Mér hafði nú ekki enn lærst það, að láta ekki á mig bíta hvað sem á gekk, og var enn svo óharðnaður, að eg tók mér margt nærri, jafnvel það, sem sumum kynni að sýnast smámunir. Hér um bil mánuði eftir að við komum til Mandananna, fór séra Holland burt frá okkur. Eiríkur Hamilton var enn ókominn, svo að eg var nærri úrvinda úr leiðindum. Eg hafði fylgt prestinum á hálfa leið til ármótsins. Þaðan átti hann

að fá flutning með Indíánum til Missouri. Þar kvöddumst við innilega, og eg nam staðar á trjálausum bletti og horfði á eftir barðabreiða hattinum prestsins og svörtu hempunni, sem var að hverfa.

"Vertu sæll! Guð sé með þér!" sagði hann lágt. "Blessaður farðu ekki að sökkva þér niður í neitt grufl, þvi að þá gengur þú af vitinu. Hugsaðu nú um sjálfan þig. Vertu ekki stúrinn!"

Eg gat engu svarað, en hafði haldið í hönd hans og gengið spölkorn með honum.

"Svona, farðu nú, drengur minn! Hér verðum við að skilja," sagði hann og hristi hönd mína og lagði af stað með félögum sínum.

Síðan stikaði hann af stað, án þess að líta nokkurn tíma um öxl. Þegar hann var að hverfa inn í dimman skóginn sem hausthélan hafði hrímgað, svo að laufin á hlyntrjánum voru tekin að blikna og auðsæ dauðamörk farin að koma á þau, þá varð einstæðings tilfinningin svo rík í huga mínum, að eg gat naumast staðist freistinguna til að hlaupa af stað og þjóta á eftir honum. Félausari en þeir félausustu í flokki samferðamannanna, lagði þessi maður ótrauður af stað, brynjaður trú sinni til þess að útbreiða ríki meistara síns. "Eg vildi óska, að eg hefði eins mikið hugrekki til að framkvæma ætlunarverk mitt", sagði eg við sjálfan mig um leið og eg sneri aftur til kofa míns.

Svarti-Köttur og foringi Mandananna tók mig að sér, eins og son sinn og bróður, en eg sinti þeim vinalátum lítt meir en nauðsynlegt var, til að fá nægi-

leg viðskifti. Mér leiddist afskaplega frá því að séra Holland fór og þangað til Eiríkur Hamilton kom. Á hverjum degi labbaði eg norður á hæðirnar og horfði til mannaferða. Stundum sá eg ríðandi menn langt burtu; fyrst sást höfuð þeirra, síðan hendur og loks hestar koma upp á sléttunni, líkt skipi, sem sjá má koma utan af hafi. Þá varð mér það jafnaðarlegast að söðla hest minn og ríða af stað, mestu þeysings-reið, því að alt af bjóst eg við að Eiríkur Hamilton væri á ferðinni; en alt af hitti eg Indíána og enga aðra. Hvað gat dvalið hann? Eg gat upp á einni ástæðunni eftir aðra. Mér fanst tíminn svo langur sem dagarnir yrðu að árum. Eiríkur kom ekki seinna heldur en hann hafði ætlað sér. Hann kom loksins, og rakleitt inn til mín þar sem eg sat að kveldverði. Hann hafði ekkert að segja mér annað en það, að hann hefði eytt mörgum vikum í að leita árangurslaust. Þangað til veiðimennirnir hefðu fært honum fréttirnar um það, hversu viðskifti okkar Stóra-Djöfulsins hefðu farið. Þá fór hann þegar frá Douglas-virki áleiðis til Missouri, en hafði hvílt sig nokkrum sinnum á leiðinni og sent frá sér menn til að forvitnast um flokk Stóra-Djöfulsins; en engar nýungar hafði hann spurt og leit hans var yfir höfuð að tala enn þá árangursminni heldur en mín. Laplante kvaðst hann aldrei hafa séð eftir að hann fór út úr ráðhúsinu til að leita að unga Norð-Vestmanninum. Eg var í engum vafa um, að þorparinn hefði verið í hópi þeirra Indíána, sem við eltum í sléttueldinum. En það var öðru nær en að

koma Eiríks bætti nokkuð um. Honum virtist gremjast það stórum, að mér skyldi hafa mishepnast svona, þegar svo nærri lá við að eg bæri sigur úr býtum.

Vegna þess, að við vorum sinn frá hvoru félagi, bjuggum við sinn í hvorum kofa. Og eg er hræddur um, að Eiríkur hafi ekki orðið verkadrjúgur félagi sínu þenna veturinn. Eg held helzt, að hann mundi hafa steingleymt að éta, ef eg hefði ekki komið og mint hann á það. Skegg sitt og hár lét hann vaxa hirðulaust. Eg varð að sjá um, að búa til matinn handa okkur báðum. Þegar Indíánar söfnuðust saman úti fyrir kofanum hans, fór eg oft til að hjálpa honum að verðleggja skinnin. Indíánarnir virtust vilja færa sér í nyt þetta sinnuleysi hans; og reyndu að hafa út úr honum spánýja öxi fyrir eitt bjórskinn, en hefðu átt að greiða það með fimm skinnum, ef rétt hefði verið. Nú fór mér að skiljast hvers vegna þeir þyrptust að kofanum hans, en virtust forðast mig. Eg tók þá að gefa mig enn meir við verzlunar viðskiftum hans og þeirra, en eg hafði gert, og velja úr skinnum Indíána, flokka þau og leggja verð á þau fyrir hann.

"Lynx-skinn, vísundaskinn, marðaskinn, bjórskinn, bjarnarskinn, raccúna-skinn eru nú á boðstólum", sagði eg einu sinni; "viltu kaupa þau öll Eiríkur?"

"Já, vitaskuld! Taktu alt, sem býðst," svaraði Eiríkur eins og í draumi, og Indíánarnir tóku að gera sig heimakomna og skoða vörur hans nákvæm-

lega, og tóku að tregðast við viðskiftin, ef þeir fengu ekki öllu að ráða.

"Eiríkur, Hlaupa-Hjörtur vill kaupa byssu," sagði eg einu sinni.

"Í öllum bænum láttu hann fá hana, og láttu mig svo í friði," og þá kom heldur en ekki tilhlökkunarsvipur á Hlaupa-Hjört. Hann breiddi úr öllum skinnunum, sem hann var með, og eftir æðistundar þögla kaupskapar umleitan, tók eg við skinnunum, en hann við byssunni eftiræsktu. Eg man eftir því, að gömul, tannlaus, hrukkótt Indíána kerling varð fyrst til þess að opna á mér augun fyrir því hvers kyns verzlunaraðferð Indíánarnir beittu við Eirík. Hún hafði orð á sér meðal þjóðflokks síns, að vera góður læknir. Hún gekk mjög hokin og studdist við staf, og þegar hún kom inn fleygði hún rótapokanum, sem hún bar, á gólfið. Þegar hún var búin að þýða mockasin-skóna sína við eldinn í kofanum, og taka skinnavafningana af öklunum á sér, tók hún að gera sig líklega til að fara að verzla. Við vorum í þann veginn að reka hana burtu þegar hún heimtaði rautt flónel, te, tóbak og því um líkt handa stórri fjölskyldu, sem hún kvað sér áhangandi. Að því búnu settist hún niður og lét sem hún ætlaði ekki að fara fyr en hún fengi þetta.

"Hvað á þetta að þýða?" spurði eg, því að eg vissi alls ekkert um verðmæti þessara róta.

"Það er kerling með rætur til lækninga. Blessaður kauptu þær strax af henni! Vertu ekki að vefja það við þig."

"En hún vill fá allar vistir þínar í staðinn, maður," svaraði eg.

"Stendur öldungis á sama. Hún fær þær kannske hvort sem er áður langt um líður." Svona var Eiríkur orðinn bilaður, þegar eg tók að líta eftir verzlun hans; en af því að þessi geðsmunabilun hans var líkust leiðslu, þá urðu Indíánarnir snortnir af henni. Þeir líta svo á, að geðveikur maður sé sendiboði Mikla Anda, og þegar þeir sáu hvernig var ástatt fyrir Eiríki, hættu þeir að reyna að pretta hann í viðskiftum.

Á kveldin, þegar verzlunarviðskiftum var lokið var Eiríkur vanur að koma til mín. Hann gekk um gólf hvasseygur og þögull, og eg þóttist sjá á honum, að hann var rétt að því kominn að missa vitið. Indíánum mínum duldist þetta ekki og Svarti-Kufl leit íbygginn til Litla-Karls þegar köstin komu að Eiríki. Hann var svo bugaður af sorg og þunglyndi, að hann mælti stundum ekki orð frá munni svo dögum skifti. Þess á milli tók hann til að þvaðra hitt og annað bull, og svo hné hann niður yfirbugaður og eg varð að vaka yfir honum og gæta þess að hann næði ekki skotvopni. Aldrei hefi eg séð manni hnigna jafnskjótt eins og honum þá; eg vona, að eg þurfi aldrei að sjá það. Eg hafði vonast eftir því, þegar þunglyndið sótti mest á hann eystra, að hin sterka líkamsbygging hans mundi þola þessa miklu raun; en þegar fór að hausta og vetraríkið að magnast, tók hár hans að grána mjög mikið og hrukkurnar á andlitinu að stækka og fjölga.

Nú voru liðanr svo vikur og mánuðir, að ekkert spurðist til Miríam. Eg fór því að verða kvíðandi um það, að hvatvísi mín í eftirreið Indíánanna hefði haft dauða hennar í för með sér. Eins og allir æfintýragjarnir menn, hafði eg ekki búist við því, að dirfskufullar tilraunir mínar mundu alt af mishepnast. Aldrei hafði mér dottið í hug, að eg mundi eyða svo allri æfi minn í skógunum, að eg ekki næði takmarki því, er eg hafði sett mér. Enn liðu vikur og sendisveinar mínir komu alt af aftur úr ferðum sínum án þess að verða nokkurs vísari. Eg fór því að halda, að eg hefði illu heilli nokkurn tíma farið á fund Eiríks. Jók þetta enn meir á hrygð okkar og vonbrigði.

Veturinn var óvanalega mildur, og miklu færri veiðidýr voru þá í Missouri, heldur en vant var. Þegar fram í Febrúar kom, fóru menn að verða matarlitlir. Við átum vanalega þá að eins tvær máltíðir á dag, cat-fisk í kjöts stað og seyði af þurkuðum skinnum í stað súpu. Vegna þess að fylgdarmenn mínir, Indíánarnir tveir, voru lengst af á flakki hingað og þangað til að forvitnast um Sioux-Indíána, þá varð eg að gera alt sem gera þurfti heima, og veiða fisk til matar; það er kalt verk unglingum berhentum að veiða fisk í köldu veðri og frosti, en þó voru ástæðurnar heima fyrir í kofanum enn þá ömurlegri.

Þegar leið að jólum, tók geðveiki Eiríks mjög að magnast. Þegar vistir tóku að þverra hjá Mandönunum, fóru þeir að verða ófrýnilegir og létu hið

dólgslegasta; eg varð því æ kvíðafyllri með hverjum degi er leið. Stundum dróg eg það í efa, að séra Holland mundi finna okkur lifandi vorið eftir, og mér varð loks næst að halda, að okkar mundi bíða sömu kjör eins og skinnakaupmannanna í Athabasca, sem Indíánarnir þar réðu bana og söddu á hungur sitt.

En mitt í þessu andstreymi birtist ekki svo sjaldan sálarsjón minni vera, ein óháð tíma og rúmi. Hljóðlega virtist mér hún koma og hvísla að mér hugsunum, sem eigi verður með orðum lýst, draga úr ofboði örvæntingarinnar og skilja, mitt í þungbæru stríði og áhyggjum, óskiljanlegan frið eftir í hugskoti mínu. Allsstaðar fann eg og sá eða þóttist sjá þessi sömu gráu augu mæna á mig; mér fanst eg sjá þau í eldsloganum í hlóðunum í kofa mínum, í myrkrinu þegar eg var að laumast yfir í kofa Eiríks, kvíðandi fyrir hvernig eg mundi sækja þar að — allsstaðar fanst mér þau mæta mér og mér fanst tillit þeirra líkjast augnaráði ungrar sálar, sem hefir orðið hverft við af því að henni hefir verið komið á óvart er hún var að sýna meyjarlega fegurð sína og opinbera sínar leyndustu hugsanir.

Kafaldsbylur var með töluverðri veðurhæð allan Þorláksmessu-daginn. Þegar komið var fram undir kveld var eins og lygndi heldur og syrti enn meir að. Á aðfangadagskveldið magnaðist þunglyndi Eiríks svo að hélt við brjálsemi. Hann hafði verið enn þungbúnari undanfarið, en hann var vanur, og um kveldið, þegar við settumst að snæðingi, (það var

hérasúpa og pemmican, sem við höfðum til matar), þá fór hann að tala óráð.

"Heyrðu, Eiríkur," sagði eg, "mér finst þú ættir að vera hérna hjá mér í nótt. Þú ert ekki vel frískur."

"Vera hjá þér!" hreytti hann út úr sér. "Eg veit ekkert hvað þú átt við."

"Komdu að hátta, Eiríkur," sagði eg og greip um hönd hans. "Þú ert fárveikur maður — komdu að hátta."

"Að hátta!" endurtók hann þóttalega. "Hátta! Þú ert víst orðinn vitlaus, maður. Eg ætla að fara að hitta Miríam á St. Foy Road. (Þar hafði Miríam átt heima, þegar þau kyntust fyrst í grend við Quebec) "Sérðu ekki, hvað ljósbirtan skín glatt í neðri borginni " sagði hann og hló. Svo tók hann til að bulla hitt og þetta og gráta mjög átakanlega.

"Rúfus! Rúfus! Heyrðu drengur minn!" hrópaði hann og starði á mig í óráðsfátinu. "Gillespie, hvað er að? Mér finst að eg geti ekki hugsað. Hver — ert þú? Hver — ert þú, maður? Gillespie! Gillespie! Er eg að ganga af vitinu! Hjálpaðu mér, Rúfus! Hvernig stendur á því, að þú getur ekki hjálpað mér? Það er verið að elta mig! Sjáðu! Sjáðu þetta óhræsi!" Nú komu tárin fram í augu hans og hann hnyklaði brýrnar til að verjast grátinum.

"Líttu á, þarna er það!" hrópaði hann og benti í eldinn, og hann hljóp fram til dyranna, þar sem eg náði í hann. Hann barðist um með æðisgengnu afli

og tókst að opna. Þá gleymdi eg að þessi maður var mér meir en bróðir og réðist á hann eins og óvin minn, albúinn þess að láta orku skifta með okkur. Kafaldsbylurinn æddi á ný og í skafrenningnum mátti sjá tvo menn, við daufa birtuna, sem út um dyrnar kom, þreyta harðar sviftingar. Eg sá skelfdu andlitin á Litla-Karli og Svarta-Kufli gægjast gegn um dimmuna og svitinn bogaði af mér um allan líkamann. Við glímdum báðir af öllu afli. Annar okkar barði frá sér eins og í blindni, eg vissi ekki hvor okkar, en eg hugsa að það hafi verið Eiríkur, því að alt í einu dró mátt úr honum og hann hné niður í fangið á mér eins og veikt barn.

Mér tókst einhvern veginn að koma honum inn í rúmið mitt. Eg lá í flatsæng og þar lagði eg Eirík og dró síðan koffort að sænginni, settist þar á, tók um hendur hans og bjóst til að vaka yfir honum um nóttina.

Hann stautaði eitthvað öðru hvoru eins og í óráðsmóki, og hafði yfir nafn Miríam, hvað eftir annað, og var alt af að færa til höfuðið á koddanum. Loksins sofnaði hann. Kveldmaturinn stóð ósnertur á borðinu. Blysin voru sloknuð. Eg hafði fest upp eitt tólgarkerti í græna hríslu, sem átti að vera jólaprýði í kofanum mínum. Á því kerti logaði enn þá; það hallaðist samt og sendi frá sér drungalega birtu út um kofann. Eg laumaðist burt frá veika manninum, lagði nýjan við á eldinn og hallaði mér síðan út af. Skinið af eldinum féll á andlit Eiríki. Nú virtist alt annar svipur vera kominn á andlitið.

Það var að færast yfir það friður og ró. Hrukkurnar, þessi auðsæu mörk sorgarinnar, virtust hafa grynst til muna, og yfir alla ásjónuna hafa komið friðar-hreinleikur eins og á ásjónu dauðs manns. Eg fór að hugsa um að skifting ljóss og skugga á veggjunum uppi yfir minti á þjóðsögur um dauðann er stóð á verði yfir þeim, sem ættu skamt eftir. Skugginn uppi yfir kodda Eiríks smáminkaði og varð æ daufari og lögunarlausari fyrir augum mínum. Eg tók að strjúka mig um ennið. Var þetta missýning, eða var eg að missa vitið? Þessi skuggi virtist færast til, og alt í einu hvarf hann inn í myrkrið.

Ósegjanlegur ótti gagntók mig. Þá stundina hræddist eg þó ekki dauðann. Dauðann! Það er óþarfi að hræðast hann! Hví skyldum vér óttast dauðann? Var lífið okkur ekki enn þá ægilegra? Þá mintist eg ástmeyjar minnar og jafnskjótt hvarf lífsóánægjan: Eg fann þá til þess eins og allir aðrir dauðlegir menn, að ástæða var fyrir mig að óttast dauðann. Hvað gerði það annars til, þó að einstæðingur eins og eg hefði lagt einn af stað út í myrkrið? En þegar mér kom ást mín í hug, þá gagntók mig sár meðvitund einstæðingsskapar og aðskilnaðar — aðskilnaðar, sem hvorki ást eða skynsemd fékk bætt eða brúað — svo að mig hrylti við hugsuninni um að fara út í dimmuna.

Aftur litaðist eg um. Skugginn bærðist, vaggaðist til og virtist koma út úr hálfrökkrinu og hafa tekið á sig svip yndislegrar veru með mjúkar hreyfingar, með mikið glóbjart hár, snjóhvítt enni og grá-

augu, sem sögðu ómælanlega margt.

"Elskan mín!" kallaði eg. "Elskan mín!" og spratt upp og ætlaði að grípa til þessarar veru, sem mér sýndist vera að koma, en þá hvarf hún, inn í skugga hríslunnar, sem jólakertið hangdi á.

Kertið féll á gólfið og slokknaði á því. Eg var enn eftir hjá veika manninum, sem dró þungt andann i myrkrinu. Eldibrandur féll niður í glóðina. Loginn gaus upp og eg var einn eins og áður. Var eg farinn að sjá ofsjónir? Eða var hún að kalla á mig í raunum sínum? Eg gat við hvorugu fengið svar, því að alt var hljótt í kofanum, og mer fanst eg verða allur gagntekinn af einhverri andlegri leiðslu eða hrifningu.

Ef eg man rétt — og eg þykist vera viss um að eg geri það — þá held eg, að jafnvel þó að eg væri bugaður af margskonar andstreymi, þá hafi brjóst mitt verið fult af mikilli þakklátsemi til guðs þetta aðfangadagskveld fyrir þá ást, sem hann hafði lagt í brjóst mitt, því að eg veit, að frá honum hlýtur hún að hafa verið komin.

Eg veit ekki, hvernig öðrum mönnum er farið. En um sjálfan mig get eg sagt það með vissu, að án áhrifa hennar hefði eg ekki lifað af þenna vetur, þó að hún, unnusta mín, mundi hafa orðið manna seinust til að samsinna því. Austræni borgarlýðurinn, sem lifir í vellystingum og klæðist mjúkum klæðum, mun auðvitað gera gys að því að hvítur maður skuli fá á sig skrælingjabrag, en múgnum er það óljóst, að í óbygðunum er mannleg rödd eyranu eins kærkom-

in og helliskúr skrjáfþurrum jarðvegi í langstæðum þurkum. Þar hafa menn við sannreynd að eiga, en ekki ástæður. Indíánarnir rjúfa stundum tómleik óbygðanna og hins einmanalega lífs með heimsóknum, sem ekki eru óvelkomnar; en svo koma stundum þeir tímar, að þeir hanga tímum saman í og umhverfis kofa hvítu mannanna. Til eru þeir menn, því er ekki að leyna, sem með öllu hafa afsalað sér siðum þeim, er þeir vöndust í æsku og hafa orðið algerir villumenn. Hver gat vitað, nema eins færi fyrir mér, og að eg hirfi af réttri braut og á vegu ranglætisins?

Trú kann að geta haldið við sálarþreki sannra guðsmanna í andstreymi, en eg get um það borið, að einlæg ást manns, sem er eins og fólk, á stúlku, er hann jafnar til engla, sú ást hlýtur að vera honum mikil kjalfesta; sakir slíkra áhrifa fá menn viðbjóð á ofdrykkju, prettum og hinum auðvirðilegu Indíána hreysum; og yfir höfuð get eg ekki óskað neinum ungum manni neins betra, í baráttunni við heiminn, holdið og djöfulinn, heldur en ástar siðprúðrar meyjar.

Eg ætla ekki að reyna að lýsa því, hvernig dagarnir liðu þeir næstu eftir jólin. Sjúkleiki Eiríks hélst í mánuð. Eg hafði nóg að gera við að sinna verzlun, líta eftir njósnarmönnum þeim, sem fóru að leita Miríam og annast Eirík. Eg hafði því engan tíma til að hugsa um mínar eigin raunir. Þó að eg ætti erfitt, þá var mér það hepni að eg hafði lítið tóm til að leggjast í óþarfa grufl og lama með því

starfsþrótt minn. Og þegar Eiríki fór að skána þá þurfti eg að hafa mig allan við að hughreysta hann og hressa. Styttum við okkur helzt stundir við að rita á birkibörk helztu viðburði, og leika með kastskífum við Mandana og *póló* o. þ. u. l.

Þannig leið þessi ömurlegi vetur og vorið teygðist fram að sumri. Innan fárra vikna var ráðgert, að við snerum norður á bóginn til ármóta Rauðár og Assiniboine. Eiríki var það mikið fagnaðarefni að leggja upp í slíka ferð eftir allar kyrseturnar, og ól enn óljósa von í brjósti um það, að hann kynni að finna Miríam lífs þegar þangað kæmi. Eg ímynda mér, að Eiríkur hefði lagt af stað norður með nýjum þrótti, ef ráðagerðum okkar hefði ekki verið ruglað sakir prettvísi Stóra-Djöfulsins.

---

## XV. KAPITULI.

### *Hvíti presturinn góði.*

Um vikutíma höfðum við Eiríkur verið í önnum að ganga frá skinnavöru og farangri okkar og búa okkur undir að leggja aftur af stað til Rauðár. Laugardagskveld eitt sátum við við eld í kofa mínum. Eg segi laugardagskveld, því svo taldist mér til eftir skorunum, sem eg hafði sett í dyrustafinn hjá mér; en Eiríkur var fastur á því, að sunnudagur væri. Kofinn hriplak og skænið í glugganum

rennblautt og teigt slettist til í golunni í sífellu.

Eg losaði um minnispeninginn, sem frændi minn hafði gefið mér, og hafði yfir með sjálfum mér einkunnarorðin: —"Hugrekki í hörmungum," "hugrekki í hörmungum," endurtók eg eins og ósjálfrátt. Við þurfum á því að halda, Eiríkur! Finst þér ekki?"

Fyrirlitningar glott færðist yfir andlitið á Eiríki. Hann svaraði engu, en spyrnti eldibrandi, sem fallið hafði út úr hlóðunum, inn í glóðina aftur.

"Hvað skyldi geta tafið svona fyrir séra Holland?" sagði eg. "Nú er komið fast að sumri og ekkert sézt til hans."

"Áttu nokkra von á honum aftur úr þessum blóðhundakjöftum?" spurði Eiríkur reiðulega. — Hann var orðinn vanur því, að búast altaf við því versta.

"Já, heldur held eg það," svaraði eg. "Hann hefir verið innan um Indíána fyrri."

"Ójá, en eg verð að halda því fram, að þú sért flón, ef þú heldur þetta," svaraði hann.

Aumingja Eiríkur! Hann var orðin því svo vanur, að kalla mig flón, í óráðsköstunum, að eg var hættur að kippa mér upp við það. Hann einblíndi inn í eldinn og var ófrýnn á svip, og ef mér hafði ekki skilist, hvað í orðum hans lá, þá fékk eg nú nánari skýringu.

"Eg get ekki í því skilið, hvernig á því stendur, að nokkur maður skuli vilja bjarga sálu Indíána, hreytti hann út úr sér. Hví ekki að lofa þeim að

fara heim til sín! Sálum Indíána! Þeir eru sálarlausir, eða ef þeir hafa einhverjar sálir þá eru það sálir djöfla—"

'En heyrðu Eiríkur," greip eg fram í "sástu nokkurn tíma þessa menn vera að stinga upp jörðina, með vísunda herðarblaði; og undirbúa hana til kornyrkju?''

"Eg vildi óska að allir bölvaðir Indíánarnir væru komnir þúsund fet niður í jörðina, og dýpra en það, ef hitinn eykst."

Það var ómögulegt að eiga tal við Hamilton án þess að lenda í þrasi. Eg hallaði mér aftur á bak, spenti greipar aftur fyrir hnakkann og horfði með hálfluktum augunum á raunalega andlitið á honum.

Loksins rofnaði skjáriñn af vætunni og veðrinu og gustinn lagði inn kaldan og hráslagalegan. Eg spratt á fætur og tróð gömlum hatti í gluggaopið. En þá heyrði eg alt í einu hróp og hávaða í Indíánunum í kofanum í kring, og skot kváðu við öðru hverju. Mér þótti það kynlegt, því að Mandanar höfðu lítið af skotfærum. Hávaðinn virtist færast nær okkur. Eg gat ekkert séð út um gluggaopið, eg kveikti því á blysi, og skaut slagbrandi frá hurðu. Mikill fjöldi, gulrauðra, glaðværra andlita þyrptust að kofa mínum Mannsöfnuðurinn raðaði sér utan um einhvern nýkominn mann, og Svarti Köttur foringinn, hoppaði utan við flokkinn með miklum fagnaðarlátum, og skaut hverju skotinu á fætur öðru til að láta í ljósi gleði sína. Eg lyfti upp blysi mínu, Indíanarnir hörfuðu aftur á bak og

séra Holland gekk fram úr hópnum, og ánægjan og gleðin skein út úr honum. Indíánarnir höfðu verið að bjóða hann velkominn, "Hvíta prestinn góða," því að svo nefndu þeir hann, sín á milli. Hann sendi frá sér flokkinn, við fylgdum honum inn og breiddum yfirhöfn hans, rennvota, við eldinn. Síðan buðum við honum alt það góðgæti, sem við áttum til, og fyltum hvað eftir annað súpuskálina hans; og að lokum gáfum við honum eins mikið af lútsterku tei, eins og hann fékst til að drekka.

Eftir snæðing settum við hann í bezta sætið, sem í kofanum var, tréstól mikinn og breiðan og bjuggust svo við að hlýða sögu hans. Fyrst varð óþægileg þögn, eins og oft vill verða manna á milli, þegar vinir eru að átta sig eftir langa burtuveru. Þeir vóru ókunnugir Eiríkur og presturinn, og bæði vegna þess og eins hins hvað langt var liðið frá síðustu samfundum var ekki að furða þó að þögn yrði. Mér sýndist viturlega andlitið á séra Holland vera óvanalega alvörugefið, og eg sá að komið var nú á það langt ör þvert yfir ennið.

'Hvað er þetta, séra Holland?" spurði eg og eg benti á örið.

"Tví! Tví! drengur! Ekki neitt! Ekki neitt! Þeir voru að reyna hausflettuhníf á mér, en svo sáu þeir sig um hönd, og hættu við að gera mig að píslarvotti.

'Og sleptu yður?" spurði Eiríkur undrandi yfir rósemi prestsins.

"Já sleptu mér," svaraði séra Holland.

'Er það svo að skilja að þessir glæpafullu— "
tók eg til máls.

"Láttu ekki svona drengur! Hægan segi eg! Hafa ekki fjölda margir menn komist úr höndum þessa kynflokks með langtum stærri áverka en þetta? Hvað er eg þess að mér skuli verða hlíft? Höfum aldrei orð á því framar," hélt hann áfram og horfði í sífellu í eldinn.

"Hvar eru Indíánarnir þínir?" spurði hann.

"Í kofanum hérna hjá. Á eg að blístra á þá?"

Hann svaraði engu, en hallaði sér áfram og studdi olnboganum á hné sér, nuddaði hökuna fyrst með hægri hendi, svo með hinni og hélt áfram að horfa á eldinn.

"Hvað eru Mandanarnir fjölmennir?" spurði hann.

"Þeir eru fámennir," svaraði eg. Fáein hundruð. Það hefir ekki þótt borga sig að senda hingað skinnakaupmenn í mörg ár."

'Borgaði það sig þá þetta ár?"

"Nei, ekki verzlunarinnar vegna?"

"Og hversvegna þá!" og um leið leit hann á raunalega andlitið á Eiríki.

Einskis vegna," svaraði eg í flýti, því að eg vildi ekki hleypa Eiríki í hita. "Við höfum algerlega orðið fyrir vonbrigðum og hefðum betur verið kyrrir þar sem við vorum.

"Nei, síður en svo," svaraði hann hranalega. "Eg hefi verið í kofum Sioux-Indánanna í þrjár vikur."

Eiríkur spratt upp þegar hann heyrði þetta og rak upp óp. Hann nötraði eins og hrísla og greip í öxlina á séra Holland.

"Hvaða fréttir hafið þér að segja maður! Hvað vitið þér um Miríam?" spurði hann, með hörkulegri, rámri rddöu.

"Ekki annað en það, að hún er heil á húfi, og hefir ekkert mein verið gert. Sama er að segja um drenginn. Hann er orðinn stór nú! Eg vona að þú fáir að faðma þau að þér bæði innan skamms—innan skamms—vona eg!" Og svo hélt hann áfram að stara inn í eldinn svo kæruleysislega að Eiríki varð til mestu kvalar.

"Eru þau með yður? Eru þau með yður?" hrópaði Eiríkur, því að nú hafði ný og mikil von kviknað í sálu hans eftir alt örvæntingarmyrkrið. "Blessaðir dragið þér mig ekki á því! Eg þoli það ekki. Segið mér hvar þau eru," sagði hann í bænarrómi. "Eru þau með ykkur?" hrópaði hann, og hvesti, titrandi augun á prestinn. "Eru — þau — með — yður?"

"Nei, drottinn minn, síður en svo." hrópaði séra Holland, undrandi yfir ákefðinni hjá Eiríki. "En hvað gengur að yður?" spurði hann er hann sá, að Eiríki lá við yfirliði. "Stiltu þig maður! reyndu að hafa stjórn á þér! Þeim líður vel, skal eg segja þér, og eg kem nú beint frá þeim eftir lausnargjaldinu.

"Útvegaðu það, Rúfus! útvegaðu það!" hrópaði Eiríkur til mín og rétti hendurnar upp yfir höfuðið. "Útvegaðu það! Útvegaðu það!" hélt hann áfram

að hrópa öldungis utan við sig.

'Seztu niður!" öskraði prestur, rétt eins og öll æsing mundi hverfa úr Eiríki ef hann settist niður. "Seztu niður! Vertu stiltur, og þið báðir, eða eg skal lúskra ykkur svo um muni. Er nokkurt vit í að láta svona? Kyrrir nú, og hlustið á, hvað eg hefi að segja."

'Og meiddu þeir yður svona?" spurði eg þrátt fyrir aðvörunina.

'Já, það gerðu þeir.''

"Af því að þeir sáu yður með mér?"

"Nei, þetta fékk eg vegna trúboðsins, kjáninn þinn; þeir hættu við að hausskinn-fletta mig af því að þeir höfðu séð mig með þér. Nú geturðu, Rufus, glaðst yfir því hvað mikið tillit er til þín tekið! Og það var djöfullinn sjálfur, sem bjargaði mér."

'Stóri Djöfullinn?"

"Já, Stóri Djöfullinn og enginn annar. Eg sá djöfulleg augu hans tindra álengdar í hópnum þegar eg stóð bundinn við píslarstaurinn. "Fylgið þessum Indíána til mín," sagði eg og beindi augunum að honum, því að eins og ykkur má skiljast gat eg ekki bent á hann öðruvísi, því að hendur mínar voru bundnar. Og þið skuluð ekki trúa því hvað þeir urðu flírulegir yfir þessari dirfsku minni. Eg var þarna bundinn eins og grís við suðupott og samt hrópaði eg á þá í skipunarrómi og sagði: "Fylgið þessum Indíána til mín!" það var engu líkara en að eg stýrði sjálfur pyndingarathöfninni." Presturinn þagnaði og var sjáanlega mjög ánægður yfir að

rifja upp þessi djarflegu viðskifti sín við Indíánana.

"Indíána-kerling nokkur hrifsaði upp óhreina tusku, sló henni framan í mig, og sagði: 'Hafðu þetta, hvíta úrþvættið þitt! Hafðu þetta, þú kvenpilza-sláni!' og 'Hafðu þetta!' orgaði ungur angurgapi og sveiflaði daggarði sínum þvert yfir ennið á mér, en af því að eg var nauðrakaður, þar sem eg var ekki alveg sköllóttur, var í ekkert að grípa fyrir mann, sem ætlaði að hauskinnfletta mig." Prestur hló hátt og strauk nauðrakaðan kollinn mjög ánægjulega.

"Þó að blóðið syði í æðum mínum og streymdi niður eftir andlitinu á mér, þá fann eg ekkert til, guði sé lof. Eg brá mér hvergi en öskraði í sífellu eins og naut: 'Fylgið þessum—Indíána—til mín—Sioux-bleyður. Eruð þið hræddir við Iroquoa? Fylgið þið honum til mín, og eg mun þá gera kynflokk ykkar stórauðugan!'"

"Og það er mála sannast, að þá tóku þeir að glenna upp augun af undran, svo að þau urðu eins stór eins og 'uppskerutungl,' og loks leiddu þeir Stóra Djöfulinn til mín. Mér var vel kunnugt um fjárgrægði hans, svo að eg sagði honum, að ef hann hefði enn konuna og barnið á valdi sínu þá mundi eg sjá um að hann fengi greitt ríflegt lausnargjald fyrir þau. Útaf þessu boði mínu varð háa rifrildi, og Indíánakerlingin rauk á mig á ný og lamdi mig ómjúklega með tuskunni. Loks fór svo að Stóri Djöfullinn var látinn leysa af mér böndin. Síðan var eg leiddur til kofa hans með hendur bundnar á

bak aftur. Miríam og drengurinn voru þar að baka til í hreysi Sioux-Indíána konu. Einusinni þegar skinnið, sem þanið var fyrir op í milliveggnum milli kofanna, flaksaðist frá, gat eg séð framan í föla andlitið á henni. Drengurinn var að leika sér við fætur hennar. Eg var út í enu horni kofans, en eg var svo mórauður af ryki og feiti að hún hefir sjálfsagt haldið, að eg væri Indíáni, sem tekinn hafði verið höndum og leit undan þegar í stað. Eg sagði Stóra Djöflinum á frönsku—hann skilur það tungumál—að eg gæti útvegað honum lausnargjald fyrir fangana. Hann lét mig einan eftir í kofanum eftir að eg hafði skýrt honum frá þessu, til þess ímynda eg mér að njósna um atferli mitt og komast eftir því hvort eg reyndi nokkuð til að tala við Miríam; en eg lá grafkyrr og lézt sofa. Þegar hann kom aftur tók hann að tala um lausnargjaldið; en eg gat engu lofað ákveðnu, hvorki um upphæð lausnargjaldsins né heldur neinu um það, hvenær hann fengi það, því að eg vissi ekki hvort þið væruð hér, og eg vildi heldur ekki gera það uppskátt, hvar þið voruð.

'Hann dró mig á svarinu í heila viku, og oft sá eg Miriam fara fram hjá, og hún gekk svo nærri mér, að pils hennar strukust rétt við andlitið á mér; en kvendjöfullinn, sem hafði hana í haldi—eg vona að hún fái hlýtt sæti í helv.— var altaf á hælunum á henni, svo að við gátum aldrei talað nokkurt orð saman. Miríam hafði vafið sjali um höfuðið svo að lítt sá í andlit henni, og hún leit hvorki til hægri né vinstri þegar hún fór fram hjá. Eg efast um að

hún hafi nokkurn tíma séð mig svo að hún þekti mig Hann slepti mér loksins, Stóri Djöfullinn, með því skilyrði, að þið yrðuð kyrrir hér í kofa ykkar en sendið Indíána ykkar til að færa sér lausnargjaldið. Og nú er eg hingað kominn, Rúfus. Hvar eru menn þínir? Sendu þá strax af stað með meiri gjafir en drotningin af Saba færði Salómon konungi.

— — — —

Þá þegar voru þeir Svarti Kufl og Litli Karl sendir af stað klyfjaðir glysvarningi og veiðiáhöldum. Áttu þeir að fara með þetta til tjaldstaða Sioux-Indíánanna. Eiríkur var mjög æstur yfir þessu áformi. Fyrst hafði hann verið ólmur í að fara í stað Svarta Kufls í þessa sendiför, með því að þeir voru líkir á vöxt. Við aftókum það með öllu. Það var einskis manns að ætla sér að leika þannig á Stóra Djöfulinn, og það var ekkert vit í því að ætla að heimta lausnargjald af eiginmanni Miríam. Þá heimtaði hann að fá að fylgja Indíánunum á leið, og varð þá nauðsynlegt að eg færi líka. Og svo ákafur var hann um að fylgja þeim eftir, að eg varð loks að grípa í taumana á hesti hans að þeysa með hann heim til kofa okkar.

Þegar þeim í kofann kom var hann alveg eirðarlaus. Tuttugu sinnum á dag fór hann upp á hæðirnar fyrir norðan kofann til að hyggja að mannaferðum; eg þorði ekki annað en að veita honum eftför í hvert skifti. Á næturnar æddi hann fram og

aftur um kofa-gólfið eins og villidýr í búri. Á fjórða degi frá því að sendiboðarnir fóru, var hann því nær óviðráðanlegur. Ef alt gengi að óskum áttu mennirnir að koma aftur að kveldi þess dags. Þá héldu Eiríki engin bönd og þrátt fyrir áhættu þess að Stóri Djöfullinn lægi einhverstaðar í leyni til að skjóta á hann örvum sínum, söðlaði hann hest sinn, og reið af stað til að mæta sendimönnunum. Við séra Holland komum í humátt á eftir honum en af því að komið var fram í myrkur fengum við loks talið hann á að stíga af baki og bíða sendimannanna í útjarðri þorpsins.

Loks heyrðum við jódyn, sem færðist nær eftir dalnum. Hinir innfæddu riðu jafnan ójárnað, svo að við þektum okkar mann. Eiríkur þaut af stað á móti komumanni.

"Drottinn sé okkur líknsamur!" hrópaði séra Holland. Hlustaðu til það er að eins einn maður ríðandi, sem kemur!"

Eg lagðist flatur og beindi hlust við hljóðinu. Eg heyrði glögt að það var að eins einn hestur sem kom valhoppandi eftir bugðóttum veginum.

"Kannske að þetta sé samt ekki sendimaður okkar," sagði eg og var sem milli vonar og ótta.

"Eg á á öllu illu von af þeim þorpurum," sagði prestur. "Ef hér væru aðeins nógu margir Mandanar til að ráða á þá, en því er ekki að heilsa. Sioux-Indíánarnir eru sjálfsagt um 2,000."

Eiríkur og Litli Karl töluðu hátt og böðuðu út höndunum.

"Eg bjóst við því! Eg bjóst við því!" hrópaði Eiríkur reiðulega. "Annarhvor okkar hefði átt að fara."

'Hvað gengur að?" kallaði séra Holland í lágum, óeðlilegum rómi, og eg heyrði á honum að hann bjóst við öllu illu.

"Að!" öskraði Eiríkur Hamilton. "Þeir halda Svarta Kufli í gislingu og heimta fimm hundruð pund af skotfærum, tuttugu byssur og tíu hesta. Eg hefði auðvitað átt að fara—"

'Og hvað gagn hefði orðið að því þó að þér hefði verið haldið eftir sem gisl líka?" spurði eg, því að þolinmæði mín var á þrotum og eg gat ekki að mér gert að láta skapstygð mína bitna á Eiríki, þó að hann væri bezti vinur minn. "Þú vissir gerla að mennirnir voru sendir aðeins til að semja við Indíána Þú gast varla búist við því, að alt fengist í fyrstu atrennu, og — —"

"Hættu, drengur!" hrópaði séra Holland, "þið ímyndið ykkur þó ekki, að þið getið kipt öllu í lag með svona rifrildi. Hættið þið segi eg. En þessir skilmálar geðjast mér ekki! Þetta er alt upp úr Stóra Djöflinum! En nú skulum við ræða þetta ítarlega."

Langur formáli fylgdi tilboði Stóra Djöfulsins, eins og títt er hjá Indíánum, og mergurinn málsins var þetta: "Skotfæra poki hans var léttur og pípan hans var tóm, hann hengdi niður höfuðið og friðarpípan hafði ekki verið reykt á ráðssamkomunni, Sioux-Indíánarnir voru útlendingar og hvítu menn-

irnir fjandmenn þeirra; hvítir menn höfðu verið á valdi þeirra, og ávalt hefðu þeir verið vanir að liðsinna hinum hvítu, vísa þeim á rétta leið, ef þeir voru viltir, og gleðja hjörtu þeirra og gefa þeim eitthvað að éta." Loks var Drottinn lífsins, ásamt jörð, lofti, eldi og vatni kvaddur til vitnis um það, að ef hvítu mennirnir vildu láta af hendi fimm hundruð pund af skotfærum, tuttugu byssur og tíu hesta, þá ætluðu Sioux-Indíánar að senda heim í þorp Mandananna, hvítu konuna og drenginn hennar með sendiboðum tveimur; engum öðrum en þeim tveimur sendiboðum skyldi leyft að fara inn í þorp Sioux-Indíánanna; þess var og látið við getið, að Sioux-Indíánarnir vildu enga ábyrgð taka á lífi hvítra manna ef þeir færu burt úr þorpi Mandananna, en þeim gaf að skyldu að senda lausnargjaldið með sama manninum, sem þeir höfðu og áður sent.

---

## XVI. KAPÍTULI.

*Stóri Djöfullinn sendi aftur sendimann okkar.*

Séra Holland ráðlagði okkur að hugsa okkur vel um, áður heldur en við fastréðum nokkuð. Samt var hann á því að ráðlegast væri, að reyna að komast að samningum.

"En mér geðjast ekki að þessum skilmálum,"

sagði hann, "þetta er eiginlega því líkast, að við séum að selja vopnin í hendur óvinunum. Það líkar mér illa."

Hann réði helzt til þess, að bíða við og sjá, hvort fjárgræðgi Stóra Djöfulsins kæmi honum ekki til að fallast á skilmála okkar. Þetta vildi Eiríkur alls ekki heyra. Hann lét þegar í stað taka til lausnargjaldið, sem um var beðið, og morguninn eftir lagði Litli-Karl af stað með það ríðandi með klyfjahesta í togi. Átti hann að hraða ferð sinni til Sioux-Indíánanna.

Þó að Eiríkur hefði verið ákafur þegar efnt var til hinnar fyrri sendiferðar, þá var hann enn ákafari nú. Næstu tvo dagana fór hann svo aftur upp á hæðirnar til að horfa til mannaferða, og eg á eftir honum svo oft, að eg uppgafst á að telja þær ferðir. Voru þó engin líkindi til, að sendiboðinn væri komið til tjalda Sioux-Indíánanna, aukheldur á bakaleið. Þriðja daginn varð eg svo reiður yfir þessum köstum hans, að eg sagði:—

"Heyrðu Eiríkur! blessaður hættu nú þessu vitleysis-flani og reyndu að bíða rólegur svo sem tvo daga enn. Þú hefir gert þitt til að gera mig vitlausan í vetur, og ef þú hættir þessu ekki nú — þá—"

Hann glápti á mig forviða og svo ofsareiður að hann kom engu orði upp. Síðan brá hann við og sneri beint heim í kofa sinn. Eftir það gerði hann okkur engin ómök og sat stiltur og rólegur heima. Hann sat hljóður lengst af alt fram á kveldið, það er við væntum sendimanns okkar. Þá

kom hann yfir í kofa minn. Við séra Holland sátum þar báðir. Þegar hann kom rétti hann mér hönd sína og sagði:—

"Eg vona að þú sért ekki lengur reiður við mig, Rufus."

Mér varð örðugt um mál.

"Nei, vitaskuld ekki," svaraði eg, og greip um hönd hans, og gerði mér upp hósta til að dylja að mér vöknaði um augu.

Síðan settumst við allir niður í mikilli eftirvæntingu. Séra Holland lézt vera sokkinn niður í að lesa guðsorðabækur. Eiríkur sat og spenti greipar um kné sér og beit á vörina. Eg sat með báðar höndur niður í treyjuvösunum og átti bágt með að halda kyrru fyrir, því að margskonar kynlegir hljómar fanst mér berast að eyrum mínum.

En hvað tíminn virtist lengi að líða. Það var því líkast, sem augnablikin hlæðust saman í hópa og legðust á okkur eins og þungt farg. Tvisvar sinnum gerði eg mér það til stundastyttis, að standa á fætur og fleygja við á eldinn. Að vísu var það óþarfi, því að hlýtt var úti. Þegar við heyrðum hljóðlegt fótatak Mandananna úti fyrir kofadyrunum, varð séra Holland svo hverft við, að hann misti niður bókina, sem hann hélt á, og eg tók að skjálfa eins og hrísla. Eiríkur sat hræringarlaus, en hnyklaði brýrnar og beit á vörina.

Hundar tóku til að gelta í hinum enda þorpsins og var það ekki óvanalegt, að þær golhungruðu skepnur góluðu að kveldlagi — en eg gat þó ekki stilt mig

um að ganga til dyranna og skygnast út. Indíánarnir æptu upp til að hasta á hundana eins og þeir voru vanir. Háreystin af því virtist koma félögum mínum illa, og verkaði ekki betur á mig, svo að eg lokaði hurðinni og settist aftur við eldinn.

Hávaðinn í hundunum og Indíána-kerlingunum hélt áfram, og eg gat þar að auki greint óánægjuurg karlmannanna. Alt í einu heyrðust há hróp frá kofum Mandananna, sem á svipstundu færðist út um alt þorpið. Glögt mátti nú heyra, að hlaupið var í flokki að kofa okkar aftanverðum, með ópum og köllum, eins og verið væri að veita einhverjum eftirför. Hundarnir geltu ákaft og var því líkast, sem þeir hangdu í hælunum á einhverjum.

"Óvinir!" hrópaði Eiríkur og spratt upp.

Eg hljóp í einhverju fáti til dyranna og skaut slagbrandi fyrir hurðina, því að eg hafði einhvern óljósan grun um að blóði yrði úthelt á kofadyrunum.

"Skammastu þín, maður!" hrópaði séra Holland, og tók að draga slagbrandinn frá hurðinni.

En hann hafði naumast slept orðinu þegar skjárinn þeyttist frá glugganum. Útifyrir var hrópað eitthvað, og síðan fleygt inn um gluggann einhverju hnöttóttu, sem alt var blóðhlaupið. Það valt inn eftir gólfinu og skildi eftir sig rauða rák, unz það saðnæmdist við tærnar á Eiríki, og þar sást glitta í brostin augu og geigvænlega gapandi munn.

Þetta var skinnflett höfuð Svarta Kufls! Hann hafði fengið goldið tilræðið, sem hann hafði veitt Stóra-Djöflinum.

Áður en eg hafði gert mér fyllilega grein fyrir sviksemi þessari — að sendiboðinn hafði verið myrtur, og flettur, lausnargjaldinu stolið og föngunum haldið eftir — hafði séra Holland opnað hurðina. — Hann þaut út í myrkrið og hrópaði á Mandanana að ná í Sioux-óbótamanninn . Þegar eg leit aftur við inn í kofann, sá eg að Eiríkur hafði hnigið niður á gólfið og steinliðið yfir hann.

— — — —

Og nú vildi eg helzt fá að geta komist hjá því, að rifja upp það, sem gerðist á þessari hræðilegu nóttu.

— — —

Áður en eg færi að lífga Eirík við, fanst mér sjálfsagt að koma mannshöfðinu úr augsýn, og þvo blóðið af gólfinu, því hvorttveggja var gífurlegt á að sjá, jafnvel þeim sem sterkbygðari voru en eg.

Mig hefði ekkert undrað, þó að Eiríkur hefði orðið ólæknandi vitfirringur eftir þetta yfirlið, en samt sem áður fór eg nú að bjástra við hann; eg beygði mig ofan að honum, tók í handleggina á honum, og fór að veifa þeim upp og niður, og helti víni smátt og smátt inn á milli tannanna, sem hann hafði klemdar fast saman, og baðaði hann um enni og háls úr köldu vatni. Loksins opnaði hann augun þreytulega, og því næst, veinaði hann eins og honum liði afarilla o gsneri sér til veggjar.

En háreystin úti fyrir var líkust því, sem allar nornir helvítis væru þar lausar og keptust um að svala þorsta sínum á mannablóði. Þó að óp rauðu djöflanna bergmáluðu enn í eyrum mínum, hélt eg á-

fram að stumra yfir Eiríki. Eg losaði um hálsmálið á skyrtu hans, svalaði honum með veifu og gerði alt, sem eg hafði vit á, til að hagræða honum, og að því var eg, þegar séra Holland kom inn í kofann yfirbugaður og grátandi eins og barn.

"Í guðs bænum, Rúfus," hrópaði hann; "komdu að hjálpa okkur. Þeir eru að myrða hann. Þeir eru að myrða hann! Það var eg, sem hleypti þeim af stað, og nú get eg ekki stöðvað þá aftur."

"Lofaðu þeim að myrða hann," svaraði eg, og sýndi glögt, án þess eg gerði mér grein fyrir, að ekki er nema stig-munur á brjóstgæðum hins siðaða manns og villumannsins.

"Komdu, Rúfus!" 'svaraði hann í biðjandi rómi. "Komdu sakir ástar þeirrar, er þú ber til Franzísku, því að öðrum kosti getur þú ekki haft hreinar hendur af þessu verki. Komdu! komdu!"

Og við þutum út og inn í þröng þá, er Mandanarnir höfðu gert, sem nú voru orðnir þyrstir í blóð. Nokkrir ungir menn höfðu slegið hring um Sioux-Indíánann, til þess að hindra það að múgurinn næði í hann. Fanginn stóð þar nakinn í miðjum hringnum með höndur bundnar á bak aftur, en hann hreyfði sig hvergi og engan ótta mátti á honum sjá.

"Hvíti presturinn góði skilur þetta ekki," sagði einn Mandaninn og ýtti prestinum grátandi frá mannhringnum, sem stóð utan um fangann. "Hvíti presturinn góði ætti að fara heim." Og hvað sem hver sagði ráku þeir okkur heim að kofa okkar aftur, og heyrðum við dæmda manninn syngja hvellum rómi

líksöng sinn , er við vorum að láta aftur kofahurðina okkar. Árangurslaust höfðum við bent þeim á, að þeir mundu baka sér hefndir af hálfu Sioux-Indíánanna með þessu verki. En bendingar okkar voru kæfðar niður og kröfu-hróp um blóð! blóð! blóð! yfirgnæfðu.

Andvörp náttvindarins fluttu með sér yfir að kofanum okkar óma sorgarsöngs hins dæmda manns. Eg hengdi föt fyrir dyrnar til að draga úr hljóðinu. Innan skamms fanst bruna- og reykjarlykt leggja inn um glugann; eg tróð líka upp í hann til að koma í veg fyrir að hún kæmist inn.

— — — — —

Það var engum efa undirorpið að Sioux-Indíánarnir mundu skjótt hyggja á hefndir. Undir eins og liflátsathöfnin var um garð gengin, voru leiðsögumenn ráðnir, en það gekk ekki auðveldlega, og í birtingu morguninn eftir lögðu þeir af stað til Rauðár séra Holland og Eiríkur.

Það var ráðlegast að þeir færu, en eg yrði eftir. Ef Miríam væri enn þá á þessum slóðum, þá var sjálfsagt, að eg biði þarna þangað til eg vissi, að henni var óhætt, en mig langaði ekki til að þurfa að horfa upp á, að Eiríkur misti vitið eða dæi áður en búið yrði að bjarga henni.

Þegar þeir voru að fara, tók eg birkibarkarflögu og skrifaði með viðarkoli á hana þessi orð:

"Ástarkveðja til unnustu minnar, frá hennar heittelskandi og trygga riddara."

Þetta færði séra Holland Franzisku frá mér.

---

## XVII. KAPITULI.

### *Manngjöldin.*

Aldrei hafði mér verið ljóst, hve margskonar svip óttinn getur tekið á sig, fyr en þeir voru farnir presturinn og Eiríkur, og eg var einn orðinn eftir hjá Mandönunum. Í hvert sinn, er eg lagðist til svefns, svifu mér fyrir hugskotssjónir endalausar fylkingar ógurlegra athafna fjandmanna minna, svo ógurlegar, að eigi verður með orðum lýst; og þegar eg opnaði augun, til að fullvissast um, að þetta væri hugarburður einn, sem ekki gæti átt sér stað, þá rifjuðust þessar sömu óttalegu sýnir aftur upp í huga mínum. Mér fanst hvöss heiptaraugu stara á mig úr eldinum, upp úr gólfinu, og út úr hverju horni í kofanum. Fór því svo oft, að eg hröklaðist út þaðan og ofan á veginn, sem lá frá þorpinu, og mætti þar skömmóttulegum Indíánum, og urðu þeir fundir meir til að auka ótta minn, en til að draga úr honum.

Eg vissi, að ef eg kæmist á vald Stóra-Djöfulsins, mundu örlög mín verða enn þá verri en Svarta-Kufls. Vita þóttist eg það og, að Sioux-Indíánarnir mundu koma fram hefndum fyrir það, hversu farið

var með sendiboða þeirra. Ómögulegt var mér samt að fá nokkurn Mandananna til að setja vörðu, til að njósna um atferli Sioux-Indíánanna.

Eg hafði sjálfur kosið að verða þarna eftir, en nú fann eg glögt, að eg fékk engu til vegar komið, og gat nú ekki annað en hrygst yfir óhamingju minni. Eg reyndi að hugsa upp eitthvert ráð til að bjarga Miríam, en við nánari athugun sá eg, að engin þeirra gátu komið að haldi. Þannig liðu þrír dagar.

En er Mandanarnir tóku að íhuga afleiðingarnar af morði sendiboðans, iðruðust þeir eftir því, og kendu mér auðvitað um að hafa komið þeim út í þetta. Eg þóttist geta ráðið það af illúðlegum augnaskotum sumra hinna yngri manna, að ef Sioux-höfðingjarnir færu fram á, að fá mig framseldan til friðar, þá mundu Mandanarnir ganga að því. Ekki datt mér í hug, að láta þenna efa uppi og hygni eða hræðsla — sem oft er skamt á milli, þegar menn eru í háska staddir — hvíslaði að mér, að fara gætilega, og gætilegast sýndist þá að flýja.

„En þessi gætni leiðir mig í glötun!" hrópaði eg einu sinni og spratt upp um miðja nótt í kofa mínum. Á einni svipstundu liðu mér nú fyrir hugskotssjónir allar sérgóðar hvatir, til að bjarga sjálfum mér, og eitthvað, sem er svo skylt skynsamlegri gætni, að veiðimenn kalla það "hugleysi", var að fá yfirhönd yfir mínum betra manni. Með mikilli áreynslu tókst mér þó að hrinda þessu kvíðafargi af mér, og fá hug minn svo stæltan, að eg gat staðráðið að víkja ekki hænufet frá þeim stað, þar sem skyldan bauð mér að

standa. Og eftir það kom yfir mig þetta einkennilega fyrirhyggjulausa kæruleysi, sem menn verða að jafnaði varir við, þegar þeir hafa losað sig við allan ótta og varkárni, gætni og forsjá, og það annað, er hjálpar til að greiða fyrir almennri velfarnan í mannlegu lífi; en í stað þess stefnt með æstu hlaupi upp á Sinaí skyldunnar. Mér virðast áhrif þau, sem knýja mann áfram jafndularfull, eins og hin, sem þoka manni aftur á bak, og því furðar mig ekki á, þó að heiðingjarnir tileinki önnur áhrifin Ormuzd, en hin Ahriman. Og okkar verður það að láta undan eða veita móttstöðu, og eg hét því þarna í myrkrinu í kofa mínum, að halda þar kyrru fyrir, svo sem skyldan byði.

Þetta heiti mitt varð brátt reynt. Rétt um leið og eg hafði slept orðinu, heyrði eg gengið hægum fetum utan við kofann minn. Svo heyrði eg numið staðar utan við dyrnar; ægilegur ótti gagntók mig, því að eg bjóst við, að innan skamms yrði hent inn í kofann minn lemstruðu líki hins Indíánans míns. Eg hafði ekki tíma til að setja slagbrand fyrir hurðina áður en barið var að dyrum. Hurðin marraði á hjörunum og inn um gættina gægðist andlitið á Litla-Karli; hann var tryllingslegur ásýndum og nálega allsnakinn.

"Hvað er þetta, Litli-Karl?" spurði eg þreif til hans. "Hvað viltu? Hvernig komst þú í burtu? Ert þetta þú, eða er það svipurinn þinn?'

Hann lét sig falla ofan á fatadyngju í kofanum og steinþagði. Eg sá það á honum, að hann var

dauðhungraður, svo að eg fór að reyna að bæta úr því og fram undir morgun var hann að tína í sig, því að Indíánar eru afarmiklir matmenn, og geta borðað ósköpin öll, ef þeir eru svangir á annað borð.

"Ho—ó.—Ó—ó! Eg verð líklega veikur á morgun!" sagði hann og strauk sig um magann mjög ánægjulega og neitaði að láta fylla diskinn sinn. í tíunda sinnið. Eg sá, að han nvar skorinn inn í bein á úlnliðunum og fótleggjunum, og um hálsinn á honum var hárauð rönd.

"Hvernig stendur á þessu, Litli-Karl?' 'spurði eg og benti á sárin.

Í hörkuleg augu Indíánans kom þakklætisglampi svo að birti yfir heimskulegu andlitinu.

"Vondir Indíánar,' 'sagði hann hörkulega.

"Píndu þeir þig?"

Hann urraði ólundarlega í neitunar-skyni.

"En þú komst undan þeim?"

Hann kinkaði kolli.

"Sástu Stóra-Djöfulinn?"

Um leið og slepti orðinu, glenti Indíáninn upp munninn, svo að skein í hvítar tennurnar og rak upp hátt gól.

"Svona — dragðu mig ekki lengur á sögunni," sagði eg. "Hvað er langt síðan þú fórst frá Sioux-Indíánunum?"

"Fór gangandi, gangandi — meðan aðrir sváfu."

" Varstu á ferð á næturna? Varstu tvær nætur? Þú hefir varla komist það á þeim tíma."

"Fór gangandi, gangandi — meðan aðrir sváfu."

"Varstu þrjár nætur?"

Hann rölti fjórum sinnum fram og aftur um gólfið, til að koma mér í skilning um, hvað hann hefði verið lengi á leiðinni.

Síðan settist hann niður og tók að segja mér í lágum hljóðum, hversu för hans hefði tekist, er hann hafði snúið aftur til fundar við Svarta-Kufl með lausnargjalds-viðbót þá, er Stóri-Djöfullinn hafði heimtað. "Sioux-kerling kom á móti mér," sagði hann. "Hún var gráðugri en úlfynja og brögðóttari en tígrisdýr og hafði strax í heitingum við mig. Lausnargjaldið var rifið af mér. Sjálfur kvaðst hann hafa verið rifinn af hestinum og bundinn eins og ambátt. Þar sá hann skamt frá Svarta-Kufl standa allsnakinn og ungmenni voru að leggja spjótum fyrir brjóst honum hrópandi: "Hafðu, þetta, þorparinn, sem ætlaðir þér að hausskinnfletta Iroquóa! Hafðu þetta óvinur Siouxanna! Hafðu þetta hundur, þú, sem ert vinur hvítu mannanna!" Í þeim svifum hafði Svarta-Kufl tekist að slíta sig lausan og læsa tönnunum í andlit Indíánans, sem verið hafði að storka honum.

Litli-Karl beit saman tönnunum til að sýna mér, hvernig Svarti-Kufl hefði læst tönnunum í mótstöðumann sinn. Rétt á eftir hafði Stóri-Djöfullinn komið til sögunnar með hníf í hendi. Litli-Karl fékk ekki að sjá, hvað hann hafðist að, því að þá var bundið fyrir augu honum. Annar Indíáni hnýtti reipi um hálsinn á honum, og því næst var hann dreginn eins og dauður hjörtur inn í Indíánatjald skamt frá. Þar

lá hann marga "svefni", og vissi ekki hve oft hin mikla sól reis og gekk til viðar. Alt í einu hefði alt orðið hljótt í tjaldinu, eins og þegar djúp vötn verða þögul eftir mikið stórviðri, þegar vindarnir hafa sofnað svo að ekki er nema lítill goluþytur. Þá fann hann alt í einu, að mjúkir fingur hvítrar konu snertu hann blíðlega, líkast því, er vofa líður hljóðlega um skógana um dimmar nætur. Og þessir mjúku kvenfingur skáru böndin af hálsi honum og höndum og svo var hvíslað lágt á ensku: "Farðu — hlauptu — eins og þú eigir líf þitt að leysa! Feldu þig á daginn og haltu áfram ferðinni á næturna!"

Því næst lyfti hún upp tjaldskörinni. Hann veltist þar út. Síðan reif hann bindið frá augunum. Það var niðamyrkur. Andarnir höfðu slökt blys stjarnanna. Engar sálir fallinna hermanna sáust stíga dans á eldroðnum feldi hins norðlæga himinhvels. Faðir vindanna hafði slept lausum hvössum stormi, til að hjálpa góðum Indíána undan reiði Sioux-kerlingarinnar! Hann rann brott með hvatleik hérans. Hann hljóp með löngum stökkum eins og skógarhjörturinn. Hann þaut eins og ör af álmi hins bogfima veiðimanns. Þannig komst hann úr höndum Sioux-Indíánanna!"

Að svo mæltu hætti Litli-Karl að tala, vafði sig innan í ábreiðuna og steinsofnaði.

Eg var ekki í neinum vafa um, hver það var, sem hafði frelsað hann úr höndum óvinanna. En mig furðaði á því, að hún skyldi ekki hafa lagt af stað með honum. Skyldi hún ekki hafa vitað, af til-

raunum okkar til að bjarga henni? Ekki sýndist það eðlilegt. Annars var það lítt skiljanlegt, að hún skyldi ekki leitast við að komast burt með honum, úr því að hún hafði svo mikið frjálsræði, að hún gat skorið af honum böndin. En svo gat og svo verið ástatt, að pyndingar lægju við, ef hún reyndi að strjúka.

Nú vissi eg gerla, á hverju eg mátti eiga von, ef eg kæmist í hendur Sioux-Indíánanna. En nú fór eg að hugsa um það, hvort ekki mundi vera hægt að komast burt með Miríam á góðum hestum, á sama hátt og Litli-Karl hafði sloppið, ef önnur stormasöm og dimm nótt kæmi bráðlega; en eg sá, að ekki var til neins að brjóta upp á slíku fyr en Litli-Karl var búinn að sofa nægju sína, og hvílast. Mér fanst jafnvel ráðlegast, að senda hann áleiðis norður á bóginn og láta hann bíða mín þar á einhverjum vegamótum, en fara einn til tjaldstaða Indíánanna. Eg sá, að það mundi vera ráðlegra, en halda lengur kyrru fyrir og bíða þess að Sioux-Indíánarnir tækju mig þar höndum. Og ef svo færi, mundi eg þá geta þolað pyndingar þær, sem þeir legðu á mig? Það verður jafnan svo, að maður neyðist til að þola það, sem á mann er lagt, hvort sem maður er fús til þess eða ekki, og mála sannast er það, að eg hafði ekki hugrekki til að yfirgefa þessar slóðir, án þess að hafa gert einhverja tilraun til að frelsa Miríam.

Eftir að eg hafði fastráðið það, tók eg þegar á þessari sömu nóttu, að búa mig undir það, að fara brott frá Mandönunum með leynd. Eg bjó síðan til

morgunverð handa mér, og fór svo út úr kofa mínum til að litast um, en skyldi við Litla-Karl sofandi.

Nú voru fjórir dagar liðnir, og engar hefndir komið fram við Mandanana af hendi Sioux-Indíánanna. Þorpsbúar voru farnir að halda, að þeir mundu ekki verða fyrir neinum árásum, og voru nokkru vingjarnlegri við mig heldur en áður. Þegar eg reikaði norður til hæðanna, heilsuðu þeir mér glaðlega og þykkjulaust.

"Vertu óhræddur, sonur minn!' 'kallaði Svarti-Köttur til mín. "Láttu illyrði eins og vind um eyru þjóta! Hvíta manninum skal ekkert mein verða gert. Vertu óhræddur!"

"Hver skyldi nú vera hræddur, Svarti-Köttur? Engir hræðast Sioux-Indíána nema lifrarveikir veslalingar! Mér þykir ólíklegt, að nokkur Mandani óttist Sioux-ræflana! Þeir eru bleyður."

Gamla höfðingjanum þótti vænt um að heyra þetta gort í mér, því að Indíánar eru óviðjafnanlegir gortarar. Eg er viss um, að Svarti-Köttur hefði tekið til að þylja heilmikið um þá fyrirlitningu, sem hann hefði á Sioux-Indíánum, en eg beið ekki eftir því, heldur hélt áfram til hæðanna, þaðan, sem sjá mátti yfir svæðið, þar sem óvinir okkar höfðu aðsetur sitt. Sá eg þá mikinn rykmökk rísa upp í norðri, fast við sjóndeildarhringinn.

"Nú má búast við hvirfilbyl!" sagði eg með hryllingi. "Örlögin rísa gegn mér. Nú verður ekkert úr fyriræetlunum mínum!" ,

Eg laut niður og hlustaði; gat eg þá heyrt gný

af hlaupi vísundahjarðar, sem var að ryðjast áfram.

"Hvað er þetta?" heyrði eg að sagt var fyrir aftan mig; það var Svarti-Köttur. Hann hafði veitt mér eftirför.

"Er þetta ekki vísunda-hjörð?" spurði eg og benti til norðurs.

Hann hvesti augun og horfði á reykinn um stund, og er honum tókst að greina þar það, sem mér var ekki auðið að sjá, svaraði hann þungbúinn á svipinn.

"Þetta eru Sioux-Indíánar,' 'sagði hann og leit illilega til mín. Síðan sneri hann sér frá mér og mundi hafa rokið frá mér, ef eg hefði ekki reynt að verða honum samferða.

"Sussu, sussu!" sagði eg fyrirlitlega. "Sussu, sussu, Svarti-Köttur. Hver skyldi vera hræddur við Sioux-Indíána? Þá hræðast engir nema kvenfólk. Engir aðrir flýja undan þeim."

Hann leit til mín hornauga, til að reyna að sjá, hvort mér væri alvara það, sem eg sagði, og tók að hægja á sér og stika áfram með föstum skrefum, eins og hugdjörfum Indíánum er títt. En samt sem áður barst fregnin um komu óvinanna í hvern kofa, og þorpsbúar settu slagbranda fyrir hurðir og bjuggust um. Karlmennirnir stigu á hesta sína til að komast upp á hæðirnar og ná þar vígi áður en óvinina bæri að.

Nú sá eg, að annar annmarki var kominn á fyrirætlanir mínar. Eg gat ekki annað en nagað mig í handarbökin fyrir, að hafa setið í kofa mínum, eins

og gömul Indíána kerling, í stað þess að hafa gert tilraun til að bjarga Miríam! Ef eg hefði nú verið í nánd við tjaldstað Indíánanna, þegar allur hermanna skarinn hafði lagt upp þaðan, hversu auðvelt hefði mér þá ekki átt að vera að bjarga Miríam og barni hennar?

Þegar oss mishepnast eitthvað, erum vér vanir að kenna því um, að ekki hafi verið farið svo að, sem hagkvæmast var. Það höfum vér oss til huggunar, og þrátt fyrir ljósar sannanir hins gagnstæða, blekkjum vér sjálfa oss oft með þessu.

Eg bölvaði heimsku minni, en fastréð jafnframt, að nota hér eftir sem bezt öll tækifæri, sem byðust, kvíða ekki ókominni tíð ,en það er að mörgu leyti gott, og hefir firt margan hærum og hugsýki.

Eg vopnaðist í snatri og ásetti mér að verða heldur í hópi Mandananna, sem leituðu samninga við Sioux-Indíánana, heldur en að láta hina síðarnefndu semja um mig. Eg vakti Litla-Karl og sagði honum frá fyrirætlunum mínum og bauð honum að leynast norður á þjóðvegu, meðan flokkarnir væru að semja um mál sín, og bíða mín svo sem dagleið frá tjaldstað Sioux-Indíánanna. Hann sagði mér frá víðivöxnu dalverpi nokkru, þar sem hann gæti leynst með hesta sína, og þegar eg var búinn að koma honum af stað reið eg beint yfir í hóp Mandananna, og brá þeim heldur en ekki í brún, er eg skipaði mér meðal hinna fremstu í úrvalaliði Svarta-Kattar. Hermenn Sioux-Indíánanna þeystu fram hjá okkur eins og fjaðrafok. Þeir hleyptu niður slakkann

ofan að þorpi Mandananna á harða spretti, æpandi og berjandi bumbur og sýnandi ýmiskonar reiðmanna listir með miklum fimleika, til að skjóta okkur skelk í bringu. Síðan hleyptu þeir upp að hæðinni þar sem hersveit okkar hafði skipað sér. Karlmennirnir voru naktir niður að beltisstað og svertir í andliti. Broddgalta-hamir, bjarnarklær, beinkrókar litað rautt og ólitað, hékk við festar um háls þeim eða við belti þeirra, sem voru glæsilega skreytt. Fjaðraskúfa og breiða skildi, fléttaða úr pílviðartágum, mátti og telja til herbúnaðarins. Foringjarnir höfðu leggbjargir úr hjartarskinnum, sem náðu neðan frá öklum upp í klyftir; þeir báru byssur, örvar og steinspjót, en allur þorri hermannanna bar Indíánavopn. Þó að við værum ekki nema þriðjungur hinna að tölunni til, þá höfðum við það fram yfir óvinina, að við vorum miklu betur vopnaðir, því að allir Mandanarnir báru byssur og skotfæri, en eg er samt hræddur um, að skotfærin hafi verið af skornum skamti, svo að varla hafi verið meira en fimm skot á mann. Sem betur fór, var Sioux-Indíánunum ókunnugt um það. Eg skygndi flokk óvinanna, Stóra-Djöfulinn gat eg hvergi séð þar.

Varla höfðu hinir fremstu í flokkunum skipað sér í fylkingarraðir, að bæði höfðingjar Mandana *og* Sioux-Indíánanna riðu fram fyrir fylkingarbroddana og tóku að ræðast við með ferlegum ákafa.

"Ungur maður úr liði voru hefir verið drepinn," mælti einn Sioux-höfðinginn. "Hann var hraustur bardagamaður. Vinir hans bera harm í huga. Hjörtu

vor eru hrygg. Alt til þessarar stundar höfum vér haft hvítar hendur og hrein hjörtu. En nú hefir ungi maðurinn verið feldur og vér orðið afarhryggir. Mörg hausskinn hafði hann haft heim með sér úr bardögum gegn óvinum vorum. Vér hengjum niður höfuðin. Friðarpípan hefir ekki verið reykt á ráðssamkomu vorri. Hvítu mennirnir eru óvinir vorir. Nú er ungi maðurinn dauður. Segið oss nú, hvort þér viljið vera vinir vorir eða ekki. Vér höfum ekkert að óttast. Vér erum mannmargir og styrkir. Bogar vorir eru þanþolsmiklir. Örvar vorar eru yddar tinnu og spjót vor steini. Örvamælar vorir eru þungir. En vér elskum frið. Segið oss nú, hvað þér, Mandanar, teljið sæmileg manngjöld, er vér mælum eftir hinn unga félaga vorn? Á milli vor að standa friður eða ófriður? Eigum vér að vera vinir? Hvort ætlið þér að hefja á loft bardagaöxina, eða rétta að oss friðarpípuna? Látið oss nú heyra hverju þér viljið svara, miklu höfðingjar Mandananna!"

Þetta hrópaði Sioux-höfðinginn hárri röddu, veifandi bardagakylfu sinni, bendandi í fjórar höfuðáttirnar og upp til sólarinnar, er hann þrumaði þessu út úr sér. Þessu svaraði Svarti-Köttur með enn meiri háreysti þannig:

"Eg vil taka það fram, að dauður maður af voru liði var færður inn í herbúðir vorar. Lík hans var þá ekki fullkólnað. Því var varpað fyrir fætur vorar. Aldrei mundi Missouri-Indíána hafa komið til hugar að vilja vinna Sioux-Indíána mein. Sendi-

boðar vorir komu til tjalda yðar reykjandi hina helgu pípu friðarins. Þeir voru synir Mandananna. Þeir voru vinir hvíta mannsins. Hvíti maðurinn er eins og töframaður. Hann kemur langt að. Hann er margvís. Hann hefir gefið bardagamönnum vorum byssur margar. En þér drápuð menn hans. Vér erum friðelskir, en ef þér hyggið á ófrið, þá viljum vér benda yður á, að hverfa brott frá tjaldstað vorum áður en hermenn vorir geysast fram úr fylgsnum, sem yður er ókunnugt um, og ráðast á yður. Vér getum ekki ábyrgst yður fyrir töfrum hvíta mannsins," og nú heyrði eg svo mælska lýsingu á því undra-valdi, sem eg hefði yfir myrkri og birtu, lífi og dauða, að mér hnykti við, en Svarti-Köttur lauk kænlega ræðu sinni með því að spyrja, hvers Sioux-höfðinginn æskti af hvíta manninum fyrir sendiboðann, sem drepinn var.

Jafnskjótt lustu hermennirnir upp miklum klið; taldi hver eftir annan upp ýmsa frábæra hæfileika, sem sendiboði þeirra hefði verið gæddur, og töldu sig eitthvað í ætt við hann.

"Eg er hryggur faðir hrausta piltsins, sem þér felduð,' hrópaði gamall bardagamaður; hann ætlaði ekki að líða neinum að gera nánara frændsemis-tilkall, "og hann hafði margar fjaðrir í hatti sínum," bætti hann við.

"Eg ætlaðist til að maðurinn, sem þið drápuð, yrði tengdasonur minn," æpti annar, "og fílabeinstaf hafði hann í hendi," mælti hann enn fremur.

"Sá, sem drepinn var, hann var bróðir minn,"

veinaði sá þriðji, "og hann hafði nýja byssu og mikið af skotfærum."

"Hann var hugdjarfari en vísundur,' 'sagði sá fjórði.

"Hann hafði á sér þrjú sár!" "Hann bar á sér mörg ör!" "Hann átti fjölda hausskinna!" hrópuðu margir í einu.

"Hann hafði margar bjöllur og perlur við leggbjargirnar!"

"Hann var á skrautlegum mochasins-skóm!"

"Hann feldi eitt sinn björn með berum höndunum, vopnlaus!"

"Það var fílabeinsskaft á hnífnum hans!"

"Á örvum hans voru krókar úr bjarnarklóm!"

Ef þeir hefðu fengið að halda áfram þessum lofsöng mundu þeir ekki hafa hætt fyr en þeir voru búnir að fullyrða, að dauði maðurinn hefði verið guð. Eg skoraði því á Svarta-Kött að stöðva þenna orðastraum, og krefjast þess, að óvinirnir svöruðu skýrt og skorinort, hvaða gjöld þeir heimtuðu fyrir hinn látna félaga sinn. Eftir hálfrar stundar nýtt þjark, sem eg tók drjúgan þátt í, og fékk þá ofan af þeirri óskammfeilnu kröfu að heimta tvö hundruð byssur og perlur til að skrýða alt liðið, komumst við loks að samningum. Varð eg þá að láta af hendi við þorparana hér um bil alt, sem eg átti eftir af verzlunar-varningi mínum; en þegar eg sá, að þeim var ekki áhugamál að berjast, lét eg koma hik á mig um að ganga að samningunum, og krafðist þess að Stóri-Djöfullinn væri gefinn í mínar hendur ásamt

Miríam og drengnum hennar. Sagðist eg vilja hafa þetta fyrir dráp Svarta-Kufls.

Þá tóku þeir að sverja við alt, sem nöfnum tjáir að nefna frá sólu og tungli alt niður að kúnni, sem bítur grængresið á enginu, að þeir bæru að engu leyti ábyrgð á gerðum Stóra-Djöfulsins, sem væri Iroquói. En auk þess kváðust þeir geta frætt mig á því, að hann hefði lagt af stað skyndilega norður á bóginn fyrir fjórum dögum, og haft með sér Sioux-konuna, ókunnugu konuna og hvíta barnið. Og af því, að eg hafði enga ástæðu til að erta þá, lét eg ekki á mér heyra, að eg grunaði þá um ósannindi, heldur afhenti þeim manngjöldin og reykti friðarpípuna með þeim. En eg hafði fastráðið að láta Sioux-Indíánana ekki leika á mig, og meðan þeir voru að fagna friðarskilmálunum, söðlaði eg hest minn og hleypti af stað til tjaldstaða þeirra, og var feginn að losna burt af þeim stöðvum þar sem eg hafði ratað í svo margar raunir, án þess að koma nokkru fram af því, sem eg hafði ætlað mér.

---

## XVIII. KAPITULI.

### *Við Laplante hittumst aftur.*

Hermennirnir höfðu sagt Mandanönum satt. Stóri-Djöfullinn var ekki í þorpi Sioux-Indíánanna. Eg dvaldi þar hér um bil vikutíma og bjóst við afturkomu hermannanna á hverjum degi. Að þeim tíma liðnum tókst mér loks að fá að rannsaka tjöld-

in, og var það þó með kænskubrögðum að það lánaðist. Eg sveifst þess ekki nú orðið að beita þeim. Eg sagði Sioux-körlunum, sem höfðu bannað mér rannsóknina, að barn nokkurt hefði í ógáti lent saman við fanga þeirra. Ef það fyndist hjá þeim, kvaðst eg fús til að greiða fyrir það hátt lausnargjald; gömlu kerlingarnar litu mig illu auga og létu í veðri vaka, að eg ætti ekki annað erindi, en að reyna að stela einhverjum krakka þeirra. Þær aftóku það, að mér yrði leyft að leita í tjöldunum. Neyddist eg þá til að vingast við ungu stulkurnar, sem fúsar voru til að þýðast blíðlæti gesta, sem að garði ber, og með tilstilli þeirra og gömlu karlanna var mér leyft að leita í tjöldunum. Sannast að segja varð mér það fullerfitt, að losna við að verða tengdasonur eins gamals þöngulhauss eftir á. En leitin varð árangurslaus. Eg fann Stóra-Djöfulinn hvergi.

Eg hafði heft hesta mína, sex talsins, í ofurlitlu dalverpi skamt frá tjaldstaðnum, og á leiðinni þangað, sem eg vissi að Litli-Karl beið mín. Eitt kveld, þegar eg kom frá því að hyggja að þeim, heyrði eg sagt, að hópur veiðimanna hefði komið frá Efra Missouri. Eg sat hjá nokkrum Indíánum, vinum gamla karlsins, sem vildi fá mig fyrir tengdason, þegar maður nokkur kom rakleitt í móti mér og blístraði lágt.

*"Mon Dieu!* Vinur minn, fjandmaðurinn. *Sacredie* Þetta ert þú. Sauðarhausinn þinn! Hí! hí! Og ert hér einn innan um Sioux-Indíana!" sagði komumaður, sem var enginn annar en Louis La-

plante, og óð alt á honum eins og vant var.

Eg þarf ekki að segja ykkur frá því, að eg spratt upp þegar eg heyrði hver kominn var. Að vísu mundi eg glögt, hversu eg hafði skilið við hann liggjandi marflatan og tautandi hefndarorð gegn mér í Douglas-virki. Nú var röðin komin að honum, til að koma fram hefndinni. Mig hefði sízt furðað á því þó að hann hefði gengið rakleitt að mér og rekið í mig hníf.

"Hvert er erindi þitt hingað?" spurði hann, dró seiminn og hvesti á mig augun reiðulega. Hann talaði enskublending eins og hann var vanur, en var ekki útaf eins óskammfeilnislegur á svipinn eins og hann átti að sér.

"Þú veizt það manna bezt, Louis,' 'svaraði eg. "Hverjum skyldi vera kunnugra um það heldur en þér? Hjálpaðu mér nú til þess, sakir forns kunningsskapar okkar, að bæta úr því að rangsleitni hefir verið liðin. Réttu mér nú hjálparhönd, og það veit hamingjan, að þú skalt fá borgað fyrir, hvað sem þú setur upp. Fáðu hana látna lausa. Að því búnu er þér velkomið að pynta mig eftir vild þinni!"

"Eg á nú kost á því hvort sem er," svaraði Louis og hló snöggan, þurran hörkulegan hlátur. "Vita þeir erindi — þitt?" Hann benti á Indíánana, sem ekki skildu nokkurt orð af því, sem við vorum að segja; við gengum því næst fáein skref burt frá tjöldunum.

"Nei, eg er ekki sama flónið alt af, Louis," svar-

aði eg, "þó að þér tækist að leika á mig í gilinu forðum!"

"Sérðu þessa steina þarna?" Hann benti á grjóthrúgu á gilþremlinum.

"Já, hvað táknar hún?"

"Þarna er alt það, sem hundarnir hafa — skilið eftir af — Indíánanum þínum!" Hann horfði á mig hvast og rannsakandi, en enga hræðslu var á mér að sjá. "Eg segi þetta ekki til að stæra mig af því, heldur til að sýna, að mér var mikill kjarkur lánaður.

"Aumingja maðurinn!" sagði eg. "Þetta var illmannlega gert."

"En hinn náunginn — hann lék á þá."

"Já, því fór nú betur," svaraði eg.

"En þeir láta ekki fara svo með sig næst. Nei, nei, vertu viss kunningi! Ja, að hafa vogað sér hingað einn! Hæ! og hó! Aumingja engilsaxneska nautið!"

"Blessaður Louis, hafðu þig hægan,' 'svaraði eg rólega. "Stóryrði þín hræðist eg ekki fremur hér heldur en í Laval. Þó að þú sért þorpari, Louis, þá ertu ekkert flón. Hvers vegna reynirðu ekki að græða ofurlítið fé á þessu? Eg get borgað þér ríflega. Haltu mér hér eftir ef þér sýnist! Flettu af mér hausskinninu, fláðu mig allan og urðaðu mig grjóti. Mér getur samt sem áður ekki skilist, að hefnd þín á mér verði nokkuð sætari, þó að þú haldir áfram að kvelja varnarlausa konu."

Louis hrökk við. "Þetta var í fyrsta sinni sem

eg sá bregða fyrir góðsemi í andliti hans, og eg þakkaði það hinum frönsku forfeðrum hans.

"Eg kvel aldrei hvítar konur," svaraði hann með ákefð og drýgindalega. "Eg er sonur aðalsmanns—"

"Og sonur aðalsmannsins leyfði sér að ljúga í mig til þess að láta saklausa konu lenda í þrældómi."

"Hættu að klifa á því!' 'sagði Louis og hló fyrirlitlega, eins og lygurum er títt þegar þeir komast í bobba. "Þú launaðir mér það með því að stela skeytunum af mér i staðinn."

"Hættu að klifa á því, Louis!" svaraði eg með þottasvip eins og hann. "Ekki stal eg skeytunum frá þér, þó að eg viti hver þjófurinn var, og þú náðir þér aftur nirði á mér með því að leiða mig í gildru í Douglasvirki."

'En mér hepnaist það ekki,' 'sagði Louis. "*Mon Dieu!* Betur að eg hefði vitað að þú varst njósnari!"

"Eg var það ekki. Eg kom til að finna Eirík."

"Og þú hefndir þín á mér, rétt eins og eg hefði komið mínu fram við þig, með því að sparka í mig—mig—aðalsmannssoninn; þú sparkaðir í kviðinn á mér, rétt eins og eg væri göltur, en það er ósæmileg meðferð á dánumanni."

"En þú lézt ekki á því standa, að hefna þín og skauzt hnífnum þínum á eftir mér og hittir í skóinn minn—"

"Já, en tilræðið mishepnaðist,' 'skaut Louis inn

í raunalega.

Og þegar hér var komið, gátum við ekki stilt okkur um að reka upp hlátur. Við hlóum hátt báðir og um leið rifjuðust upp fyrir okkur gamlar endurendurminningar frá Laval, þegar við vorum að berjast í skólagarðinum, en héldum alt af saman og hjálpuðum hvor öðrum á skólabekknum.

"Heyrðu, gamli kunningi'" sagði eg og færði mér í nyt, að hann hafði blíðkast í svip. "Eg skal játa það, að eg eigi hjá þér tvær ráðningar, aðra fyrir skeytin, sem eg sá tekin frá þér, og hina fyrir að berja þig niður í Douglasvirki; eg tel það ekki, að þú kastaðir til mín hnífnum, því að hann brotnaði í skónum mínum , og gerði mér engan skaða. Greiddu mér þessar ráðningar þegar þér sýnist, með rentum, rétt eins og þú varst vanur þegar þú varst að lúskra mér í Laval; en hjálpaðu mér nú eins og við vorum vanir að hjálpast að á skólabekkjunum. Þegar það er búið, þá máttu hafa alt eins og þér sýnist. Eg gef þér fult leyfi til þess. Eg skora á þig eins og aðalsmannsson, eins og göfugan mann, Louis, að hjálpa mér til að frelsa konuna."

"Sussu, sussu!" hrópaði Louis háðslega, en þó heyrði eg að eitthvert lát var á honum. "Mér dettur ekki í hug að fara að refsa þér hér, þar sem 2,000 verða um einn. Louis Laplante er göfuglyndur og það jafnvel við óvini sína."

"Ágætt, kunningi!" hrópaði eg innilega þakklátur og rétti fram hönd mína.

"Nei, nei, — ekkert þakklæti!" svaraði Louis

drembilega, "ekki fyr en eg er búinn að borga þér að fullu; eg er alt af sanngjarn við óvini mína."

"Gott! Borgaðu hvenær sem þér sýnist!"

"Já, það ætla eg mér," hreytti Louis út úr sér. "Nú væri þér líklega bezt að hafa þig burtu héðan strax á morgun."

"Er Djöfullinn meðal þeirra?"

"Nei."

"Er Djöfullinn hér?"

"Nei." Skuggi færðist yfir andlitið á honum við spurninguna.

"Veiztu hvar hann er?"

"Nei."

"Ætlar hann að koma hingað aftur?"

"Bölv.... spurningar eru þetta! Hvað ætli eg viti um það! Hann kemur ef honum sýnist svo. Ekki ætla eg mér að segja sögur um mann, sem bjargað hefir lífi mínu."

Þegar eg heyrði þetta, kom mér í hug, hvort Djöfullinn mundi hafa séð til mín, þegar eg greip í handlegginn á skinnakaupmanninum, er hann ætlaði að leggja franska manninn hnífi,og var helzt að halda, að þessi vingjarnleiki Louis væri því að þakka, að hann hefði frétt það.

"Eg ætla að vera hér kyr, hvað sem Sioux-hermennirnir kunna að segja, og eg fer ekki fyr en eg hefi komist að, hvað orðið hefir af Indíána-þorparanum og föngum hans," sagði eg.

Louis leit á mig spurnar-augum og blístraði aftur.

"Þú hefir lengi auli verið," sagði hann. "Eg get séð um, að þeir geri þér engan skaða; en mundu það, að eg ætla að borga þér aftur eins og þú átt skilið! En varaðu þig á dóttur Arnarins; fari hún bölvuð! Hana eina óttast eg. Hafstu við í tjaldi mínu. Ef Stóri-Djöfullinn sæi þig—" og um leið greip Louis um skaftið á hnífi sínum.

"Þá e r Djöfullinn víst hér!"

"Það hefi eg ekki sagt,' 'svaraði hann og roðnaði við, og hvarflaði brott þangað, sem hann hélt til.

"Er hann á leiðinni hingað?" spurði eg, því að mér kom kynlega fyrir atferli Louis.

"Asni!" hrópaði Louis. ""Hvar ætti eg að fela þig annarsstaðar en í tjaldi mínu? En mundu það, að eg á eftir að launa þér lambið gráa — seinna. Ha! hó!, En þarna koma þeir!"

Í þessu heyrðist háreysti frá gilinu. Það voru hermennirnir, sem komu aftur, og nú tók Louis til fótanna heim að tjaldi sínu og eg á eftir. Við hlupum undir spreng.

"Vertu kyr hér inni; mundu það! *Mon Dieu!* Ef þú lætur sjá þig, þá! — Það eru beinagrindur af tveimur hvítum mönnum undir grjóthrúgunni þarna! Louis Laplante er flón — bannsett — flón, að vera að hjálpa þér, óvini sínum, eða nokkrum öðrum manni, og leggja sig í hættu fyrir."

Eftir að franski maðurinn hafði mælt þessi dularfullu orð flýtti hann sér út, batt aftur tjaldskörina og skildi mig einan eftir til að hugsa ráð mitt.

Hvernig stóð á þessu atferli hans? Var það sakir fjandskapar, sem hann hafði á Indíána-kerlingunni er annars virtist hafa heilmikið vald yfir honum, eða var það sakir þakklætis við mig? Var þetta arfur frá hinum göfugu forfeðrum hans, sem lét á sér bera þrátt fyrir úrkynjunina? Eða hafði honum runnið til rifja að sjá þjáningar hvítu konunnar? Mér hefði legið við að halda, að hann hefði hlaupið inn í tjald sitt af bragðvísi, þegar hermennirnir komu, ef eg hefði ekki séð hvað mikið fát kom á hann. En það var auðséð, að það var hræðsla sem réði ferð hans heim að tjaldinu, og ef Stóri Djöfullinn væri meðal hermannanna þá mátti hann sannarlega óttast það, að láta sjá sig með mér. Veiðimenn komu í stórhópum til tjaldanna. Eg heyrði að hestum var slept lausum og tjaldsúlur keyrðar niður, en Louis kom ekki á fund minn fyr en dimt var orðið af nótt, og Indíánarnir höfðu tekið á sig náðir.

"Eg get fylgt þér til hennar," hvíslaði hann og röddin skalf af geðshræringu. "Stóri Djöfullinn og kerling hans eru farin burtu að leggja snörur! En þú verður að koma út strax þegar eg blístra! *Mon Dieu*! Ef þeir geta handsamað þig, þá, þá hausskinnfletta þeir okkur báða! Louis er fífl! En nú ætla eg að fylgja þér til hennar; en eg læt þig samt fá makleg málagjöld seinna."

"Til hverrar?" spurði eg lágt.

"Þorskhaus!" hvæsti Louis út úr sér. "Komdu á eftir mér! En þér er betra að hafa opin eyru þegar eg blístra einu sinni táknar það — þau koma —

tvisvar — farðu út úr tjaldinu — þrisvar — það er komið upp um okkur forðaðu þér!"

Eg fylgdi franska manninum eftir þegjandi. Nóttin var dimm og ofurlítil tunglsglæta, rétt svo að við sáum til að þræða fram hjá kofum Indíánanna yfir að stórum nýbygðum kofa, sem hvítt lítið tjald stóð aftan við.

"Komdu hingað!' 'hvíslaði Louis og fór á undan inn í kofann; síðan lyfti hann skinni frá skýluopi milli kofans og tjaldsins, benti mér þar inn og flýtti sér burtu til að halda vörð.

Eg sá þegar skuggann af konu, sem sat með barn í fanginu. Hún sat á fatahrúgu og talaði eitthvað við barnið í lágum hljóðum og vissi ekki að manna væri von.

"Varstu úti á veiðum, Eiríkur minn, og skauztu ör af boga?" spurði hún og hallaði höfði drengsins upp að brjósti sínu.

Drengurinn hló lágt og ánægjulega og svaraði einhverju, sem einskis var að skilja nema móður hans.

"Bráðum verður þú stór, fjarska stór hermaður og ætlar þá að berjast — berjast fyrir aumingja mömmu þína," hvíslaði hún lágt og strauk blíðlega um lokka hans.

Drengurinn settist upp, leit framan í móður sína, steytti hnefann djarflega, en sagði ekkert.

"Eiríkur minn! litli hugprúði drengurinn minn! Þú, sem ert það eina, sem guð hefir skilið mér eftir!" sagði hún og hneigði höfuðið grátandi niður að

vanga drengsins. "Drottinn minn! gef mér að fá að hafa litla drenginn minn hjá mér! Þú hefir gefið mér hann, og eg hefi gætt hans eins og sjáaldurs auga míns, eins og gimsteins úr dýrðar kórónu þinni! Æ, drottinn minn! lofaðu mér að halda ástinni minni hjá mér, eiga hana eins og gjöf frá þér — og, æ, guð minn góður! Verði — verði — verði þinn vilji!"

Orðin urðu að þungri stunu og drengurinn fór að kjökra.

"Þey, þey. elskan mín! Góðu börnin gráta aldrei, og ekki heldur fuglarnir, eða bifrarnir, eða ernirnir stóru! Litli hermaðurinn minn má ekki heldur gráta! Allir fuglarnir og stóru dýrin og hermennirnir eru sofnaðir. Hvað er Eiríkur litli vanur að segja, áður en hann fer að sofa?"

Litlir holdugir handleggir vöfðust nú um háls henni og drengurinn kysti hana ástúðlega, bæði á enni og báðar kinnar. Síðan kraup hann á kné í kjöltu hennar.

"Guð blessi pabba — og varðveiti mömmu — og láti Eirík litla verða hraustan og góðan — í Jesú nafni:" — Drengurinn þagnaði.

"Amen!' 'sagði mamma hans.

"Og guð, varðveittu Eirík litla handa mömmu svo að hún þurfi ekki að gráta," bætti drengurinn við, "í Jesú nafni — Amen," og svo stóð hann upp og rétti úr sér.

Lágt nístandi blístur heyrðist þjóta gegnum dimmuna eins og örskot. Það var Louis Laplante að gefa merki um það, að Djöfullinn og kona hans

væru að koma. Við það hrökk konan og barnið við og þá komu þau auga á mig standandi í tjaldsdyrunum. Konan rak upp lágt hljóð af hræðslu. Eg heyrði það á mæli hennar, að hún skalf af ótta og litli drengurinn tók að snögta lágt.

"Miriam!" hvíslaði eg.

Hún þaut til mín með angistarópi og sagði: "Ert það þú, Eiríkur? Æ, Eiríkur! Ert það þú?" endurtók hún.

"Nei — nei, Miriam, eg er ekki Eiríkur, en eg er vinur hans og heiti Rúfus Gillespie."

Hún reikaði til, eins og eg hefði slegið til hennar. Eg tók hana í fang mér og bar hana inn að fatadyngjunni.

Síðan nam eg staðar í tjaldsdyrunum, því eg vissi að Louis hafði verið að aðvara mig.

"Við höfum leitað þín í meir en ár," hvíslaði eg og beygði mig ofan að henni, "en Sioux-Indíánarnir hafa drepið sendisvein minn, en hinum bjargaðir þú burt úr tjaldi þínu!"

"Var það sendimaður þinn?" spurði hún öldungis forviða, og sá eg á því að sá grunur minn var réttur, að hún hafði ekkert verið látin vita um tilraunir okkar til að frelsa hana.

"Eg hefi verið hér vikutíma, að leita í Indíánakofunum. Hestar mínir eru í dalverpi hér skamt frá, við verðum að reyna að sleppa, ef við mögulega getum."

"Eg hefi lofað því hátíðlega, að gera enga tilraun til þess," svaraði hún og bar ótt á, og tók að

fitla við rauða sjalið sitt eins og sjúklingur í óráðsfáti. "Ef þeir ná okkur, þá pynda þeir okkur til dauða, og pynda barnið fyrir augunum á mér. Þeir eru nú góðir við hann, og gera mér ekkert mein, meðan eg leitast ekki við að strjúka. Hvað megnar þú, einn maður á móti tvö þúsund Sioux-Indíánum?" og hún fór að gráta með miklum ekka og fitlaði í sífellu við rauða sjalið sitt.

Mér fanst það ganga goðgá næst, að horfa framan í þessa hryggu konu, svo að eg lét augun hvarfla ráðaleysislega að mjóum fingrum hennar, sem hún gat aldrei haldið kyrrum. Mér finst enn í dag það fingrafum standa mér fyrir hugskotssjónum, og aldrei hefi eg síðan getað horft á óráðsfálm sjúkra manna án þess að endurminning þessa fundar okkar hafi rifjast upp í huga mínum. Það getur verið, að þetta séu veiðimanna-órar úr mér, en eg vil samt halda því fram, að ef menn veittu nána eftirtekt slíku fumi á höndum veiklaðra manna, þá mundi við ítarlegri athugun koma í ljós, að það er talandi tákn þyngra heimilisböls, en margur skriftafaðir hefir orðið áheyrzla.

"Miríam!" sagði eg. "Eiríkur hefir lagt líf sitt í hættu til að bjarga þér. Heldurðu að þú vildir ekki reyna alt fyrir hans sakir? Áhættan er ekki svo mjög mikil. Við verðum að bíða þangað til dimm nótt kemur með hvössum stormi, og þá veltir þú þér út úr tjaldinu á líkan hátt og þú kendir Indíánanum mínum. Eg hefi þá hesta til taks. Eg ætla að skríða að tjaldinu að baka til og hvísla til þín

að koma."

"Hvar er Eiríkur?" spurði hún og var eins og á báðum áttum.

Nú heyrðust tvö snögg blístursshljóð. Það var Louis. Hann var að kalla á mig út úr tjaldinu.

"Þetta er mér merki um að hraða mér burt! Eg verð að fara. Segðu mér fljótt, Miríam, ætlarðu að reyna þetta?"

"Já, eg skal gera þetta, sem þú óskar eftir," svaraði hún svo lágt, að eg varð að krjúpa á kné til að heyra það.

"Við reynum það þá fyrstu hvassviðrisnóttina, sem kemur."

Nú var blístrað hátt og ógnandi þrisvar sinnum, sem táknaði — "Það er komið upp um okkur. Forðaðu þér!" Og eg fleygði mér niður á gólfið fyrir aftan Miríam.

"Réttu út handleggina, fljótt! — reyndu að skyggja á mig og farðu að tala við drenginn, annars er úti um okkur!" hvíslaði eg.

Hún skaut út olnbogunum og breiddi út sjalið sem bezt; síðan tók hún drenginn í fang sér og fór að róa með hann og raula yfir honum vögguljóð. Í sömu svifum sást stóra Sioux-kerlingin koma inn í dyrnar, sú sama sem eg hafði séð í gilinu. Eg smeygði fótunum undir tjaldbrúnina og ýtti mér smátt og smátt aftur á bak, en sjal Miríam skýldi mér alveg svo að Indíánakerlingin sá mig ekki. Þegar eg var kominn út fyrir tjaldið hinkraði eg við og hlustaði með skammbyssu í hendinni. Eg átti á

öllu illu von af þessari kerlingarnorn.

"Hér var mannamál inni," hreytti Indíánakerlingin reiðulega út úr sér. "Hvíta konan var að tala! Hvar er sendiboði Mandananna?"

Nú fór litli drengurinn að hágráta.

"Gráttu ekki, litli hermaðurinn minn! Þey, þey, góði! Þetta var ekkert nema einhver veiðimaður að blístra, eða náttfálkinn eða rakkúninn! Þey, þey! Annars fer björninn að hlæja að þér, og segir húnunum sínum, að hann hafi hitt hér karlmann, sem er skræfa!" sagði Miríam og lét sem hún heyrði hvorki Indíána-kerlinguna eða sæi; en Eiríkur litli tók til að blaðra ósköpin öll, og án þess að gera sér grein fyrir, þá blekti hann Indíána-kerlinguna, og hafði hún sig burt úr tjaldinu og þóttist nú vita, að það hefði verið þau mæðginin, sem hún hefði heyrt vera að tala.

Eg læddist hljóðlega burt frá kofanum og vildi forðast að verða á vegi Stóra-Djöfulsins og konu hans. Sá eg þá alt i einu mann koma á móti mér í myrkrinu. Það var Louis.

"*Mon Dieu,* Gillespie, eg hélt að úti væri um þig," stundi hann.

"Hvað ert þú að gera hér?" spurði eg þurlega, þó að eg væri honum þakklátur með sjálfum mér. "Þú ætlar þó líklega ekki að fara að láta sjá þig hér með mér?"

"*Sacredie!* Hundarnir þeir arna! Þeir geta skemt sér yfir hausskinninu á þér þó að eg sleppi," sagði hann og opnaði djarflega tjald sitt fyrir mér.

"Bjálfaskapurinn í þér að bíða svona lengi!" tautaði hann. "Mér dettur aldrei í hug að hjálpa þér framar! *Mon Dieu!* Nei! Eg ætla ekki að láta þá flá af mér hausskinnið þín vegna! Þeir fundu hestana þína í dalnum. Þeir halda — hefir þú sagt það? — að Mandanar séu hér á næstu grösum, og eru hræddir við þá. Þeir fóru burt aftur með hesta þína undir eins! Þess vegna blístraði eg svona fljótt í fyrsta skiftið. Þeir fara norður á bóginn strax í fyrra málið! Eg fer líka með Djöflinum og konu hans! Eg er alt af á leiðinni til húsbónda hans í kvölunum! En eg get ekki skorast undan að verða þeim samferða. Annars gruna þau mig og drepa mig! En sú blóðsuga, sem hún er! Hún mundi drekka úr mér blóðið! Eg hefi ekkert fleira saman við þig að sælda! Þú verður að fara héðan áður en birtir af degi, og þú verður að fara einn! *Sacredie,* en eg skal launa þér lambið gráa seinna!"

Svona hélt hann áfram að blaðra sitt um hvað og vissi eg glögt, að hann var í miklum vandræðum staddur.

"Nei, en þarna eru hestarnir mínir!" sagði eg. Þeir stóðu allir úti fyrir kofa Stóra-Djöfulsins.

"Gættu þess, að komast af stað fyrir birtingu í fyrra málið! Taktu hnakkinn minn!" sagði Louis.

Eg sá og að hnakkur minn og farangur lá í hrúgu skamt frá hestunum og að þar stóð óvinur minn, Sioux-kerlingin, og benti með hávaða miklum og rausi á hestana.

"*Mon Dieu! Prenez garde!*. Flýttu þér nú

inn!" tautaði Louis.

Við fórum inn í tjald hans, og um leið leit eg við til hesta minna. "Ef þeir sjá þig, þá er úti um alt," sagði Louis.

Og þessi viðvörun var orð í tíma talað. Uppáhalds bronkóinn minn reisti nú eyrun, því að hann hafði orðið var við mig af eðlisávísan eða þefvísi sinni, og hneggjaði við. Bæði Djöfullinn og kona hans tóku eftir þessu og litu við, en þá var Louis nýbúinn að hrinda mér inn í tjaldið.

Hann fleygði sér bölvandi á bekk, sem þar var og tautaði. "Taktu hnakkinn minn!" sagði hann. "Eg stel öðrum handa mér; komstu af stað fyrir birtingu. Eg vil ekkert framar hafa hér saman við þig að sýsla, þangað til eg jafna um þig — þegar þar að kemur."

Og rétt á eftir var hann steinsofnaður, eða lézt steinsofa.

---

## XIX. KAPITULI.

### *Hrekkjabrögð Louis.*

Daginn eftir ætlaði Stóri-Djöfullinn að leggja af stað norður. Þessa nótt var því síðasta færi fyrir mig að bjarga Miríam. "Komstu af stað fyrir birtingu!" Þessi orð Louis bergmáluðu í eyrum mínum. Eg hafði sagt Miríam, að fyrstu hvassviðrisnóttina,

sem kæmi, skyldum við reyna að leggja af stað; nú var tunglið að koma upp og lýsa upp myrkurmóðuna, sem kunnað hefði að geta skýlt brottför okkar. Eftir eina klukkustund hlaut alt þorpið að verða laugað í silfurtæru tunglsljósi björtu eins og um hádag væri. Alt í einu hætti alt skvaldur í kofunum og dauðaþögn færðist yfir þá. Enginn hávaði heyrðist nema gjamm við og við í hundum Indíánanna og hvíið í bronkóunum mínum, þegar þeir voru að slá hesta Indíánanna. Það var ekki svo vel, að nokkur gola væri til að draga úr skóhljóðinu og skugga lagði af hverjum kofa eins og dökkar aflangar rákir á grasflötina. Hvernig færi, ef einhver nasvís Indíáni sæi til okkar þegar við legðum af stað út á völluna? Mér komu þegar í huga afdrif Svarta-Kufls.

Eg varpaði óþolinmóðlega af mér ábreiðunni, spratt upp og leit út úr tjaldinu. Hundarnir voru öðru hverju að góla og annar hávaði heyrðist ekki nema óþolinmóðlegt stapp í hestunum mínum. Eg gat glögt heyrt hroturnar í þeim, sem sváfu í næstu kofunum. Neðan úr víðivöxnu dalverpinu mátti heyra straumnið ár, sem féll eftir grýttum farvegi, en sá niður heyrðist þó ekki nema þegar alt var hljótt og grafþögult. Garg í einhverjum náttfugli rauf ónotalega kyrðina. Hundur rak upp gól, þagnaði aftur og svo varð alt hljótt.

"Nú er að hrökkva eða stökkva," sagði eg við sjálfan mig. "En samt skal reyna það!" Síðan gekk eg út úr tjaldinu. Þá tók árvakri hundurinn

til að gelta á ný. Eg svifti af mér skónum — eg var ekki farinn að brúka mockasin-skó, — og laumaðist í skugga stórs tjalds, sem gnæfði upp yfir hin. Þegar þangað kom lagðist eg á grúfu, til að koma í veg fyrir að nokkur skuggi félli af mér. Þá mundi eg, að eg hafði gleymt hnakk Louis. Eg reis á fætur og skreið aftur til tjalds míns, og beið þar þangað til hundarnir hættu að gelta. En á því varð bið; geltni hundurinn hafði fengið nágranna sinn til að taka undir við sig, og eg hélt að gjammið í þeim ætlaði aldrei að hætta. Eg þóttist alveg viss um, að Louis Laplante hló að mér milli svefns og vöku. Í þessu þaut maður út úr einu tjaldinu og sló til hundanna svo að þeir þögnuðu undir eins, en eg varð að láta líða stundarkorn og manninn sofna aftur áður en eg héldi áfram.

Einu sinni heyrði eg tíst í krikketu, froskum og nið árinnar niður í dalnum, og þá loks brá eg við og lagði af stað inn á milli kofanna.

Eg fór hægt og skreið á maganum í áttina til hestanna minna. Einn þeirra kumraði ofur lítið, þegar eg nálgaðist þá, og við það tóku hundarnir til að gelta á ný. Eg lá hræringarlaus í grasinu þangað til alt var orðið hljótt og kyrt aftur og tók svo að skríða áfram á snið við uppáhaldshestinn minn og náði í taugina, sem hann dróg, og kipti í, til þess að hann skyldi síður fara að hneggja. Eg skreið áfram í hlé við hann, svo að eg skyldi ekki sjást úr kofanum, losaði af honum hnapphelduna, teymdi hann inn í þvögu Indíána hestanna og lagði á hann í mesta

flýti. Nú var að komast með hestinn að aftanverðu tjaldi Miríam, en það var ekki auðgert. Eg gætti þess, að ganga "í takt" við bronkóinn, og láta hann grípa niður eins oft og hann vildi, svo að mjög erfitt hefði hlotið að vera, jafnvel fyrir aðgætinn Indíána, að sjá mig á bak við hann. Bak við Sioux-kofann var brekka brött og trjálaus. Eg skildi hestinn eftir neðan við hana, og fór að fikra mig upp eftir henni í hægðum mínum. Enn einu sinni tóku hundarnir til að gelta, en einhver kom út og þaggaði niðri í þeim; eg þekti rödd mannsins. Það var Louis Laplante.

Þrisvar sinnum drap eg fingrinum á tjaldið, en enginn svaraði. Eg smeygði hendinni inn undir tjaldbrúnina og lagðist niður. Hvernig stóð á því, að hún skyldi ekki gefa mér neitt merki? Var Sioux-kerlingin að veita okkur eftirtekt? Eg gat ekkert heyrt nema þungan andardrátt sveinsins unga.

"Miríam!" hvíslaði eg og fálmaði hendinni inn í tjaldið í blindni.

Í því fann eg að gripið var um hendina á mér mjúklega og sagt svo hljótt, að varla varð greint frá þyt náttgolunnar: "Það eru hafðar gætur á okkur?"

Gætur á okkur? Hvað var að horfa í það? Hafði eg ekki lagt mig í hvaða lífshættu sem var, til að komast þó þetta? Varð hún ekki að gera slíkt hið sama? Þetta var síðasta tækifæri. Við máttum ekki láta hræða úr okkur allan kjark. Eg vissi, að

hesturinn minn var hverjum Indíánahesti fljótari.

"Miríam!" hvíslaði eg og lyfti upp tjaldinu, "þeir taka þig og fara með þig héðan á morgun — hesturinn minn er hér! Komdu, við verðum að reyna það að sleppa núna!"

Eg þokaði mér síðan djarflega inn undir tjaldsbrúnina. Hún var ekki nema svo sem eitt skref frá mér og sneri andlitinu fram að dyrunum, og sat teinrétt, en óstyrkur var á henni af hræðslu. En í tjaldsdyrunum sá eg ferstrenda, illúðlega skrokkinn á Sioux-tröllkonunni. Miriam hallaði sér áfram og lézt hagræða drengnum, en ætlaði að reyna að skýla mér um leið svo að eg sæist ekki, og eg hraðaði mér aftur út undan tjaldinu.

Fyrst hélt eg, að enginn hefði tekið eftir mér, en eg var nú í þeim vanda staddur, að samt sem áður reið á að fara varlega. Alt í einu sá eg tvo menn stefna að mér sinn úr hvorri átt og einhver stökk á mig eins og óargadýr. Eg sá blika á hnífsblað og fann fremur en sá, að Stóri-Djöfullinn og Louis Leplante stóðu báðir uppi yfir mér.

"Nei! Hann er minn fangi! Hann stal hnakknum mínum! Hann er minn, skal eg segja þér!" orgaði franski maðurinn og þeytti burtu óvini mínum. "Hann skal verða geymdur handa hermönnunum. Þeir skulu fá að pynda hann," sagði Louis og greip í handlegginn á Indíánanum.

Eg spratt upp. Það var Louis, sem þá feldi mig, og við ultum nú báðir niður brekkuna, en Indíáninn stóð uppi á brúninni og tautaði eitthvað á

siouxisku.

"Asni! Engilsaxneska nautið þitt!" tautaði Louis, og þreif til mín, þegar við vorum að veltast niður. "Hafðu þig í stilli, en leiktu leikinn til enda, annars eru tvö hausskinn í veði. Eg kæri mig ekki um að missa mitt við að hjálpa þér—"

Fleira heyrði eg ekki, því að nú misti eg meðvitundina af höggum hans.

Þegar eg raknaði við fann eg til mikils verkjar aftan í hálsinum og hafði suðu fyrir eyrum; ofur lítil tunglsskins skíma var, og eg sá, að eg lá inni í tjaldi Miríam. Drengurinn hennar var að kjökra, en hún var í óða önn að taka saman föggur sínar.

"Hvað hefir gerst, Miríam?" spurði eg, og í því rankaði eg við mér og mintist allrar mishepnanar minnar og þóttist viss um, að nú hlaut yfir mér að vofa dauði og tortíming.

"Reyndu það aldrei framar," hvíslaði hún og þaut fram hjá mér, og greip eitthvað upp, sem þar lá, og hún átti. "Reyndu aldrei framar að bjarga mér! Þeir pynda þig til dauða. Eg dey bráðum sjálf. En mig langar mest til að barninu yrði bjargað. Eg er sjálf búin að gefa upp alla von. Og svo kveð eg þig í síðasta sinni!" og því næst færði hún sig yfir að tjaldinu annars vegar.

Í þessum svifum komu þau þjótandi inn í tjaldið með háa rifrildi, Louis og Sioux-kerlingin.

"Hæ! hó! Hann er þá búinn að opna augun, blessaður riddarinn minn! Við hlökkum til að reyna hreysti þína. Við hlökkum til að láta kött

leika sér að músinni, hó-hó!" og Louis leit á mig með svo köldu og illmannlegu fyrirlitningarglotti, að mér fanst því líkast, sem blóðið væri að frjósa í æðum mínum. Það var í því skyni, að hann slyppi sjálfur, að hann lét svona, og 'di fá mig til að leika sama leikinn með sér, og ekki langaði mig til að svíkja hann. Sioux-kerlingin sló til fanga sinna og vísaði þeim út með harðri hendi. Sjálf fór hún á undan og lét Louis reka lestina.

"Láttu þetta vera, frú mín!" sagði Louis með uppgerðar-hæversku, reif böggulinn af Miriam og kastaði honum til mín. Sioux-kerlingin rak upp skellihlátur, og leit ósegjanlega illilega til Miriam. Um leið og franski maðurinn var að fara út leit hann við og veifaði háðslega til mín og hvarf svo inn í kofa Stóra-Djöfulsins. Eg var alveg hissa. Var Louis að leika á mig eða hvað átti þetta að þýða? Var hann að villa mér sýn, eða var hann að blekkja dóttur Arnarins?

Þeir rifu niður kofa Stóra-Djöfulsins og bundu súlurnar á bak bronkóanna, sem þeir höfðu stolið frá mér, en skildu tjald Miriam eftir. Eg sá þau stíga á bak, með hesta mína í taumi og þeysa af stað. Af hófdyninum að ráða, höfðu þau ekki riðið langt, þegar einn maðurinn úr hópnum sneri aftur, og skömmu seinna kom Louis þjótandi inn í tjaldið, þar sem eg lá. Eg steinþagði og bað hann einskis, en um leið og hann beygði sig niður til að taka upp fataböggul Miriam dró hann upp stóran sjálfskeiðing. Eg fékk hjartslátt af fögnuði, og hefi sjálfsagt rétt

upp hendurnar í því skyni að hann skæri af mér böndin, því að Louis hristi höfuðið.

"Nei — kunningi — ekki núna — eg ætla ekki að missa hausskinnið þinna vegna — nei, eg held síður! Brúkaðu tennurnar — svona," sagði hann og tók blaðið milli tannanna; síðan skaut hann hnífnum inn í handarkrika minn. "Hermennirnir — þeir koma aftur í dag," sagði hann í aðvörunarrómi. "Bíddu þangaðtil við erum komnir dálítið burtu, þá skaltu skera af þér böndin í snatri, því að annars fer ver fyrir þér heldur en Svarta-Kufli! Eg skil einn hest eftir handa þér í dalnum hinum megin við bifur-brúna. Tra! la! la! vinur, en gleymdu því ekki, að eg launa þér lambið gráa — seinna!" söngl-aði hann og hvarf.

Eg festi alla von mína við orð franska mannsins, og hlustaði á dyn reiðmanna meðan þeir voru að færast burt, og þorði naumast að gera mér grein fyrir þeim háska, sem eg var staddur í. Eg sá það á skímunni, að komið var fast að dögun. Sioux-Indíánarnir voru farnir að vakna í kofum sínum og naktir strákhnokkar ösluðu út í forina og bleytuna utan við tjöldin. Mér tókst einhvern veginn að setjast upp, beygði höfuðið ofan að höndunum, svo að eg gat brúkað hnífinn án þess að eg sæist. Í þessu tók krakkaskarinn að nálgast tjaldið, sem eg var í og fór að ota að mér spýtum og viðarrenglum. Eg hélt fast að mér handleggnum og fann með á-nægju til hnífseggjarinnar. Úti fyrir heyrðist mikil háreysti. Indíána-karlmenn, kerlingar og krakkar

virtust vera að leggja af stað eftir veginum sem lá í áttina til Mandananna. Loks gleymdi krakkahópurinn mér og þaut af stað á eftir fullorðna fólkinu. Eg þóttist geta skilið, hvernig á þessum hávaða stóð. Þenna morgun var einmitt von á hermönnunum aftur heim. Eg tók því hnífinn milli tannanna, og fór að sarga honum í böndin á höndum mínum. Það er vitanlegt, að maðurinn er ekki nagdýr, en þegar í nauðirnar rekur, og hann getur komið því við að brúka þau tól, sem hann hefir fundið upp af hugviti sínu, þá getur hann bætt upp þenna hæfileikaskort. Við skröltið og háreystina úti fyrir bættist hróp hermannanna, sem voru að nálgast, jódynur mikils fjölda hrossa og ýlfur óteljandi hunda.

Meðan allir Sioux-Indíánarnir voru í útjaðri þorpsins, gat skeð, að eg fengi sloppið burtu án þess eftir mér yrði tekið. Eg tók nú á eins og eg gat og tókst að slíta sundur hálfskorin böndin af úlnliðunum á mér. Eftir það var mér auðgert að losa böndin af fótum mér; eg brá hnífnum á þau og var þá laus, velti mér niður brekkuna, spratt upp þegar niður á sléttuna kom og hljóp eins og fætur toguðu inn í skóginn áleiðis til bifur-brúarinnar. Ekki get eg um það sagt, hve lengi eða hvað langt eg hljóp í þessu ofboði. Greinarnar, sem teygðust í veg fyrir mig, eins og framréttar óvina hendur, rifu klæði mín, svo að þau hangdu um mig í tætlum. Eg hafði verið skólaus þegar eg lagði af stað, en nú var eg orðinn berfættur og blóðið streymdi úr fótunum á mér. Eg sá glitta í vatn gegnum grænt skógarlimið.

Þetta hlaut að vera áin, sem bifur-brúin liggur yfir, og í ákefð minni fanst mér eg sjá vatnið óhreint og slýjað eins og stíflað uppistöðu-vatn. Eg hafði ákafan hjartslátt, rétt eins og hjartað væri við það að springa. Nú heyrði eg einhvern hávaða; og við hvert fótmál fanst mér sýn mín verða óskýrri. Mér sortnaði fyrir augu og sýndust trén riða til óljóst eins og hersing ölvaðra manna. Þá þóttist eg vita, að kraftar mínir voru komnir að þrotum, og hné niður til að hvíla mig, er eg sá bifur-brúna svo sem hálfa mílu fram undan mér. Starir uxu út að ánni og vatnið var gruggugt og móleitt. Eg svalg samt stóran sopa og fann hjartsláttinn réna og nýtt fjör að færast í mig. Eg þorði ekki að hvíla mig lengi, svo að eg spratt upp og rauk af stað aftur; samt fór eg hægra, því að eg þóttist vita, að eg yrði að spara þrótt minn, svo að eg gæti vaðið eða synt yfir ána. Var þetta ástæðulaus ótti eða ímyndun? Hvaða ómur var þetta, sem barst að eyrum mínum? Það var líkast dyn margra hesta í fjarlægð. Eg nam staðar og hlustaði. Nú heyrði eg ekkert nema nið vatnins og þyt vindarins í liminu. Eg þaut af stað á ný en heyrði þá glögt að hermenn Sioux-Indíánanna komu þeysandi niður dalinn.

Mér var veitt eftirför. Það var svo sem augljóst. Mikill óstyrkur kom á mig; ofboðshræðsla greip mig, svo að eg hefi aldrei orðið jafnhræddur á æfi minni fyrri, og tók nú til fótanna. Áin virtist nú verða enn skolalitaðri og ömurlegri á að líta. Blóðið lagaði úr fótunum á mér, svo að Indíánum var auð-

gert að rekja slóð mína, þó á mílna langri leið hefði verið. Mér varð litið til árinnar í þeirri veiku von, að eg gæti hlaupið með fram bakkanum niðri í vatninu, og þannig vilt fyrir óvinum mínum; en áin var djúp við bakkann, og eg var orðinn þróttlaus til sunds. Bifurbrúin lá fast upp að bakkanum hinum megin, en þeim megin, sem eg var, flæddi vatnið upp á rótlaust mýrlendi. Í þeirri von, að mér tækist að komast undan Sioux-Indíánunum hentist eg út í vatnið, en blóðtjörn stóð eftir í spori mínu á bakkanum og leðjan lagðist límþétt að öklunum á mér.

Eg var nú kominn gagnvart bifurbrúnni, og sá þá, mér til mikillar skelfingar, að miðstreymis í ánni flutu trjágreinar er hlutu að verða farartálmi á leið, hvað góðs sundmanns, sem væri. Hrópin og köllin í óvinum mínum færðust nær. Þeir hafa sjálfsagt ekki vitað, hvað skamt þeir áttu til mín, því að annars hefðu þeir laumast að mér hljóðlega eins og Indíánar eru vanir, en æpt að eins um leið og þeir komu auga á herfang sitt. Það var ekki árennilegt að leggja út í ána, fyrir lafmóðan og dauðþreyttan mann sem ekki getur verið nema örskamma stund í kafi. Eg þóttist viss um, að dagar mínir væru taldir, þegar eg kom auga á holan, götóttan trjástofn, sem gnæfði hátt fram yfir bakkann. Eg gat heyrt þá, sem fyrstir voru í eltingunni, ryðjast út í fenið. Ofurlítill pílviðarrunnur fól mig enn sjónum, en innan stundar hlutu þeir að vera komnir á hælana á mér. Með óskaplegri áreynslu veik eg að hola trjástofninum, og eins og skriðdýr á flótta tók eg að

klifra upp eftir honum að innan; eg spyrnti sárum fótunum út í meyrar fúahliðarnar og boraði fingrunum inn í götin á þeim þangað til eg var kominn tveggja mannhæða hátt upp fyrir opið, sem eg skreið inn um að neðan. Þá brotnaði stór tréflís undan hægri hendi minni. Dagsbirtan féll inn um rifuna og kvisthlaupið eftir.
eg sá að eg hafði gripið í fúinn kvist, og nú var opið

Eg krosslagði fæturna, til að fá sem beztan stuðning, teygði mig upp þangað til eg var kominn með höfuðið á móts við kvisthlaupið, og fór að litast um. Annað hvort var, að hróp Indíánanna höfðu þagnað af því að þeir höfðu fundið slóð mína, og vissu, að þeir áttu skamt til mín, eða hróp þeirra heyrðust ekki inn í fylgsni mitt. Eg braut meira af berki úr gatinu og gat nú séð alt sem fram fór fyrir neðan.

Villimaður með blaktandi fjaðraskúf kom nú út úr liminu á árbakkanum, sá gruggað vatnið, þar sem eg hafði verið að vasla, hoppaði aftur fyrir fylgsni mitt og rak upp hátt hróp af ánægju. Rétt á eftir kvað allur skógurinn við af hrópum og köllum Indíánanna. Hver hópurinn eftir annan ruddist fram úr runnunum og fram að fenjunum á eftir leiðtoganum, sem fyrir fór og áður var um getið. Sumir þessara hermanna voru í hjartarskinnklæðum, þeim er þeir höfðu borið í heimsókninni til Mandananna, en fóthvötustu hlaupararnir höfðu kastað öllum klæðum sínum og hlaupið allsnaktir, til að vera léttari á sér. Svo sá eg eirlitu skrokkana hverfa inn á milli

trjánna á árbökkunum og hrópin þögnuðu, og loks varð sú dauðakyrð, að eg vissi, að þeir höfðu mist af slóðinni.

En mundu þeir komast á hana aftur? Sú hugsun rak blóðið með nýjum hraða gegnum æðar mínar, svo að eg fékk klukknahljóm fyrir eyrun, og titringur fór um mig. Eg leit út á ána. Greinarnar flutu eins og áður á ánni og byltust til á ýmsar hliðar fyrir straumnum og grænt, slýkent vatn sást koma vætlandi út frá bifur-húsunum við brúna, sem lá út frá hinum árbakkanum, og leit þar út fyrir að vera annaðhvort leðjumikill botn eða uppsprettu-auga.

Nakinn Indíáni kom nú aftur tautandi út úr runnunum. Hann skygndist inn í hvern holan trjábol, sem hann sá, leit undir hvert niðurfallið tré, sem varð á vegi hans, og leitaði um alla runna á bakkanum þar sem maður hefði getað fólgist. Það gat ekki orðið nema stundarbið þangað til hann rækist á mig. Átti eg að bíða þarna og láta svæla mig inni eins og melrakka í greni? Eg leit á ný í ráðaleysi til árinnar. Ekki var annað fyrirsjáanlegt en að úti væri um mig. Annaðhvort varð eg að láta lífið við kvalafullar pyndingar eða drukna þarna í kaldri og gruggugri elfinni. Hvort átti eg heldur að kjósa?

Gildur trjábolur lá í feninu og skagaði út á miðja ána nokkuð hátt yfir vatnið, svo að þaðan var hverjum sundmanni æðihátt stökk. Eitthvað tuttugu fleiri villimenn höfðu komið út úr skóginum og voru í óða önn að leita. Þó að eg kunni að hafa verið lengi að velkja fyrir mér, hvað eg ætti að gera, þá

hefi eg alt af verið fljótur til aðgerða þegar eg hefi verið búinn að ráða eitthvað við mig. Eg rendi mér eins og elding niður trjábolinn, litaðist skyndilega um við opið, sem út um var að fara, og sá þá óvini mína svo sem fimtíu skref burtu. Eg hikaði samt hvergi, en þaut yfir fenið upp á fallna trjábolinn, sem skagaði út á ána, og fram á endann á honum.

Indíánarnir lustu upp ógurlegum óhljóðum af gremju. Margir bogastrengir gullu nú í senn. Örvaskúr mikil þaut um höfuð mér. Einn villimaðurinn hleypti úr framhlaðinni byssu. Eg sogaði vel í mig loftið og steypti mér á höfuðið fram af trjábolsendanum. Rétt á eftir fann eg grænleitt, slýað vatnið koma framan í mig, ljúkast sundur og lokast að baki mér.

Í mjúkum, leirkendum botninum var einhver grænleit flækja. Eitthvað, lifandi, mjúkt, loðið og sleipt, ekki fiskur og ekki áll, kom við fæturna á mér; eg vissi, að ef eg kæmi upp á vatnsyfirborðið mundi óteljandi örvum miðað á mig. Eg hélt mér því í kafi afarlengi ,að því er mér fanst þó að það væri að vísu ekki nema fáein augnablik, synti í áttina til hins árbakkans og fann nú alt í einu græna slýið í vatnsbrúninni rekast í hárið á mér.

Allir sundmenn vita hvaða blessuð svölun það er að fá að soga í sig langan teig af hreinu lofti eftir langt kaf. Eg andaði að mér eins djúpt og eg gat, reyndi að nudda slýið úr augunum á mér og átta mig. Því líkast var nú að heyra frá hinum bakkanum eins og ömurlegt úlfaýlfur, en upp yfir mér sá eg í leir-

hvolf, mosavaxnar trjágreinar og pílvið. Þá vissi eg hvað það hafði verið þetta loðna, sem eg rakst á í mjúkum botninum, og sá nú, að eg var kominn í heimkynni bifranna. Bifurbrúin hefir sjálfsagt verið orðin æðigömul, því að leirhúsin voru öll vaxin mosa og vatnshálmi og eins og fléttuð saman úr pílviði.

Nú heyrði eg að eitthvað hentist í vatnið á bakkanum hinum megin. Var það bifur, eða var það einhver Indíáninn? Eg þóttist svo geta greint skýrt, að sundtök voru gripin og buslað áfram með miklu skvampi. Óvinir mínir höfðu fastráðið, að ná í mig, dauðann eða lifandi. Eg tók nýtt kaf, fann fyrir mér mjúkan botn á litlu dýpi, vaslaði áfram fáein skref, og kom upp úr vatninu inni í kolniða-myrkri.

Hvar var eg? Eg sogaði í mig loftið. Enginn vafi var á því, að eg var kominn með höfuðið upp úr vatninu; eg fann samt að loftið var þungt af skepnuhita og að framan í mig lagði varman anda þeirra og þær skeltu skoltum rétt við andlitið á mér. Eg hafði einhvern veginn komist upp um gólfið í einhverju gömlu bifurheimkynni og var nú mitt á meðal lifandi bifranna. Ekki gat eg samt greint hvernig þarna inni var um að litast, því að eg gat ekkert séð í myrkrinu sem þar var. Eg þreifaði fyrir mér og rakst á prik nokkurt og greip um það, og rak mig ónotalega upp undir um leið, því að bifurhúsið var rislítið og lágt undir loft.

Eg er viss um að veslings bifrarnir hafa haldið, að eg væri eitthvert ógurlegt vatnsskrýmsli, því að

þeir ruddust ofan í vatnið með miklu skvampi og látum. Eftir það var enga háreysti að heyra þarna inni, nema lekann úr fötum mínum og minn eigin andardrátt.

Sumir heimspekingar halda því fram, að tíminn sé mælir hugsana manns, sem komi hver á eftir annari í tilbreytingarlausri röð. En eg held að þeim skjátlist. Tíminn er ekkert svipað því; annars hefði hann numið staðar meðan eg sat þarna á prikinu í bifurhúsinu, því að ein hugsun aðeins þaut nú í sífellu jafnt blóðrásinni gegnum heilann á mér, og hún var þetta: Eg er úr allri hættu! Eg er úr allri hættu!

Mér er ómögulegt að segja, hvað lengi eg hékk þarna. En mér fanst það óendanlega langur tími. Ekki get eg um það sagt, hvort eg misti meðvitundina eða ekki. Eg er viss um, að eg vaknaði hvað eftir annað við það, að mér fanst eins og mér vera hrint frá einhverju, myrku, fjarlægu, dularfullu ríki, sem jafnvel endurminningin getur ekki rifjað upp. Eg er viss um, að eg reyndi að troða hendinni í gegnum þvalan mosavegginn til að fá hreint loft inn í bifur-kofann. Eg er viss um, að mér fanst vatn ganga yfir höfuðið á mér og bera mig brott úr þessum heimi til annars. Og þá vildi það til, að eg ætlaði að missa halds á prikinu og mér varð að grípa fastara en áður um það, og síðan lagðist yfir mig deyfðarmók aftur, en alt af hafði eg yfir með sjálfum mér: "Eg er úr allri hættu! Eg er úr allri hættu!"

Mér er enn ekki hægt að segja hvað lengi eg sat þarna. Mér fanst það eins og heil öld. Eg vissi ekki hvort það var miðnætti eða miður dagur þegar eg fór ofan af prikinu í bifurkofanum og svamlaði upp að bakkanum eins og vatnsrotta. Hvort að nótt var eða dagur þegar eg dró mig inn í burknarunn og féll í fastan svefn, veit eg ekki. Þegar eg vaknaði var skógurinn völundarhús blettað tunglsljósi og dimmum skuggum. Alt, sem hafði á daga mína drifið síðasta sólarhringinn rann nú upp í huga mínum. Eg mintist loforðs Laplante um að skilja eftir hest handa mér í dalnum við bifurbrúna. Við það vaknaði hjá mér ný von og eg tók að leita inn í skóginn. Í dagrenning fann eg hestinn, sem Louis hafði vísað mér til, og hleypti þegar af stað í áttina þangað sem Litli-Karl átti að bíða mín.

---

## XX. KAPITULI.

### *Hart mætir hörðu.*

Sá sem vildi heyra þann ómögulleika, sem nefndur er mælsk þögn, ætti að ferðast um eyðisléttur að næturlagi. Þá þaggar takmarkalaus róin niður allar róstusamar hugsanir, rétt eins og rólynd móðir vaggar óværu barni í blund. Þá fer vindurinn um auðlar slétturnar eins og ömurlegt andvarp einstæðings-

ins. Óafvitandi fara menn að hlusta eftir niði kvikandi, léttra norðurljósanna er stíga mjúkan dans um hvelfing hins heiðstirnda himins. Jafnvel þungheyrð eyru virðast þá geta greint óma frá þöglum veltandi reikistjörnunum, er svífa um geiminn; þá finst manni hljómur mannsraddarinnar ganga guðlasti næst.

Þó að sléttan tali ekki í orðum, þá lætur hún samt boðskap til sín heyra, því að íbúar sléttunnar hafa á sér fjarsýnissvip, eins og þeir sem eiga samband við hið óþekta og ósýnilega. Bæði hjá hvítum mönnum og eirrauðum sjást merki þessara dularfullu auðnar, og allir íbúar sléttunnar hafa lært að skilja mál hennar. Sjálfur kannast eg gerla við boðskap hennar, hvenær sem eg heyri hann, þó að ekki sé auðgerðara að koma honum í orð heldur en þeim unaðstónum, sem ástin vekur í sálu manns. Skáldin segja, að ástin sé óendanleg. Sama má segja um sléttuna. Þess vegna er það víst, að hvorugu verður með orðum lýst.

Nótt eftir nótt héldum við ferðinni áfram norður eftir og ekkert rauf þögnina nema brakið í grasinu og fótatak hestanna. Dögum saman varð ekki vart við neitt lífsmark í auðninni annað en tíst í krikketu í þurrum lækjarfarvegi. Lúpulegir sléttuúlfar lágu milli þúfna og biðu bráðar. Náttfálkar sáust og stöku sinnum svífa hlakkandi um geiminn. Uglur flögruðu undan hestafótunum og glorhungraðir gammar görguðu yfir einmanalegum gröfum Indíáanna eða húktu á fornum girðingum þar sem dauðir

menn lágu rifaðir í húðir.

Fyrst þegar eg rifjaði upp fyrir mér raunir þær, sem eg hafði lent í meðan eg dvaldi hjá Mandönunum og Sioux-Indíánunum, lá mér við að hallast að þeirri skoðun, að öll rás viðburðanna væri tilgangslaus hringiða. Nú, samt sem áður, þegar eg kom út í ró sléttunnar og hugleiddi hinar öruggu leiðarstjörnur vorar, þá rénaði óró mín. En svo var þess að gæta, að eg var á leið til hennar, sem var ástmey mín. Nú tók vonin á ný að vakna í brjósti mínu, og um leið lífsþráin. Áður en eg vissi af, var eg farinn að jafna bláu augunum björtu við stjörnurnar og fanst eg sjá yndislega konumynd í geislaskini norðurljósanna. Og þegar skyggja tók, fanst mér sama kvenandlitið fram undan höfði hestsins míns og benda mér í norðurátt. Og eg held að þessi mynd hafi aldrei horfið mér alla leiðina norður. En sannast að segja hefði eg ekki átt að skrá þetta hugflug mitt, sem hver verður að virða frá sínu sjónarmiði, en eg geri það að eins til þess, að aðrir geti um það dæmt, hvort hún muni hafa haft áhrifin á mig eða eg á hana.

Þannig héldum við ferðinni áfram og ferðuðumst á nóttunni allatíð meðan við fórum um landareign Sioux-Indíánanna. Þegar við komum í lönd Assiniboineanna lögðum við saman nætur og daga og riðum alt hvað hestar okkar þoldu. Af því að okkur var í fersku minni aðgerðir Hudsonsflóamanna við Souris, og með því að Mandanarnir höfðu og látið það uppi, að keppinautar okkar hefði rágert

nýjar árásir við Pembina, þá fór eg á svig við báða þessa staði Missouri-veginum milli Rauðár og Souris-ár. Það má vera, að sú hafi verið orsök þess, að við mættum engum manni, að við ferðuðumst stöðugt að næturlagi, en hvorki Indíánar eða neinn hvítur maður varð á vegi okkar þangað til við komum fast að Rauðá og áttum skemmra en dagleið til Gíbraltarvirkis. Þegar við komum á götuna við ána rákumst við fyrst á nokkra veiðimenn Hudsonsflóafélagsins. Þeir piltar vildu engu svara okkur er við spurðum um hvað gerst hefði þar nyrðra síðastliðið ár, og hrukku undan okkur eins og við hefðum bóluveiki, en við þann sjúkdóm höfðu allir verið afarhræddir fáum árum áður.

"Þetta fellur mér illa," sagði eg er mennirnir flýðu undan okkur niður árbakkann þangað sem við gátum ekki veitt þeim eftirför. Litli-Karl var þögull og alvarlegur. Hann hristi höfuðið íbygginn, eins og þeir sem við illu búast, en vilja forðast að hafa orð á því fyr en í fulla hnefana.

"Fellur þér þetta ekki illa, Litli-Karl?" spurði eg. "Hvað heldurðu að þetta tákni?"

Indíáninn hristi höfuðið á ný, var alvarlegur á svip, en vildi ekki segja neitt. Við hittum fleiri Hudsonsflóamenn og virtist mér atferli þeirra allra grunsamlegt. Undir eins og þeir komu auga á okkur keyrðu þeir hesta sína sporum og hleyptu brott steinþegjandi.

"Mér líst illa á þetta! Þetta spáir engu góðu," sagði eg og reið upp á ofurlitla hæð, þaðan sem út-

sýni var betra. Við sáum þangað sem báðar árnar mættust. Runnar skygðu samt á nokkuð, svo að eg rétti mig upp í ístöðunum til að sjá betur, og Litli-Karl litaðist um standandi upp í hnakknum.

"Heyrðu, Litli-Karl!" sagði eg undrandi. "Hvar er Gibraltar-virkið? Eg sá staðinn, þar sem það hefði átt að vera, þar sem turnarnir hefðu átt að gnæfa yfir runnana, en nú sé eg enga turna."

Indíáninn skygði hönd fyrir auga og starði fram undan sér. Síðan settist hann niður í hnakkinn, kipti í taumana eins og utan við sig og sagði: — "reykur!"

"Reykur. Eg sé engan reyk! Hvar er virkið?" mælti eg.

"Það er ekkert virki," svaraði hann.

"Ertu genginn af vitinu?" sagði eg þóttalega. "Þú veizt það — rétt eins og eg, að virkið er þarna! Þú, Indíáninn, skulir vera orðinn ruglaður í áttunum!"

Litli-Karl stökk snarlega af baki. Hann tók þar upp tvær litlar tágar og lagði þær saman.

"Virki!" sagði hann alvarlegur og benti á tágarnar.

"Englendingarnir!" hrópaði hann og spenti út fæturnar. Með Englendingunum átti hann við Hudsonsflóamenn.

"Það er ekkert virki!" hrópaði hann á ný og fleygði tágunum frá sér. "Það er ekkert virki!" og hann horfði með hljóðri hryllingu á auðnina.

Nú skildi eg hvað hann hafði átt við. Hudsons-

flóamenn höfðu eytt Gíbraltarvirki. Því var ekki um annað að gera fyrir okkur en að halda vestur á bóginn fram með Assiniboineá, ef ske kynni, að við mættum einhverjum Norð-Vestmönnum áður en við kæmum til aðalstöðva félagsins við Portage. Hver gat vitað nema sá kaupstaður væri einnig eyddur. Og hvar skyldu þeir vera, séra Holland og Eiríkur? Hvað sem öðru leið, varð eg að fá frekari vitneskju um það, er gerst hafði í Rauðárdalnum. Og ýmsar ástæður voru til þess, að mig fýsti að vita hvernig íbúunum í grend við Douglas-virk liði. Við bjuggumst til að á sunnan megin Assiniboineár, fáar mílur frá Rauðá og Litli-Karl fór til fundar við kynblending skamt þaðan, að fá lánaðan bát.

Þegar hann kom aftur, sagði hann mér kynlega sögu. Einhver mikill maður, sem kynblendingar töldu ganga konungi næst að völdum, hefði komið frá Englandi, sögðu þeir, til að drotna yfir Assiniboine-héraðinu. Hann hefði látið drjúglega yfir því, að ríki sitt mundi ná yfir alt landið. Alla Norð-Vestmenn ætlaði hann að reka brott. Síðar komst eg að því, að þessi góðkunningi okkar var Semple landstjóri, sá er varð eftirmaður Miles McDonnells kafteins. Þessi mikli landstjóri hefði hrætt Norð-Vestmenn eins og veiðimaður fælir skógardýr undan sér. Litla-Karli hafði verið sagt, að hann þyrfti ekki að efa þetta. Hann gæti sjálfur fullvissað sig um það, ef hann vildi. Hvað væri nú orðið af Gíbraltarvirki? Hann gæti nú séð það sjálfur, að þar væri ekkert að sjá nema steinveggina sviðna og sótuga. Aflviðirnir

úr Gibraltarvirki væru nú orðnir aflvíðir í hinu nýja Douglasvirki. Pembina hefði og lent í höndum Hudsonsflóamanna. Eftir að þessi mikli landstjóri hefði komið til sögunnar mætti ekkert standast fyrir Englendingum.

En ekki voru þó öll kurl komin til grafar enn. Það var þungan óánægjukur að heyra úr tjöldum skógbrennumannanna. Hinn mikli landstjóri átti enn eftir að komast að raun um það, að jafnvel armleggur konungsins var ekki nógu traustur til að yfirbuga þá. Ef til orustu kæmi, þá skyldi skógbrennumönnum að mæta. Þeir ættu sín í að hefna. Þeir ætluðu ekki að láta reka sig út úr tjöldum sínum án þess að borga fyrir sig. Langrar stundar verk var ekki að draga hníf úr skeiðum. Skotfærapokar þeirra voru fullir! Mikill fjöldi skógbrennumanna átti aðsetur við Portage. Kynblendingarnir kváðust vera á leið þangað sjálfir. Litla-Karli og hvíta veiðimanninum væri velkomið að slást í förina, sögðu þeir. Þeim væri sjálfsagt að fara gætilega. Englendingarnir væru varir um sig. Skógbrennumennirnir ættu eftir að vinna mikil hreystiverk fyrir næstu tunglkomu og augun í Litla-Karli tindruðu þegar hér var komið frásögu hans.

Eg var helzt á því, að þessi frásaga hans væri tómur skáldskapur. Ef kynblendingarnir voru að herbúast þá var það auðskilið að Englendingarnir væru varir um sig, af því að þeir bjuggust við ófriði. Indíánar eru hirðingjaþjóð og vilja að sjálfsögðu halda í forræði þeirra landa, er þeir tóku að

erfðum af feðrum sínum, en þegar aðkomumenn ekki að eins vilja ná landinu til eignar, heldur og leggja ok laga sinna á herðar eigendunum, þá er ekki að undra, þó að þeim renni svo í skap villimönnunum, að nærri stappi fullri uppreisn. Eg gat vel skilið það, að það hefði vakið megna gremju og blóðþorsta Indíána-eðlisins í þessu fólki, er Hudsonsflóamenn bönnuðu því að verzla við keppinauta sína. Það var skiljanlegt, af því að fólk þetta var tengt Norð-Vestmönnum með samningum og mægðum. Virki Norð-Vestmanna höfðu verið rænd. Var þá ekki sennilegt að kaupstaðir Hudsonsflóamanna yrðu rændir líka? Hvort félagið um sig stal vörum hins, er þær voru fluttar fram hjá virkjum þeirra. Hvers vegna áttu kynblendingarnir ekki að fá sinn hluta af herfanginu? Það er hægt að hleypa grimd í dauðmeinlausa hunda, og hergjörnum Indíánum er mjög erfitt um að halda frið til lengdar. Þetta höfðu skinnaverzlunarfélögin miklu ekki séð, en nú áttu þau að súpa seyðið af því og sínum eigin tilgerðum.

Kynblendingarnir sögðu þau tíðindi einnig, að þangað hefði komið prestur til Douglas-virkis, og haft með sér sinnisveikan mann. Það sýndist sennilegast, að það hefði verið séra Holland og Eiríkur. Hvort sem nokkuð var að marka uppreisnarsöguna eða ekki, varð eg að fá fulla vitneskju um, hvort Franziska Sutherland væri í hættu stödd eða ekki. Skildi eg því Litla-Karl eftir að gæta hestanna, en steig sjálfur í bátinn og lagði út á Assiniboine-ána rétt fyrir neðan strengina. Eg reri hratt með

straumnum og hélt mér við syðri bakkann þar sem pílviðarrunnarnir skýldu ferð minni.

Þegar eg sneri inn á Rauðána sá eg ekkert nema sótuga reykháfa og hálfbrenda veggi Gibraltar-virkisins, og sannaðist þar sagan, sem skógbrennu-mennirnir sögðu mér. Þá lagði eg yfir að bakkanum gagnvart Douglas-virki, þræddi fast með fram klöppinni og varð að eiga það á hættu að móðan skýldi ferð minni. Þannig komst eg fram hjá fall-byssukjafti, sem gapti ógnandi við frá kaupstað Hudsonsflóamanna. Síðan reri eg aftur að vestari bakkanum, sem var víði vaxinn og þreytti róðurinn rösklega þangað til eg sá glitta í ofurlítið hús, hvít-þvegið utan, er stóð inni í lundi hárra trjáa. Eg þóttist vita, af frásögn Franzisku, að þetta var heimili föður hennar.

Eg festi bátinn þar sem eg kom að landi, en nenti ekki að leita að troðnum stíg upp á bakkann, heldur greip eg í greinarnar, sem slúttu fram og vóg mig upp á bakkann. Þegar þangað kom, stóð eg að heita mátti, rétt á móti húsdyrunum. Hvergi var þar ljós að sjá í glugga. Einhver óljós kvíði gagntók mig. Hafði vofan, sem mér virtist eg sjá í kofa mínum hjá Mandönunum, verið fyrirboði einhvers ills? Hafði eg ekki margoft lesið það, að svipir látinna ástvina væru á sveimi í kringum þá, sem þeim hefðu verið kærastir? Eg háfði ekki hugrekki til að hugsa þessa hugsun til enda.

Alt í einu voru dyrnar á húsinu opnaðar. Eins og í einhverju fáti hopaði eg inn í runn rétt hjá, en

þá fól myrkrið sjónum þessa mannlegu veru, sem eg hafði séð koma út. Eg vissi að hún var að nálgast mig, þó að hún færi svo hljóðlega, að enginn hávaði heyrðist. Eg fann það á mér, fremur en að eg gæti heyrt það, að það var hún, sem var að koma. Eg vissi, að enginn annar gat farið jafnhljóðlega. Það hlaut að vera kvenmaður. Þá varð mér þröngt um andardráttinn og eg gat glögt heyrt hjartað berjast í brjóstinu á mér. Eg heyrði föt strjúkast við greinarnar rétt hjá mér, og sá nú hana, sem eg hafði verið að dreyma um vakandi og sofandi, nætur og daga, standa svo sem tvö skref frá mér.

Hún tók að fitla við grein á trénu, sem eg stóð á bak við og horfði löngunaraugum út á ána. Fyrst í stað hélt eg, að þetta væri ofsjónir, sem eg sæi, en eg stóð grafkyr, því að eg vildi ekki eiga það á hættu, að sýn þessi hyrfi mér. En svo andvarpaði hún svo að eg heyrði glögt, og þá vissi eg, að svo var sem mér sýndist. Við það kom enn meiri óstyrkur á mig, því að eg var hræddur um, að henni yrði hverft við að sjá mig þarna.

Eg fór að hugsa með mér, að eg skyldi bíða þarna þangað til hún sneri aftur heim að húsinu, og fara þá þangað á eftir henni, og berja að dyrum fyrirvaralaust; en eg þurfti á öllu viljaþreki mínu að halda til þess, því að hún var svo nærri mér, að eg hefði getað seilst til hennar, og mikil sjálfsafneitun var mér að gera það ekki.

"Æ–æ–æ!" var sagt með lágri röddu, sem var líkust silfurtærum lækjarnið, "en hvað þetta hefir

verið langur dagur — enn einn langur dagur, eftir allar þessar vikur og mánuði og nærri því heilan mannsaldur, finst mér, síðan—" og röddin þagnaði í þungri stunu.

Og hún steig óánægjulega ofan á mjótt sprek og braut það undir fætinum, svo að brakaði við.

"Mér geðjast ömurlega að þessu auðnar-landi," sagði hún aftur nokkuð ómjúklegar en áður. "Eg hefði gaman að vita, hvernig landið Mandananna er. Eg vona, að það sé eitthvað skemtilegra."

Eg held, að mér sé það tæpast láandi, þó að þetta tal hennar hefði þær verkanir á mig, að eg greip fastara um greinina, sem eg studdist við eins og ósjálfrátt, svo að brakaði í. Hún hrökk frá við hávaðann og sagði hálf-hátt:

"Hvað var þetta? En eg er samt hvergi hrædd." að vísu var enginn að ákæra hana. "Eg ætla þó ekki inn! Eg ætla ekki að láta hræða mig!" bætti hún við og stappaði þrisvar sinnum óþolinmóðlega niður fætinum, en þá sá eg að hún titraði.

"Eg verð að segja það, að húsið hérna er svo einmanalegt, að manni væri nærri því afþreying í því, að sjá hér vofu heldur en ekkert," mælti hún og leit rannsóknaraugum frá húsinu yfir að espilundinum. "Eg uni mér betur hér úti við að hlusta á froskana, uglurnar og leðurblökurnar, heldur en að sitja ein þarna inni, jafnvel þó að þessar skepnur kunni að gera mér hverft við. Hvað sem því líður, er eg ekkert hrædd nú. Það er heimskuleg veiklun þetta, sem við köllum hræðslu." en þó að hún segði þetta

leyndi það sér ekki, að töluverður beigur var í henni.

"Þetta fer versnandi með hverjum degi. Eg fer að þreytast, svo að eg þoli það ekki lengur, að horfa og horfa svona allan daginn, og horfa nærri því úr mér augun, og sjá ekkert nema Indíána, sem fara fram hjá. Hvernig stendur á því, að hann skuli ekki koma? Æ, eg er hrædd um, að eitthvað sé að."

"Ætli hún sé hrædd við Metisana?" sagði eg við sjálfan mig. Eg hélt að hún ætti við föður sinn. Það væri hann, sem hún væri hrædd um. "Það er ekki svo ólaglegt af föður hennar, að skilja hana svona eina eftir," hugsaði eg með mér. "Hún þyrfti þó að einhver liti eftir henni."

"Betur að hann vildi nú fara að koma", sagði hún lágt.

"Nei, eg vildi að hann léti það vera," sagði eg við sjálfan mig.

"Mig hefir dreymt svo illa undanfarið," hélt hún áfram. "Mér hefir þótt eg sjá hann vera að sökkva ofan í grænleita móðu; mér hefir þótt hann rétta hendur móti mér, en eg ekki ná til að bjarga honum.

"Á sunnudagsnóttina þótti mér hann vera að hlaupa eftir naumri klettabrún uppi yfir svörtu hyldýpi. Eg greip til hans, og reyndi að halda honum aftur, en hann dróg mig með sér, svo að eg rak upp hljóð og við það vaknaði eg. Og stundum dreymir mig, að hann sitji inni í dimmum helli og

mér vera ómögulegt að finna dyrnar til að opna fyrir honum. Stundum þykir mér hann liggja bundinn í dýflissu, og þegar eg lýt niður til að skera af honum böndin, þá þykir mér hann síga niður úr höndunum á mér, lengra og lengra, svo að eg missi af honum. Eg reyni að hlaupa á eftir honum og hrekk vanalega upp við það mjög ónotalega. Æ, eg þykist vita, að hann á eitthvað bágt. Eitthvað hlýtur að ganga að honum. Eg þori að segja, að hugur hans leitar hingað til mín, en eg er svo óskynsöm og heimsk, að eg get ekki orðið þess áskynja, hvað hugur hans vill tilkynna mér. Betur að eg gæti losað hug minn við alt hið hversdagslega, þá kynni eg að geta skilið, hvað hann vill mér. Mér finst því líkast, sem hann tali til mín á ókunnri tungu, og eg fæ ekki skilið orðin, sem hann mælir. Í allan dag hefir mér fundist hann vera rétt hjá mér. Hvernig stendur á því, að hann skuli ekki koma?"

"Þetta kalla eg nú að þykja vænt um hann föður sinn", tautaði eg við sjálfan mig. Síðan tók hún að þukla um föt sín; eg þóttist vita, að hún væri að leita að einhverju, og rétt á eftir kom hún með eitthvað, sem hún fól í lófa sínum.

"Ekki vildi eg láta hann vita, hvað eg er barnaleg," sagði hún og lagði þenna hlut, sem hún var með, upp að vanga sínum.

Nú er þess að geta, að eg hafði aldrei gefið Franzisku Sutherland nokkurn skapaðan hlut, og þung afbrýði lagðist að brjósti mínu. Það var engu líkara, fanst mér, en að eg stæði á þverhnýptri

hamrabrún, og að hún væri ekki að halda þar í mig, heldur að steypa mér fram af brúninni. Var þá ekki sennilegt, að eg hrykki upp við vondan draum? Öll hugsun mín varð óljós og ruglið, og því lengur sem hún fól þenna hlut við vanga sinn, því lengra lenti eg inn eftir dýflissu vonleysisins. Allir dagdraumar mínir urðu að engu og loftkastalarnir hrundu í rústir. Eg fann að vonbrigðin ætluðu alveg að buga mig. Og alt af hélt hún áfram að strjúka þenna hlut, sem hún hélt við vanga sinn. Mér sárgramdist það, og eg ímynda mér, að ef eg hefði getað komist burtu án þess að nokkur hefði orðið var við, þá hefði eg gert það; en eg gat það ekki, og varð að standa þarna á hleri, úr því að eg byrjaði á því, þangað til hún færi.

Nú opnaði hún lófann til að dást að þessu hnossi, sem hún var með; eg skreið nær til að reyna að sjá það, en gat ekkert séð í myrkrinu.

En svo tók hún til máls með svo blíðri og unaðslegri röddu, að hún hlaut að heilla jafnvel enn þá óskynsamari aula en mig: "Ástarkveðja til unnustu minnar, frá hennar heittelskandi og trygga riddara"; um leið og hún sagði þetta hélt hún hendinni hátt upp, svo að eg gat þekt birkibarkarskjöldinn, sem eg hafði sent henni á kveðju mína með séra Holland. Mig greip svo mikill fögnuður, að eg stóð sem höggdofa um stund.

"Hvar ertu, vinur minn?" spurði hún blíðlega.

Eg ímynda mér, að enginn geti láð mér, þó að eg stæðist þetta ekki lengur, en hlypi fram og

svaraði:

"Hérna, elskan mín!"

Hún rak upp hljóð, svo hverft varð henni við, og hefði sjálfsagt dottið, ef eg hefði ekki gripið til hennar, og kyst hana svo að hún sannfærðist um, að það var eg sjálfur, en ekki svipurinn minn, sem gerði vart við sig.

Eg man ekki, hvað við ræddumst við næst. Hún lét höfuðið hvíla á öxl minni og grét í sífellu, og eg gerði alt, sem maður getur gert til að stöðva grát hennar. Eg held helzt, að hvorugt okkar hafi getað sagt neitt fyrst í stað, svo æstar voru tilfinningar okkar. En hún varð víst fyrri til að ná sér.

"Þú ert óskynsamur maður, Rúfus," sagði hún og ýtti sér frá mér.

"Eg hefi aldrei haldið, að eg væri neinn gáfumaður," svaraði eg.

"Og ef þú heldur *þessu* áfram, þá hætti eg aldrei að gráta," svaraði hún.

"Jæja, blessuð gráttu þá alt af."

Hún setti á sig þóttasvip og hreytti í mig einhverjum ónotum.

Eg ætla ekki að skrásetja hér það sem við ræddumst við, það sem eftir var kveldsins. Í fyrsta lagi kom það engum öðrum við en okkur báðum; í öðru lagi er ekki hægt að skrá það, og í þriðja lagi var það okkur helgara en svo að eg vilji að það komi fyrir almennings sjónir.

Eg get þó sagt frá því, sem ekki telst til ástamála, því að stöku sinnum töluðum við um ofurlítið

annað en þau.

"Mér finst eins og óveður í loftinu," sagði Franziska einu sinni. "Kynblendingarnir eru mjög æstir í huga. Þeir ríða fram hjá bygðarmönnum í hópum á hverjum degi. Eg er hrædd um, Rúfus, að eitthvað sé að."

"Það getur verið," svaraði eg. Eg var að hugsa um fréttirnar, sem eg hafði fengið frá skógbrennumönnunum.

"Heldurðu að skógbrennumennirnir muni ræna báta ykkar?" spurði hún sakleysislega, og vissi ekki að hættuna var að óttast frá Norð-Vestmönnum.

"Nei," sagði eg. "Hvaða báta?"

"Nú báta Norð-Vestmannanna, þegar þeir koma upp Rauðána frá Fort William og halda upp eftir Assiniboineá með vetrarforða. Þeir koma hér eftir fáeina daga. Faðir minn sagði mér það."

"Er faðir þinn Hudsonsflóamaður eða Norð-Vestmaður?" spurði eg.

"Eg veit ekki," svaraði hún. "Eg held að hann hafi ekki gert sér grein fyrir því sjálfur. Hann segir, að fyrir mörgum sé þannig ástatt, en öllum sé þeim kunnugt um, að uppþot sé í vændum. Eg skal segja þér, Rúfus, að niður við ána eru menn á hverjum degi að njósna um hraðflutning Norð-Vestmanna frá Fort William."

"Hvaðan koma þeir menn?" spurði eg, því mig langaði til að fá eitthvert samhengi í þessar fréttir um uppþot af hálfu Norð-Vestmanna og væntanlegar árásir á flutningsbáta þeirra.

"Vitanlega frá Douglas-virki!"

"Frá Hudsonsflóamönnum, góða. Þú verður að fara strax til Douglas-virkis. Hér verður barist. Þú verður að fara trax í kveld með föður þínum, eða mér."

"Með þér?" endurtók hún hlæjandi. "Faðir minn kemur heim eftir eina klukkustund. Ertu viss um, að til orustu komi?"

"Já, alveg viss," svaraði eg, því að mér var órótt hennar vegna; eg var auðvitað ekki hárviss um að til ófriðar kæmi, en eg vildi vita hana óhulta.

Það get eg sagt með sönnu, að sjaldan hefi eg átt erfiðara með að gegna skyldu minni, heldur en í þetta sinn, er eg varð að skilja Franzisku eina eftir í dimma húskofanum þarna, sem var heimili hennar, en hraða mér af stað til að skýra félagi mínu frá ráni því, sem verið var að brugga.

Hvað eftir annað kvaddi eg og sneri ofan að bátnum, og hvað eftir annað sneri eg aftur, til að leggja henni einhver varúðarráð og fá tilefni til að kveðja hana enn einu sinni.

"Rúfus, elskan mín," sagði hún, "þetta er víst í tuttugasta sinni, sem þú snýr aftur. Nú verðurðu að fara."

"Jæja, vertu þá sæl í tuttugasta og fyrsta skiftið," svaraði eg og þaut af stað, eins og ungur prestur nývígður til einhvers heilags embættis.

— — — —

Eg lýsi yfir því hér eins og eg lýsti yfir því fyrir réttinum hér í landi, að eg hraðaði ferð minni til Portage í því skyni einu að láta félag mitt vita, að Hudsonsflóamenn hefðu í hyggju, að ræna hraðflutning okkar frá Fort William. Mér var kunnugt um, hvaða raunir menn höfðu ratað í í Athabasca sakir spjallanna, sem gerð höfðu verið í Souris, og fastréð, að félagar mínir skyldu ekki þurfa að svelta næsta vetur sakir hirðuleysis míns, um að færa þeim þessi tíðindi í tíma.

Var mér mögulegt að ímynda mér, að þessi viðvörun mín, sem virtist alveg sjálfsögð mundi geta orðið tilefni þeirrar óskapa refsingar, sem Hudsonsflóafélagið hafði daglega verið að innvinna sér?

---

## XXI. KAPITULI.

*Louis launar mér lambið gráa.*

Hvað hafði komið mér til að binda bátinn minn gagnvart Gibraltar-virki? Hvað er það, sem dregur fluguna til að fljúga í köngulóar-vefinn, og fiskinn í hinu mikla úthafi til að ganga í smáriðin net? Eg veit, að sumir hafa það sér fyrir afsökun þegar þeir hlaupa eitthvað á sig, að kenna óbreytanlegum forlögum um; en heilbrigð skynsemi bannar mér að kalla ilt gott, en sýnir mér gallana, og bendir mér á að vera þakklátur fyrir það, sem hendir mig fyrir bresti mína .

Berir staurar, reknir í jörð niður var það eina, sem eftir sást af Gibraltarvirkis-garðinum gamla. Eg hafði ekki gengið langt inn í þann garð, þegar eg heyrði raddir koma frá sandgröfinni, sem einu sinni hafði verið notuð fyrir kjallaraholu. Næsta sem eg sá, var ruddalega andlitið á Louis Laplante, sem kom upp úr gryfjunni. Franski maðurinn hafði augsýnilega verið að ræna þar gamlar kistur Norð-Vestmanna.

"Halló, kunningi!' hrópaði hann og hljóp upp úr gryfjunni þegar hann kom auga á mig. "Nú er eg, Louis Laplante, aðalsmanns sonurinn, risinn upp frá dauðum. Nú hefi eg eignast dáfallegan skilding. Einu sinni vorum við menn, en okkur var drekt í vínámu, eins og uppáhaldshundi eins enska prinzins. Nú erum við draugar, risnir upp úr gröfum! Við erum dvergar, jarðandar úr iðrum þessarar foldar, tra! la! Við erum blóðsugur, sem sjúgum í okkur blóð úr whisky-kjöllurum, og svífum svo til hæða með lömuðu vængjataki og höfuðsvima! Hlæðu nú með mér, gamli þumbaldi! Sjáðu hvernig alt hringsnýst. Hlæðu, segi eg, eða stattu þarna eins og staur, og eg ætla að dansa nokkra hringi kringum þig. Við erum blóðsugur kunningi, og þú ert frændi okkar, því að þú ert leðurblaka," og Louis hló að fyndni sinni, háan drykkjumannshlátur og kom rambandi til mín. Það var auðséð á augunum í honum, sem öll voru blóðhlaupin, hvað hann hafði fundið þarna í kjallaranum. Hann faðmaði mig að sér og hélt áfram að mala hina og þessa vitleysu.

"Jæja, eg sé þá, að hnífurinn hefir bitið," sagði hann. "Og Sioux-Indíánarnir hafa ekki etið þig til agna á eftir. "Hæ! hó! þeir hafa þó líklega haft góða lyst á þér, vona eg! En þú varst ekki skapaður til þess að verða villimönnum að bráð, þumbaldinn. Sumir menn eru eins og minnisvarðar. Einn þeirra ert þú. Sumir eru 'eins og kampavíns flöskur, sem tappinn hoppar úr í háa loft. Það er eg. Eg, Louis Laplante, aðalsmannssonurinn, er kampavínsflaska."

Nú þagnaði hann til að draga að sér andann, því að hann var orðinn móður af mælginni og reigðist aftur á bak mikilmenskulega.

Nú er það hverju orði sannara, sem Jack MacKenzie frændi minn sagði oft við mig, að hygnum og huguðum manni er stundum langráðlegast að flýja. Eg fór nú að sjá það á Louis, að hann var til allra hluta vís. En eg var nógu ógætinn til að egna hann fremur en halda aftur af honum.

"Það er meira vín í veggskápum Norð-Vestmanna. Vandinn er að eins að ljúka þeim upp."

"Eg er Hudsonsflóamaður, og sigurvegaranna verður herfangið," svaraði Louis kurteislega.

"Eg vona, að jafndrenglyndur sigurvegari eins og þú ert, noti sér ekki yfirburðina ómaklega. Manstu ekki hvernig þú bjargaðir lífi mínu tvisvar hjá Sioux-Indíánunum, Louis?"

"Göfuglyndur!' 'hrópaði franski maðurinn og rétti úr sér; "já eg er göfuglyndur við óvini mína. Það hefi eg alt af verið, eins og sönnum aðalsmanns-

syni sæmir. En nú ætla eg aftur að launa þér lambið gráa."

"Þvættingur, Louis!" sagði eg. "Eg á þér gott að gjalda og gæti ekki tekið á móti þér, ef þú færir að sýna mér illindi. . ."

"Ekki um annað að gera. Stattu þarna, og nú skulum við eigast við. Við verðum að berjast, svo að eg geti hefnt mín, af því að þú barðir mig áður, aðalsmannssoninn, eins og grís."

Í þessum svifum þustu eitthvað tólf druknir dólgar upp úr kjallaragryfjunni, og eg þóttist nú geta séð, að eg gat átt von á öllu illu. Þessir piltar röðuðu sér nærri því í hring umhverfis okkur, og eg sá, að nú, að of seint var fyrir mig að flýja.

"Sökkvið þið bátnum hans," sagði einn, og var það gert jafnskjótt.

"Þorðu að berjast, þorpari, því að nú skaltu fá makleg málagjöld," sagði Louis. "Heldurðu að eg, aðalsmannssonurinn, geti barist við mann, sem ekki þorir að taka á móti?"

"Og hvernig á eg að geta barið mann, sem bjargaði lífi mínu?" sagði eg og reyndi að sefa hann. "Sjáðu til, Louis, eg er í sendiför fyrir félag mitt í kveld. Eg get ekki beðið. Einhvern tíma seinna geturðu "launað mér lambið gráa", eins og þú segir, — ekki í kveld, einhvern tíma seinna —"

"Einhvern tíma seinna! Nei, þakka þér fyrir! Einhvern tíma seinna — þannig fer oftast nær fyrir mér, þegar eg þarf að hefna mín á einhverjum; eg ætla að gera það einhvern tíma seinna, og svo verður

ekkert af því! Nú ætla eg að hafa það öðru vísi, kunningi. Eg þekki of vel þetta einhvern tíma seinna. Ef eg sleppi þér núna, þá sleppi eg þér fyrir fult og alt. Aldrei verður neitt úr neinu fyrir mér. Eg ætla að skilja við Indíána einhvern tíma seinna, en svo verður ekki neitt úr því. Eg ætlaði að fara heim einhvern tíma seinna og lækna mig við drykkjuskap, en svo verður aldrei neitt úr því. Eg ætlaði að kvongast einhvern tíma seinna og verða mikill maður, en úr því verður aldrei neitt!"

"Vertu sæll, Louis! Eg þarf að fara erindum félags míns. Eg verð að fara," hrópaði eg og reyndi að ryðjast gegn um hópinn.

"Sama er að segja um okkur, við höfum að gegna erindum Hudsonsflóa félagsins, og þú getur ekki farið héðan," sagði einn félagi Louis, sá er minst sýndist ölvaður, og um leið færði hann sig nær mér, svo að eg hafði ekki einu sinni höggfærisrúm.

"Eruð þið, piltar, að stofna til illinda?" spurði eg og tók á skammbyssubeltinu mínu.

"Nei, við erum að líta eftir bátaflota Norð-Vestmanna, sem er á leiðinni frá Fort William til Athabasca," sagði sá sem djarfmæltastur var, rauðeygur miðaldra maður, þrútinn í andliti. "Við erum að bíða eftir hraðflutningi Norð-Vestmanna," sagði hann og hló hæðilega.

"Eg hélt samt, að þið byggjust ekki við að rekast á bátaflota okkar í kjallara Gibraltar-virkis," sagði eg og hörfaði aftur á bak undan þeim, en stakk

hjá mér þessum fréttum eins og nýrri sönnun fyrir samsærinu.

Alt í einu fann eg, að gripið var um báða handleggina á mér heljartaki, og um leið var brugðið á mig böndum með snarræði, sem slöngvivaði væri kastað. Fyrst kom mér í hug að streitast í móti, en eg var nú farinn að sannfærast um það, að ráðkænska var úrslita-drýgri í óbygðunum heldur en ofbeldi. Nú hafði eg heyrt það með eigin eyrum, að þeir ætluðu sér að ráðast á flutningsbáta okkar á norðurleið.

"Þá hafið þið nú náð mér," sagði eg hlæjandi, "og hvað á nú að gera við mig?"

Þeir svöruðu engu en hröðuðu sér með mig niður að lendingunni hjá virkinu, og leiddu þeir mig á milli sín Louis og maðurinn með rauðleita andlitið.

"Þetta kalla eg skammarlega að farið Louis," sagði eg. "Þú ert að koma mér í dálaglegan bobba, með þessu heimskulega áfergi í að ná þér niðri á mér fyrir ímyndaðar sakargiftir. Þetta kalla eg að bjarga mús undan tígrisdýri og leggja hana fyrir kött. Það er ekki ósnoturt aðalsmannsmótið á þessu."

"Vanþakklæti! Skammarlegt vanþakklæti og annað ekki," tautaði franski maðurinn, "ef eg væri ekki aðalsmannssonur, en þú í böndum, þá skyldir þú fá að gjalda fyrir þetta. Ef þú þorir ekki að

berjast, þá skaltu þó ekki komast burtu—"

"Farðu frá, franski gortari!" sagði sá Hudsonsflóa maðurinn, sem minst var drukkinn og hratt Louis frá sér. "Hér verður hvorki um barsmíð eða brotthlaup að ræða. Við förum með þenna njósnara beint til Douglas-virkis."

Mér sveið þetta, en lét þó ekki á mér finna.

"Eg er þess fús," svaraði eg, og kom í hug, að ef þau væri þar Franziska, Eiríkur og séra Holland, þá yrði fangavistin þar viðunandi. "Eg er fús að fara þangað; það er ekki í fyrsta sinni, sem mér mun verða fagnað af vinum í Douglas-virki."

Þegar maðurinn með rauðleita andlitið heyrði þetta, hvesti hann á mig augun. Við stigum síðan allir í bátskrífli, mesta manndrápsbolla, sem stór furða var að við komumst lífs frá.

Louis Laplante var ólmur í að ganga á hólm við manninn, sem hafði kallað hann "franskan gortara", og varð ekki af því skekinn fyr en kænan lagðist svo á hliðina, að hana hálffylti. Þá var eg settur í hana miðja og hinir röðuðu sér á bæði borð til að reyna að halda henni á réttum kili. Mér er enn óskiljanlegt, hvernig við komumst lífs af út í Rauðá. Mennirnir stjökuðu sig áfram með forkum, og þegar við vorum komnir miðstreymis var látið reka sem hægast undan straumnum. Dimt var orðið löngu áður en við komum í nánd við Douglas-virki, og var

á vatninu að sjá glerlitan bjarma, sem minti mig á dökka vatnslitinn við bifurbrúna. Samt sem áður var eg óskelfdur og hafði ekkert hugarangur af þessari óvæntu handtöku minni. Náttúran er svo samúðarrík, að hún setur þjáningaþoli mannsins viss takmörk, og eg vissi, að eg var nú kominn að því takmarki. Ekkert verra gat komið fyrir mig, en það, sem eg hafði reynt áður, svo að eg beið kaldur og rólegur þess, er mér kynni að höndum að bera í virki Hudsonsflóa-félagsins. Alt í einu sást ljósrönd falla á myrkan flöt elfinnar og mennirnir tóku að stjaka kænunni að bryggju virkisins. Við lentum með snöggum árekstri, stigum á land, fórum fram hjá dyraverði virkisins og vorum innan stundan komnir inn í herbúðir Hudsonsflóamanna.

"Hér sparkaðirðu í mig," sagði Louis. "Hér læt eg þig líka fá makleg málagjöld."

"Hvað ætlárðu að gera við hann?" 'spurði sá maðurinn sem minst var drukkinn, þann með rauðleita andlitið.

"Eg ætla að afhenda Semple landstjóra hann."

"Landstjórinn er háttaður, og svo get eg ímyndað mér, að þeim sé enginn þægð í að láta hann heyra leyndarráðsályktanir félags vors viðvíkjandi komu bátaflota Norð-Vestmanna. Eg held þér væri betra að láta renna af þér. Það vil eg ráðleggja þér, áður en þú finnur Semple landstjóra," sagði

veiðimaðurinn og fór á undan inn. Móti dyrum lá aðalstiginn upp á loft, til hægri handar lokað geymsluherbergi en til vinstri herbergi þar sem landstjórinn hafði látið búa sér skrifstofu. Nú vildi svo til, að hurðin á skrifstofunni stóð í hálfa gátt, eins og til að bjóða óhappamönnum til að gera af sér óskunda. Louis læddist á undan að opnu hurðinni. Hann var alt af fús til óhappa, teygði höfuðið inn fyrir stafinn og benti félögum sínum að koma á eftir inn í skrifstofu Semple landstjóra. Þar brann ljós inni. Eg var nauðbeygður að fylgjast með út í þessa vitleysu. Maðurinn með rauðleita andlitið ýtti mér á undan sér. "Þér er bezt að koma, annars verður ilt úr því!" sagði hann, og innan stundar vorum við allir komnir þarna inn og hurðin lokuð á eftir okkur.

Eg er viss um að bæjarfólki, sem alist hefði upp við allsnægtirnar eystra mundi hafa virst skrifstofa þessi auðvirðileg. En þessir menn, sem nú komu þar inn, höfðu svo lengi verið án allra þæginda siðmenningarinnar, án leðurstóla, mjúkra legubekkja, veggspegla, vínflaskna og annara þæginda slíkra, að þeim fanst eins og þeir væru komnir í annan heim.

"En sú auðlegð," sagði sá maðurinn, sem minst var drukkinn.

"Þetta er dásamlegt. Sjáið þér, monsjör Louis Laplante," sagði franski maðurinn, er honum varð

litið á sig í speglinum, og síðan tók hann til að snúa upp á yfirskeggið á sér þangað til endarnir stóðu út á við með jafnri beygju, eftir nýjasta Parísarmóð.

Maðurinn með rauðleita andlitið hafði leyft sér að ganga þvert yfir gólfið og setjast á mjúka legubekkinn; eg var að vísu bundinn á höndum. Sjálfur settist hann í hægindastól landstjórans og tók að reykja úr einhverri beztu pípunni hans.

"Við erum æfintýra herrar," sagði hann, "æfintýraherrar Hudsonsflóa- félagsins," og um leið rak hann bilmingshögg í borðið. "Við fastráðum það hér með, að flutningabátarnir frá Fort William verði rændir, að whisky verði veitt ókeypis öllum Hudsonsflóamönnum, sem nú eru þurbrjóstaðir, að Norð-Vestmenn verði sendir niður Rauðá á smákænum, að þessi fundur samþykki þessa ályktun, eftir að stungið hefir verið upp á, stutt— og í einu hljóði samþykt fundarályktun."

"Fundar frestun," hefirðu víst æt'að að segja," sagði einn félagi hans.

"Heyrið þið piltar!" kallaði annar, "hvernig farið þið að vita hvort er hér glugginn og hvort er spegillinn?" og hann horfði á víxl á gluggann og veggspegilinn, sem voru hver andspænis öðrum og líkir að breidd og hæð.

Þeirri gátu var ósvarað; en í þessum svifum fann Louis Laplante vínflösku og tók að miðla fé-

lögum sínum úr henni mjög örlátlega — en ekki gekk þeim betur eftir en áður að ráða gátuna um gluggann og spegilinn. Fyndni drukkinna manna kann að virðast þeim skemtileg, en svo er sjaldnast um ódrukna, og mér sárleiddist að hlusta á hana.

"Ætli landstjórinn komi hingað ekki bráðum, Louis?" sagði eg.

"Þér er farin að leiðast þögnin og þumbaldahátturinn, ha! ha! Þig er farið að langa til að verða kampavínsflaska!" hann hló hátt og riðaði enn meir á fótunum en áður.

"Ef þú kemur ekki undan þessari flösku," sagði eg, "þá fáið þið ofanígjöf á morgun." Eg stóð á fætur til að reyna að hafa þá út úr skrifstofunni, en ódrukkinn maður bundinn á höndum, er ekki líklegur til að koma miklu til leiðar, við hóp af augafullum uppvöðsluseggjum.

"Hæ!' hó! vitringurinn—hv-ar sky-ll-di eg eig-a að fela – hana – hvar – þá?"

"Fleygðu henni út um gluggann," sagði eg án þess að koma til hugar, að leika á hann minstu vitund.

"Hvort – er – gluggi-nn, Rúfus?" spurði Louis með ákefð .

Þegar hér var komið var Louis að tapa glensinu og í þann veginn að slá í illindi, þegar hver vildi; eg sá það. Má vera, að meðvitundin um það, eða

óbilgirnin, sem lá þarna í loftinu, hafi hvatt mig til þess bragðs, sem eg tók nú til.

"Fleygðu henni út um gluggann," sagði eg og lézt ekki taka neitt eftir spurningu hans.

"Hvort – er – glugginn – bölv......?" spurði hann og veifaði flöskunni óviss um hvort hann ætti að fleygja henni.

"Mér – sýnist – hvorttveggja – gluggar," sagði maðurinn, sem minst drukkinn hafði verið, en var nú orðinn jafnfullur hinum.

"Fleygið henni út um gluggann að baka til, svo að fólk sem kemur inn að framan sjái hana ekki."

Maðurinn með rauðleita andlitið fór að leita fyrir sér, og nú hélt eg að ráð mitt ætlaði að engu haldi að koma; en ljósið logaði dauflega, og maðurinn gat ekki gert upp á milli gluggans og spegilsins.

"Þetta þarna er gluggi," sagði hann og klóraði sér í höfðinu og horfði á gluggaumgerðina, sem kom glögt fram í speglinum.

"Og þarna er gluggi líka," sagði hann og benti á sjálfan gluggann. "Hvorttveggja er gluggi, og hvorttveggja er spegill, því að eg sé alt í báðum. Hér hlýtur að vera reimt. Lofið þið mér út!"

"Eg slæ þig," hrópaði Louis og otaði að honum flöskunni, "eg slæ þig nema þú segir mér, hvort er – glugginn."

"Hvorttveggja gluggi og hvorttveggja spegill,"

stundi maðurinn.

Hinir mennirnir komust hjá að taka þátt í deilunni, af því að tveir þeirra voru sofandi, en hinir með öllu ófærir af drykk.

"Heyrðu, Louis," sagði eg, "eg sé ekki nema einn veg, til að fá fulla vissu um, hvort henda megi flöskunni."

"Jæja, Rúfus!" svaraði hann og kom til mín alúðlegur eins og eg væri eini vinurinn, sem hann ætti á jarðríki.

"Flaskan gengur í gegn um gluggann, en ekki gegnum spegilinn," sagði eg.

"Vitaskuld, — eg þarf ekki að spyrja þig að því," tautaði hann með grátstaf í kverkunum.

"Ef þú vilt losa mig við þetta," sagði eg og benti á böndin, þá skal eg komast að raun um, hvort opnast, og þar geturðu svo hent út flöskunni."

"Ágætt, Rúfus, þú ert – alt af – jafngáfaður – – gamli – góði – vinur," sagði hann og skar af mér böndin í snatri.

Eg ætla engar afsakanir að færa fram fyrir því, sem eg gerði. Eg hefði getað opnað gluggann og snarast út um hann áður en þeir hentu flöskunni, án þess að koma Louis og félögum hans til að vinna fleiri óhöpp; þó gerði eg ekki það, sem nú skal greina, til að hefna mín á landstjóranum og félagi hans, heldur af einhverri óstjórnlegri óbilgirni, sem

hafði gripið mig. Þorpararnir höfðu líka tafið fyrir mér fram undir miðnætti, og eg gerði mér enga samvizku af því, þó að hver þeirra um sig fengi að sitja sólarhring í fangelsi á eftir. Eg tók að skoða gluggakistuna vandlega. Eg þóttist sjá, að mér mundi takast að komast gegn um gluggann með gluggagrind og alt saman á svipstundu.

"Flýttu þér, dauðýfli — landstjórinn er að koma," orgaði Louis.

Eg fór yfir að glugganum og tók að þukla á gluggagrindinni.

"Þetta er ómögulegt að opna," sagði eg og það var satt, því að eg hafði ekki reynt það. Síðan fór eg yfir að speglinum. "Ekki gengur mér það betur hér," sagði eg svo.

"Hvað – eig–um við – þá að – taka – til bragðs, – Rúfus?"

"Það skal eg segja þér. Það er hægt að stökkva út um glugga, en ómögulegt að stökkva út um spegil. Nú skuluð þið telja – einn – tveir – þrír," sagði eg og sneri mér að manninum með rauðleita andlitið, og þegar þið segið þrír, ætla eg að hlaupa til og stökkva; ef eg hopa frá og kemst ekki út, þá vitið þið, hvort glugginn er og kastið þangað flöskunni. Til að telja?"

"Einn!" sagði maðurinn með rauðleita andlitið.

Louis reiddi upp flöskuna til kasts.

"Tveir."

Louis reiddi handlegginn enn hærra.

"Þrír!"

Eg hljóp til og lézt hörfa frá aftur. Í því reið flaskan með háum hvelli í spegilinn og glermulningurinn út um alt. Gluggagrindin lét undan mér í sömu svifum og eg stökk niður á jafnsléttu og þaut fram hjá verðinum, sem sendi mér ómjúkar kveðjur, en festi ekki hönd á mér.

---

## XXII. KAPITULI.

### *Dómsdagurinn.*

Það er jafnóviturlegt að egna til Indíána eins og óargadýr. Það er hvorttveggja hættulegur leikur, sem hlýtur að illu að verða. Skinnaverzlunarfélögin miklu komust að raun um það. Þau höfðu hvort um sig undirokað Indíánana og reynt að nota þá, alt hvað þau gátu, til óhagnaðar keppinaut sínum, og nú fengu þau að súpa seyðið af því ráðlagi.

Eg er Norð-Vestmaður og eg lít að sjálfsögðu svo á, að Hudsonsflóa-félagið hafi með lagalausu atferli sínu, síðustu þrjú árin, verið að egna hina innfæddu til harmleiks þess, er gerðist 19. Júní

1816. En vitaskuld er það flokksmanns-skoðun. Það er fullyrt, að bæði félögin hafi sagt mjög ósatt frá afleiðingunum, sem urðu af deilum þeirra. Sannleikurinn er sá, að bæði Hudsonsflóa-félagið og Norðvestræna félagið egndu Indíána til illverknaðar. Fyrir því var það auðskilið, að þau vildu hvort um sig reyna að skella skuldinni á annað.

Mér er t. d. sagt, að Hudsonsflóamenn hafi enga hvöt haft til að ræna bátaflota Norð-Vestmanna, sem átti að leggja leið sína upp Rauðá, Assiniboine-á og inn í óbygðir — og þessu hefir verið haldið fram, þó að það væri á allra vitund, að keppinautar vorir höfðu rænt öll virki Norð-Vestmanna, sem þeir höfðu treyst sér. Eg skal kannast við það, að Norð-Vestmenn vilja bera á móti því, að þeir hafi átt nokkurn þátt í að hvetja þau þrjú hundruð skógbrennumanna til áhlaupa, er fóru til Portage, en það kemur ekki vel heim við allan herbúnað þessara manna, er þangað flyktust, til að verja flutningsbáta, Norð-Vestmanna. Ekki kemur það heldur vel heim við það, að mikill sægur Indíána þyrptist að okkur, og fylgdi okkur eftir, eins og hræfuglar, sem vilja ná í sinn hluta á orustuvellinum. Bæði félögin voru búin til bardaga. Bæði höfðu þau bógana í stríðsbyssunum spenta. Ekki þurfti nema lítinn neista til að hleypa af fyrsta skotinu.

Þær skjótu afleiðingar urðu af komu minni til

Portage, að tveir flokkar hraustra skógbrennumanna voru sendir þvert yfir landið, til að mæta bátaflotanum frá Fort William, áður en hann kæmi til Douglas-virkis. Þeir áttu að sjá um, að flutningurinn yrði tekinn af bátunum og borinn yfir land og yfir á tanga við Assiniboine-á, þar sem hann yrði aftur fermdur á báta. Eg var í öðrum þessum flokki. Mér var mjög ríkt í huga, að ná fundi Eiríks Hamilton. Fleiri vonaði eg og að finna í Douglas-virki, svo að eg kjöri heldur að fara, en að vera eftir í Portage, þó að eg hefði nú verið á hestbaki í samfleytta tuttugu daga.

Það verð eg að játa, að mér leizt ekki á blikuna þegar við lögðum af stað. Indíánarnir, sem á eftir okkur komu og fylgdu flokknum, urðu æ fleiri og fleiri, og höfðu þeir málað sig ógurlega og voru sem búnir til bardaga. Þar voru augsýnilega ernirnir. En hvar voru hræin? Þessir illuðlegu förunautar, brennandi af hefndargirni og blóðþorsta, voru sýnilegt tákn væntanlegra hryðjuverka. Kynblendingarnir voru og æstir og órólegir mjög.

Litlu eftir að við hurfum af Assiniboine-veginum og stefndum norður til Rauðár, til að komast til móts við bátaflota Norð-Vestmanna, þá drógust nokkrir úr okkar hópi aftur úr, og slógust í ferð með Indíána-skrílnum. Þegar þeir komu aftur, voru þeir búnir hervopnum hinna innfæddu með bardagaaxir

miklar og skammbyssur, svo að ekki var neinum árennilegt, að ráðast á sendisveit okkar. Það leyndi sér ekki, að mennirnir voru í illum hug. En nú ætla eg að taka það fram, að mjög ákveðnar skipanir höfðu verið gefnar um það, að flokkurinn ætti að forðast að koma nálægt Douglas-virki, til þess að firrast skærur. Í okkar flokki voru röskustu skógbrennumennirnir, sem til voru í þjónustu félagsins, og yfir þá var settur Cuthbert Grant, hinn þrautreyndi foringi, er manna líklegastur var til að hafa taumhald á þeim, ef á þyrfti að halda. Sex skrifarar voru með í förinni, en hvað myndu svo fáir menn megna að halda hinum blóðþyrstu Indíánum og kynblendingum í skefjum, ef þeir á annað borð vildu bregða á sitt ráð?

"Hvern fjandann hafa þessir þorparar fyrir stafni?' hrópaði Grant reiðulega, þegar við vikum af veginum við ána, og héldum yfir mýrlendið hinsvegar við Douglas-virki. Fylgdarlið okkar kom á eftir í óskipulegum tíningi. Fyrstu hópar skógbrennumannanna, sem þegar höfðu krækt fyrir fenin, voru nú komnir inn í bygð á Rauðárbakkanum. Það var við þá að Grant átti. Hann nam staðar, lyfti upp kíki sínum og horfði vandlega í hann um stund.

"Það er eitthvað ilt á seyði," sagði hann. "Hérna, líttu í kíkirinn Gillespie," og rétti mér kíkirinn. "Eg get ekki betur séð, en að við séum komn-

ir út í ógöngur," bætti hann við.

Nýlendumennirnir voru heldur en ekki komnir á skrið. Vögnum með uxum fyrir var ekið á fleygiferð áleiðis til Douglas-virkis. Þar á eftir fylgdi hópur karla, kvenna og barna, sem æddi áfram eins og sauðahjörð undan úlfum. Það eitt var víst, að fylgdarmenn okkar höfðu ekki gert þeim neinn óskunda, því að eg sá ríðandi fylgdarmenn okkar fara í hægðum sínum áfram þangað til þeir hurfu inn í skóginn.

"Hræddir! Lafhræddir! Annað ekki, Grant," sagði eg. "Eg skil ekkert í þessum tröllasögum, sem verið er að segja af skógbrennumönnunum hér í grend við nýlenduna."

"Og þú hefir enga hugmynd um sögurnar, sem af þeim ganga inn í nýlendunni, ungi maður," sagði Grant önuglega.

Af tilviljun hafði eg komist að því, eins og lesandanum er kunnugt, en eg mintist ekki á það við Grant.

"Kannske þeir hafi handsamað nokkra af þessum náungum, og hafi þá í haldi, til að gera virkisbúa deigari í sókninni meðan við erum að ná í svínakjötið okkar af bátunum, og koma því á öruggan stað," sagði eg.

"Ef þeir hafa gert það, þá fá þessir Hálendingar víst hæfilega refsingu," svaraði Grant þykkju-

þungur.

En hér skjátlaðist honum; því ekki var þeim mönnum, sem forhleypisliðið handtók gert nokkurt mein. En Grant var áhyggjufullur mjög. Hann var því þá ekki vanur; og síðan hefi eg verið að geta mér þess til, að það hafi verið afsökun þess, að hann vissi gerr skap skógbrennumannanna, heldur en eg, eða fór nær um það.

"Það væri að vísu ástæða til að vera órólegur, ef þú værir eigi hér til að halda þeim í skefjum," sagði eg.

"Hvað má einn-maður við þenna sæg? Hvað get eg gert?" spurði hann þurlega.

"Hvað geturðu? Náttúrlega gerir þú það, sem þú varst sendur til að gera. Hvað er það?"

Yfirbragðsdökka andlitið á honum var alt í einu orðið náfölt, og hann steinþagði.

"Drottinn minn. Er þér ilt maður?"

"Nei, mér er ekkert ilt, en mig dreymdi í nótt—að — mannabúkar lágu alt umhverfis mig. Eg hélt að eg væri í kirkjugarði eða—"

"Herra trúr, hvað er að heyra þetta, Grant. Blessaður láttu þetta ekki á þig fá! Þetta sæmdi okkur viðvaningunum. Við skulum ekki hugsa meira um þetta, en hraða ferðinni, ná í farangur bátamannanna og koma honum á óhultan stað."

"Já, sjálfsagt," sagði Grant og gaf skipun um

að halda áfram, en fór afarhægt, því að eg held, að hann hafi viljað gefa nýlendumönnunum sem mest svigrúm, til að komast undan til virkisins.

Þegar klukkan var orðin fimm um kveldið vorum við nærri komnir fyrir endann á feninu og stefndum yfir á skógivaxinn árbakkann. Þaðan var ekki nema örskamt þangað er nýlendumennirnir höfðu aðsetur. Þeir þutu framhjá og hrópuðu óttaslegnir: "Kynblendingarnir! Kynblendingarnir!"

Í sömu svifum heyrði eg Grant hrópa reiðulega:

"Lítið á! Lítið á! Lömbin eru að flýja undan úlfunum!"

Enn í dag skil eg ekkert í því sem gerðist hér á eftir. Eitthvað milli tuttugu og þrjátíu Hudsonsflóamenn — flestir þeirra unglingar — komu með miklum hraða í móti okkur og bjuggust til að verja okkur árgötuna, við víði vaxinn tanga, sem nefndur er Seven Oaks. Óskiljanlegt er mér hvað þessi skrílhópur gat búist við, að hann mætti sín móti miklum flokki vopnaðra manna. Þetta frumhlaup þeirra var bæði óvænt og angurgapalegt. Ekki gat okkur komið til hugar, að nýlendumennirnir jafnhræddir og þeir voru, hefðu komið frá sér neinum fréttum um árásir á þá, eða að þessi vesæli hópur ætlaði sér þá dul að fara að verja þá. Ef sú hefir verið ætlun þeirra, hvaða fyrirhyggja var þá í þessu atferli? Hvað voru þeir að hugsa, að fara út úr virki sínu

þegar hætta var á ferðinni? Eg held helzt, að þessi litli hópur hafi verið svo upp með sér af drjúglæti Selkirks lávarðar um að leggja allan Rauðárdalinn undir yfirráð Hudsonsflóa félagsins, að þessi fámenni hópur teldi sér vel fært að ráða niðurlögum skógbrennumannanna; að einhverju leyti má ef til vill um kenna reynsluskorti Semples landstjóra; þegar í byrjun virtist það auðsæ ætlun þessara fáu manna að hefta ferð okkar, og alls ekki á friðsamlegan hátt. Hudsonsflóamenn fóru hvatvíslega af stað, er þeir leituðust við að hefta ferð okkar, en eigi verðum við heldur réttlættir með því að hafa tekið því hyggilega; við litum svo á, sem nú ætti að verja okkur að komast niður að ánni og vernda bátaflota okkar.

Nú er það var komið fram, sem Grant hafði óttast, þá var alt hik horfið af honum. Nú var hann orðinn kaldur og rólegur eins og góðum leiðtoga bar að vera. Indíánar og kynblendingar þutu nú fram fyrir flokk okkar og stefndu mót Hudsonsflóamönnum. Í því gaf Grant skipun og fylkingin veikst í boga, en auðheyrt var á liðinu, að það hlýddi með nauðung. Skógbrennumennirnir þeystu fram og aftur, börðu hesta sína ákaft og steyttu reiðulega hnefana gegn mótstöðumönnum sínum.

Samt þokuðust báðir flokkarnir hvor nær öðrum. Sáum við að Semple landstjóri var í broddi Hudsonsflóamanna. Rétt á eftir var Boucher skrifari, einn í liði Norð-Vestmanna, sendur til að ávarpa

andstæðinga okkar. Nú lít eg svo á, að Norð-Vestmenn mundu ekki hafa gert það, ef þeir hefðu haft ilt í huga. Boucher reið fram og kallaði:

"Hvert er erindi ykkar? Hvað viljið þig?"

"Hvert er erindi ykkar sjálfra?" spurði Semple landstjóri með miklum þjósti.

"Við viljum hafa virkið okkar," svaraði Boucher; það kom hik á hann, en hann hafði augsýnilega reiðst. Hestur hans hringsnerist og prjónaði rétt frammi fyrir landstjóranum.

"Farið til virkisins ykkar! Farið þangað!" svaraði Semple landstjóri fyrirlitlega.

Við sintum þessu ekki meir heldur en þó hann hefði skipað okkur að fara til Gehenna, því að við vissum gerla að virkið var eytt.

"Asninn sá arna! Asninn sá arna!" tautaði Grant. "Það er bezt að hann ábyrgist afleiðingarnar. Blóð þeirra komi þeim í koll."

Nú verð eg að viðurkenna, að eg gat ekki gert mér grein fyrir því mitt í öllum æsingnum, sem varð, hvort skógbrennumennirnir, reittir á ný til reiði af orðum landstjórans, þrengdu að hinum á móti fyrirskipunum Grants, eða ekki. En það er víst, að á meðan stóð á orðasennunni milli Semple landstjóra og Bouchers, skrifara okkar, umkringdu liðsveitir okkar þenna litla hóp Hudsonsflóamanna. Eg þóttist geta þekt í þeim hópi nokkra þá menn, sem eg hafði kynst þegar eg var fluttur handtekinn til Doug-

las-virkis, en skógbrennumennirnir ruddust að svo fast, að erfitt var að sjá nokkuð ítarlega.

"Þrælmenni!" hrópaði Boucher hátt alveg tryldur af reiði og miðaði byssu sinni beint á landstjórann; "þrælmenni! hvernig dirfistu að eyða virkið okkar!"

"Kallaðu á hann, Grant; kallaðu á hann," sagði eg, því eg sá að Boucher gat engu góðu til vegar komið; en Grant heyrði ekki hvað eg var að segja.

"Kvikindið þitt!" tautaði Semple landtsjóri lágt. "Dirfist þú að álasa mér?" og um leið greip hann í beizlistaumana hjá Boucher, svo að hesturinn hoppaði aftur á bak.

"Takið þenna mann fastan!" hrópaði landstjórinn. "Takið hann fastan undir eins."

Boucher spratt þegar á fætur og miðaði byssunni yfir hest sinn.

Um það verður ekki sagt með vissu, hvort heldur var, að vígfúsir sveitungar okkar héldu að Hudsonsflóamenn hefðu skotið á Boucher, er hann fór af baki, og ruddust fram til að hefna hans, eða þeir stóðust ekki það, er Holt, lautenant í liði Hudsonsflóa manna, hleypti af byssu sinni viljandi eða óviljandi.

En eins og við manninn væri mælt ruddust þeir sveitungar okkar af baki, fóru í hlé við hesta sína og skutu á andstæðinga okkar. Óróinn og hræðslan, sem greip hestana við þessa skothríð, jók enn meir á hávaðann og ókyrðina. Hudsonsflóamenn æptu í móti,

en ómögulegt var að heyra hvað þeir sögðu fyrir háreystinni í Indíánunum. Einu sinni heyrðist mér eg geta þekt rödd eins þess sem hrópaði þarna, og hún minti mig á hæðnishláturinn, sem eg hafði heyrt við varðeldana við vísundaveiðarnar, en eftir það drukknuðu allir skilgreinanlegir hljómar í ósköpunum og morðorgum Indíána skrílsins, og sléttan flekkaðist blóði saklausra manna.

Grant ruddist fram í milli skógbrennumannanna og krafðist þess, að þeir stöðvuðu áhlaupið. En það var eins og talað væri við stokka eða steina. Kynblendingarnir daufheyrðust við öllum slíkum fyrirskipunum. Fyrstu skothríðinni hafði verið hleypt af í blindni og fæst skotin unnu meir að en svo, að menn skeindust af þeim; en kynblendingarnir voru nú æstir af þriggja ára falinni gremju og vildu ekki láta sér nægja neitt hálfverk. Nú var skotvopnunum fleygt og sókst í návígi.

Eg hafði stigið af baki og lamdi af öllum kröftum byssuskefti mínu ofan í bakið á þessum ósvífnu þorpurum, sveitungum okkar, og hrópaði alt hvað eg gat að biðja þá að hætta atgöngunni, þegar eg sá ungan Hudsonsflóamann falla fyrir fætur mér. Grimmileg öskur kváðu við rétt hjá mér og blandaðist við þau neyðaróp einhvers, sem leitaði undan, og í því kom eg auga á Louis allan blóðugan þjótandi út úr hópnum og á eftir honum eina sex Indíána, sem eltu hann eins og dýrhundar, sem reyna að ná í hóstið

á bráð sinni. Eg stökk yfir líkama unga Hudsonsflóa mannsins, sem fallinn var, og þaut til að hjálpa Louis. Hann sá mig koma, og veitti þá svo hraustlega viðnám, að hinir hrukku fyrir. Eg réðist þá að þeim líka og lamdi á báðar hendur svo sem eg mátti mest.

"*Mon Dieu*, hafðu blessaður gert, vinur," hrópaði Louis með grátstaf í kverkunum, og hné niður af mæði, en tárin hrundu niður um kinnar honum, "*mon Dieu*, vinur minn, mikill öðlingur ertu."

"Þetta er ekki orða vert," svaraði eg. "En hlauptu nú og reyndu að bjarga þér, hlauptu eins og guð hefir gefið þér máttinn til. Hlauptu gegn um skóginn og syntu yfir ána!" Að svo mæltu hratt eg honum af stað, því að eg heyrði hópinn koma á eftir. "Hlauptu!" sagði eg og hratt franska manninum enn af stað.

"Já, hlaupa, tra, la, la! eg er búinn að hlaupa — hlaupa af mér hornin!" og um leið féll hann niður og lá eins og dauður.

Eg greip undir handleggina á honum og fór að draga hann af stað með mér og stefndi til árinnar inn í skóginn. Eg hnaut í öðru hverju spori, en komst með hann niður á klettasnösina við ána og skildi þar við hann, svo að hann þurfti ekki annað en steypa sér í vatnið og synt yfir um. Síðan hraðaði eg mér til orustuvallarins til að vita hver afdrif unglingsins hefðu orðið, er eg hafði séð falla af liði Hudsonsflóamanna. Þegar eg kom að piltinum lá hann upp í loft

með auðsæ feigðarmörk á andlitinu. Þá þekti eg hann. Það var ungi Norð-Vestmaðurinn, sem hafði verið að tína með mér blómin handa Franzisku Sutherland. Hann stundi og bærði til varirnar eins og hann vildi segja eitthvað, en ekkert heyrðist. Eg kraup á kné hjá honum, tók utan um höfuðið á honum og lyfti því upp og hlustaði; en þá leið yfir hann. Eg var hræddur við að skilja hann eftir — því að Indíánarnir unnu ógurleg grimdarverk á hinum föllnu —. og því lyfti eg honum upp til að bera hann með mér þangað, sem hann væri óhultur. Hann var eins og algerlega máttvana; handleggirnir löfðu niður og ekki gat hann haldið höfði. Þannig hljóp eg með hann til skógarins. Rogers, einn af Hudsonsflóamönnum, rakst á mig. Hann rétti upp báðar hendurnar og beiddist griða á frönsku; en tveir kynblendingar ruddust að honum, annar með spenta skammbyssu, hinn með opinn hníf. Eg sneri mér undan; en mér finst eins og enn hljómi í eyrum mínum árangurslausar bænir manns þessa um grið. Skamt þaðan lá Semple landtjóri, særður á handlegg og lærbrotinn. Hann kallaði til Grant og sagði:

"Eg er ekki særður til ólífis; eg vona, að eg haldi lífi, ef mér yrði komið yfir í virkið!"

Þá dvaldi eg ekki lengur, en leitaði til skógarins með byrði mína. Aumingja pilturinn! Fölvi dauðans var að færast yfir alt andlitið á honum. Hann fletti frá sér treyjunni og tók bréf úr innra brjóst-

vasa sínum til ættingja sinna. Þá sá eg, að hann hafði verið særður gapandi ólífissári á brjóstinu. Í bardögum hverfur öll miskunn og meðaumkvunarsemi; eg hraðaði mér nú frá piltinum, sem var að deyja, til hinna, sem á lífi voru, og skipaði frönskum kynblending að gæta hans.

"Líttu eftir, að enginn limlesti þetta lík," sagði eg, "og eg skal borga þér fyrir það."

Það var eins og pilturinn raknaði við þegar eg hrópaði þetta. Ekki get eg um það sagt, hvort hann skildi til fulls hinn ógurlega örlagadóm, sem fólst í orðum mínum, en hann opnaði augun og starði þeim hálfbrostnum og álasandi á okkur. Þetta sá eg síðast til hans.

Eg vissi að Grant mundi eiga erfitt með að útvega menn til að bera Semple landstjóra til virkisins, svo að eg flýtti mér þangað, sem hinn fallni foringi lá. Grant var þar skamt í burtu að afla sér áreiðanlegra manna, og þegar eg átti svo sem tuttugu eða þrjátíu skref til landstjórans, kom alt í einu að Indíáni nokkur.

"Hundurinn þinn!" hvæsti hann út úr sér og steytti hnefann framan í manninn, þar sem hann lá ósjálfbjarga. "Þetta er alt þér að kenna! Þú skalt fá það borgað. Þetta skaltu hafa, hundurinn þinn!"

Í því rak eg fæturna í eitthvað og féll. Samstundis reið af skammbyssuskot; Semple landstjóri rak upp vein. Eg þaut til hans og sá, að skotið hafði

hitt hann í brjóstið. Líkaminn var varmur af lífi, en enginn andardráttur heyrðist og hjartað var hætt að slá.

Fáeinir Hudsonsflóamanna komust á skóginn og leituðu sér þar fylgsna; sumir þeirra syntu yfir ána, en aðrir leituðu til virkisins yfir sléttuna. Grant kallaði til mín, hann var mjög hryggur í bragði og stefndi til virkisins. Mér tókst loks að ná í hest og hleypti á eftir foringja mínum. Reiðmenn okkar færðust nær virkinu í löngum sveigum. Grant hrópaði til þeirra og skipaði þeim að halda burtu. Það er langlíklegast, að þegrr Semple sá við hve mikinn liðsmun var að eiga, að hann hafi sent nokkra af liði sínu til Douglas-virkis eftir fallbyssu. Aumingja Semple. Evrópiskar hugmyndir hans um hernaðaraðferð Indíána komu honum að litlu haldi. Skógbrennumennirnir biðu ekki eftir fallbyssunum. Sendimennirnir voru ekki komnir með hana nema örskamt frá virkishliðinu, þegar þeir mættu flóttamönnunum, sem sögðu þeim frá bardaga úrslitunum. Var þá þegar í stað snúið við með fallbyssuna til virkisins, og eltu skógbrennumenn þá þó alt að virkisveggjunum. Þegar þeir voru komnir inn í virkið með fallbyssuna, sem Indíánar voru allhræddir við, varð Grant hægra fyrir um að sefa þá. Hann fékk nú skipað þeim í fylkingu og lagði af stað með hana til Frog Plains, hinum megin við fenið. Þar sett-

umst við að um-nóttina og þangað kom síðan til móts við okkur hinn flokkur skógbrennumannanna.

---

## XIII. KAPITULI.

*Dauði Stóra-Djöfulsins.*

Skógbrennumennirnir og Indíánarnir voru drukknir af því áhrifamesta áfengi, sem til er — mannablóði. Sigurbrigðin höfðu æst upp í Rauðskinnunum heimskulegt gort og metnað. Þeir töluðu digurbarklega um það að þeir ætluðu að drepa alla hvíta mennina í nágrenninu. Þrátt fyrir alla gremju út úr manndrápunum við Seven-Oaks, held eg þó, að allir sanngjarnir menn hljóti að kannast við, að það var eingöngu að þakka afskiftum Grants, að nýbyggjararnir voru ekki strádrepnir allir.

Það var ömurlegur bragur yfir öllum tjaldstað okkar þessa nótt. Það getur verið nógu ægilegt á að horfa, þegar blóðþorsti grípur siðaða menn, en þó er enn þá óskaplegra á slíkt að sjá, er hann grípur vilta Indíána, sem harðrétti hefir æst og gert að óargadýrum. Hræsni er ein af ósiðum vorrar aldar. Látum hana eigi blekkja oss sýn, svo að vér ímyndum oss, að hættir villimannanna séu mannúðlegri en hinna siðuðu þjóða. Látum oss vera sanngjarna.

Grimd siðmenningarinnar kemur bezt fram í kænlega smíðuðum drápsvélum, en blóðþorsti Indíánanna er í kastur þeim óskaplega sigurfögnuði, sem finnur mesta fullnægju í því að drekka varman dreyra deyjandi óvina, og í því að kvalararnir lauga hendur sínar í hjartablóði mótstöðumannanna.

Hinir innfæddu æddu fram og aftur um tjaldstaðinn veifandi blóðugum sigurmerkjum, með hausskinnin dinglandi við belti sín; kynblendingarnir voru litlu betri, en sá var munurinn, að þeir voru sólgnari í verðmætt herfang heldur en mannablóð. Þeir gortuðu drembilega yfir óförum óvina sinna, eins og þeir hefðu unnið mikla og tvísýna orustu, þar sem þeir að réttu lagi voru ekki annað en morðingjar og ránsmenn. Pétur skáld þeirra gól nú háróma sigursöng, sem hér verður eigi hafður upp.

Mér fanst ógerningur að hlusta lengur á þessi ósköp. Óp deyjandi mannanna voru mér í svo fersku minni, að mig langaði ekki til að hlusta á Pétur endurtaka þau í ruddalegum kviðlingum. Mér gat ekki úr minni liðið raunalega andlitið á Hudsonsflóapiltinum, sem eg hafði skilið við deyjandi. Margir kynblendingarnir voru í þann veginn að leggja af stað til að ræna býli nýbyggjaranna; þegar eg komst að því, lánaði eg mér hest til að reyna að koma í veg fyrir, að þeir rændu heimili Franzisku Sutherland, og í annan stað ætlaði eg mér að leita að líki Hudsonsflóa-piltsins.

Eg reið fyrst til heimilis Sutherlands, áður en eg fór til orustuvallarins, en eg hefði eins vel mátt sleppa því, vegna þess, að þegar þangað kom hafði öllu verið rænt, sem þar var handbært, jafnvel hurðum og gluggum, en það gat eg ekki vitað, hvort Sutherland og dóttir hans höfðu komist lífs af til virkisins eða ekki.

Eg vissi, að það var óhyggilegt og ekki áhættulaust að fara götuna eftir árbakkanum eftir að farið var að skyggja, og fór eg því eftir rjóðrum, sem liggja samhliða henni. Þegar eg kom til Seven Oaks þótti mér það kynlegt, að hesturinn, sem eg reið, tók að reisa eyrun og frísa órólega. Eg kipti í taumana og keyrði hann sporum, en hann frísaði enn meir, tók kipp út á hliðina og stóð svo eins og klettur, skjálfandi eins og hrísla. Nú sá eg eitthvað hrökklast af götunni fram undan mér og hverfa í skóginn. Eg sló í hestinn á ný og reyndi að koma honum á götuna, því að eg vissi, að öll sléttan var grafin eftir greifingja og skuggarófur, svo að ekki var greitt yfirferðar fyrir þeim; en það hafði ekkert að segja, hesturinn stóð upp á afturfótunum en fór hvergi, hvernig sem eg hnykti í taumana og barði hann áfram.

"Kannske þú viljir heldur koma á eftir mér?" sagði eg, steig af baki og tók tauminn fram af makkanum. En ekki gekk það betur. Hann spyrnti niður framfótunum og hrærðist hvergi, nema það lítið, sem

hann færðist út stað, gekk hann aftur á bak.

"Ætli hestskepnan sé orðin tryld?" sagði eg, því að eg hefi aldrei séð nokkra skepnu jafnhrædda. Hann spyrnti við með öllum fótum, teygði niður höfuðið með tindrandi augum og nasaopin skulfu af áreynslu.

Nú heyrðist eitthvert skrjáf inn í skógarþykninu. Hesturinn stóð upp á afturfótunum á ný, sleit af mér taumana og tók á sprett út á sléttuna. Eg skaut inn í skógarþyknið. Hvæs heyrðist og brak og brestir í skógarþykninu.

"Þetta er býsna áræðinn úlfur," sagði eg. "Aldrei hafði eg séð bronkó hræðast svona þó að úlfur væri í nánd.

Eg hugsaði að mér væri bezt að finna lík piltsins, sem eg var að leita að, áður en eg færi að sækja hestinn. Stjörnuskin var og heiðríkt, svo að eg gat nú séð hvað það var, sem hesturinn hafði hræðst. Fast við runnann lá nakið lík af hvítum manni. Hnén stóðu upp og handleggirnir útréttir eins og kross-álmur. Skyldi þetta vera pilturinn? Eg hljóp nær, en hrökk brátt frá aftur. Eg verð að játa, að eg hafði ekki hugrekki til að horfa á líkið, svo var það óskaplega limlest og afmyndað. Betur að eg gæti lýst þessari hrygðarsjón rétt. Þá myndu þeir, sem miklast af því að úthella blóði, verða að miklast sér til smánar; þá mundi af hernaðinum svift öllum ósönnum frægðarljóma, en augljóst verða hverjum

manni, hvað hann er í raun og veru bláber blóðsúthelling og manndráp.

Eg gat ekki horfið aftur og farið að skoða líkið af piltinum, en tók að skygnast víðar um vígvöllinn. Við komu mína varð töluverð hárcysti og vængjablak. Hópur úlfa hrökk undan mér og gutu óargadýrin til mín illilegum augum, en biðu djarflega kippkorn frá reiðubúin að færa sig nær aftur þegar eg færi. Mér sárnaði þessi bíræfni, svo eg skaut á hópinn nokkrum skotum. Flýði þá alt þetta illþýði. Hér voru átta lík álíka útleikin og lík piltsins. Og hálfu fleiri milli virkisins og Seven Oaks. Eg gat auðveldlega talið þau þar sem þau lágu; ernir hlökkuðu þar yfir og úlfar skutust út í skógana undan mér, þegar eg nálgaðist.

Eg veit ekki hvað kom mér til að hinkra við á þessum ömurlega stað, nema ef það hefir verið kvíði fyrir því, að þetta illþýði kæmi aftur; en eg hafði ekkert áhald meðferðis til að hylja hina dauðu moldu. Eins og ósjálfrátt fór eg að svipast eftir líkunum af Semple landstjóra og Rogers; eg hafði séð hvar þeir féllu. Þegar eg var að leita að þeim, kom eg auga á mannslíkama, sem óflettur var klæðum og lá skamt frá hinum öðrum.

Eg nam staðar sem steini lostinn.

Auðsjáanlega var þetta missýning! Þetta hrúgald hafði ekki getað hreyfst til. Það hefir hlotið að

vera missýning eða ofsjónir í tunglsljósinu. En eg gat ekki haft augun af þessu hrúgaldi. Í annað sinn sá eg líkamann hrærast til. Nú sá eg það greinilega; eg sá að brjóstið hófst upp og gekk niður aftur eins og á manni, sem er að stríða við að rísa upp, en getur það ekki. Þarna innan um nakinn náinn á vígvellinum og hræsoltna úlfana alt umhverfis var undarlega hryllilegt að horfa á hreyfingar þessa manns, og eg var óstyrkur í hnjáliðunum, er eg hljóp til að hjálpa honum.

Þetta var Indíáni; en eg gat ekki séð framan í hann, því að hann hélt annari hendinni um sár, sem hann hafði á höfðinu. Hinni hendi hélt hann á hnífi, sem hann hafði varið sig með. Fyrst flaug mér í hug, að hann væri af liði Norð-Vestmanna, því að annars hlyti hann að hafa verið flettur klæðum eins og félagar hans; en því skyldi hann hafa verið skilinn eftir á vígvellinum, ef hann var Norð-Vestmaður? Eg þóttist því vita, að hann hlyti að vera einn þeirra, sem fylgst hafði með til að ræna, og hafði fengið þess makleg málagjöld. En því varð þó ekki neitað, að hann var maður, og eg nam staðar til að skoða hann og vita hvort hægt væri að koma honum á hestbak og flytja hann burt.

Fyrst í stað tók hann ekki eftir mér. Eg tók varlega í hendina, sem hann hélt um höfuðið til þess að geta séð framan í hann, en um leið og eg kom við hann lagði hann hart fram hnífnum, sem hann hafði

í hægri hendinni og lá við, að hann hitti mig í handlegginn.

"Hægan! hægan, maður!" hrópaði eg; "eg er vinur en ekki óvinur!"

Um leið greip eg þéttingsfast um hægri handlegginn á honum.

Þegar hann heyrði orð mín, rétti hann upp vinstra handlegginn og kom þá í ljós ógurlegt sár á andliti hans, og síðan vissi eg ekki fyrri til en hann hafði náð með þeirri hendi utan um hálsinn á mér og kreisti að alt hvað hann gat. Þá þekti eg hver það var. Það var Stóri-Djöfullinn. Hann stritaðist nú við að losa hægri hendina til þess að geta lagt til mín daggarðinum. Mér varð svo hverft við að þekkja manninn, að í bili gætti eg ekki að því að verja mig, og við streittumst þarna við stundarkorn — örstutt samt. En brátt hné særði maðurinn aftur á bak, veinandi upp yfir sig af sársauka, og andlitið afmyndaðist af þjáningum og hatri. Eg býst ekki við, að hann hafi séð mig. Sárið, sem hann hafði fengið á höfuðið, hlaut að hafa svift hann sjóninni. Eg færði mig frá honum, en hann hélt áfram að fálma með hnífinn út í loftið.

"Stóri-Djöfull er flón!" sagði eg. "Eg ætla ekki að gera þér neitt tjón; eg lofa því við drengskap hvíts manns, að eg ætla ekki að gera þér neitt mein!"

Vinstri handleggurinn hné máttvana niður. Var það ekki einkennilegt, að eg skyldi rekast þarna á

þennan óvin minn, sem var að deyja? Átti hann nú að láta lífið þarna eftir sína glæpafullu æfi?

"Stóri-Djöfull!" hrópaði eg og færði mig nær honum, en við það virtist nýtt fjör færast í hann. Þú getur ekki legið hér lengi innan um úlfa og önnur rándýr. Segðu mér hvar Miriam er, og þá skal eg flytja þig til tjaldstaðar okkar! Segðu mér það, og enginn skal gera mér neitt mein! Eg er fús til að bjarga þér."

Hann fór að bæra til varirnar. Það var auðséð, að hann var að segja eitthvað, eða að reyna til að segja eitthvað.

"Talaðu hærra!" hrópaði eg. "Hvar er Miriam? Hvar er hvíta konan?" Eg lagði eyrað niður að vörum hans því að eg óttaðist, að hann mundi gefa upp öndina, áður en hann gæti sagt nokkuð.

Reiðiorg hvæstist út á milli snjóhvítra tannanna. Líkaminn réttist upp til hálfs. Með einu snöggu, sviksamlegu tilræði lagði hann að mér hnífnum, en hitti upp í ermi mína og skeindi mig rétt að eins á handleggnum. En þetta tilræði kostaði hann lífið. Hann hné niður og rak upp hátt vein Brostin blóðhlaupin augun opnuðust. Stóri-Djöfullinn var dauður.

Eg hristi hnífinn fram úr ermi minni, tók til fótanna og hljóp hratt af vígvellinum, rétt eins og eg væri að flýja þaðan undan drepsótt eða illum anda.

Eg leit aldrei um öxl, og haldinn af hjátrúarkendum ótta við hinn illa anda látna Indíánans, linti eg ekki ferðinni fyr en eg kom lafmóður og kúfuppgefinn þangað sem sá til náttelda Norð-Vestmanna.



## XXIV. KAPITULI.

*Húsbóndaskifti í Douglas-virki.*

Eg ímynda mér, að sú stund renni upp á æfi hvers manns, jafnvel þó sterkbygður sé, — en það er eg ekki, — að lítilfjörlegt smáræði þyngi svo lífsbyrðina, að hún verði lítt þolanleg. Eg hafði komist á það stig áður fundum okkar Stóra-Djöfulsins bar saman á vígvellinum við Seven Oaks. Atburðir þeir, sem gerst höfðu í Mandana-héraðinu, ferðin langa og hvíldarlausa norður og þessi síðasta viðureign Hudsonsflóamanna og Norð-Vestmanna — í fám orðum allur síðastliðinn mánuður, hafði orðið mér ofraun. Mér var nú horfinn eldmóður norðvestrænu skinnakaupmannanna.

Mér er enn í minni orðhvöt og ellibeygð hjúkrunarkona, sem eg sá í æsku og var vön að hafa fyrir viðkvæði: "Taugar, taugar og ekkert nema taugar!" Hún var guði þakklát fyrir það, að hann hafði lofað

henni að fæðast í þenna heim áður en læknarnir voru búnir að kynna sér taugakerfið ítarlega. Þó að taugasjúkdómar væru ekki orðnir almenningi svo kunnir, að eg ætti hægt með að heimfæra það sem að mér gekk undir þann tíðasta taugaveiklunarsjúkdóm hinna nýrri tíma — sem sé taugaslag, þá fann eg glögt þegar eg þaut með hest minn í taumi á eftir mér, að eitthvað í mér hafði gengið úr lagi. Það var farið að birta af degi, þegar eg náði bronkóinum, svo var hann tryldur orðinn, og það segi eg ykkur satt, að aldrei hefir neinn heigull skolfið meir í hnjáliðunum heldur en eg, þegar eg hvað eftir annað steig í ístaðið og reyndi árangurslaust að komast á bak. Þegar eg sá að það tókst ekki, hætti eg við það og teymdi hestinn á eftir mér heimleiðis til nátteldanna. Höfgi lagðist yfir augu mín, sem allir dauðuppgefnir menn kannast við, og í hugsanaruglinu sem að mér sótti, var það að eins tvent, sem mér tókst að halda föstu, og það var þetta: Hvar var Miriam; og ummæli séra Hollands "Drottinn blessi þig. Láttu drotni eftir hefndina. Hann mun gefa hinn rangláta í hönd refsandanum."

Þannig komst eg að lyktum til nátteldanna, batt hestinn, fleygði mér niður inni í einu tjaldinu og steinsofnaði og svaf í einum dúr frá því að morgni 20. Júlí til miðdegis daginn eftir. Eg vaknaði við það, að skógbrennumennirnir komu aftur úr leiðangri

sínum til Douglas-virkisins. Þegar eg kom út í tjaldsdyrnar sá eg að okkar menn höfðu haft heim með sér einn af Hudsonsflóamönnum, sem hét Prichard. Þeir höfðu handtekið hann og farið með hann til mótsins, en komu nú með hann aftur. Var af því helzt að ráða, að virkisbúar veittu enn þá mótstöðu, en nýlendumennirnir, sem fengið höfðu smjörþefinn af herskap Indíánanna, kröfðust þess í einu hljóði, að upp væri gefist. Það var eingöngu Grant að þakka, að ekki hafði verið gert áhlaup að nýju, en er það varð hljóðbært, að nýlendumenn sæktu það fast að upp yrði gefist, var Prichard aftur sendur til virkisins. Eg fór með honum í þeirri von að eg kynni að geta náð tali af Franzisku eða Eiríki Hamilton. Svo mikill geigur var í mönnum inni fyrir, að þrátt fyrir fullyrðingar Prichards um, að eg hefði ekkert ilt í huga, var þvertekið fyrir, að eg fengi að koma inn í virkið. Eg lét skila því inn í virkið, að Eiríki og séra Holland væri óhætt að verða þar eftir, eg skyldi ábyrgjast, að þeim yrði ekkert mein gert. Sömu skilaboð sendi eg Franzisku Sutherland, en sagði henni að gera það sem bezt yrði fyrir hana og föður hennar. Þegar Prichard kom út aftur, gat eg séð það á honum, að virkið var okkar. Hann sagði mér, að Eiríkur og séra Holland ætluðu að vera þar kyrrir, en ungfrú Sutherland hefði beðið að skila því, að eftir bardagann við Seven Oaks gæti faðir hennar

engar hlýjar tilfinningar borið til Norð-Vestmanna, og hún vildi ekki láta hann hverfa einan brott úr virkinu. Nú tókust samningar milli félaganna og hafði okkar félag þar ýmsar ívilnanir vegna hins nýunna sigurs og var virkið selt í okkar hendur. Samningsgerð þessari lauk alveg daginn eftir.

"Hvað á að gera við nýlendumennina?" sagði eg við Grant áður en virkið var gefið upp.

"Ja," það er nú eftir að vita, "svaraði hann þurlega.

"En væri ekki heppilegast að láta þá vera kyrra í virkinu þangað til friður og spekt er komin á aftur?"

"Og þó allir Indíánar í Rauðárdalnum hafi virkið á valdi sínu," sagði Grant háðslega. "Við vitum nú hvernig fáeinum Norð-Vestmönnum hepnaðist að halda þeim í skefjum, kynblendingunum við Seven Oaks. Það væri ekki skemtilegt, að sú saga yrði endurtekin aftur."

"En ver fer það, ef þeir eru látnir snúa aftur heim á bæi sína."

"Það kemur ekki til þess. Eg er vörður sléttunnar," bætti hann við með áherzlu. "Það kemur ekki til mála annað en senda þá niður eftir Rauðá alt til vatna, og sjá svo til hvað þessi skozki herramaður hugsar sér að gera við nýlendumennina sína."

"Er það kannske svo að skilja, að eigi að senda

þá norður og austur í kuldann? Það gæti farið svo, að þeir kæmu ekki til Hudsonsflóa í tíma til að ná í skip félagsins, sem fer til Skotlands! Eg kalla það ganga manndrápi næst að senda þetta fólk norður til þess að það sitji vetrarlangt í kuldanum norður við Flóa, húsnæðislaust."

"En eg er þó þeirrar skoðunar, að það sé betri dauðdagi að frjósa í hel, en að láta Indíána brytja sig niður. Ef þeir vilja ekki fara í bátum okkar til Bandaríkjanna eða Canada, hvað annað getum við þá gert, Norð-Vestmenn?"

Já, hvað annað gátu þeir gert? Eg átti bágt með að svara spurningu Grants, þó að eg viti að allar tilraunir, sem við gerðum til að fá nýlendumennina til að snúa suður í stað þess að fara norður, hefir verið talin eins og tilraun af okkar hendi til að flæma nýlendumenn Selkirks út úr Rauðárdalnum. Eg vona, að eg sjái aldrei raunalegri sjón en þessa nýlendumenn, er þeir lögðu af stað í ferðina norður í eyðimörkina. Það gat verið nógu hart aðgöngu að skilja við fornar stöðvar á ættjörðinni, en þó var hitt átakanlegra, að vera tældur til lands, þar sem nýlendumennirnir urðu píndir til dauða af miskunnarlausum heiðingjum, af því að þeir voru notaðir eins og varalið skinnakaupmannanna, sem lágu í illdeilum hverir við aðra, og svifust ekki að stofna þeim í hvaða háska sem var, ef kaupmennirnir sáu

sér hag í því.

Grant var við því búinn, að virkisbúar gæfust upp, og var hann nógu hygginn til að halda skógbrennumönnunum í hæfilegri fjarlægð. Skrifarar stóðu í röðum beggja megin dyranna, og eg þokaði mér að sem bezt til að reyna að koma auga á Franzisku. Nú heyrðist skrölt mikið er þungri járnstöng var ýtt úr skorðum. Hliðið var opnað og út gekk fógetinn í Assiniboia. Hélt hann í annari hendi á stöng, sem blakti á efst hvít veifa, en í hinni á lyklunum að virkinu. Á eftir honum komu Hudsonsflóamenn þungbúnir og raunamæddir á svip. Grant gekk fram til að mæta fógetanum. Í annað sinn voru friðarskilmálarnir hafðir yfir og nokkur skjöl voru undirrituð. En eg man samt óglögt eftir þessum atburðum, því að eg hafði augun á nýlendumönnunum, sem voru inni í virkisdyrunum og innan við þær. En yfir öllu ríkti dauðaþögn. Lyklarnir voru fengnir í hendur Norð-Vestmönnum og Hudsonsflóamenn litu undan til þess að þeir þyrftu ekki að sjá það sem fram fór. Þeir fóru síðan umsvifalaust út í bátana og hurfu sjónum. Meðal þeirra, sem fóru, voru drykkjurútarnir sex, sem eg hafði séð seinast inni í skrifstofu Semple landstjóra, Hálendingurinn, sem njósnað hafði um mig þegar eg kom til Douglas virkis árið áður, skrifarinn, sem eg hafði heyrt vera að skeggræða sama kveldið í stóra saln-

um, og margir aðrir, sem eg hafði hitt af tilviljun einni. Í framstafni hvers báts sat Norð-Vestmaður, til að gæta þess að ræningjar réðust ekki á þá, og þegar alt var ferðbúið sneru nokkrir aftur til að sækja landnemana og særða menn. Eg hefði verið fús til að rétta þessum mönnum hjálparhönd í þeirri von að geta séð Franzisku í staðinn, en allri slíkri aðstoð neituðu þeir þverlega frá Norð-Vestmönnum. Eg sá Louis koma haltrandi út, og hallaðist hann upp að manninum með rauðleita andlitið, en hann gugnaði við þegar hann sá mig. Louis var vesældarlegur á sýndum, með höfuðið vafið hvítum dreglum, annan handlegginn í fetli og lotnari í herðum en hann átti að sér.

"Nú hefir illa farið, Louis," sagði eg. "Eg gleymdi að gera orð til þín. Þú getur fengið að vera kyr í virkinu, þangað til sár þín eru gróin. Viltu ekki snúa aftur?"

Louis gaut flóttalega til mín augunum, hengdi niður höfuðið, og sá eg ekki betur en honum væri vott um augu.

"Þú hefir alt af áflogahundur verið; það varstu í Laval; þó kom fyrir að eg hafði betur í svip, en þú varst jafnaðarlega ofan á að lyktum," svaraði Louis.

"Þvættingur Louis!"; eg var hissa að heyra hvað röddin var alvarleg. "Nú er jafnt á komið! Gleymum nú því, sem umliðið er. Þú hjálpaðir mér,

og eg hjálpaði þér. Þú gintir mig og lézt leiða mig bundinn inn í virkið, eg lék á þig, lét þig brjóta spegilinn og kom þér í klípu. Eg vona, að þú berir enga gremju til mín framar."

Hann hristi höfuðið án þess að líta á mig.

"Eg skil þig ekki. Látum okkur byrja nýtt líf; komdu aftur inn í virkið og vertu þar þangað til þú ert orðinn heill maður."

"Þvættingur!" sagði Louis og hristi sig óþolinmóðlega. "Þú kemst á aðra skoðun einhverntíma seinna, og jafnar þá um mig betur."

"Jæja, kunningi! vertu þá reiður svo lengi sem þér sýnist. Eg var farinn að halda að tveir menn, sem hafa bjargað hvor annars lífi, gætu gleymt fornri misklíð og verið vinir það, sem eftir er æfinnar!"

"Þú veizt ekki, hvernig á stendur," sagði hann með veikri röddu.

"Um hvað?" spurði eg óþolinmóðlega. "En eg get sagt þér það, og eg segi það satt, að eg fyrirgef þér alt og vonaðist eftir, að þér mundi farast eins við–"

"Á, hélztu það?" spurði hann óþolinmóðlega. "O, *mon Dieu!*" 'hrópaði hann og hristist allur af ekka. "Farðu með mig burtu! Farðu burtu með mig!" sagði hann við manninn, sem studdi hann; og að þessum dularfullu orðum mæltum fóru þeir út í

þann bátinn, sem næstur var.

Meðan eg stóð og horfði höggdofa á eftir Louis Laplante, og var í vafa um hvort hann hefði sagt þetta af óánægju eða hefndarþrá fóru konur og börn að tínast út úr víkinu, og gengu karlmenn til beggja handa til varnar. Hótanir kynblendinganna um að drepa allar hvítar manneskjur í Rauðárdalnum, höfðu og borist til eyrna kvennanna. Sumar þeirra skulfu eins og hríslur þegar þær gengu út í bátana, og aðrar einblíndu á okkur augnaráði, sem ásakaði okkur um morð og drápgirni, og var sem þær hrylti við að koma nálægt öðrum eins glæpaseggjum eins og við værum. Loks kom eg auga á Franzisku Sutherland. Hún var aftarlega í þessari ömurlegu lest, og hallaðist að handlegg á háum, þreklegum manni, sem gekk teinréttur. Eg hafði hugsað mér að þjóta strax til hennar, en hún gaf mér skyndilega vísbendingu með augnaráði sínu um að gera það ekki. Gráu augun hennar hvíldu svo blíðlega á mér svo sem andartak og því næst fóru þau feðginin fram hjá.

"Sízt hafði mig grunað það," sagði faðir hennar með beiskri gremju í röddinni, "að dóttir mín mundi gefa morðingja hönd sína og hjarta. Hvern þessara slátara á eg að eigna mér sem tengdason?"

"Þey, pabbi,' 'hvíslaði hún. "Minstu þess, að hann aðvaraði okkur um að flýja til virkisins og fylgdi mér til Pembina," svaraði hún náföl.

"Já, sér er nú hver hjálpsemin. En hvernig reyndist hann núna?" svaraði hann gremjulega.

"Pabbi! segðu þetta ekki pabbi. Þú munt komast á aðra skoðun um hann seinna, og—"

Nú þyrptust fleiri á eftir svo að eg gat ekki heyrt hvað hún sagði frekara.

Þau voru komin að bátunum og gamall Hálendingur stóð þar fyrir og var að lyfta stórum farangursbögli út í bátinn, sem næstur var.

"Lofaðu mér að lyfta undir með þér," sagði eg og snaraðist fram og tók undir böggulinn.

"Vinur eða óvinur?" spurði Skotinn áður en hann þáði hjálp mína.

"Náttúrlega vinur," svaraði eg og gerði mig líklegan til að lyfta.

"Hudsonsflóamaður eða Norð-Vestmaður?" spurði hann, því að hann var fastráðinn í því að þiggja ekki hjálp af óvinum sínum.

"Norð-Vestmaður; en hvað gerir það til? Það er vinur samt sem áður. Lyftu upp! Eg ýti undir!"

"Aldrei!" orgaði skozki maðurinn og hratt mér frá með svo miklu afli, að eg hröklaðist inn í þvögguna, sem hjá stóð. Óafvitandi fálmaði eg fyrir mér með hendinni til að verjast falli og náði þá í útrétta konu-hönd — höndina á Franzisku Sutherland og mikill fögnuður fór um mig við sendinguna, sem hún lagði í lófa minn.

"Eg bið yður afsökunar, ungfrú Sutherland," sagði eg þegar eg hafði áttað mig svo að eg náði að mæla, og hopaði síðan aftur á bak inn í mannþröngina, glaður í huga.

"Þetta er sannarlega kurteis maður," sagði faðir hennar háðslega og horfði vandlega á mig um leið og eg færði mig inn í hópinn. "Og eg kalla hann kunnugan, að hann skuli þekkja þig með nafni. Franziska. Heyrðu, hver er þetta?"

"Æ! Það er einhver Norð-Vestmaður," svaraði hún og kafroðnaði, og hraðaði sér að borðinu, sem lá út í bátinn. "Einhver Norð-Vestmaður," endurtók hún aftur, en nú var roðinn kominn ofan á háls á henni og faðir hennar tók eftir því.

Síðan settust þau í framstafn bátsins við hliðina á Norð-Vestmanninum, sem þar skyldi vera til eftirlits. Louis Laplante hafði sezt beint á móti Franzisku og horfði á hana óskammfeilnislega, og með sama hurfu allar vingjarnlegar hugrenningar, sem vaknað höfðu hjá mér til Louis. En hvað mér gramdist það, að hafa ekki komið mér í bát með þeim Sutherlandsfeðginum. Þá var ekki um annað að gera, en að komast í fylgd með Grant,, sem ætlaði að fara ríðandi eftir fljótsbakkanum og sjá hvernig bátaferðin tækist.

"Ætlar þú kannske að verða mér samferða?" spurði Grant, er hann sá mig koma.

"Já, ef eg má það."

"Eg held að varla veiti af tveimur," svaraði hann.

"Það er óþarfi að vísu, þegar Grant fer," svaraði eg og sá eg, að honum þótti vænt um það, "en af því að kærastan mín er á einum bátnum, þá—"

"Sussu, sussu, maður," greip hann fram í. "Orustur eru illar viðfangs, en ekki bæta ástamálin um; en komdu, ef þér sýnist svo."

Þegar bátarnir lögðu frá landi stigum við Grant á hestbak og riðum götuna niður með ánni. Eg sá að Franziska horfði á eftir mér undrandi, en eg hugsa að hún hafi vitað, hvað eg ætlaði mér, þó að hún svaraði engu kveðjumerki mínu.

"Hættu þessu!" sagði Grant alvarlega. "Þú ferð kænlega að því að vísu, en ef þeir taka eftir því, þá vaknar hjá þeim allskonar grunur um að ráðist verði á þá."

Árgatan lá nú inn í runna og í bugðum út úr þeim aftur, svo að við gátum ekki séð til bátanna nema stöku sinnum; það þóttist eg geta séð, að Franziska horfði alt af á árbakkann, þar sem við fórum um, og eg þóttist geta séð, að franski maðurinn var búinn að vefja handleggnum utan um höfuðið á sér og hallaðist upp að einum farangursböglinum gagnvart þeim feðginum.

"Er þetta sama stúlkan, sem við dulbjuggum eins og Indíánastúlku í Gibraltar-virki?" spurði

Grant eftir stundarþögn.

Mig furðaði á spurning hans. Eg hélt að hún hefði verið svo vel dulbúin, að jafnvel hann, þó að hann væri manna skarpastur, hefði hlotið að blekkjast af því. En nú fékk eg nýja sönnun fyrir skarpskygni hans, og síðan hefi eg oft þózt sjá, að ungt fólk er helzt til trúað á, að það eigi hægt með að leika á þá, sem eldri eru og reyndari.

"Já, sama stúlkan," svaraði eg undrandi.

"Þú fylgdir henni þá til Douglas-virkis. Heyrðirðu nokkrar markverðar fréttir það kvöld?"

"Engar aðrar en þær, að McDonnell væri líklegur til að gefast upp. Hvernig gaztu vitað, að eg hafði verið þar?"

"Njósnarar sögðu mér það," svaraði hann alvarlega. "Gömlu vátnaferðamennirnir hafa sjaldan húsbændaskifti fyrir ekki neitt. Ef þú hefðir ekki orðið teptur í Mandanahéraðinu, þá hefðir þú sjálfsagt hert fleira af háttum okkar, en þér er kunnugt um nú. Faðir hennar var hlyntur Norð-Vestmönnum. Hvernig stendur á því, að hann er nú snúinn?"

"Orustan við Seven Oaks sneri honum," svaraði eg þurlega.

"Ójá, ójá! Hún var óskapleg," sagði hann og svipurinn varð þungur. "Óskapleg, óskapleg orusta, sem líklega mun snúa mörgum,' 'og tal hans endaði í löngum getgátum um hörmungar þær og

blóðhefndir, sem líklegar væru til að koma honum sjálfum í koll fyrir vikið; en eg vona að sagan muni hreinsa Grant af allri sekt um þann atburð. Alt í einu veik hann sér að mér.

"Þú hefir ánægju af þessu ferðalagi ,en eg enga. Viltu nú gera svo vel og fylgja bátunum eftir og líta eftir, að þeim verði enginn óskundi ger?"

"Já, sjálfsagt," sagði eg og samstundis sneri Grant hesti sínum og hleypti af stað heim til virkisins aftur.

Litlu eftir að hann skildi við mig lá vegurinn, sem eg fór um, inn í skóga. Þegar út úr þeim kom varð fyrir mér nakin sléttan. Gat eg þá gerla séð til bátanna, og hafði eg ekki að ófyrirsynju veitt þeim eftirför. Nú heyrði eg há hróp frá bátnum, sem Sutherland var á, og sá eg að Louis Laplante var staðinn upp, baðaði út höndunum og rausaði ósköpin öll yfir ræðurunum.

"Hvað gengur á?" kallaði eg, reið niður að ánni og miðaði fram skammbyssu minni. "Hættu þessum heimskulegu látum! Hvað er að?"

"Hér er franskur páfatrúarmaður, sem krefst þess að fá að tala við yður," kallaði Mr. Sutherland.

"Flytjið hann í land," svaraði eg.

Báturinn lagði að landi. Ræðararnir hættu að róa þegar þeir voru komnir svo nærri landi, að við gátum kallast á hæglega.

"Já, Louis, hvað á þetta að þýða?" spurði eg.

Franski maðurinn svaraði mér engu, en stökk

út úr bátnum og óð í land.

"Lofum þeim að fara," sagði hann svo og drógst með veikum burðum upp á bakkann.

"Hvernig stendur á því, að þér tókst ekki að ráða það við þig fyr, ef þú ætlaðir að verða eftir í virkinu?" spurði eg hranalega.

"Eg ætla mér það ekki," svaraði hann og varð niðurlútur.

"Jæja, þá gerirðu svo vel og fer út í bátinn og verður hinum samferða niður eftir ánni, og það strax," sagði eg.

"Heyrðu, Gillespie," svaraði hann, "þú ert gæddur nautsþreki en hefir þó ekki gripsvit. Lofaðu þeim að fara! Eg ætlaði að segja þér frá Miríam, asninn þinn."

Þessi orð hans vöktu mig á ný til meðvitundar um það, hvert hlutverk mitt í raun og veru var þarna norður í óbygðunum; en hinir hryllilegu viðburðir síðustu vikurnar höfðu eins og skygt á það. Eg gaf ræðurunum því merki um að leggja af stað aftur, veifaði Franzisku Sutherland í kveðjuskyni, og sneri mér síðan að Louis. Hann hafði varpað sér flötum til jarðar og grét eins og barn. Eg steig af baki og kraup niður hjá honum.

"Blessaður harkaðu af þér, kunningi," sagði eg tómlátlega og hugsunarleysislega eins og manni verður oft þegar líkt stendur á. "Hertu upp hugann! Seven Oaks bardaginn hefir bitið úr þér bakfiskinn. Eg sá það strax, að það var óráð fyrir þig að fara þessa ferð fyr en þú varst farinn að hressast betur

aftur. Þú flakir allur i sárum, maður."

Louis virtist ekki taka vitund eftir mér. Hann var að tauta eitthvað við sjálfan sig í sífellu og datt mér því í hug, að hann hefði hitaveiki.

"Írski presturinn sagði við mig, meðan við vorum í virkinu: "Vondi maður, þú verður kvalinn um alla eilífð í óslökkvandi eldi, ef þú bætir ekki fyrir afbrot þín og svik í gilinu forðum! Hvað skyldi Louis hirða um eldinn? Ekki vitund. Hvað skyldi hann hirða um sár og benjar? Ekki vitund. Arineldur er ekki neitt til líka heitur á við eldinn, sem innvortis brennur! Sár og benjar svíða ekkert til líka við þær andans undir, sem svella dag og nótt, ár og síð, alla tíð! Rödd innra hjá mér segir: "Louis, þú, aðalsmannssonurinn, ert hundur! Þú ert heigull! Skriðkvikindi!" Eg reyni að hressa upp hugann og segja þetta ósannindi, en röddin þagnar ekki að heldur, en segir: "Louis Laplante, írski presturinn hefir sagt við þig: "Iðrastu" Hvað skyldi Louis Laplante vera að hugsa um að iðrast. Ekki vitund. En augun hennar hafa starað á mig stálgrá, en skínandi björt eins og stjörnur. Stundum er tillitið blíðlegt og eg fyllist þá bænarþrá. Stundum er það hvast eins og það ætli að stinga mann, og þá fer hrollur um mig; en alt af stendur skin af þeim eins og stjörnum himins, og presturinn segir: "Þér verður ekki hleypt inn í himnaríki!" En víst væri freistandi að komast í himnaríki, ef allir englar hafa stjörnur í augnastað, stjörnur sem stendur af ljómi eins og af stáli. Presturinn hefir sagt: "Þú fer í

kvalastaðinn! Kvalastaðinn! Eins og þar geti verið meiri kvalir en hér! Þar verða englar sem hafa stjörnur í augnastað; það verður alt og sumt, en stjörnurnar sjá — sjá—"

"Hættu nú að hugsa um stjörnurnar," sagði eg, "en segðu mér heldur eitthvað um Miriam." Mér leiddist þetta iðrunarstagl í honum.

Þetta þvaður í honum um engla, sem hefðu stjörnur í augna stað, kom mér í ilt skap, og liggja til þess ástæður, sem flestir karlmenn munu geta fallist á, en fæstar konur skilið.

"Þorskurinn þinn!" Hann hvæsti orðunum út úr sér með ósegjanlegri óstillingu. "Segja þér eitthvað um Miriam? Eins og presturinn og eitthvað innra hjá mér hafi ekki alt af verið að hvetja mig til þess! Þetta klingir alt af: "Farðu og findu Miriam! Hvar er hvíta konan? Þú sagðir ósatt? Þú lézt hana fara. Findu hana! Findu hana! Findu hana! Hvar er Miriam? O, já, já!".

Honum virtist létta við þenna orðstraum og gamla kæruleysið aftur að færast yfir hann.

"Hvar er Miriam?" spurði eg.

Hann svaraði spurningu minni engu, en hélt áfram að tala við sjálfan sig.

"Enginn friður — engin ró — enginn söngur og skemtun fyrri en Miriam finst!"

Var maðurinn orðinn geggjaður? Bátarnir voru nú að hverfa sjónum. Eg gat ekki beðið lengur.

"Heyrðu, Louis!" sagði eg, "ef þú hefir eitthvað

að segja mér, þá segðu það fljótt! Eg get ekki beðið lengur!"

"Veiztu þá, að eg skrökvaði að þér í gilinu forðum?" mælti hann og horfði fast á mig.

"Já, það veit eg vel, og eg hefi refsað þér tvisvar fyrir það," svaraði eg.

"Og þú veizt hvað hlotist hefir af þeim ósannindum — hvað hlotist hefir af þeim fyrir Miriam?" spurði hann hikandi.

"Já, Louis, það veit eg."

"Og ertu fús til að fyrirgefa það a't? Ertu fús til að kalla jafntefli með okkur?"

"Já, Louis, að því er mig snertir. En guð almáttugur getur einn fyrirgefið alt það, sem hún hefir orðið að þola fyrir þínar sakir."

Nú spratt hann upp og greip um hönd mína. Hann hélt í hana stundarkorn og horfði fast framan i mig.

"Eg skal fara og finna hana," sagði hann með lágri röddu. "Eg ætla að leita þau uppi — eg skal koma þeim aftur — aftur hingað í skóginn við þessa á — og eg skal koma með hana aftur, eða láta lífið að öðrum kosti."

"Gamli kunningi, þú ert alt af göfuglyndur," sagði eg; en eg átti bágt með að koma upp orðunum.

"Eg veit ekki hvar þau eru nú, en eg skal finna þau! Eg get ekki um það sagt, hvað lengi eg verð að hafa upp á þeim. Það kann að geta dregist í heilt ár, en eg skal koma þeim hingað. Svo haltu nú áfram á eftir bátunum," sagði hann og veifaði

hendinni.

"Eg get ekki skilið við þig hérna," sagði eg andmælandi.

"Ef þú kemur aftur þessa leið, þá er ekki ólíklegt að þú finnir mig," mælti hann.

Aumingja Louis! Hann tók nú að blaðra eins og í gamla daga, mitt í sínum iðrunarhugleiðingum, og sannaðist á honum orðskviðurinn alkunni, að "svo lengi er sinnið sem skinnið." Eg bjóst ekki við að finna hann í bakaleiðinni, enda varð það heldur ekki. Hann hafði horfið inn í skógana eins og villidýr, en það var hann og í raun og veru; en eg lagði samt mikinn og óbifanlegan trúnað á loforð hans um að finna Miríam.

Þegar eg komst á hlið við bátana, breikkaði áin, svo, að ekki þurfti að óttast árásir á þá af landi, og sá eg því, að óþarfi var að ríða lengra. Eg sneri því við hesti mínum og hleypti af stað heim á leið aftur. til Douglas-virkis. Þegar eg fór fram hjá Seven Oaks, sá eg nokkra Hudsonsflóamenn; þeir höfðu orðið eftir til að jarða hina látnu, því að ekki gat komið til mála, að færa þá burt þaðan, eftir að úlfar höfðu slitið líkin og þau höfðu legið þrjá daga í steikjandi sólarhitanum.

Eg sagði Eiríki hvorki frá dauða Stóra-Djöfulsins né loforði Louis Laplante. Hann hafði orðið fyrir nógu miklum vonbrigðum og gat tæpast þolað þau fleiri. Eg hitti hann þar sem hann var að reika um gangana uppi í virkinu, en hann var orðinn hér um bil afskiftalaus og kærulaus um alt, sem

fram fór, sigur Norðvestræna félagsins eins og hvað annað.

"Heyrðu, piltur minn! Þú verður að segja mér eins og er," sagði séra Holland og fór með mér út í virkisgarðinn.

Dauði Stóra-Djöfulsins og loforð Louis Laplante virtist að hafa stórmikil áhrif á séra Holland.

"Eg segi þér það satt, að drottinn mun selja illgerðamanninn í hendur refsandanum, en hann heldur verndarhendi sinni yfir hinum saklausu! Bíðum vongóðir tilhlutunar hans. Bíðum þangað til hans tími er kominn!"

"Það virðist ætla að verða æðilangur tími," svaraði eg með óþoli æskunnar .

"Verum vongóðir! Eg segi þér það satt, að henni verður bjargað."

— — —

Loksins kom bátafloti Norð-Vestmanna frá Fort William. Sextíu manns talsins voru á bátunum, sem voru vel hlaðnir með allskonar varning; en sá varningur hafði svo sem kunnugt er orðið þrætuepli Hudsonsflóamanna og Norð-Vestmanna við Seven Oaks. Þegar flotinn kom til Douglas-virkis, brá ræðurunum mjög í brún, að sjá okkur hafa náð þar öllu forræði.

Þeir höfðu frétt það síðast, hve Selkirk lávarður væri ótt að færast í aukana, og eg ímynda mér, að auka-fólkið sem sent var norður hafi eigi síður verið

látið fara í varnarskyni, en til að hraða ferðinni. En öllum þessum aðkomumönnum hnykti mjög við er þeir heyrðu tíðindin í Douglas-virki, en þeir höfðu og býsna nýstárleg tíðindi að færa okkur. Selkirk lávarður var sjálfur kominn á norðurleið með skotfæri og málaliðsmenn, er fyrrum höfðu verið í herdeild De Meurons; það mun hafa verið of mikið í lagt. Hversvegna kom hann vestur í Rauðárdal með allan þennan útbúnað? Hann hlaut skjótt að gera það augljóst. Ef hann skyldi nú koma í óvinveittum tilgangi, mundi þá ekki orustan við Seven Oaks gefa honum eftiræskt tækifæri til að reka Norð-Vestmenn brott úr landinu? Ræðararnir höfðu orðið varir við brottflæmda nýlendumenn, sem voru nú á leið austur vötnin, og í þeim flokki hinn hergjarna Miles McDonnell, kaftein, sem ári áður hafði verið sendur frí-flutningi til Montreal, en var nú á giftusamlegri bakaleið, eins og hann hafði spáð sjálfum sér áður.

Þegar kafteinninn heyrði fregnina af nýbyggjurunum um úrslit orustunnar við Seven Oaks, hafði hann þegar í stað hraðað sér suður á bóginn, til að tilkynna Selkirk lávarði um manndrápin.

Við höfðum unnið sigur, en hversu langgæður mundi hann verða? Augsýnilega var bliku að draga upp, og fæstir okkar sáu vonglaðir mót hinu væntanlega ofviðri er að fór.

---

## XXV KAPÍTULI

*Liðsinni lávarðarins.*

Jafnvel þegar sigurfögnuður Norð-Vestmanna stóð sem hæst, var þeim það þó glögt, að þeir og Selkirk lávarður voru ekki skildir að skiftum; og þessi þrekmikli aðalsmaður lét ekki lengi á því standa, að hann kæmi til skjalanna á ný. Manndrápin við Seven Ooks voru fréttir, sem honum komu einkar vel og hann hafði lengi beðið eftir. Nú hraðaði hann för sinni vestur, hertýgjaður alvæpni laganna; maður, jafnmikils verður eins og hann var, gat ekki lagt af stað út í óbygðir, án þess að hafa allmikinn mannafla sér til styrktar og aðstoðar. Það hafði hann að minnsta kosti að yfirvarpi, er hann tók með sér þau tvö eða þrjú hundruð málaliðs, er nú fylgðu honum, auk allra annara ribbalda er í förina höfðu slegist. Og það mun mála sannast, að leitun hafi verið á meiri óþjóðalýð, en Selkirk lávarður hafði sér til varnar í þessari vesturför sinni. Málaliðsmennirnir voru hratið úr hersveitum Evrópumanna, sem átt höfðu í höggi við Napoleon og komu rakleitt úr hersveitum De Meurons. Fregnin, sem bátaflotinn

frá Fort William bar um komu Selkirk lávarðar, hlaut og að skýra til fullnustu hvernig á því stóð, að þessi bátafloti hraðaði nú ferð sinni aftur til að verja Norð-Vestmenn við Superior-vatn; og á því var heldur ekki vanþörf. Smátt og smátt tóku okkur í Rauðárdalnum að berast fréttir af atburðum þeim, er gerðust við Fort William. Fyrstu fregnirnar um það færðu okkur Indíánavatnaferðamenn, er sí og æ voru á sveimi um þetta töfraland, sem alt var gegnskorið ám og síkjum. Síðan bárust okkur áreiðanlegri fréttir með frjálsum mönnum, sem reknir höfðu verið út úr Fort William; eftir það þóttumst við geta gengið úr skugga um, að þetta höfuðból Norð-Vestmanna hafði með öllum þess gögnum og gæðum lent í höndum Hudsonsflóamanna. Nokkru síðar komu orðsendingar frá forkólfum félags okkar, sem reknir höfðu verið brott frá Fort William, um að við skyldum vera við öllu búnir í Douglas-virki Okkur var gefið í skyn, að Selkirk lávarður mundi dvelja að eins þann tíma í Fort William, er hann þyrfti lit þess að ná þar undir sig öllu fémætu í nafni laganna—hann þóttist svo sem vera refsivöndur laganna—og þegar það var búið, þá mundi hann í nafni laganna halda mót Douglas-virki og láta það sæta sömu kjörum eins og Fort William hafði verið látið sæta. En um það má láta jarlinn njóta sannmælis, að sigra sína vann hann blóðsúthellingalaust; en þeir unnust blóðsúthellingalaust af því, að Norð-Vestmennirnir höfðu ekki brjóst á því, að sleppa lausum eirrauðu blóðhundunum í annað sinn, og

kusu heldur að bera sjálfir skarðan hlut frá borði, en að grípa til ofbeldis. Eigi að síður stefndum við öllum þeim mönnum okkar til Douglas-virkis, sem við gátum þangað mist. Svo leið sumarið fram á haust og haustið fram á vetur, og ekki kom Selkirk lávarður. Loks fórum við að ímynda okkur, að nú værum við öruggir, því að fjögra feta þykkur ís var komin á öll vötn og stálheldur. Selkirk lávarður mundi því varla taka það óráð upp að flytja menn sína vestur á hundasleðum um miðjan vetur þegar kuldar voru mestir. En Selkirk lávarður gekk þarna algerlega á vitsmuni við okkur, því að hann sendi hinn harðsnúna þorpara sinn, D'Orsonnens, foringja De Meurons hermannanna með sveit sína þvert yfir landið. Og mátti svo heita, að við hefðum ekki frétt til þeirra nema mjög lauslega, þangað til einn morgun, að við vöknuðum við það, eftir harða illviðris nótt, að þeir hafa valið sér ból við St. James, vestanvert við Assiniboine-ána. Dag eftir dag sátu þessir óaldarseggir þar athafnalausir og sýndu sig ekki í neinu. Eigi varð það um okkur sagt, að við hefðum ekki trausta vörðu. Verðir sátu í turnum dag og nótt. Njósnarar Norð-Vestmanna höfðu auga á öllum tiltekjum óvinanna, og um það var allmikið rætt, hvort við ættum ekki að gera menn út til D'Orsonnens og forvitnast um, hvað það væri, sem hann vildi okkur; en það var þó að vísu mála sannast, að við vissum glögt, hvað hann vildi, og höfðum lent í svo miklum blóðsúthellingum, að okkur langaði ekki til að stofna til nýrra óeirða.

Um Eirík Hamilton var það að segja að æfi hans var svo háttað í virkinu, að ekki gerði betur en að lífsmark sæist með honum. Djúp sár þurfa mikla græðslu, og síendurteknar mishepnanir, lama von og vilja þrek manna, svo því verður líkast eins og illkvikindi sé að sjúga úr manni merg og blóð, unz sá er fyrir verður. kvoðnar algerlega upp og lífsljósið sloknar. Þyngsta mótlætið, sem fyrir Eirík hafði komið, var þegar Miriam hvarf; því næst fylgdu hin margvíslegu vonbrigði, er leitast var við að finna hana aftur. Nú var það auðsætt að af þessum sökum veslaðist hann upp, þessi sterki maður, eins og þjáður af einhverjum dularfullum, lamandi sjúkdómi. Allar starfshugsanir virtust honum til ama. Hann var vanur að sitja einn sér einhverstaðar út í horni í Douglas-virki þegjandi eða þá að reika um virkisgarðinn einsamall, tautandi eitthvað fyrir munni sér. Hann þreyttist af hvað litlu erfiði sem var, og þó að hann festi blund, þá var eins og hann hrestist ekki neitt að ráði við það.

Hann hratt frá sér matnum eins og kenjóttur krakki, og gegn öllum uppástungum mínum snerist hann með vangaveltum og látlausum roluháttarmótþróa, sem var ákaflega þreytandi. Til allrar hamingju var mér það til hugarhressingar að umgangast séra Holland, sem altaf var glaður og kátur og hélt kyrru fyrir í virkinu; hann var að uppfræða Indíánaflokkana við Rauðá og Assiniboineá. En lengstum var hugurinn hjá henni, sem hafði verið leiðarstjarna mín, og vakningar-engill vona minna.—

þegar harður og kaldur veturinn var fyrir alvöru genginn í garð, mátti eg naumast til þess hugsa, að þessir nýlendubúar, sem hún fylgdist með, yrðu sendir til vatnanna og yrðu að þola vetrarkuldann skýlislausir að kalla. Eg leigði mér því hlaupara, og sendi hann á fund þeirra og skoraði á þá að hverfa aftur til Rauðárdalsins. Kvaðst eg skyldi setja sjálfan mig að veði fyrir því, að þeim yrði ekkert tjón gert. Sutherlandfeðginin voru í hópi þeirra, sem aftur sneru. Og þó að eg hefði við ýmsa erfiðleika átt að stríða, þá gleymdust þeir við þær ánægjustundir, sem eg átti hér eftir í nýlendubygð Selkirks lávarðar, því að þangað fór eg í hvert skifti, en mér slapp verk úr hendi. Um sólsetursskeið hafði eg lokið störfum mínum dag hvern í vikunni. Þá var eg vanur því að stíga á þrúgur eins og hinir innfæddu og þjóta af stað út á snæþakta sléttuna. Á daginn hafði snjórinn viknað lítið eitt fyrir sólu, en þegar kólnaði hafði komið á hann ofurlítil skel. Hélt mér því ágætlega uppi á þrúgunum; og jafnan fór það svo, að mig bar í þessum ferðum mínum að heimili Sutherlands. Eftir að De Meurona-liðið var komið veitti Franziska mér oft átölur fyrir þessar kveldgöngur mínar, sem hún nefndi svo, en eg hirti ekkert um það og hræddist óvinina ekki hót.

'Eg get ekki ímyndað mér, að þessi dauðýfli hafi neitt ilt í huga," sagði eg eitt kveld við herra Sutherland, og átti eg við hermennina.

Að undirlagi Franzisku hafði eg tekið upp á því að koma eins snemma eins og eg gat, og sem oftast

líka, og vildi þannig venja Skotann, þurdrumbslegan að eðlisfari, á að þola það þó að eg ílengdist þar fram eftir kveldinu. Hann var nú farinn að taka mér mjúklegar en áður, og fékst nú stundum til að taka þátt í umræðum við mig.

"Eg held helzt, að þeir hafi ekki í huga að gera neitt af sér," endurtók eg.

Hann ýtti gleraugunum upp á ennið, lokaði postillunni, sem hann hafði verið að lesa í og hnyklaði brýrnar ákaflega, eins og hann ætti í miklu stríði við sjálfan sig um það, sem hann ætlaði að segja og komst eg síðar að því, að svo hafði verið.

"Þú ert ungur og óreyndur," svaraði hann. "En eg get ímyndað mér, að þú gætir gert félagi þínu góðan greiða með því að hafa auga á þeim óróaseggjum, sem eru að smíða stiga."

"Hvað þá? Hafa þeir verið að smíða stiga," spurði eg uppvægur.

Hann ýtti gleraugunum aftur fram á nefið og opnaði postilluna sína á ný.

"Ja það get eg ómögulega sagt um?" svaraði hann.

Að eins einu sinni leit hann upp úr bók sinni. Eg var þá staðinn upp til að fara· Franziska hafði fylgt mér fram til útidyra eins og hún var vön; þar batt eg á mig þrúgurnar og kvaddi hana í kyrþey; en þegar eg opnaði hurðina gaus í móti mér svo an að láta aftur hurðina meðan eg byggi mig betur við þessu illviðri.
snörp skafrennings-hviða, að eg sá þann kost vænst-

"Æ, Rúfus, góði! Þú getur ekki farið út í þetta veður," sagði Franziska. Þá fyrst tókum við eftir því, að hvassviðrið var orðið svo mikið, að húsið skalf og nötraði.

"Ætli hann hafi alt í einu skollið á með þetta veður," sagði eg, "eg tók ekkert eftir því, að hann væri að ganga í illviðri."

"Eg er hrædd um, að við höfum ekki tekið eftir því Rúfus."

"Nei, við höfum haft annað um að hugsa," svaraði eg sakleysislega, en hún fór að hlægja.

"Þú ferð hvergi," sagði hún.

"Eg hefi vindinn á eftir," svaraði eg. Það er engin hætta," og eg hélt áfram að reima að mér þrúgurnar.

Nú var postillunni alt í einu smelt aftur og faðir Franzisku kom fram.

"Eg ætla ekki að láta neinn mann fara út úr mínum húsum í öðru eins veðri og þessu. Taktu af þér þessa skó undir eins."

"En eg þarf að hugsa um stigana," svaraði eg þrákelknislega. "Eg vil ekki að neinn geti sagt það, að Rúfus Gillespie hafi ekki verið heima þegar óvinina bar að garði."

Vindurinn hvein á hússtafninum og herra Sutherland hvesti á mig augun hálf-hissa.

"Þú ert óbilgjarn og þrálátur unglingur, Rúfus Gillespie," sagði hann þurlega. "Eg býst við, að þú sért staðráðinn í að fara?"

"Já, það er eg," svaraði eg hlæjandi. "Eg ætla

að fara."

"Jæja, taktu þá hundana og farðu á sleða," sagði hann og vingjarnlegum glampa brá fyrir í gráum augunum. Það varð svo úr, að eg fór af stað á hundasleða Sutherlands, vel búinn að loðklæðum, svo að eg var öruggur fyrir kulda.

Og það var engin vanþörf á því að vera vel búum. Það er vanalegt, að því sé haldið fram, að gömlum nýlendumönnum hafi hætt við að ýkja vetrarkuldann. En það get eg sagt, að varla er hægt að mikla um of biturleik frostgrimdanna á afdrepslausri eyðisléttunni. Skafrenningurinn var eins og æðandi særok. Þeir sem eiga heima í þröngum fjalldölum, þar sem veður ekki ná til, þeir eiga bágt með að geta nærri hvað kuldinn á eyðisléttunni er næmur og sár. Í ofviðrinu varð hróp mitt til hundanna eins og máttlaust hvískur, sem vindurinn sleit af vörum mínum og feykti burt með sér. Snæ-örvarnar smugu inn um öll op á fötum manns og stungu eins og hvassir hnífsoddar. Ef ekki hefði verið skógarbeltið við ána til að rétta sig eftir, þá hefði það verið fásinna að leggja út í þetta veður um dagtíma, en enn þá meiri háski að næturlagi. Eg stefndi hundunum sem beinast að skógarbeltinu. Skógurinn dróg úr hvassviðrinu um stund, og varð mér þess vegna ofurlítið hægra að átta mig í kófinu, sem var biksvart eins og þyrlað upp af hvirfilbyl. Nýi snjórinn var ekki orðinn svo mikill, að hundarnir ættu erfitt með að komast áfram. Vindurinn var á eftir og bar þá því hratt í gegnum skóginn og út á auða sléttuna. Ekk-

ert ljós gat eg séð neinsstaðar, en þó þóttist eg vita, að eg gat ekki verið langt frá virkinu, og sneri því hundunum til vinstri handar að ánni. Það var því líkast, að hundarnir fyndu það á sér, að þeir væru komnir nærri mannabygðum. Þeir tóku undir sig harðan sprett, og er þeir höfðu hlaupið kippkorn vissi eg ekki fyrri til en þeir stönzuðu við það, að sleðinn rakst í vegg svo snart, að eg valt út úr honum.

"Greyskinnin!" sagði eg við hundana og spratt upp. Eg var ekki alveg viss um, hvar eg var niður kominn.

Hundarnir vöfðust fyrir fótunum á mér, svo að eg var nærri dottinn, og tók að þreifa fyrir mér í kafaldsbylnum. Eg fann að skíðgarður varð fyrir mér.

Enginn vafi var á því,. Eg fann glögt stóra stólpa og þéttfeldar fjalir; svo rak eg mig á járnbönd. Skyldi þetta vera hliðið hugsaði eg ,og var þó sízt að skilja í því, að eg skyldi hvergi sjá ljóskerið. Jú, það hafði líklega sloknað á því í illviðrinu; það fanst mér langlíklegast, og tók nú í ákefð að kalla á dyravörðinn. Hann hefði átt að vera rétt innan við dyrnar.

Nú varð ofurlítið hlé á milli bylja og heyrði eg þá ægilega háreysti inni í virkisgarðinum, mátti þar greina óhemjuleg org Frakkanna og hræðsluóp okkar manna. Þá þóttist eg vita, að hefnd var fram komin fyrir orustuna við Seven Oaks. Nú skall veðrið á

aftur með braki, brestum og ógurlegum hvin. Eg drógst með fram veggnum yfir að virkisgarðinum aftanverðum og hundarnir á eftir mér ýlandi. Menn voru þar að þjóta fram og aftur í kafaldshríðinni, og eg var mitt á meðal Meurónanna. Þeir voru svo ákafir að klifra upp stiga inn í virkið, að þeir gáfu mér engan gaum. Eg réðst því í að fara upp einn stigann, vatt mér yfir broddgirðinguna efst og lét mig falla niður í virkisgarðinn. Þar var alt á tjá og tundri. Eg hraðaði mér að aðaldyrunum. Þar vissi eg, að verðmætustu skjöl félagsins voru geymd, og við dyrnar hljóp eg í fangið á einum okkar manna, er hrópaði upp yfir sig hástöfum og baðst vægðar.

"Heigull!" sagði eg og hratt honum frá mér. "Hvað hefir komið fyrir?"

Ljósglampi féll nú á okkur báða, svo að hann þekti mig.

"Meurónarnir!" stundi hann. "Meurónarnir!"

Eg lofaði honum að þvaðra og þaut inn hjá honum.

"Hvað hefir gerst hér?" spurði eg og greip í skrifara, sem þaut inn ganginn.

"Meurónarnir!" stundi hann. "Meurónarnir!"

"Bíddu við, maður!" hrópaði eg og þreif í treyjuna hans. "Hvað hefir — gerst — hér?"

"Meurónarnir!" æpti hann.

Eg hristi hann þangað til hann mátti til að segja meira.

"Þeir hafa náð virkinu á sitt vald — við vildum ekki stofna til blóðsúthellinga—"

"Og hafið lagt niður vopnin," sagði eg fyrirlitlega.

"Já, við máttum til að leggja niður vopnin," svaraði hann eins og það hefði verið sjálfsagt nauðsynjaverk. "Varð—varðmennirnir sáu að virkisgarðurinn var orðinn – fullur – af – hermönnum."

"Fullur af hermönnum!" hrópaði eg. "Þeir eru þó ekki nema eitt hundrað talsins."

Eg rak skrifaranum löðrung, svo að hann hrökk yfir að veggnum og hljóp upp eftir skjölunum. Þar var kolniðamyrkur og eg var nærri búinn að fótbrjóta mig um líkkistu, sem rekin hafði verið saman í flýti utan um einn veiðimanninn, sem látist hafði í virkinu. Undarlegt að kistan skyldi vera látin standa þarna. Mér fanst, meðan eg var að nudda á mér fótinn og ýta til kistunni, það hefði verið öllu réttara að koma manninum í hana og greftra hann í stað þess, að efla til mikillar erfisdrykkju eftir hann fyrst. Nú heyrði eg mikinn hávaða í virkisgarðinum og var auðheyrt, að margir menn tróðust þar áfram. Eg vissi, að Eiríki Hamilton var óhætt, því að hann var Hudsonsflóamaður, og sömuleiðis séra Holland. En síður var svo um mig. Hvernig stóð á því, að þeir voru hér ekki til að hjálpa mér, hugsaði eg með mér ,eins og títt er, þegar kunningjarnir þurfa engu að kvíða, en maður er sjálfur í vanda

staddur. Eg þreifaði mig áfram eftir herberginu, fann skrifborðið, sprengdi skúffuna opna með hnífnum mínum og var í þann veginn að ná í skjölin, þegar eg sá skuggann minn á gólfinu, því að ljósglampi féll alt í einu inn um dyrnar.

---

## XXVI. KAPITULI.

### *Í kistunni.*

ÞÁ eftir ljósinu kom mannsandlit, andlit séra Hollands afmyndað af undrun og skelfingu.

"Hvað gengur að yður, séra Holland?" spurði eg. "Þér þurfið ekki að vera óttasleginn, yður verður ekkert mein gert."

"Eg veit það, eg er ekki hræddur mín vegna, heldur þín vegna. Því í dauðanum varstu ekki kyrr hjá skozka manninum drengur? Hvernig stóð á því að Franziska skyldi sleppa þér burtu þaðan í kveld?" og um leið brá hann hendi fyrir ljósið.

"Eg þurfti að ná í þetta," svaraði eg.

"Þú hefir víst þurft að leggja þig undir högg hérna, óróaseggurinn þinn. Þú hefir stofnað þér í augsýnilegan lífsháska," hvíslaði hann, færði sig nær mér og lagði yfir mig hendur eins og í verndar skyni.

"Þey!" sagði eg. "Nú kemur allur skarinn."

"Flýttu þér burtu!' hrópaði hann og ýtti mér frá skrifborðinu, sem eg stóð enn upp við.

"Eg flý ekki fyrir þessum ránshundum!" svaraði eg með þjósti.

"Þú ert þverhaus, ósveigjanlegur gortara-auli," hreytti presturinn út úr sér. "Út héðan þorskhausinn þinn, — hvað heldurðu að þú megir þín hér? Svona, flýttu þér flóns-kjamminn þinn!"

"Þey, þey!" sagði eg til þess að stöðva þenna orðastraum. Mér hafði heyrst eg heyra nafn mitt nefnt í háreystinni niðri.

"Svona, hlauptu af stað, Rúfus! Hlauptu af stað í guðanna bænum!" hrópaði prestur og var eins og hann héldi, að þorpararnir væru eingöngu komnir til að handsama mig.

"Hlaupið þér sjálfur af stað, séra Holland, og segið mér hvernig yður þykir það," sagði eg og stakk skjölunum á mig.

"Fjandakornið að eg fer," svaraði prestur.

"Þey!"

Meurónaforingjarnir voru nú að skipa mönnum sínum fyrir, en þó tóku yfir hróp virkisbúa, sem flýðu undan yfirkomnir af skelfingu.

"Farðu — farðu — farðu — Rúfus!" sagði séra Holland í innilegum bænarrómi. "Farðu nú!" og hann ýtti mér fram að dyrum.

"Nei, eg fer hvergi!" svaraði eg og hratt honum frá mér. "Svona, nú mega þeir koma!" hélt eg

áfram og greip kylfu í aðra hönd mér, en skammbyssu í hina.

"Norð-Vestmenn höfðu ekkert færi á að verja sig". Áður en eg hafði slept orðinu var virkið fult af ölvuðum Meurónum. Þeir ruddust áfram, hristu vopnin að óvinum sínum og hótuðu að drepa alla Norð-Vestmenn.

"Farðu, Rúfus, farðu! Mundu eftir Franzisku. Bjargaðu þér!" mælti prestur.

Nú var það orðið um seinan. Það var ómögulegt, að eg kæmist fram ganginn. Auðheyrt var að þeir voru farnir að þramma upp stigann og ruddust inn í hvern krók ok kyma.

"Jee—les—pee! Jee—les—pee! Seven Oaks!" tautaði einn franski maðurinn í miðjum stiganum og nú ruddust margir menn upp. Eg bjóst til varnar, því að eg hélt, að þeir mundu saka mig um hluttöku í Seven Oaks bardaganum.

"Jee—les—pee!" hrópuðu margir fleiri. "Hvar er Gillespie?" orgaði foringinn.

"Þeir eru að spyrja eftir þér, Rúfus!" hvíslaði presturinn, og áður en eg vissi hvað hann hafði í huga, hafði hann brugðið fyrir mig fótum og slengt mér á gólfið. Um leið hvolfdi hann ofan yfir mig tómu líkkistunni, sem þar stóð og hafði þannig á svipstundu veitt mig í gildru. Síðan heyrði eg að ofan á kistuna hlemdist hér um bil tvö hundruð punda þungi. Það var presturinn sjálfur. Hann

dró því næst upp bænabók úr vasa sínum, og tók til að þylja upp úr henni bænastúfa, sem eg er viss um að hafa verið lesnir úr bókinni á höfði, því að þar var hrært saman í einn óskaplegan graut köflum úr faðir-vor á latínu, bænarsálmum og ýmsu öðru, svo að ekki varð heil brú í neinu.

Þetta man eg að eg heyrði:

*"Libera nos a malo —ora pro nobis, pecca toribus —ab hoste maligno defende me — ab homine iniquo et doloso erue me — peccator videbit et irascetur — desiderium peccatorum peribit—"* .þuldi prestur nú í ósköpum.

"Jee—les—pee! Jee—les—pee!" öskruðu einir tíu eða tólf mannsbarkar efst í stiganum. Svo var brotist að dyrunum.

"Bíðið við menn!" kallaði Eiríkur. "Eg skal sjá hvort hann er inni."

*"Simulacra gentium argentum et aurum opera manuum hominum"* þeystist út úr prestinum á kistulokinu.

"Bíðið augnablik" sagði Eiríkur, en hann gat ekki við þá ráðið. Hurðin var rifin af hjörunum og inn í herbergið þustu Frakkarnir, hver á eftir öðrum.

*"Manus habent, non palpabunt; pedes—"*

"Er Gillespie hér?" greip Eiríkur fram í fyrir presti, sem þuldi latínuna í ákafa.

*"Pedes habent et non ambulabunt; non clama-*

*bunt in gutture suo"*, tautaði prestur í verslok; síðan sneri hann sér að komumönnum og sagði með þjósti, sem eg hélt ekki að hann hefði átt til:.

"Eg er nú farinn að þreytast á því, að menn þyrpist hingað að spyrja eftir þessum strákbjálfa. Blessaðir lítið þið á herbergið það arna. Það eru ekki mörg fylgsnin hérna! Svipist þið nú um! Hér er fljótleitað", og svo hélt hann áfram að þylja latínuna.

*"Similes illis fiant qui faciunt ea—"*

"Hefir einhver verið hér á undan okkur?" spurði Englendingur einn í hópnum.

"Já, víst komu hingað tveir menn á undan ykkur," svaraði prestur önuglega eins og þessar spurningar röskuðu bænarhelginni, og hélt svo áfram sálmi sínum:

*"Similies illis fiant qui faciunt ea et omnes—"*

"Eg held réttara væri að lyfta upp þessum kassa," sagði Englendingurinn þrákelknislega, "og vita vissu sína um, hvort ekkert er undir honum."

"Ef þið snertið við þessari kistu," sagði séra Holland mjög alvarlegur — og eg verð að játa, að hárin risu á höfðinu á mér þegar hann stóð upp — "ef þið snertið við kistunni, segi eg," mælti hann, "þá munið þið ekki sjá annað en — mannslík," og var það réttmæli að vissu leyti, því að eg mundi hafa skotið til bana fyrsta manninn, sem á mig hefði ráðist.

En presturinn var ekki eins kærulaus um þetta

eins og hann lét, og gat eg heyrt það á því, hvað hann var skjálfraddaður, og nú ruglaðist hann fyrir alvöru í sálmalestrinum.

*"Requiescat in pace"*, sagði hann næst, með mestu alvörugefni eins og hann væri að tala yfir líki, og orðin virtust eiga við þetta tækifæri.

Af því að séra Holland tók ekki þverlegar í að lofa þeim að skoða í kistuna, þá féllu þeir frá því að lyfta henni upp.

"Við ætluðum ekki að sýna neitt óþarfa ofbeldi," svaraði Englendingurinn; "eg bið forláts."

"Nei, hér á ekkert ofbeldi við," svaraði prestur og settist niður. *"Benedicite—"*

"Setjist þér á kistuna aftur," sagði enski pilturinn, og þegar eg fann líkamsþunga prestsins leggjast á hana á ný, þá glaðnaði yfir mér.

"Svona piltar," sagði Eiríkur Hamilton," við erum að eyða tímanum hér til einskis! Hann kann að sleppa út um kjallaragluggan á meðan."

*"Jam hiems transiit, imber abiit et recessit; surge, amica mea, et veni—"* öskraði prestur um leið og allur skarinn ruddist aftur niður stigann.

"Fljótur nú — upp undan kistunni undir eins!" hrópaði séra Holland í skipunarrómi. "Hlauptu nú eins og guð hefir gefið þér máttinn til og drottinn blessi þig!"

Eg þaut niður stigann eins og örskot og var kominn góðan spöl fram eftir ganginum þegar einhver hrópaði: "Þarna er hann!"

"Hlauptu Gillespie!" heyrði eg að einhver kall-

aði, einhver af okkar mönnum býst eg við; eg ruddist áfram, komst út í hríðina. Það var hepni mín hvað hún var dimm; mér varð greiðara fyrir að komast áfram í snjónum á mochasinsskónum mínum heldur en hermönnunum á þungum stígvélum. Eg komst undan þeim sem á eftir mér sóttu og hafði góða von um að sleppa þegar eg alt í einu sá andlit á hermanni koma í ljós beint fram undan mér. Rétt á eftir var byssusting lagt fyrir brjóstið á mér, svo að eg kiknaði fyrir og féll flatur til jarðar.

Eg var kominn á vald óvinanna.

Um handtökuna er fátt að segja. Fáum mun og þykja það hugnæmt umtalsefni að skýra frá því, er þeir hafa orðið undir í einhverju. Það er síður en svo skemtilegt að láta hrifsa vopnin úr höndum manns og leita í vösum manns,, og sjá hermenn standa upp yfir með brugðnum sverðum.

Það er hart að finna allan karlmannsþrótt smákreistan úr sér.

Eg verð að játa það, að hetjuskapur minn var mjög þorrinn þegar hermennirnir voru búnir að taka mig höndum út í virkisgarðinum, draga mig formálalaust upp stigann og fleygja mér inn í ofurlitla herbergiskitru þar sem járnstengur voru fyrir gluggum upp undir miðju. Óvinir mínir særðu mig þó ekki með því að leggja mig í fjötra.

"Þarna skaltu vera," tautuðu Hudsonsflóamennirnir um leið og þeir lýstu inn í þenna auðvirðilega klefa og fleygðu mér inn á gólfið. "Þarna ætti að geta rokið af þér mesti uppreisnar hitinn," og Frakk-

arnir hlógu dátt að þessari fyndni sinni.

Þeir lokuðu hurðinni vandlega og settu slagbrand fyrir dyrnar að utan. Eg heyrði hermennina fara burtu út tóman ganginn og eg var einn eftir í þessum klefa, sem notaður hafði verið fyrir fangaherbergi undir stjórn McDonnells. Og nógu kalt var þar inni til þess, að ryki af mér, og þótti mér ekki að því í svip, því að mér var býsna heitt. Eg þekti herbergið vel. Norð-Vestmenn höfðu brúkað það fyrir geymsluherbergi. Gusturinn smaug í gegn um rifurnar, sem víða hvar voru milli borðanna, og skafrenningurinn lét eftir sig smá-snjókerlingar á gólfinu, en sum borðin voru laus og svignuðu fyrir storminum, svo að brakaði í þeim. Undir loft var næsta lágt, svo að eg varð að skríða út að glugganum. Eg fann þá að allar rúðurnar voru kafhélaðar. Eg gat ekki munað það, hvort járnstengurnar utan við gluggann lágu upp og ofan ,eða þvert um. Það gerði mikinn mun á hvort eg gæti sloppið eða ekki. Þó að mér þætti það ilt að brjóta gluggann og hleypa inn kuldastorminum, þá neyddist eg samt til þess, ef eg ætti að geta fullvissað mig um það, hvernig járnstengurnar væru settar. Eg lyfti upp fætinum til að sparka í gluggann, en mundi þá eftir því, að eg var á mochasinskóms, en ekki stígvélum. Eg rak því hnefann í gluggann og braut allan efri hlutann. Síðan braut eg þverkraminn, sem hlaut að vera því til fyrirstöðu, að eg kæmist út; og er eg hallaði mér áfram fann eg að járnteinarnir lágu upp og ofan. Frostið var svo mikið, að um leið og eg snerti tein-

ana, festust fingurnir á mér við þá, og eg kipti að mér hendinni, því að mér fanst eins og eg hafa skaðbrent mig.

Eg sá, að því að eins gat auðið orðið að sleppa úr þessu fangelsi, að eg gæti náð í einhvers konar festi til að fara niður í. Eg tók að leita um klefann, að seglpjötlum eða öðru, er hægt væri að binda saman með skinni, sem inni kynni að vera, en eg fann ekkert slíkt í myrkrinu, þó að það hafi kunnað að vera þar inni. Eg var þó ekki lengi að velkja við mig hvað gera skyldi, en snaraðist úr loðfeldi mínum, reif hann niður í smáræmur og tók að hnýta úr þeim festi, og batt við neðri enda gluggapóstsins; síðan vatt eg mér út, fór með fæturna fyrst, greip um festina báðum höndum og lét mig renna niður eftir henni í einni svipan. Mér loghitnaði á höndunum af núningnum og það minti mig á, að eg hafði skilið vetlingana mína eftir inni í fangaklefanum.

Allir hermennirnir höfðu hröklast inn undan illviðrinu. Eg hitti ekki nokkra lifandi sálu í virkisgarðinum, og gat því auðveldlega komist út um aðalhliðið.

Eg blístraði á hundana. Þeir komu þjótandi frá stiganum þar sem eg hafði við þá skilið, og drógu sleðann á eftir sér. Einn hundurinn var svo illa leikinn af kulda, að eg skar hann frá sleðanum og lét hann eftir, hann var sama sem dauður, hvort sem var. Eg tók sleða-taugarnar mér í hönd, hristi af þeim snjóinn og teymdi hundana niður til árinnar. Eg vissi, að afarkaldsamt mundi að fara í móti þessu

veðri eftir miðri ánni, en aftur á móti yrði hægt að fara hraðara eftir slóðinni á ísnum og með því að háir bakkarnir voru til beggja handa var lítil hætta á því, að hundarnir viltust.

Eg á það að þakka forsjón guðs og vegvísi hundanna ,að eg hélt lífi. Þeir höfðu ekki hlaupið nema fáeina faðma, þegar eg fór að finna til þess, að eg var yfirhafnarlaus. Eg hrópaði til þeirra til að herða á þeim í síðasta sinni, og síðan lagðist eg flatur á sleðann, vafði mig eins og eg gat í ábreiðunum, breiddi þær upp yfir höfuð og treysti því, að hundarnir héldu rétta leið heim til sín.

Eg vil sem minst leitast við að rifja upp þetta ferðalag mitt heim til Sutherlands. Maður, sem er frosinn rétt að segja til dauða, verður ekki var við biturleik hinna norrænu frostgrimda. Jökulmundin, sem hrifsar líf hans, tekur hann ekki kvalatökum, heldur deyfir hann og lætur hann falla í hægan, þjáningarlausan dvala. Um þetta get eg borið af reynslu. Eg man það glögt, hversu þessi lamandi höfgi færðist yfir mig, og hvað fast eg stríddi í móti honum. Sárinda tilfinningin hvarf smátt og smátt úr útlimunum, og þeir urðu alveg tilfinningarlausir og dofnir; síðan hélt þessi magnleysisdofi áfram að færast um líkamann unz mér fanst að eg ætla allur að gagntakast af honum. Eg þóttist þá vita, hvað að fór, spratt upp í sleðanum og stöðvaði hundana.

Eg reyndi að grípa í aktaugarnar, sem eg hafði skorið frá hundinn þann, sem eftir varð, en eg hafði ekki mátt í mér til þess. Eg vafði því taugunum ut-

an um handlegginn á mér og tók að reyna að hlaupa með sleðanum. Hundarnir gátu nú farið harðara, er sleðinn var tómur, en við hvert fótmál fanst mér eins og hnífi væri stungið í hálffrosna limi mína, er blóðið tók að færast í þá á ný. Sá, sem helfrýs, verður ekki var biturleiks frostgrimdarinnar í köldu löndunum eins og hún er verst, heldur sá, sem hefir kalið til hálfs og raknar þannig við til lífsins aftur.

Eg hafði einhverja óljósa hugmynd um, að hundarnir höfðu snúið til vinstri handar og voru að reyna að komast upp árbakkann. Þar þraut þróttur minn, eða mér varð fótaskortur, en eg man það eitt, að eg var dreginn í snjónum, svo að eg veltist við nokkrum sinnum, og loks námu hundarnir staðar við dyr á húsi og tóku til að ýla hátt og ámátlega. Einhvern veginn brölti eg á fætur. Ljósgeisli féll nú skyndilega framan í mig, er hurðin var opnuð, svo að eg fékk ofbirtu í augun og féll áfram inn yfir þrepskjöldinn.

— — — — —

Eg þarf ekki að skýra frá því hver það var, sem opnaði dyrnar fyrir mér, dróg mig inn og lét líf færast í hálfkalna limi mína.

"Hvað hefir komið fyrir, Rúfus Gillespie?" heyrði eg einhvern spyrja morguninn eftir, þegar eg vissi fyrst af mér, og mér fanst eins og eg vera að vakna eftir langan svefn og erfiða drauma og vissi ekki hvar eg var staddur.

"Hvað hefir komið fyrir, Rúfus Gillespie?" var

spurt aftur og karlmaður tók um úlnlið minn, til að kanna æðasláttinn.

"Pabbi! Pabbi! Gerðu þetta ekki! Þú getur meitt hann!" var sagt með hreinni, þýðri rödd, sem lét unaðslega í eyrum mínum, og um leið var tekið á mér svo mjúklega, að mér fanst sársaukinn hverfa við snertinguna.

Þá alt í einu varð mér ljóst, hvar eg var niður kominn og um leið virtist mér allar kvalir dvína í líkama mínum. Eg reyndi í fám, sundurlausum orðum að skýra þeim frá því sem gerst hafði.

"Nú eruð þið búnir að ná landinu undir ykkur, herra Sutherland," stundi eg upp loðmæltur, en hjákátlega fús til að tala.

"Mér finst það ekki þakkarvert," svaraði Skotinn. "En nú er komin fram hefnd fyrir blóðsúthellinguna við Seven Oaks. Að vísu sæti það ekki á manni af Sutherlands ættinni að ætla að gifta dóttur sína miklum landvinningamanni, en það findist mér ekki sanngjarnt,, að játa þeim manni konu, sem er jafnilla útleikinn, eins og þú ert nú Rúfus Gillespie"; að svo mæltu þaut hann út að gera eitthvað sem gera þurfti.

Eg hliðra mér algerlega hjá að skýra frá því, sem næst gerðist, vegna þess að ástmál elskendanna skilja ekki aðrir en þeir, sem unnast.

---

# XXVII. KAPITULI.

*Undir sama þaki.*

Náttúran er áþekk banka. Þegar úttektin fer fram úr innlögunum, þá koma mótmæli fram og er ekki sjálfgæft að á eftir þeim fari algert gjaldþrot? Frá því um vísundaveiðarnar og alt þar til Hudsonsflóamenn náðu aftur undir sig Douglas-virki, hafði verið tekið of mikið út hjá mér af þeim mannlega hæfileika, sem nefndur hefir verið "þrek". Nú var að því komið, að gera upp reikningana, og jafnaðarreikningurinn sýndi, að drjúg þrekskuld var orðin.

Morguninn eftir, að eg hafði sloppið burt úr Douglas-virki, og herra Sutherland fór út og skildi dóttur sína eina eftir hjá mér, man eg það vel, að Franziska tók til alt í einu að laga koddann undir höfðinu á mér. Í stað þess að vaka nú eins og allir skáldsagnahöfundar mundu hafa gert ráð fyrir, hné eg — auminginn — út af í dvala, fanst að eg væri rétt að því kominn að deyja, og að það að vera þarna hjá Franzisku væri forsmekkur himnaríkissælu. Þegar eg raknaði við aftur, var herra Suther-

land kominn inn og stóð mjög ráðaleysislegur hjá rúmi mínu.

"Hvað langt?" sagði eg veiklulega, "hvað langt —hvað lengi, ætlaði eg að segja, hefi eg sofið?"

"Hissa er eg! Þú hefir ekki opnað munninn í marga mánuði, drengur."

"Marga mánuði!" endurtók eg undrandi. "Hefi eg verið hér í marga mánði?"

"Já, reyndar. Sléttan var þakin snævi þegar þú lagðist hérna, en nú geturðu heyrt gargið í gæsunum inn um gluggann."

Eg reyndi að snúa mér í rúminu, á móti hressandi loftstrokunni, sem lagði inn í litla herbergið, þar sem eg hvíldi. En einhverra hluta vegna gat eg ekki snúið mér. Nú laut gamli maðurinn ofan að mér, lagaði til koddann minn og sneri mér í rúminu, svo að eg fékk ilmþrunginn andvarann beint framan í mig.

"Meiddi eg þig kannske, drengur?" spurði gamli maðurinn með hörkulegri rödd, sem stakk mjög í stúf við mjúklegar handatiltektir hans á mér.

Eg er nú þeirrar skoðunar, að hvað hranalegir, sem menn kunna að vera í máli, þá sé það augljós vottur um að góðmenska leynist bak við þá hörku, ef þeir hinir sömu fara vel með sjúklinga. Eg veit að hugsunarleysi og heimska eru helztu viðbárurnar, sem fóðrað er með hranalegt viðmót og harmar lífsins. Hugsunarleysi og heimska eru einnig valdandi bæði ruddaskap og flestum þeim glæpum, sem fyrir koma. Það eru ekki að eins illar tilhneigingar ein-

göngu, sem koma manni til að sýna þann hrottaskap, sem sumir kalla "hugsunarleysi" og "heimsku", og jafnvel getur magnast svo, að á nægilega hátt stig komist til að svifta aðra lífi. Þegar eg heyrði þetta hranalega ávarp: "Meiddi eg þig kannske?", þá fór mér að skiljast, að slík yfirborðs-harka er oft sprottin af erfiðum lífskjörum, en ekki af mannvonzku eða illum tilhneigingum.

Og líklegt er það, að mér mundi hafa þótt gaman að kynnast herra Sutherland enn þá meir, ef hugur minn hefði ekki allur verið hjá dóttur hans. Aldrei hefir mér skilist til fulls hin einstaklega þagmælska, sem Skotum er gefin, fyr en eg kyntist herra Sutherland. Og nú varð eg þess var, að það var Sutherland sjálfur, en alls ekki dóttir hans, sem stundaði mig, bar mér mat og hvað annað.

"Hvar er dóttir yðar, herra Sutherland?" spurði eg, og spurningin var ekki nema eðlileg.

"Er það hún Franziska, sem þú átt við?" spurði hann aftur og sagði svo ekkert annað.

"Eg hefi ekki séð dóttur yðar enn þá, herra Sutherland, og ekki heyrt til hennar neinstaðar í húsinu."

"Á–á–á?' 'svaraði hann eins og honum kæmi þetta á óvart. "Hefirðu ekki séð Franzisku?" og meira fékk eg ekki út úr honum.

Milli miðdegisverðar og kveldverðar var eg að leita ýmsra bragða til að fá upp úr gamla manninum hvar dóttir hans væri. Einu sinni sagði eg:

"Eg er með skilmæli til dóttur yðar, herra Suth-

erland."

"Ójá," svaraði hann.

"Eg átti að færa henni þau sjálfur."

"Ójá," svaraði hann.

"Hvenær get eg fengið að tala við hana?"

"Þú verður að vera þolinmóður, drengur."

"En það bráðliggur á skilmælunum." Það voru engin ósannindi, því að nú voru tveir sólarhringar liðnir frá því, að eg komst til ráðs, og enn hafði eg hvorki heyrt fótatak hennar eða málróm.

"Ójá," svaraði Skotinn.

"Já, það bráðliggur á þeim," endurtók eg.

"Ójá," svaraði hann.

"Hvenær get eg fengið að tala við hana?"

"Hvað bíður sinnar stundar. Þú verður að vera þolinmóður, drengur minn."

"Skilmælin mega ekki bíða," svaraði eg. "Eg verð að koma þeim strax."

"Jæja, láttu mig þá heyra þau, ungi maður; eg skal færa henni þau."

"Er dóttir yðar ekki heima?"

"Hverju viltu að eg skili til hennar, drengur?" spurði hann.

Nú gat eg ekki setið lengur á mér. Var nokkurt vit í því, að senda ástarorð með föður til dóttur, og það þessum hranalega karlfauski?

"Segið þér ungfrú Sutherland, að eg verði að fá að finna hana undir eins," sagði eg og var heldur en ekki farið að síga í mig.

"Ójá," svaraði hann með kýmnisglampa í kulda-

legum, stálgráum augunum, "eg – eg – skal færa Franzisku þessi orð frá þér — þegar eg sé hana næst."

Nú sneri eg mér til veggjar, með allri þeirri beiskju í huga, sem ósjálfbjarga maður finnur til er ástríður hans eru óbugaðar en líkamlegan þrótt skortir til að fullnægja þeim. Eg átti mjög slæma nótt, lá alveg værðarlaus, og sat Skotinn alt af uppi í hægindastól beint á móti mér· Einu sinni þegar eg hrökk upp úr móki, sem yfir mig hafði færst, þá sá eg að hann starði fast á mig, og þá var augnaráð hans einstaklega vingjarnlegt.

"Segið mér nú, herra Sutherland, hvar dóttir yðar er," sagði eg með barnalegri óþolinmæði.

"Eg sendi hana til nágranna míns, eftir að þú fékst ráð og rænu," svaraði hann. "Þú hefir ekki mátt annað heyra, en að hún sæti yfir þér nótt og dag, og svo hefir verið í þér það ógnarlegt óráðsþvaður, að dóttir mín hefir varla þolað að hlusta á þig. Þú getur varla búist við, að—"

"Mér þykir leitt til þess að vita herra Sutherland, ef eg hefi sama sem rekið dóttur yðar burtu," svaraði eg. "Eg vildi óska, að þér vilduð senda mig strax aftur til Fort Douglas——"

"Sussu, sussu, drengur!"svaraði hann og veifaði til hendinni. "Nei, það kemur ekki til nokkurra mála. Þú verður hér kyr. Í fyrra dag fór hún fór burtu, og hún mátti til, hún var svo uppgefin af svefnleysi og þreytu. Nú verðið þið bæði að hafa biðlund þangað til þú ert orðinn heill heilsu og hún

orðin rjóð í kinnum eins og hún á að vera."

Þegar eg hafði heyrt þetta sneri eg mér til veggjar aftur, en nú var eg óreiður. Þetta þrályndi Sutherlands verkaði að ýmsu leyti vel á mig. Og þá hafði eg ekki síður gaman af að heyra hann tala við Hudsonsflóamennina um hvarf mitt. Margoft heyrði eg mér til mestu skemtunar á þær viðræður. Einu sinni sem oftar sátu nokkrir hinir helztu þeirra og mestu gortararnir í herberginu fram af litla svefnherberginu, sem eg hvíldi í, og voru að tala um þetta.

"Eg lofa hverjum þeim mörgum pundum sterling, sem handtekur þann þorpara," sagði D'Osscnnens.

"Mér sýnist það helzt til vel boðið fyrir einn piltgarm," svaraði Sutherland.

D'Orsonnens bar ekki á móti því, en auðheyrt var að honum þótti mikils um vert að eg fyndist, og valdi mér alls konar hæðiyrði.

Þá setti Sutherland á sig þóttasvip og kvaðst engin slík illyrði vilja heyra um hönd höfð í sínum húsum. Lauk svo þeirra viðskiftum að Skotinn vísaði D'Orsonnens á dyr.

Í annað skifti man eg eftir, að einn aðkomumaður frá Douglas-virki gizkaði á, að eg mundi hafa lent í vög á ánni, af því að eg hefði ekki fundist þrátt fyrir alla leit.

"Það er enginn efi á því, að piltur þessi hefir fengið sín makleg málagjöld. Honum er líklega fullheitt hinum megin vona eg," sagði Sutherland.

Enn man eg eftir því, að D'Orsonnens spurði einu sinni eftir því, hvaða maður það væri, sem lægi veikur þar heima hjá þeim.

"Það er manngarmur, sem rekinn var brott úr Douglas-virki af þessum blóðþyrstu harðstjórum," svaraði Sutherland og skenkti gesti sínum púns í sterkara lagi. Og rétt á eftir tók Skotinn sér bók í hönd og tók að lesa hátt hin hörðustu mótmæli gegn rómversk-kaþólskri trú. Þetta varð til þess, að D'Orsonnens lét af komum sínum til okkar.

"Eg vona, að eg hafi ekki sagt neitt af leyndarmálum Norð-Vestmanna meðan eg hafði óráðið," sagði eg eitt sinn við Sutherland.

Skotinn hafði hagrætt mér, svo að eg sat nú uppi fyrsta sinni eftir leguna.

"Þú ert nú búinn að liggja æði lengi og hefir verið mjög þungt haldinn, en ekki þarftu að naga þig í handarbökin fyrir það, að þú hafir fleiprað frá leyndarmálum félags þíns. En eg vil ekki fullyrða, að þú hafir verið jafnþagmælskur um ástamál þín. Um Franzisku varstu sí og æ að tala, um stjörnur og anda, líkneskjur og því um líkt, sem ritningin varar við að dýrka, svo að stelpan hélt, að þú værir alveg búinn að missa vitið."

— — — —

Afturbata mínum vildi eg helzt jafna til hinnar skjótu breytingar, sem verður á árstíðunum í hinum norðlægu löndum. Án alls aðdraganda vorsins hverf-

ur kulda-grámóða hins harða vetrar fyrir björtum ylgeislum sumarsólarinnar. Marzvindarnir hafa blásið snjó af hæðunum og upp úr veðurbarinni jörðinni skjóta fíflar glókollum sínum, og nýgræðingurinn gægist upp úr gráum sinulúðanum. Rétt eftir að síðasti hríðarbylur vetrarins hefir riðið af, og farið herskildi yfir bera, víðáttumikla sléttuna, tekur endurlífguð, gufandi gróðrarmoldin að senda rósir upp í sólskinið, og snæfyltar lægðirnar verða að bláum stöðuvötnum, sem sólbjartur himininn og svífandi skýin endurspeglast í.

Bata mínum svipaði til sumarkomunnar. Mér var ekki að batna annan daginn en versna hinn — vonbrigðin, sem því fylgja lama kjark manns, eins og kunnugt er—, heldur færðist skyndilega í mig allur minn gamli þróttur við skin blessaðar Júnísólarinnar.

"Það er lítt mögulegt að geta sumu fólki nærri," sagði Sutherland; "þú hefir risið úr rekkju eins og *krókus*-jurt undan vetrarsnjónum. Ef Franziska hefði verið hjúkrunarkona þín, þá værirðu líklega orðinn heill heilsu fyrir löngu."

"Eg hélt, að hún mundi nú fara að koma, eftir að eg er orðinn svona hress," svaraði eg og stikaði fram í eldhúsdyrnar.

"Nei, komdu aftur, drengur. Eg vil ekki að þú sýnir þig óvinum þínum. Og vertu ekki að hugsa um Franzisku; henni er óhætt, og þið fáið að sjást þegar þú ert orðinn alheill."

Hann leiddi mig síðan inn aftur og lét mig setjast í hægindastólinn. Sjálfur settist hann við glugg-

ann til að hyggja að hverja bæri að garði, og las sér til dægrastyttingar í trúvarnarritum sínum upp hátt.

"Þú ættir að sjá, hvernig páfatrúar-mönnum bregður við, þegar þeir heyra þetta," sagði hann einu sinni.

"Eg vildi óska, að þér gætuð stökt öllum Meurónunum burtu héðan," svaraði eg; "þá þyrftuð þér ekki að sitja þarna á verði, en gætuð hvílt yður hérna í hægindastólnum, sem eg sit í."

En Sutherland heyrði það ekki. Hann var svo sokkinn niður í guðfræðilesturinn; en alt í einu sló hann aftur bókinni, spratt upp og sagði:

"Nú er Franziska víst að koma," og með það sama rauk hann til dyranna.

Hurðin laukst upp um leið og Franziska kom hoppandi inn og lézt ekki sjá mig. Hárlokkarnir hrundu niður um vanga og enni, svo að ekki sá glögt til grárra augnanna; þeir voru eins og hjúpur, sem byrgði ekki fyrir fegurðina heldur bægðu brott of nærgöngulu augnaráði. Ekki var svo að skilja, að hún bæri anditsblæju, því að andlitsblæjur voru ekki brúkaðar meðal nýlendufólksins á þeim tímum. Eg spratt upp og ætlaði að segja eitthvað, en í sama bili datt Sutherland í hug að sýna þá mestu kurteisi, sem eg hefi nokkurn tíma orðið var við hjá honum.

Hann snaraðist frá okkur og settist út í horn. Eg stóð óráðinn í hvað eg ætti að gera.

"Seztu niður," sagði hún og lét sig falla niður á stólinn sem eg hafði staðið upp af. "Seztu niður, Rúfus góði!" sagði hún og leit til mín blíðlega.

"Þakka þér fyrir," svaraði eg og settist á stólbríkina hjá henni.

Og nú í fyrsta sinni á æfinni hafði eg vit á að þegja, því að ef eg hefði sagt eitthvað, mundi það hafa verið betur ósagt.

"Rúfus!" sagði hún lágt, "veiztu að eg ein hjúkraði þér altaf meðan þú varst veikur? Alt af meðan þú hafðir óráðið. Eg held eg viti nú orðið öll þín leyndarmál."

"Það er svo? Því er sem sé þannig varið með flesta, að þeir eiga leyndarmál, sem þeim er lítið gefið um að nokkrir aðrir fái vitneskju um, og þó að eg hefði aldrei spilzt mjög af vestræna óbygðalífinu — en það var eingöngu henni að þakka — þá kveið eg samt fyrir að hafa opinberað allar hugsanir mínar.

"Þú varst alt af að tala um Miriam og Eirík og séra Holland."

"En hvað sagði eg um þig, Franziska?"

"Þú sagðir ýmislegt um mig, sem óstyrkur kom á mig við að heyra."

"Sem óstyrkur kom á þig við að heyra. Mikill dæmalaus ruddi gat eg hafa verið; og þú sast yfir mér nótt og dag og—"

"Já, það kom óstyrkur á mig við að heyra það," greip hún fram í, "af því að eg er blátt áfram kvenmaður en enginn engill, blátt áfram kvenmaður, en engin stjarna. Kvenfólkið er dauðlegar verur rétt eins og karlmennirnir, en eg ímynda mér, að við fremjum ekki jafnoft illvirki eins og karlmennirnir,

bæði af því að við höfðum sjaldnar færi á því, og freistumst ekki jafnoft til þess eins og þeir."

Svo stóð hún upp, og gat eg ekki að því gert, að mér þótti það. Hún tók þá aftur til orða og sagði:

"Þið karlmenn gangið að eiga konur. og búist við að þær séu englar, og jafnaðarlegast er það æðsta markmið þeirra engla, að eiginmennirnir líti á þá eins og brúður. Það veldur vonbrigðum hjá karlmönnunum og traustið—"

"En heyrðu, Franziska," greip eg fram í, "hver skynsamur karlmaður, sem hefði að velja um engil eða stjörnu og góða konu, ljóshærða, hann mundi hiklaust kjósa konuna. Stjarnan er mikilfengleg, en hún er köld og stálkend. Englarnir eru helzt til góðir til sambúðar við okkur synduga menn. Og það get eg sagt þér, Litla líkneskja. að lífið væri lítils virði ef ástin ummyndaði ekki málmgrundvöll harðar skyldunnar og gerði hann að gullhreinni, óblandaðri ánægju."

"Þess vegna var það, að óstyrkur kom á mig. Eg verð að gera betur en englarnir og stjörnurnar. Ef eg gæti reynst eins og þú ímyndar þér að eg muni reynast og þú eins og eg hugsa mér þig, þá yrði æfin yndisleg."

"Ástin á að jafna þann mismun," sagði eg.

Nú varð þögn, því að sólin var gengin undir og Sutherland var hættur að lesa. Skuggarnir lengdust og rökkrið færðist yfir. Sú stund var nú að renna upp. er heillandi andi eyðisléttunnar legst yfir hana og fyllir næturkyrðina ómlausri mælsku. Árangurs-

laust hlyti það að verða þó að eg færi að reyna að lýsa hinni þöglu músík sléttunnar er fylgir rökkurkomunni, þeirri músík, sem allir Sléttubúar kannast við, en engir aðrir geta heldur skilið til fulls. Mig furðar því ekkert á, þó að hinir innfæddu þykist geta heyrt dyn sléttu-andans í þyt náttvindarins, andvörp þeirra, sem vilst hafa á leiðinni til hinna eftiræsktu veiðilanda, og kvein ungbarnanna, sem verða sárfætt á leiðinni til lands andanna. Mig furðar ekki á því, þó að léttstíg norðurljósin séu talin vera fylkingar Indíána hermanna og stjörnurnar blys, sem þeir hafa til að lýsa sér er þeir þeysa áfram um ómælanlegar sléttur himinsins. Og eg efast um að nokkur hvítur maður geti risið gegn þeim dularfullu töframögnum, sem hljóta að gagntaka mann út á eyðisléttum rétt eftir sólarlag, hvað skynsamur sem sá maður kann að vera og vel að sér.

Það þori eg að fullyrða, að engar manneskjur hafa jafnóljósa hugmynd um tíma eins og elskendur. Ef þeir hafa úr eða aðra tímamæla til að átta sig á, þá trúa þeir aldrei að þeir séu réttir. Jafnvel þó sólin sjálf næmi staðar mundi þeim samt finnast tíminn líða of fljótt. Eg verð að játa það, að eg hafði enga hugmynd um það hvernig tíminn leið fyrsta kveldið eftir að Franziska kom heim aftur og Sutherland hélt vörð við dyrnar. En er hann hafði staðið upp tvisvar sinnum og gægst út óþolinmóðlega þóttist eg geta skilið, að ofdimt var orðið til að lesa guðfræði. Í þriðja sinni leit hann út og sagði:

"Þið verðið nú að passa ykkur sjálf; eg heyri,

að menn eru að koma, en látið þið ekki sjá ykkur inn um gluggann."

"Það eru víst hermennirnir frá virkinu, sem eru að koma," sagði Franziska og stundi við.

"Vertu kyr," sagði eg. "Þeir geta ekki séð mig hér. Það er svo dimt. Mig langar til að heyra hvað þeir segja, því glugginn er opinn," og eg fór að segja henni af viðureign minni við Louis og hina druknu Hudsonsflóamenn , en hætti þegar eg heyrði Sutherland bjóða gesti sína velkomna með þessum einkennilegu orðum:

"Þá eruð þið komnir, svörtu syndaselirnir, guðlastararnir, meinsærismennirnir, vantrúarhundar! Eg vona að þið saurgið ekki hús mín með bölvaðri návist ykkar í kveld. Og þú líka, herra minn, með þeim. Um þig má segja að þar leiði blindur blindan, er þú ert foringinn, sjálfur lærisveinn Belzebúls, sem dýrkar babýlonsk skurðgoð, sem reykelsisþef leggur af, svo að viðurstygð er öllum heiðvirðum mönnum, sem gengur með dýrðlingamyndir og krossa og annan slíkan hjátrúarhégóma. Þið heiðingjar og páfakreddu-kálfur, þið hempu og pilz -pokar — burt með ykkur af minni landareign. Og ert þú með þeim Eiríkur Hamilton! Á því furðar mig að ærlegur prótestant skuli fylla þenna heiðingja-flokk."

"Þarna er Eiríkur, séra Holland og Laplante," hvíslaði eg að Franzisku og þaut fram að dyrunum, en hún hélt í mig.

"Vertu kyr,' 'hvíslaði hún. "Presturinn og Hamilton hafa verið hér áður, en pabbi hefir ekki

viljað hleypa þeim inn. Maðurinn, sem með þeim er, getur vel verið Meuróni· Vertu varkár Rúfus. Mikið fé er lagt til höfuðs þér."

Louis Laplante fór að hlægja og tók að bulla eitthvað um Sutherland og líkti honum við *Ursus Major.*

"Lofaðu mér að komast fram hjá þér, Franziska," sagði eg og ýtti henni hægt frá mér, en hún hélt samt um mig skjálfandi höndum sínum.

"Ósvífni þorpari!" öskraði Skotinn fokreiður. "Eg skal benda þér á, að nafn mitt er Sutherland, en ekki *Major Ursus.* Þér líðst ekki að sýna mér neina óskammfeilni. Burt héðan—"

"Björninn urrar," greip Louis fram í og hló, og Sutherland réði sér ekki fyrir reiði vegna óskammfeilni franska mannsins.

"Eg verð að fá að komast til þeirra," sagði eg og losaði mjúklega hendur Franzisku af handleggnum á mér og þaut út í myrkrið.

Af því að dimt var, gat eg komist nálægt hópnum án þess að nokkur yrði mín var. Eg sá, að séra Holland hafði lagt handlegginn á öxl Sutherland og var að tala við hann í lágum hljóðum. Þetta heyrði eg hann segja:

"Og konungurinn mun svara og segja við þá: "Nakinn var eg og þið klædduð mig ekki; sjúkur og í myrkvastofu og þið vitjuðuð mín ekki. Sannlega segi eg yður, að það sem þér gerið einum af þessum mínum minstu bræðrum, það hafið þér og—"

"Vertu ekki að hafa ritninguna yfir fyrir mér,"

hrópaði Sutherland og snaraði frá sér hendi prestsins.

Þá kom Lous Laplante auga á mig og nú var blístrað lágt.

"Álfur, aulabárður!" hvæsti Skotinn út úr sér, þegar hann kom auga á mig. "Aulabárðurinn þinn! Öll umönnun mín hefir að engu haldi komið — alt til ónýtis. Eg þvæ hendur mínar—"

Nú hafði Louis Laplante engin umsvif, heldur hratt Skotanum frá, ruddist fram og fleygði sér í fangið á mér og gerði bæði að gráta og hlægja í einu.

"Loksins fæ eg að launa þér lambið gráa, kunningi! Hæ! hæ! gamli sérvitringur! Þú hélst að þú sæir ekki farfuglinn aftur. Sú von brást samt! Louis er kominn aftur! Hann ginti þá alla eins og þursa! Þú þykist vera göfuglyndur, en þú ert ekki göfuglyndari heldur en aðalsmannssonurinn. Þú hefir gefið manni líf! Louis hefir gert það líka! Þú hefir leyst úr ánauð. Sama hefir Louis gert! Þú hefir hjálpað þeim, sem hefir verið fær um að hjálpa sér sjálfur. Louis hefir hjálpað þeim, sem ófær hefir verið um það! *Tres bien! Noblesse oblige! La Glorie!* Hún — í nágrenninu! Hún—hér! Hún var hér, og eg, Louis Laplante aðalsmannssonurinn, eg leik á hana, það illa flagð, eg ginni óargadýrið í gildru! Æ, heimskinginn þinn! *Noblesse Oblige* — segi eg. Hún—í nágrenninu—hún—hér," og hann

vafði mig að sér með miklum feginleik, líkast óðum manni.

"Hvað gengur að þér, maður? Ertu að ganga af vitinu?" spurði eg óviss um, hvort hann ætti við konu Stóra-Djöfulsins, eða einhverja vinkonu sína. "Segðu hvað þú átt við," sagði eg og hristi hann til.

"Eru—eru þetta alt vinir þínir?" spurði Louis og leit grunsamlega til þeirra, sem við voru staddir.

"Já ,allir," svaraði eg og hélt enn í öxlina á honum.

"Er þessi þarna,— eg á við bangsa—björninn þarna—líka vinur þinn?' 'spurði Louis og benti á Sutherland.

"Já, víst er hann vinur minn," sagði eg og lagði báðar hendur á öxl honum.

"Ja, ekki lízt mér á hann," svaraði Louis.

"Heyrðu nú Louis," sagði eg alveg þrotinn að þolinmæði, "hvað geturðu sagt okkur um Miriam? Segðu það maður! Ertu ekki kominn hingað með Indíána-kynflokkinn eins og þú lofaðir?"

Þegar eg nefndi nafn Miriam færði Eiríkur sig strax nær okkur og hvesti augun illúðlega á Louis og teygði sig yfir öxlina á mér . Louis hrökk undan eins og borið hefði verið að honum rauðglóandi járn.

"*Sacredie*", sagði hann og hopaði aftur á bak til séra Hollands, "eg er ekki morðingi."

Þá tók eg eftir því, að Franziska Sutherland hafði komið á eftir mér. Mjóu, hvítu fingurnir á

henni lögðust utan um hönd franska mannsins.

"Herra Laplante ætlar að segja okkur alt, sem hann veit," sagði hún blíðlega og beið svars hans.

"Dóttir Arnarins," svaraði hann auðmjúklega og starði á fögru stúlku, "kemur niður Rauðána ásamt flokki sínum með marga bandingja og margar handteknar konur. Þetta fólk fer hér fram hjá í nótt. Það ætlar að hafa náttstað sunnan við strengina; hérna megin við þá. Eg yfirgaf það í gærkveld. Eg hljóp af stað á undan, og hitti Litla-Pilt — hvað kallið þið hann nú aftur — Litla-Karl, er ekki svo? Hann fylgdi mér til prestsins, og hann kemur hingað á Indíánabáti, og bíður nú til að flytja okkur niður fljótið. Við verðum að fara til strengjanna—þangað sem Indíánarnir hafa náttstað! Þegar þangað er komið, þá er ætlunarverki mínu lokið," sagði hann enn fremur og ypti öxlum, því að Franziska hafði nú slept hendinni á honum.

Eg læt sálarfræðingum eftir að skera úr því hvað ráðið hefir því, að Louis skyldi segja okkur þetta; hvort hann hefir snöggvast mist vald yfir sér, svo að hann sagði meir en hann hafði ásett sér, ætla eg öðrum mér vitrari úr að skera; en langlíklegast þykir mér sjálfum, að hann hafi, hrekkjalómurinn sá arna, leikið þenna leik við mig þegar hann sá mig í því skyni að draga Franzisku Sutherland inn í þetta. En það atvikaðist svo sem eg hefi þegar frá skýrt, að við komumst að því hvar Indíánarnir voru, sem Miriam

höfðu í haldi, og þessi frétt réði því, að við lögðum af stað þá um kveldið niður Rauðána á vit við Indíáranna.

"Eru Indíánarnir komnir fram hjá, eða eru þeir ókomnir?' 'spurði eg Louis um leið og þeir Eiríkur og Sutherland settust í lítinn hraðskreiðan Indíánabát, en við urðum að stíga út í annan stærri. Þar var Litli-Karl fyrir og heilsaði mér feginsamlega. Hann sat við stýri.

"Þeir koma seinna. Bezt að láta hraðskreiðari bátinn fara á undan og kjósa náttstað. Við komum á eftir og höfum gætur á öllu," sagði Louis og kinkaði kolli til mín.

"Eg sá, að Franziska ætlaði út í bátinn til föður síns.

"Nei, þú fer hvergi, Franziska," svaraði hann alvarlega.

"Láttu ekki svona, pabbi. Eg hefi aldrei haft á móti neinu, sem þú hefir beðið mig hingað til. En nú ætla eg að fara með þér. Þú getur ekki hindrað mig frá því. Svona, ýtið þér frá, Eiríkur," sagði hún og eg sá bátinn þeirra skjótast frá landi og renna skyndilega út á miðja ána. Þar hvarf hann skjótt sjónum í náttmyrkrinu.

"Louis," sagði eg. "Hvað áttirðu við? Eru Indíánarnir ókomnir enn?"

"Já, þorskhausinn þinn! Þú heldur mig grunnhygnari heldur en eg er."

"Hvers vegna varstu að segja þeim ósatt?"

"Til að losna við þau."

"Hvers vegna?"

"Af því, álfurinn þinn, að í nótt verða einhverjir drepnir. Englendingurinn er kvæntur — hann má því ekki verða drepinn. Ungfrúin — hún elskar pilt-aumingja; hjartafrið hennar vil eg ekki leggja í hættu við að vera viðstadda bardagann." Louis bætti enn einhverju við, sem eg átti bágt með að heyra og sauð í honum hláturinn.

"Hissa er eg," sagði presturinn alt í einu. Hann hafði verið hljóður mjög góða stund, eg býst við að hann hafi verið að hugsa um trúarefni — "hissa er eg," endurtók hann, "hvað þetta er fallega hugsað af þér, drengur minn; þú ert vel innrættur, ef þú getur losað þig við alt það illa, sem þú hefir áður framið. Betur að þessi nótt hjálpi þér til þess."

— — — —

Og nóttin sú gerði það.

---

## XXVIII. KAPITULI.

### *Síðasta æfintýri Louis.*

Mér er nær að halda, að sú sé sök til þess, að góð fyrirtæki mishepnast svo oft, en slæm fyrirtæki

hepnast þráfaldlega, að sá maður, sem fyrir góðu fyrirtæki gengst, hrindir því áleiðis fyrirhyggjulítið, af því að hann treystir um of gildi síns góða málstaðar, en hinn, sem verra málefni hefir með höndum, fer venjulega hægt og gætilega, eins og köttur sem gengur á brotnu gleri. Frá því sjónarmiði skoðað fann eg glögt að ávinningur var að hafa Louis með sér niður eftir ánni, auk þess sem hann var að sjálfsögðu leiðtogi okkar.

"Drottinn er með okkur, drengur minn," sagði prestur. "Henni verður bjargað í nótt! Drottinn er með okkur, en reyndu ekki að rifta ráðstöfunum hans!" mælti séra Holland enn fremur, og margoft endurtók hann þessi orð á leiðinni, og í hvert skifti leit franski maðurinn gletnislega yfir öxl hans til mín og kinkaði kolli.

"Rifta ráðstöfunum hans! Sussu, nei!" sagði Louis og brá árinni sinni á loft og hló hátt og orgaði. "Rifta—ráðstöfunum! Sussu nei. En Louis sér um sig! Hann gætir að trompunum sínum, hæ, hæ! Trompunum? Hann gætir að trompunum — hann lætur ekki sjá spilin sín! Hann heldur höndunum svo lágt! og svo geymir hann bezta trompið — þangað til seinast!" og nú hló hann hátt og kinkaði kolli framan í tunglið, sem skein í fyllingu.

"Eg veit, að dóttir Arnarins snoppungar Louis, löðrungar hann rækilega, en hann kallar hana kjötflykki — dyrgju — dræsu! Hæ! Hæ! Louis er

enginn auli — hann kann að bera af sér högg dóttur Arnarins í kveld!"

Nú kom hefndarsvipur á heimskulega andlitið á Litla-Karli, og hann hreytti einhverju út úr sér á Indíánatungu, sem Louis rak upp hlátur við að heyra. Alt í einu brá Indíáninn upp árarblaði sínu, beygði sig áfram í skutnum og horfði rannsóknaraugum út í náttmyrkrið.

"*Sacredie!*" tautaði Louis og jós vatni upp í hendi sinni ,sem lak niður milli fingranna. Hérna er héraskinnþvengur! Þeir eru komnir á undan okkur! Þeir hafa komist fram hjá, meðan skozki múlasninn var staður. Við verðum að ná í hann," og Louis tók að róa af mikilli ákefð.

Við höfðum náð bát Sutherlands innan hálfrar klukkustundar, og Eiríkur venti þegar hann sá okkur og spurði:

"Hvað gengur að? Eru Indíánarnir komnir á undan okkur? Eg hélt, að þeir væru á eftir, og að þú hefðir sagt það," bætti hann við og sneri sér að Louis.

"En þér hefir skjátlast! Þér hefir skjátlast, herra minn, þó að þú sért mikill! Leggið þið hér að landi, veljið ykkur náttstað og hafið gætur á öllu. Indíánarnir hljóta að koma fyrir birtingu í fyrra málið!"

"Eg vil engar lygar heyra," hrópaði Eiríkur æstur og reiður. "Ef þú blekkir mig nú þá skal líf

þitt ekki—"

"Þorskur! Er eg ekki að reyna að bjarga konunni þinni! Veljið ykkur náttstað hér eins og eg er búinn að segja," öskraði Louis illilegur á svip.

"Blessaður Eiríkur, gerðu eins og hann vill," sagði eg. "Það væri heimska að fara að æsa þenna mann gegn okkur."

"Lofum franska manninum að ráða! Gerið eins og ykkur er sagt, flautaþyrlarnir ykkar! Það er varla við því að búast að drottinn styðji aðra eins flautaþyrla og hringlanda-skepnur til hepni eins og þið eruð," sagði séra Holland.

"Eg ætla ekki að fara að láta hlutsama kaþólska klerka skipa mér," sagði Skotinn, en Litli-Karl hafði nú náð í skutinn á bátnum þeirra og stefnt honum að landi. Eg ýtti á eftir honum, og meðan Sutherland var að hreyta í okkur illyrðum, tók Franziska til áranna og reri að landi.

"Reisið tjaldið ykkar," sagði eg eins og til að friða þau, "en færið ykkur síðan fram á bakkann og gefið gætur að ferðalagi Indíánanna."

Ofurlítil malareyri gekk þarna fram í vatnið.

"Hér er vel fallinn staður til að reisa tjald," sagði eg í því að hinn báturinn lenti; eg hafði hætt að róa og dinglaði hendinni niðri í vatninu.

Alt í einu fann eg að eitthvað mjúkt og vott straukst við fingurna á mér. Ef ekki hefði staðið neitt sérstaklega á, þá mundi eg ekki hafa sint þessu

neinu, en á einu vetfangi vaknaði hjá mér ískyggilegur grunur. Eg hafði varla kjark í mér til að líta út á ána, svo hræddur var eg við að sjá reka þar á móti mér lík hvítrar konu. Eg krepti fingurna að þessari mjúku, votu tægju, sem komið hafði í hendi mína, og kipti í. Eg heyrði að eitthvað rifnaði, og eg hélt á í lófanum sjalkögri, sem hangdi við dálitla dulu.

"Hvað er þetta, Rúfus?" spurði séra Holland.

"Eg veit ekki." Eg benti honum að vera hljóðum og tók að skoða það, sem eg hafði veitt upp úr vatninu. Það var enginn efi á, að þetta var rauð dula af sjali og hangdi kögur við.

"Geturðu ímyndað þér" — tók hann til máls, en þagnaði svo. Kjölurinn á bátnum okkar hafði kent grunns og Eiríkur var að stökkva út úr hinum bátnum.

"Já, mér hefir dottið það í hug," svaraði eg og rödd mín skalf af geðshræringu. "Þetta er óskaplegt! Hann grandar sér þegar hann kemst að því! Farið þið upp á bakkann með honum! Reynið að fá hann til að reisa tjaldið! Við Litli-Karl ætlum að kanna botninn á meðan. Vatnið er gruggugt og ilt að kanna það."

"Hvað sýnist þér?" spurði presturinn og sneri sér að Louis.

"Hvað eg hugsa; eg hugsa aldrei neitt. Eg útvega mér vitneskju um það, sem eg vil vita." En samt sem áður brá Louis við þetta og hann starði

hvast út í myrkrið.

"Ætlið þið ekki að koma í land? Hvað eruð þið annars að bræða með ykkur?" kallaði Eiríkur.

"Jú, víst ætlum við að koma, en þið ættuð að draga betur upp bátinn ykkar. Eg kann að róa hérna ofurlítið lengra rétt að gamni mínu,' 'svaraði eg.

"Hvað er að?" spurði hann.

"Við töpuðum hlut hérna. Eg misti hann úr hendi minni."

Eg þóttist sjá að Franizku grunaði, að ekki gengi alt að óskum; hún hefir víst heyrt það á mæli mínu.

"Reisið þið tjaldið," sagði eg.

"Hvaða laununganfálm er þetta?" sagði Eiríkur reiðulega. "Hverju hafið þið tapað?"

"Legðu ekki svona fast að honum! Hann kann að hafa týnt einhverjum trygðapanti," sagði séra Holland um leið og hann sté á land; rétt áðan hafði hann hvíslað að mér: "þér hefir skjátlast, drengur! þér hefir skjátlast!"

Við Litli-Karl og Louis rerum frá landi og þangað sem eg hafði fundið sjalkögrið. Eg kannaði leirbotninn þar vandlega með árarblaðinu. Louis gerði það sömuleiðis. Botninn var mjög mjúkur, en við fundum þar ekki neitt. Ekkert kom upp á árarblöðunum nema leirleðja. Litli-Karl kastaði þá klæðum og kafaði niður. Vitanlega var dimt niðri á vatnsbotninum eins og alt af er í botninum á gruggugri Rauðánni, svo að Indíáninn varð að eins að þreifa

fyrir sér, en ekkert gat hann fundið, er líklegt væri að sjalkögrið hefði rifnað af. Var þá líklegt, að þegar eg kipti í sjalkögrið hefði það, sem kögrið rifnaði frá, þokast svo til, að lent hefði út í strauminn í miðri ánni og rekið burtu? Eg spurði séra Holland um, þegar hann kom aftur, hvort hann gæti ímyndað sér það.

"Þetta er tóm hræðsla, og annað ekki," sagði hann og dró mig afsíðis. "Þetta er að eins til að reyna trúartraust okkar."

Eg svaraði einhverju um trúartraust, og ætla ekki að fara að hafa það yfir hér, því að allur þorri fólks, sem eins hefir staðið á fyrir, hefir sagt eitthvað svipað áður.

"Trúartraust! Sussu, sussu!" tautaði Louis og þokaði sér nær okkur séra Holland, en þeir Eiríkur og Sutherland fóru að reisa tjaldið. "Þessi sjaldula er ekkert ískyggilegt teikn," sagði Louis. "Sjalræfli hefir verið fleygt hér og Rauðskinnarnir eru víst ekki langt undan. Eg hefi sagt Stóra Bangsa og uppstökka Englendingnum, sem með honum er, að Indíánarnir komi ekki fyr en með morgni. Þeir setjast nú þarna að, þar sem þeir hafa reist tjald sitt og bíða komu Indíánanna. En nú skuluð þið koma með mér. Eg ætla að fylgja ykkur til náttstaðar Indíánanna. Og nú held eg að gott væri að presturinn hefði yfir— bænarstúf; Indíánarnir eru búnir til bardaga; Louis er búinn til að erta þá; Rúfus á að hrífa ensku kon-

una úr klóm þeirra; hann er slingur að ná í fallegu stúlkurnar, hæ! hæ!"

Hann rendi bátnum að landi, kallaði á Litla-Karl að fylgja sér, og lét okkur séra Holland koma í húmáttina á eftir.

"Við komum aftur eftir stundarkorn!" kallaði eg til Eiríks um leið og við fórum. "Við ætlum að skoða landslagið hérna í kring. Haldið þið trúlega vörð á meðan." Eg varð að hlaupa við fót til að halda í við franska manninn, sem nú sneri inn í skóginn upp frá ánni. Séra Holland kom þrammandi á eftir mér og stóð alveg á öndinni. Alt í einu nam hann staðar.

"Hvað er þetta! Snúðu strax aftur heim að tjaldinu!" hrópaði hann alvarlegur.

Eg leit við og sá Franzisku koma fram úr liminu og staðnæmdist hún rétt hjá mér.

"Má eg koma með ykkur?" spurði hún.

"Nei, elskan mín! Við búumst við bardaga."

"Nei, nei, snúðu aftur. Við ætlum ekki að stofna einni konu í háska við að bjarga annari," sagði séra Holland með áherzlu. "Hvernig heldurðu að Rúfus bærist af, ef við mistum þig í hendur þeirra?"

"Ætlið þið ekki að reyna að bjarga Miriam?" spurði hún og hélt fast í hönd mína. "Guð stjórni ferð ykkar og láti hana ganga að óskum."

"Og styðji okkur til að ná Miriam úr höndum

Indíánanna," sagði eg og losaði hönd mína.

"Svona, hraðið þið ykkar, slæpingarnir," öskraði Louis óþolinmóðlega og nú þutum við inn í myrkan skóginn, en Franziska varð eftir í rjóðrinu þar sem við skildum við hana. Hún kallaði eitthvað á eftir okkur, en eg heyrði ekki glögt nema tvö orð af því: "Miriam" og "Rúfus", og af því að eg vissi í hvaða sambandi hún hafði nefnt þau, stældist hugur minn, og von um hamingjusamlegan árangur fararinnar óx. Ekki var það ósennilegt, að förin tækist vel. Bænir Litlu líkneskjunnar fylgdu okkur og eg greikkaði sporið miklu vonbetri en áður. Þannig hlupum við áfram gegn um skóginn, sem tunglið lýsti lítið eitt þar sem vottaði fyrir rjóðrum. Við hlupum ótrauðir á eftir franska veiðimanninum og Indíánanum, sem runnu mjúklega gegnum skógarþyknið, og var sem þeir snertu varla jörðina eða brytu nokkurt burknablað, þar sem þeir fóru um, en séra Holland ruddist áfram eins og fíll gegnum kjarrið og brakaði í hverju spori. Eg varð skjótt móður á hlaupunum, því að sjúkleikur minn hafði svift mig þoli, svo að eg neyddist til að þiggja það, að séra Holland styddi mig.

"Hertu þig, drengur minn," sagði séra Holland; "guð er með okkur, en reyndu ekki að raska ráðstöfunum hans."

Nú heyrðum við langdregið væl í myrkrinu; svo eðlileg stæling var það af væli náttfálkans, að

enginn njósnari mundi hafa getað greint, að það væri teikn sem hlauparar hefðu sett til að aðvara hverjir aðra. Rétt á eftir vælinu heyrðist hvæs, eins og höggormshvæs niðri í grasinu, og nú nærri því rákum við okkur á Louis Laplante og Litla-Karl, sem stóðu grafkyrrir og þefandi eins og hundar, sem ættu von á óvini sínum.

"Það getur verið, að hún sé þar ekki, heldur hafi hún druknað," sagði Louis, "en við skulum skríða áfram, hægt eins og hérar, ekki með brakhljóði eins og veiðidýr, heldur læðast áfram eins og kettir— þey, hvað var þetta?"

Náttvindurinn strokaði um skóginn og bærði til limið, eða "klappaði saman lófunum" eins og Indíánarnir komast að orði, og nú fundum við lykt af brunnum berki berast að okkur.

"Nú erum við komnir rétt að þeim," sagði eg og stóð á öndinni.

Reykinn lagði upp úr flatneskju, sem lá milli okkar og árinnar. Við greiddum stundur greinarnar og smugum fram í milli þeirra, en héldum í við þær meðan þær réttust við aftur, svo að ekki skyldi heyrast afturkippurinn. Eg býst við, að menn venjist við ferðalagið um skógana eins og dýrin; fræðimenn geta dregið af því allar þær ályktanir, sem þeim sýnist; en eg fullyrði, að engin panther-lýr gátu skriðið hljóðlegar að bráð sinni né farið með meiri kænsku heldur en franski maðurinn og Indíáninn fóru nú. Eg hefi

séð vilt dýr, sem nálgast óvin sinn, læðast og stíga til alveg hávaðalaust; en eg hefi aldrei séð jafnvel sameinaða kænsku dýrslegs og mannlegs eðlis eins og hjá þeim Louis og Litla-Karli. Indíáninn þreifaði fyrir sér um jarðarsvörðinn eftir holum og sprekum, sem brakað gæti í og Louis skreið áfram með höfuðið beygt fast niður að jörðu, og var sem hann treysti meir á sjón sína en heyrn, og áþreifingarnæmleik, sem sumum kann að þykja ótrúlegt. Einu sinni tók Indíáninn upp sprek, sem nýbrotið var. Báðir skoðuðu það vandlega og Indíáninn lyktaði af því og bar tunguna á það. Aftur fleygðu þeir sér á fjórar fætur og skriðu gegnum kjarrið, sem luktist um líkami þeirra, og námu staðar í öðru hvoru spori.

Eg hugsaði með mér, að mér hefði ekki veitt af að læra að ferðast um skóga áður en eg fór að fást við Sioux-Indíánana; nú sá eg það, sem mér hafði ekki getað skilist áður, hvað því olli, að allar ráðstafanir mínar gegn Sioux-Indíánunum höfðu mishepnast — og að þeir höfðu komist fyrir um þær.

Vindurinn þaut í liminu. Það kom sér vel fyrir okkur, því að þó að við reyndum að fara sem hljóðlegast skrjáfaði þó í blöðum við og við. Öðruhvoru sáum við glitta í ljósbirtu frá vatnsbakkanum. Louis nam staðar og hlustaði, en svo hljótt var, að við gátum glögt heyrt andardrátt okkar. Daufur ómur manna máls barst til okkar neðan frá bakkanum, — eins og "hjal trjánna" eftir því sem Litla-Karli sagð-

isa frá. Nú gat Louis ekki stilt sig um að hlæja, en lágt hló hann samt. Á flatneskjunni fram undan okkur stóðu trén strjálla, og í stað kjarrskógarins tók þar við burknabreiða svo þétt, að hún fól okkur alveg sjónum. En burknabreiðan fól einnig óvini okkar, svo að við gátum búist við að ganga fram á þá á hverri stundu. Við lögðumst því alveg flatir og gægðumst fram milli burknanna, áður en við greiddum þá sundur, til að færa okkur áfram svo sem eitt skref. Alt í einu heyrðum við að hvískrið skýrðist, svo að glögt mátti greina orðaskil, lága hlátra og þref, sem Indíánar temja sér mjög. Við heyrðum snark í eldi og þokuðumst áfram eins og ánamaðkar.

Nú sáum við ljósglampa bregða fyrir og Louis nam staðar. Við komum allir þrír samhliða honum. Síðan lögðumst við á magann, einn eftir annan og biðum við áður en við skiftum okkur og þokuðumst enn áfram unz við gátum greinilega séð náttból Indíánanna.

“Er þetta rétti kynflokkurinn?” hvíslaði eg, en Louis þreif í handlegginn á mér svo fast, að eg sá snjallast að segja ekki meira.

Náttbólið var ekki lengra frá okkur en svo sem eitt hundrað skref. Eldur brann þar í miðju. Súlur voru reistar til að setja tjöld og skinnþaktir sumir kofarnir. Karlmenn lágu þar letilega við eldinn. Konurnar voru að hirða leifarnar af kveldverðinum, en ambáttirnar að koma öllu í lag, sem þurfti. Skamt

frá hinum sátu sátu enn aðrir þrælar, einkum konur í böndum. Höfðu þær víst verið handteknar fyrir skemstu, og var ekki treyst að láta þær ganga lausar. Meðal þeirra var ein kona betur búin en hinar. Hendur hennar voru bundnar en þó gat hún hulið andlit sitt með þeim, því að hún laut áfram. Í kjöltu hennar sat sofandi barn. Var þetta Miriam? Hinir fangarnir höfðu og börn með sér, en eg gat ekki betur séð, en að sjal þessarar konu væri rauðleitt.

'Göngum að djarflega," sagði eg, "og bjóðumst til að kaupa þrælana"; en Louis greip fast í mig, til að vara mig, og Litli-Karl benti mér á stóra manneskju, sem virtist vera að segja hinum fyrir. Það var risavaxin kona, eirlit á hörund, mikilúðleg og drembilát í fasi, og hafði um sig belti með mörgum sigurmerkjum. Bjarmann af eldinum lagði á beltið, svo að steinarnir glitruðu á leðurumgerðinni, fagurrauðir. Séra Holland hvíslaði lágt eitt orð að eins, orðið *"agatar"*; mér fanst því líkast sem leiftrið af þessum rauðu steinum skytist inn í sál mína með einhverjum töfrakrafti, og fylti mig megnri hefndarreiði, svo að blóðið þaut sjóðheitt fram í fingurgóma á mér, og hver taug í mér stæltist til að vinna skaða þeim kvenvargi.

"Kona Stóra-Djöfulsins," sagði eg við sjálfan mig bæði gramur og ánægður. "Ef eg kemst í færi—"

"Hægan," sagði presturinn lágt og alvarlegur og

þreif fast í öxlina á mér. "Mín er hefndin, segir drottinn! Hugsaðu um það eitt, að bjarga hvítu konunni. Láttu drotni eftir hefndina. Hann er með okkur, en varastu að rifta ráðstöfunum hans!"

"Rifta ráðstöfunum hans!" lá mér við að hrópa upp yfir mig. "Sleppið mér!" sagði eg og reyndi að slíta mig úr járngreipum þeim, sem héldu mér föstum. "Sleppið mér, eða eg—"

En í því greip Louis fyrir munninn á mér og hinni hendinni tók hann á daggarði sínum og leit illilega til mín. Við bjarmann af eldinum sá eg af því hvernig hann bærði til varirnar, að hann var að kasta tölu á óvinina, og eg hafði haft talninguna yfir með honum eins og ósjálfrátt.

"Tuttugu karlmenn, þrjátíu konur fyrir utan þrælana," sagði hann lágt.

Einn Indíáninn gekk frá hinum og til þrælanna.

"Lítið þið á! Er þetta ekki Miríam?" spurði presturinn. "Hún ætlar nú að draga hendurnar frá augunum."

"Jú, víst er þetta hún!" Eg var orðinn fjúkandi reiður af þessu aðgerðaleysi og drætti; en eins og eg sagði áðan, þá fer sá sem er kænn bragðarefur gætilega að öllu, eins og köttur.

"Þú ert ekki viss — ekki alveg viss — *Mon Dieu* — alls ekki," tautaði Louis; og hann hafði þar rétt fyrir sér. Með því að skuggann af skóginum

lagði framan í fangana var ómögulegt að greina andlitslit þeirra.

Indíáninn brá hnífi sínum og skar böndin af öllum föngunum nema konunni, sem hélt höndunum fyrir andlitinu. Kona bar föngunum mat, en þessi kvenmaður sinti því engu og tók hendurnar ekki frá andlitinu. Indíánakonan skríkti við og karlmennirnir gösprúðu eitthvað sín á milli. Við það vaknaði athygli stóru Indíánakonunnar, sem fyr var nefnd. Hún reis á fætur. Litli-Karl einblíndi á hana eins og köttur á mús og skein grimmilega í snjóhvítar tennurnar á honum. Hún sló til þögulu konunnar með flötum lófanum; við það hrökk hún upp, stóð á fætur og þaut heim í kofann. Barnið hafði hrokkið frá og yfir að burknarunni, en birtan var ekki nógu mikil til þess, að við gætum þekt konuna eða það.

"Eg á ómögulegt með að bíða lengur svona," sagði eg. "Eg verð að vita vissu mína um, hvort þetta er Miríam eða ekki. Við skulum þokast ofurlítið nær."

Við séra Holland skriðum hljóðlega út í jaðar burknarunnans, en Louis og Indíáninn lágu kyrrir og voru eitthvað að ráðgast sín á milli.

"Þey!" sagði prestur," við skulum reyna við barnið."

Barn þetta var ekki nakið, eins og Indíánabörn eru vön að vera, en hafði einhverjar víðar flíkur á

sér; berfætt var það samt og hár þess hrafnsvart eins og á ungum villimanni. Það stóð þarna eins og álfabarn í eyðiskógi, utan við sig af svefnmóki, og við hvert stygðaryrði, sem heyrðist frá Indíánunum, þokaðist það aftur á bak og nær okkur. Við færðum okkur nær þangað til við hefðum getað gripið til þess, en við þorðum ekki að gera því hverft við.

Séra Holland rétti hægt fram hönd sína og tók utan um litla handlegginn. Barnið tók viðbragð, hrökk frá og glápti undrandi á felustað okkar.

"Góður, drengur!" sagði prestur lágt og herti ofurlítið á takinu.

"Er hann hvítur?" spurði eg.

"Eg sé það ekki."

"Stiltur, drengur minn," sagði hann og tók barnið mjúklega í fang sér og hallaði sér skyndilega aftur á bak.

"Ertu syfjaður drengur?"

"Kallaðu hann Eirík," sagði eg.

Höfuð drengsins hné þreytulega að brjósti prestsins. Hann hreiðraði sig þar og hvíslaði á hreinni ensku: "Eiríkur er þreyttur."

Í sama bili greip séra Holland um handlegginn á mér eins og hann væri hræddur um að eg þyti af stað. Við þögðum báðir stundarkorn.

Síðan sagði hann: "Lánaðu mér treyjuna þína."

Eg smeygði mér úr hjartarskinstreyjunni minni. Prestur vafði henni vandlega utan um sveininn og lagði hann niður inni í burknarunnann.

"Hvar er móðir hans?" spurði séra Holland því næst.

Eg benti á Indíána-kofann. Stóra Indíánakonan var nú komin út; hún hafði látið Miríam eina eftir og var komin í háa rifrildi við karlmennina. Louis og Indíáninn voru nú komnir fast að okkur.

"Ha, ha, *mon brave* — þinn tími er — er nú kominn! Þú bjargar hvítu konunni! Eg ætla að sýna þessari frú kurteisi mína, ha, ha — eg á henni mikið að þakka — og nú ætla eg að jafna reikning minn við ykkur bæði með einu myndarlegu tilviki. Litli-Karl hefir augun hjá sér, reiðubúinn að bjarga okkur báðum. Svona, nú er ekki um annað að gera, en að reyna að bjarga konunni, tra – la– la," og í því reis Louis á fætur, svo að allir hefðu getað séð hann, en prestur dró hann niður aftur.

"Hlustið þið nú á," tók prestur til máls. Hann talaði lágt og skýrt eins og maður, sem var ráðinn í því að láta hlýða sér. "Eg ætla að fara og mæta þeim á árbakkanum. Eg ætla að húðskamma þá fyrir þjófnað og þrælahald. Þeir munu vilja fara í illdeilur. Eg verð til í það. Eg vona að þeir þyrpist þangað allir , og þá býðst ykkur einmitt færi. Bíðið þangað til þeir eru allir farnir. Eg skal sjá um, að

þeir komi hver einn og einasti. Þá notið þið tækifærið! Reynið þetta! Ef það mishepnast þá grípið til vopna ykkar í herrans nafni — og drotinn verður með ykkur."

"Þeir drepa yður," sagði eg undrandi; "lofið þér mér að fara."

"Þér? Hvað heldurðu að Franziska mundi segja?"

"Sussu, sussu!" sagði Louis. "Eg ætla að fara sjálfur — leika á þá — fleka þá — narra þá og—"

"Þú, þegiðu gortarinn þinn," greip prestur fram í. "Gillespie er þróttlaus eins og slytti eftir langvarandi sjúkleik. Þú verður að vera hér kyrr og hjálpa til að bjarga Miriam, ef þú vilt verða hólpinn. Hættu svo öllum heimsku-mótbárum, og allir englar séu með ykkur; hér verður bardagi og eg vona að þið reynist hugprúðir hermenn! Skiftið ykkur ekkert af mér! Munið þið það, að hlaupa aldrei til hjálpar mér, ef þið viljið ekki að bölvun heimskunnar komi ykkur í koll — guð sé með ykkur!"

"Amen!" sagði eg, en hann heyrði það tkki.

Ofurlítil vindhviða hafði komið og þotið í liminu yfir höfðum okkar. Í sama vetfangi hafði hann þotið af stað. Louis Laplante hafði sömuleiðis risið á fætur, þvert á móti fyrirmælum prests, og hvarf inn í skóginn. Litli-Karl lá einn kyrr hjá mér, en eg gat ekki treyst honum til neinna skynsamlegra at-

hafna, og nú kom yfir mig sú einmanalega tilfinning um hættu, sem eg kannaðist svo vel við frá því að eg var suður í Mandana-bygðinni. Hvað lítið sem drengurinn kynni að rumskast mundi allur skarinn koma þjótandi, og hrollur fór um mig í hvert skifti sem hann sneri sér í svefni eða andaði þungt. Hugsast gat og, að Indíánarnir söknuðu drengsins og færu að leita að honum. Eg fór að taka á skammbyssu minni eins og ósjálfrátt. Eg sá, að nauðsynlegt var að vera sem næst kofa Miriam, og eg notaði mér þyt vindarins þegar hann var sem hvassastur, til að færa mig til og nær kofanum. Eg gaf Indíánanum merki að fylgja mér. Við námum staðar rétt andspænis kofanum. Hvernig stóð á því, að Louis skyldi hafa farið? Og hvers vegna kom hann ekki aftur? Hafði hann farið til að hjálpa prestinum, eða til að ginna Indíánakerlinguna. Eg þóttist geta treyst honum, svo að hann mundi ekki svíkja okkur, en um hitt var eg hræddari, að hann kynni að hlaupa á sig. En í þessum svifum fékk eg um annað að hugsa, því að nú heyrðust há köll niður við árbakkann. Allir Indíánarnir spruttu upp eins og ófriður færi að þeim.

"Hæ! Hæ! Hingað! Hingað!" hrópaði presturinn. Indíánarnir hlupu til árinnar, en konurnar, sem seinfærari voru, og nakin börnin komu þjótandi út úr tjöldum og kofum og staðnæmdust á svæðinu milli þeirra og árinnar. Toppar trjánna vögguðust

til fram og aftur fyrir vindinum, og við það féll öðru hvoru bjarmi af tunglinu inn í kofadyr Miriam. Mátti gerla greina við þá birtu andlit hvítrar konu, sem sat rétt innan við dyrnar. Handleggirnir voru berir og bundnir saman um úlnliðina ,og hún veifaði þeim þreyjuleysislega í myrkrinu; aumkunarverður grátur heyrðist frá tjaldinu.

Átti eg að bregða við nú strax og bjarga henni? "Varastu að rifta ráðsályktunum hans," hafði presturinn sagt við mig, og eg beið. Indíánakonurnar voru enn mjög nærri og tröllslegi skrokkurinn á konu Stóra-Djöfulsins var aftast í hópnum. Hún var að skammast við konurnar á Sioux-máli og eggja þær á að fara niður að ánni; sjálf var hún þó hikandi og alt af að líta um öxl yfir að kofa Miriam eins og á báðum áttum um það, hvort hún ætti að fara eða vera kyr. Okkur hafði að þessu mishepnast allar tilraunir sem gerðar höfðu verið til að bjarga Miriam. Ef drottinn hafði tekið í taumana til að bjarga hvítu konunni, þá var að láta hann ráða; nú dugði ekki að hlaupa á sig með neinu gáleysi..

"Þjófar! Þjófar! Morðingjar!" öskraði séra Holland reiðulega. "Þorpararnir ykkar!" hélt hann áfram og veifaði prikinu sínu upp yfir höfuð sér og gekk aftur á bak til árinnar í því skyni að draga Indíánana þangað á eftir sér, en innan skamms heyrðist ekki til hans fyrir hávaða hinna.

Nú lagði tunglsskinið inn í kofa Miriam. Hún hafði heyrt einhvern mæla á enska tungu og var nú tekin að hlusta með athygli. En Sioux-konan hafði og þekt rödd fanga, sem hún hafði áður haft í böndum. Hún hljóp áfram nokkur skref, svo hikaði hún við, og leit um öxl óráðin í, hvað hún ætti að gera. Um leið og hún sneri sér við, kom Louis Laplante hoppandi eins og léttstíg gaupa fram úr skógarþykninu. Eg fann, að Litli-Karl tók að titra á beinunum við hliðina á mér; það var ekki hræðslutitringur heldur nokkurs konar glímuskjálfti eða veiðihugur, sem greip hann, og hann gnísti tönnum af áfergi. Louis veik sér hávaðalaust undan. Hún hlýtur að hafa orðið vör við hann eða einhvern aftan við sig. Í hvert skifti, sem hún veik til höfðinu færði Louis sig undan. En bjarminn af eldinum kom upp um hann. Hún vék sér að skóginum eins og til að skygnast eftir óvini sínum inni í liminu ,og hrökk Louis þá aftur á bak, og aftur fyrir hana. Þá lenti hann á milli eldsins og hennar, og hún sá nú gerla skugga hans þar sem hann stóð hálfboginn fyrir aftan hana. Hún vatt sér hvatlega við eins og gyðja reitt til reiði, og hélt eg að nú væri úti um franska veiðimanninn; en hann tók ofan rauðu húfuna sína, vék sér undan norninni, sem færðist nær honum, og hneigði sig fyrir henni með ósvikinni franskri hirðmannakurteisi. Síðan rétti hann sig upp og hló hátt og ögrandi beint

framan í Indíánakonuna. Grunur hennar minkaði við þetta kæruleysislega atferli hans.

"Á, ert það þú!" tautaði hún.

"Já, það er eg, léttfætti, vængjaði sendiboðinn, auðmjúkur þræll þinn," sagði Louis og hneigði sig á ný með háðslegri uppgerð; en nú hafði nornin kænlega þokað sér aftur á bak, svo að hún komst á milli hans og kofa Miriam.

Eg sá, að eg hefði átt að vera búinn að hlaupa til að hjálpa Miriam fyrir löngu í stað þess að vera að horfa á þenna skrípaleik kerlingarinnar og franska mannsins; en af því að háreystin og rifrildið við prestinn hafði farið vaxandi, hlupu nokkrir hinna yngri Indíána heim til tjaldanna, til að sækja byssur og barefli .

"Vogið ekki að færa ykkur feti nær, þorparar!" hrópaði presturinn reiðulega, því að Indíánar tóku að þröngva fast að honum. "Standið þið kyrrir, þrælarnir ykkar, satans synirnir," og nú hlupu allir til árinnar, nema Louis Laplante, með ópi og illum látum.

"Drottinn minn! Drottinn minn!" heyrðist sagt inni í kofanum, og eg heyrði ,að reynt var að slíta böndin, sem konan var bundin með. "Drottinn minn! Drottinn minn! Ætlarðu enga miskunn að sýna? Æ, drottinn minn! Ætlarðu ekki að miskunna okkur? Það er sagt ,að enginn smáfugl falli til jarðar

án þíns vilja. Er þetta miskunsemi þín? Æ, drottinn minn!" og nú tók hún að gráta hástöfum.

Þetta gat eg ekki staðist lengur.

"Standið þið kyrrir, þorparar!,,En nú skuluð þið bregða við, piltar mínir! Gangið að djarflega! Sýnið hugrekki og karlmensku. Bölvun guðs komi yfir þann, sem reynist nú heigull! Víkið úr vegi! rauðu djöflar! Svona, af stað með þig Rúfus! Drottinn selur nú fangana í hendur frelsendunum," hrópaði prestur, kallandi ýmist til okkar hvatningarorð, eða hastandi á Indíánana. "Ætlið þið að dirfast að leggja hendur á þjón drottins," hrópaði hann á ný. "Hafið þið þetta! Og þetta í tilbót," kallaði hann og væl úr þyrpingu Indíánanna fylgdi kverju hrópi.

Eg vissi, að nú var þrætan niðri á árbakkanum komin á hæsta stig, en Louis var alt af að skoppa í kring um Sioux-konuna, og um leið að þoka sér nær kofa Miriam eins og fimur skilmingamaður.

"Komdu nú með mér, Litli-Karl," sagði eg. "Hafðu hnífinn þinn tiltækan," en eg hafði varla slept orðinu þegar Louis blístraði þrisvar sinnum. Þetta var hans gamla merki um yfirvofandi hættu. Nú var Sioux-konan tekin að hrópa hátt á hjálp hraustustu fylgismanna sinna, sem voru niðri á árbakkanum.

Nú gat ekki komið að neinu haldi að dyljast lengur. Eg hljóp því fram, svifti burt parti af þaki

litla kofans, sem Miriam var í, og var á svipstundu kominn inn þangað sem hún stóð. Aftur heyrði eg Indíána-konuna hrópa reiðulega og Louis blístra, en Litli-Karl hafði komið á eftir mér og stóð nú í kofadyrunum með brugðinn hníf í hendi.

"Þey!" sagði eg lágt um leið og eg skar böndin af höndum Miriam. "Loksins höfum við þá fundið þig! Komdu!" og eg greip utan um hana.

"Æ, Drottinn minn!" hrópaði hún. "Loksins! Loksins! En hvar er barnið! Þeir hafa tekið Eirík!"

"Nei, hann er óhultur! Við höfum bjargað honum! Faðir hans bíður! Hikaðu ekki lengur, Miriam!"

"Hlauptu, Litli-Karl," sagði eg, "yfir flötina og náðu í drenginn." Í því hljóp eg út úr kofanum, sem hrundi nú alveg saman með háu braki. Eg hafði hugsað mér að hlaupa hratt yfir að skógarjaðrinum þvert yfir tjaldstaðarblettinn, en þegar Sioux-konan sá Indíánann hlaupa á vit við drenginn litla, og mig koma þjótandi með hvítu konuna í fanginu út á bersvæði, þá hrópaði hún eins hátt og hún gat í fylgdarlið sitt, og gerði um leið harða árás til að komast fram hjá Louis yfir til mín.

En Louis stóð enn á milli hennar og Miriam með vopn í höndum. Eg held að franska kurteisin hafi hindrað hann frá að veita þessum óvini okkar tilræði,

skínandi vængjum. Eg heyrði þyt morgunvindarins og fann að andlit prestsins var að kólna við vangann á mér.

"Eg verð að vinna verk þess, sem mig sendi — meðan dagur er," hvíslaði hann, "því að nóttin kemur — þá enginn — fær unnið.' Vertu ekki að tefja fyrir mér, drengur — því að eg verð — að fara — til fjarlæga landsins — mér er kalt, fjarska kalt, Rúfus — vegurinn er ógreiðfær — erfður yfirferðar — eg er að missa fótanna — hrasa — styddu mig drengur! Guði sé lof — það er hvíldarstaður — einhvers staðar! Vertu sæll — drengur minn — vertu hugrakkur — vertu sæll — eg verð líklega lengi í burtu – eg verð – að fara – til – fjar – fjar"

Hann fékk andköf og svo hné höfuð hans máttvana niður og Franziska sagði grátandi: "Hann er dáinn! Hann er dáinn!"

Og lífsvarminn hvarf úr líkamanum, sem eg hafði í fanginu og kuldi dauðans kom í staðinn.

"Virðist guð Ísraels að taka á móti sál síns réttláta þjóns," sagði Mr. Sutherland alvarlega og tárin streymdu honum af augum þegar hann kom til að hjálpa mér að leggja líkið til.

Því næst fórum við öll út úr herberginu, sem var orðið helgað nálægð hins ósýnilega.

---

## EFTIRMÁLI.

Tuttugu árum eftir andlát séra Hollands lagði ungur, hvasseygur prestur, dökkur yfirlitum, af stað frá Montreal til Athabasca.

Nú er hann orðinn nafnfrægur trúboðsprestur í Norður-Canada, og er á sífeldu ferðalagi milli hins sunnlæga trúboðssvæðis síns í Athabasca og höfuðbóls reglu sinnar. Á því ferðalagi kemur hann við hjá okkur og heldur til í gestaherberginu í litla húsinu okkar, sem orðið er næsta fornfálegt.

Hinni hörðu deilu milli Hudsonsflóa manna og Norð-Vestmanna mátti heita lokið til fulls þá er hinir fyrnefndu náðu aftur á sitt vald Douglas-virki. En bæði höfðu félögin haft hið mesta tjón af henni. Bæði voru þau jafnfús til þeirra friðarskilmála, er fáum árum eftir orustuna við Seven Oaks urðu til að sameina þessi miklu skinnaverzlunarfélög.

Þannig lauk harðstjórnar forræði æfintýra-herranna norður í óbygðum. Manndrápin urðu til þess að snúa athygli Bretastjórnar að þessu óbygða landi, og í stað hugdirfðar og hetjuþróttar landkann-endanna, er nú tekið að stofna þar þolgóða þjóð og vinnur að því múgur manns, sem fetar í fótspor frumherjanna.

Þannig er saga hinna umliðnu atburða.